75 cts

SÖGUSAFN HEIMSKRINGLU

# Aðalheiður

## Skáldsaga

BYGÐ Á SANN-SÖGULEGUM GRUNDVELLI

ÞÝDD ÚR NORSKU

Arnljotur B. Olson

WINNIPEG
PRENTSMIÐJA HEIMSKRINGLU
1908



*Arnljotur B. Olson*

# Aðalheiður.

SKÁLDSAGA, BYGÐ Á SANNSÖGULEGUM GRUNDVELLI.

## I. KAPÍTULI.

"Ég ætla að spyrja yður einnar spurningar, Miss Carlton. Er það vilji yðar, að þetta hjónaband eigi sér stað?"

"Já, það er minn vilji", mælti hún með lágri fagurri rödd.

"Það er alveg á yðar valdi", mælti hann "Ef þér óskið, að hætt sé við þetta alt saman, þá skal það verða gert, en ef þér endilega viljið giftast mér, þá verður það svo að vera".

"Það er alls ekki ósk mín að við það sé hætt", mælti hún.

"Það er að segja, ef þér viljið giftast mér, þó þér vitið -- já, fyrirgefið, þó ég segi það blátt áfram — að ég elska yður ekki".

Hún eldroðnaði og fram á varir hennar komu reiðiyrði, en hún hefti sig og sagði ekki orð, fyr en

hún hafði náð valdi yfir sjálfri sér. "Ég vil reyna að vinna ást yðar", mælti hún.

"Það er maðurinn, sem á að vinna", sagði hann í höstum róm.

Hún leit þóttalega framaní hann og mælti lágt: "Mín ósk og vilji er það, að við giftumst, lávarður Caren, það er búið að fastákveða það, og alt er undir það búið".

"Svei mér ef ég get þakkað yður fyrir það. Ég segi yður hreint út Miss Carlton, að mér hefir aldrei geðjast að þvingunar hjónaböndum, og ég vonast fastlega eftir því, að þér hefðuð svo mikla skynsemi, til að bera og kvenlegar tilfinningar, að þér samþyktuð aldrei þetta hjónaband".

Hún mælti ekki orð frá munni, en hver sem hefði virt hana fyrir sér, hefði séð, hversu illa henni leið. Hún roðnaði og kreisti hendurnar saman, það var auðséð, að hún átti í stríði við sjálfa sig, og hana langaði til að gjalda honum í sömu mynt, en hún stilti sig og þagði.

"Aldrei á æfi minni hefi ég sært tilfinningar annara", hélt hann áfram, "og ég virði alt, sem kvenlegt er, og því undrast ég að þér, jafnvel uppalin, skynsöm og góð stúlka — því ég veit að þér eruð það — skuluð vilja giftast mér á móti vilja mínum".

"Þér talið hörð orð og bitur, en ég vona, að þér breytið betur en þér talið", svaraði hún.

"Nei, miklu ver. — Af því heiðvirður karlmaður á, eftir mínu áliti, að sýna kvenmanninum virðingu og umburðarlyndi, þá vil ég ekki segja meira, en það skuluð þér vita, Miss Carlton, að hugsunin um þetta kemur mér í ilt skap. Viljið þér ennþá halda fast við ákvörðun yðar? Viljið þér þrátt fyrir þessa upplýsingu mína láta gefa okkur í hjónaband?"

Aftur átti hún í stríði við sjálfa sig, en eftir

augnabliks þögn mælti hún: "Ég get ekki gefið yður lausan Caren lávarður. Með tímanum fáið þér betra álit á mér".

"Nei, aldrei, það megið þér vera vissar um. Ég er alveg hissa á þrálæti yðar. Ég vonaði, að þér settuð yður á móti þessum ráðahag, þegar þér vissuð um vilja minn í því efni".

"Þeir tímar munu koma, að yður mun ekki undra, þó eg sæki þetta mál fast. Ég er þess fullviss, að með tímanum skiljið þér mig betur".

"Ég skil yður fyllilega, Miss Carlton. Þér viljið fullnægja samningi, sem ég hata. Það getur ekki verið nema um þá einu ástæðu að ræða frá yðar hálfu".

"Hún leit snöggt framan í hann og mælti: "Hverjar haldið þér að séu ástæður mínar?"

"Ég get ekki hugsað mér þær aðrar en þær, að þér sækist eftir upphefð og aðalsnafni, sækist eftir að vera nefnd Lady Caren á Brookland. Þér skuluð fá þá ósk yðar uppfylta. Nafn mitt og auðæfi getið þér fengið, en heldur ekki meira. Þér skapið mér gleðisnautt líf. Aldrei skuluð þér finna þá ást hjá mér, sem hver maður er skyldur að bera til konu sinnar. Samningunum skal verða fullnægt með því, að ganga með yður fram fyrir altarið, svo þér að nafninu til getið orðið konan mín en aldrei neitt meira. Við kirkjudyrnar skulum við skilja, það er mín ákvörðun. Viljið þér ennþá ganga út í þetta hjónaband?"

Miss Carlton varð náföl og lá nærri að hún félli öngvit yfir þessari hörðu ræðu. "Þér eruð harður við mig og óréttlátur", sagði hún lágt. "Ég hugsa hvorki um upphefð eða auðæfi".

Hann hló háðslega og mælti: "Ég er ekki svo hégómlegur, að ég haldi, að yður lítist svo vel á mig, eða þér elskið mig svo mikið, að þér endilega

vegna þess viljið eiga mig. Þér eruð óneitanlega alt of mikil persóna til þess. Ég hefi aldrei verið í vinskap við yður. Verið nú sanngjörn og réttlát gagnvart mér, Miss Carlton. Síðan ég heyrði um þessa svívirðilegu erfðaskrá, hefi ég næstum forðast yður. Hvað segið þér nú?"

"Ég get ekki neitað því", sagði hún, og djúp hrygð lýsti sér í andliti hennar.

"Jæja, þér neitið því þó ekki. Finst yður að ég hafi sagt eða gert nokkuð það, sem þér getið bygt nokkra von á? Svarið mér!"

"Nei", mælti hún svo varla heyrðist.

"Hér á engin ást sér stað. Það er einungis vegna nafnbóta minna og auðæfa, eins og ég sagði áður, að þér haldið þessu hjónabandi svo fast fram".

"Þér getið hugsað um það, hvað sem þér viljið", en ég vona, að guð gefi, að sá tími komi, að þér skiljið mig betur". Hún ætlaði að segja fleira, en aftur stilti hún sig.

"Hvað ég hugsa, Miss Carlton. Ég vil ekki segja yður það. Það skal verða eins og þér óskið, þér skuluð verða konan mín, eignast auðæfi mín. En við kirkjudyrnar skiljum við. Þér verðið Lady Careu, og þá veitist yður það, sem þér sækist svo ákaft eftir".

"Þér dæmið mig mjög ranglega", mælti hún seinlega.

"Svarið einni spurningu minni, Miss Carlton: Munduð þér halda svona fast við þenna skammarlega samning, væri það ekki vegna auðæfa minna og metorða?"

Hún leit á hann með því augnaráði, sem sá einn á til, sem hefir góða samvizku.

"Þér svarið ekki", mælti hann óþolinmóður.

"Nei. Ég get það ekki", og hún ætlaði ekki að geta stunið orðunum upp. Henni var eins innan-

brjósts og manni, sem slept hefir allri von um björgun.

"Ég hugsaði þá rétt. Þér viljið ekki segja ósatt en getið ekki neitað því, að auðæfi mín hafa áhrif á yður"

Mörgum árum síðar — þegar sannleikurinn kom í ljós — mundi Lord Caren eftir, hversu sakleysisleg hún leit út undir þessu samtali. Hún var sér þess meðvitandi, að breytni hennar var rétt, og það veitti henni djörfung til að hlusta á þau hörðu og særandi orð sem komu frá vörum hans. Nú varð löng þögn. Þau stóðu ein í skrautsal Lady Caren, í London á Englandi. Það var glaða sólskin og loftið var ilmandi af blómum. Fuglarnir sungu glaðir í trjánum. Alt sýndist vera unaðslegt. Í salnum var sá skrautlegasti húsbúnaður, sem hægt er að hugsa sér. Fögur málverk, útlend blóm og dýr voru þar, sem Lady Caren, móðir Allan Carens lávarðar, hafði keypt. Innan um alt þetta skraut stóðu þau Aðalheiður Carlton og Allan Caren. Hann stóð upp við fallegt blómsturborð.

"Fyrirgefið", mælti hann alt í einu. "Ég tók ekkert eftir að þér stóðuð".

Með meðfæddri hæversku, færði hann henni stól, og hún settist niður. Það stóð líka á takmörkum, því kraftar hennar voru að þrotum komnir. Henni kom til hugar hvílík mótsetning það væri hjá honum, að taka tillit til sinnar líkamlegu þreytu, á sama tíma, sem hann var að særa hjarta hennar með því hvassasta sverði, sem til er : — Fyrirlitningunni.

"Jæja," sagði hann. "Að þremur vikum liðnum verð ég 24 ára gamall, og úr því ég verð að vera giftur þá, þá þykir mér líklegt að Lady Caren hafi ákvarðað brúðkaupið áður en þær 3 vikur eru liðnar. Tímann fram að brúðkaupinu ætla ég að nota til að

fara til París. Þegar alt er tilbúið, lætur Lady Caren mig vita, og ég skal vera til staðar til að vera við þá athöfn, sem aldrei ætti að eiga sér stað"

Hún hneigði sig þegjandi.

"Þér hafið með vilja yðar gert mér lífið leiðinlegt, og við kirkjudyrnar skiljum við. Munið það. En þér skuluð fá það, sem þér girnist svo mjög að ná í".

Þarna sat Aðalheiður Carlton, ung og fögur, andspænis honum, og þó fann hann ekki einu sinni til meðaumkvunar með henni. Það, sem mest einkendi fegurð hennar var, hve björt yfirlitum hún var. Það var eins og hún flytti sólskin með sér hvar sem hún var. Allir hennar andlitsdrættir voru eins fallegir og fullkomnir og hægt er að hugsa sér. Ennið var hátt, augabrýrnar dökkar og kinnarnar rósrauðar með spékoppa, munnurinn lítill og nefið beint. Í einu orði sagt, hún var fyrirtaks fögur, og út úr andliti hennar skein hjarta og æska. Hún hafði mikið hár, sem fest var saman í hnút á miðju höfðinu. Hvernig gat Lord Caren horft á hana án þess að dáðst að fegurð hennar? Hún var þó fullkomlega ímynd ungdóms og fegurðar. En Lord Caren horfði á hana næstum með fyrirlitningu.

"Ég þarf ekki að dvelja hér lengur. Við skiljum nú hvort annað, og samveran getur ekki orðið skemtileg fyrir hvorugt okkar. Ég skal gera það, sem mér ber að gera, og áður en við skiljum, skal ég ganga svo frá öllu, að þér, sem Lady Caren, haldið heiðri yðar og réttindum. Í kveld fer ég til Parísar. Verið þér sælar".

Hún stóð upp og færði sig einu feti nær.

"Þér sögðust ætla að skilja við mig við kirkjudyrnar?"

"Já", mælti hann. "Þetta hjónaband er að eins til að sýnast, en ekki til að vera".

Hann hneigði sig lítið eitt og fór út úr salnum. Þegar Aðalheiður var orðin ein, tók hún upp blóm, sem hann hafði fleygt á gólfið, og kysti það innilega. "Ég skal vinna þig, elskan mín!" sagði hún í hálfum hljóðum, já, vinna þig svo vel, að ég verði þér það dýrmætasta í eigu þinni".

---

## II. KAPÍTULI.

Gleði hennar yfir þessari tilhugsun varaði ekki nema stutta stund. Hún kastaði frá sér blóminu, er hún mintist hinna óbilgjörnu orða hans, og blóðið þaut fram í kinnar hennar. "Ó, hvílík forlög! Að ég skuli þurfa að niðurlægja mig svona, næstum biðja hann að eiga mig. Það er hart, að þurfa endilega að fullnægja þessum samningum, þegar ég vildi helzt rífa þá í sundur og troða undir fótum mér. En ég elska hann. Hefir sönn ást nokkurntíma orðið fyrir slíku ranglæti? Hefir nokkur manneskja komist í svona niðurlægingu? Samt skal Caren aldrei komast að því, svo framarlega, að mér veitist styrkur til að bera það". Hún gekk órólega fram og aftur í hinum skrautlega sal. Öðruhvoru stansaði hún þar sem Lord Caren hafði staðið, og það leit út fyrir, að hún hugsaði sér að fá þar uppreisn fyrir það, sem hún varð að líða, og hún greip höndunum fyrir andlitið, til að byrgja roða hann er færðist í kinnar henni.

"Þó ég elski hann, myndi ég ekki hafa lofað honum, hefði ég vitað alt, sem ég veit nú. Himneski guð! Skyldi ég nokkurntíma geta unnið bug á hatri hans og fyrirlitningu? Hann vill gera það

fyrir mig að eiga mig. Ég á að bera nafn hans og titil. Ég á að verða Lady Caren. En hann ætlar að yfirgefa mig við kirkjudyrnar, því hann vill ekki lifa með þeirri konu, sem hann ekki elskar".

"Ég gæti troðið alla peninga hans undir fótum mér, og ættgöfgi hans líka, en ég verð að frelsa hann hvað sem það kostar".

Alt í einu varð hún rólegri. "Ég verð að frelsa þig!" hrópaði hún. "Frelsa þig þó, svo þú hatir mig alla æfi. Aldrei skaltu af mínum vörum heyra leyndarmálið, sem ég legg mig í sölurnar fyrir, til að bjarga þér En er það réttlátt, að ég skuli verða að líða fyrir syndir annara?" Hún fleygði sér fyrir neðan blómsturborðið, og hin stóru, fögru blóm næstum huldu hana, og grét eins sárt og nokkur kona getur grátið.

Lítilsvirt ást, virðingarleysi og ranglæti, sem henni var sýnt lá eins og farg á hjarta hennar. "Skyldi ást nokkurntíma geta liðið annað eins skipbrot?" hugsaði hún. "Ég skyldi hafa reynt að vinna hann með tímanum, en eftir þetta hatar hann mig. Hann álítur mig ókvenlega, eigingjarna og ráðríka. Mig, sem gæti látið líf mitt fyrir hann ef á því stæði, dáið til að gera hann ánægðan".

Fallega langa hárið hennar hafði fallið niður, en hún fleygði því óþolinmóðlega aftur fyrir sig. "Nei, hjarta hans er eins og steinn. Aldrei mun hann elska mig. Hann getur ekki einu sinni litið mig hlýlegu augnaráði. Ó, góði guð, hjálpaðu mér! Hvernig á ég að lifa og þola alla þessa niðurlægingu og fyrirlitningu?"

Í þessu opnuðust dyrnar, og há, tíguleg kona gekk inn.

"Aðalheiður, elsku barnið mitt, ert þú hér ennþá? Ég sá ykkur Allan fara hér inn, og síðan hefi

ég verið svo óróleg. Ég þorði ekki að ávarpa hann þegar hann fór í burtu".

"Ó, góða Aðalheiður, segðu mér frá viðræðu ykkar, ég þoli ekki þessa óvissu lengur".

"Þú þarft ekki að vera neitt hrædd, Lady Caren", sagði Aðalheiður lágt. "Brúðkaupið skal standa 14. júní eins og þér hafið óskað eftir".

"Það er mjög gott

Mér hefir liðið afarilla, en nú er úr því bætt".

"Ekki svo mjög gott, Lady Caren. Sonur þinn vill að vísu eiga mig, en hann segist skilja við mig við kirkjudyrnar. Hann vill gera það, sem ERFÐASKRÁIN býður honum, en ekki meira. Hvernig á ég að bera þvílíka skömm og lítilsvirðingu?"

Lady Caren varð náhvít og augu hennar fyltust tárum. "Veslings Aðalheiður, sagði hann þetta?"

"Já, aldrei hefði ég getað trúað því, að ég gæti borið það, sem ég hefi orðið að bera þenna morgun. Ef það hefði ekki verið vegna loforðsins, sem ég gaf yður, Lady Caren, þá hefði ég farið strax í burtu úr þessu húsi og aldrei litið hann framar"

"Af hverju neyddir þú mig til að lofa þessu?"

Þessi háa unga stúlka stóð upprétt fyrir framan húsmóðurina í þessu skrautlega húsi, og augu hennar leiftruðu af geðshræringu.

"Af hverju neyddir þú mig til að lofa þessu?" spurði hún aftur. "Hann sagði, að ég væri ókvenleg, að ég vildi giftast sér vegna nafnsins og auðæfanna. Aldrei gleymi ég þeim orðum, — aldrei".

"Af hverju lést þú mig lofa þessu? Ég sem er móðurlaust barn, og þú hefðir því átt að hafa meðaumkvun með mér".

Lady Caren stóð upp og tók hana í fang sér.

"Segðu þetta ekki, Aðalheiður. Aldrei skaltu verða móðurlaus meðan ég lifi. Vesalings barn, hvað þú hefir grátið. Blessuð fallegu augun þín eru

þrútin af gráti. Hvernig á ég að þakka þér fyrir það, sem þú hefir gert fyrir mig? Ég veit, hvað þú leggur í sölurnar fyrir mig og kann að meta það. Þú ert svo göfug og góð stúlka, og sonur minn hlýtur með tímanum að elska þig, og þá fer alt vel".

"Nei," sagði Aðalheiður sorglega, "en ég hefi gefið þér loforð mitt, Lady Caren, og það vil ég halda. En enginn skal neitt um það fá að vita, og ég skal hafa það ein út af fyrir mig. Aldrei mun Allan elska mig. Hann ætlar að giftast mér og yfirgefa mig strax, svo ég verði höfð til spotts og aðhláturs. Fólk mun benda á mig og segja: 'þetta er konan, sem lávarður Caren yfirgaf við kirkjudyrnar á sjálfan brúðkaupsdaginn'. Það mun hlægja að mér og segja, að ég hafi átt hann að eins vegna peninga hans, og hann kæri sig ekkert um mig. Hvernig á ég að bera þetta? Það mun segja, að ég hafi peninga hans, en geti verið án ástar hans".

Lady Caren kysti hið fagra andlit hennar. "Þú ert dugleg og hugrökk og þess vegna getur þu borið þetta. Þú elskar son minn og ást þín er sönn og staðföst. Hans vegna getur þú liðið og þagað. Ást þín til hans gefur þér styrk til þessa. Hefir álit mitt á þér ekki verið rétt? Eða hefi ég um of álitið þig hugrakka?"

Aðalheiður reis upp úr faðmi Lady Caren og það var eins og bjarma legði yfir andlit hennar.

"Ég get borið það", sagði hún, — "vegna hans. Ást mín er sterkari enn dauðinn. Hún getur einnig þolað fyrirlitningu. Vertu ekki hrædd eða óróleg mín vegna, ég get borið það alt saman".

Augu Lady Caren lýstu innilegu trausti og þakklæti.

"Ég er nú ánægðari og rólegri, en ég hefi verið í langan tíma", mælti hún. "Ó, Aðalheiður! Þú hefir frelsað mig, — frelsað son minn. Sá, sem

blessað getur, blessi þig þúsund sinnum fyrir það!'' ''Þig mun aldrei iðra þess'', bætti hún við, þegar hún sá, hversu hin unga stúlka leit vonleysislega út.

''Nei, ég hefi haldið orð mín og ætla mér ekki að taka þau aftur héðanaf. Vertu alveg róleg þess vegna, Lady Caren''.

Það mátti næstum lesa örvæntinguna út úr svip Aðalheiðar, þegar Lady Caren gekk út til að skipa fyrir um undirbúning undir brúðkaupið. ''Allflestar konur gefa einungis ást sína'', sagði hún upphátt við sjálfa sig, ''en ég hefi ekki að eins gefið hana, heldur einnig heiður minn, — já, jafnvel sjálft lífið, og ekkert fengið í staðinn nema — fyrirlitninguna''.

Nokkrum tíma seinna sagði hún við Lady Caren án þess að líta upp: ''Segðu Allan ekki eitt einasta orð af því, sem ég hefi sagt þér. Láttu mig eina um, að milda skap hans. Það er trúa mín, að það geri einungis ilt verra, að aðrir blandi sér inn í málefni okkar''.

Lady Caren hlýddi henni með mestu ánægju. Henni þótti ekkert miður, að vera laus við afskifti af þeim.

Undirbúningurinn undir brúðkaupið gekk vel. Blöðin fluttu fréttir um brúðarskrautið og gimsteinana, ný aktýgi, nýja hesta, og þau sögðu, að ungu hjónin ætluðu strax eftir brúðkaupið til Brooklands — búgarðs Carens lávarðar — og dvelja þar hveitibrauðsdagana. Það var ekki neitt ofmælt í þessum fregnum, því margar hendur fengu nóg að starfa í tilefni af brúðkaupinu. Margar saumakonur voru fengnar. Lady Caren gaf brúðurinni svo mikið af dýrmætum silfurgripum og gimsteinum, að það var næstum óteljandi. Margar ungu stúlkurnar sáröfunduðu Aðalheiði, sem átti að njóta alls þessa. En það leit ekki út fyrir, að Aðalheiður tæki neitt eftir því. Hún var alla tíma, þegar hún gat því við

komið, á herbergi sínu, og talaði fátt. Þegar hún var spurð um eitthvað, sem viðkom búningi hennar, þá stóð henni svo alveg á sama um hann, að margir undruðust yfir því. Saumakonurnar sýndu henni margar tegundir af hvítu silki, sem hún átti svo að velja úr í brúðarkjólinn. En hún sagði þeim að fara með það til Lady Caren og láta hana velja, — "hún hefir miklu fullkomnari þekkingu á því en ég", mælti hún. Madame Louise, ein af saumakonunum, leit upp brosandi og sagði : "En þetta er brúðarkjóllinn y ð a r , Miss Carlton! Og hann ættuð þér sjálfar að velja. Mér finst fyrir mitt leyti, að þér ættuð að taka þetta". Aðalheiður leit snögglega á það og sagði, að það "væri víst gott. Eftir þetta hélt Mad. Louise, að eitthvað væri hér öðruvísi en það ætti að vera. Henni þótti það ekki náttúrlegt, að ung stúlka skyldi ekki hafa g a m a n af því, að velja sér í brúðarkjól. "Ég er viss um, að þó ég hefði sýnt henni svart "Crepe", þá hefði hún sagt að það væri ágætt". Aðalheiður hugsaði líka, að eftir ástæðum ætti hún miklu fremur að standa fyrir framan altarið svartklædd, en hvítklædd. Hún næstum skalf, þegar Lady Caren sýndi henni Orange blómin, sem hún átti að bera. Henni fanst það napurt háð, að skreyta brúður, sem ekki átti ást manns síns, með Orange blómum. Hún hafði innilega beðið Lady Caren, að láta brúðkaupið fara fram svo lítið bæri á, en Lady Caren hafði svarað því með þessum orðum : "Hvað ætli heimurinn segði? Allan stendur svo hátt í mannfélaginu, að að hér getur ekki verið að tala um brúðkaup í kyrþey. Margir dagar liðu svo, að þeir einungis voru sorg og kvíði fyrir Aðalheiði. Þó tók hún öllu með þolinmæði, og ekki sá hún eftir skuldbindingu sinni. En hún bað guð um styrk og hugrekki til að leysa það verk af hendi, sem hún hafði nú tekið að sér.

Arnfriður B. Olson

## III. KAPÍTULI.

Juanita, greifainna af Silvara, sat alein í skrautsal sínum. Hin rósrauðu silkigluggatjöld voru dregin niður, en dagsljósið þrengdi sér samt inn til að skína á konu þá, sem inni var, og sem leit út fyrir að vera eitt af málverkum hins fræga Titians. Að ætt var hún spænsk og óvenjulega fögur, með mikið dökkt hár, og dökkleit, eldfjörug augu. Hún var klædd í svartan flaueliskjól, sem var svo fleginn, að allur hinn mjallhvíti háls hennar sást. Hún var í sannleika fögur og ásjáleg þar sem hún sat þarna og rauður bjarminn frá gluggatjöldunum féll á hana. Við hlið hennar lá bók í skrautbandi, sem hún hafði verið að lesa í, en í annari hendinni hélt hún á bréfi, sem hún hafði verið að lesa með innilegu brosi á vörunum. Bréfið hljóðaði þannig:

"Ég er á ferð til Parísar, fer gegnum London. Mig langar til að sjá yður, Nita! Viljið þér leyfa mér leyfa mér að heimsækja yður kl. , ?"

A. C.

"Já, Allan Caren! Ég vil og skal taka á mót þér", sagði þessi fagra kona hálfhátt. "Hvað skyldir þú nú segja mér? Ætli að þú sért nú laus við þessa köldu, fölu ensku stúlku, sem heldur þér fjötruðum? Kemur þú til að biðja mig að verða Lady Caren? Þú verður þá að flýta þér, því tuttugu piltar knékrjúpa daglega fyrir fótum mér, og ég þarf ekki annað en velja einn af þeim". Þessi fallega stúlka

gat næstum komið hverjum einasta manni til að elska sig, og margir vildu þeir leggja mikið í sölurnar, þó ekki væri nema að eins til þess, að fá bros af hennar yndislegu vörum. Sjalf gat hún ekki elskað innilega. Hreina, djúpa og sanna ást átti hún ekki til í eigu sinni „Ég óska að halda fegurð minni eins lengi og ég get", sagði hún við sjálfa sig, „og ekkert gæti eyðilagt hana fyr en þessi drepandi, brennandi á s t". Hún ásetti sér að njóta lífsins eins vel og hún gæti, og eiga þann ríkasta mann, er hún ætti völ á. Hún sagðist hvorki vilja elska eða hata, heldur vera eins og sumarfuglarnir og baða sig í sólskininu. Einn meðal þeirra, sem flögrað höfðu, eins og fluga í kringum hina fögru greifainnu, var Lord Caren. Hann hafði að vísu ekki beint sótt sig ákaft eftir henni, en hún sá, að hann dáðist að sér. Hún tók nákvæmlega eftir honum, því að fanga hann, var góð bráð, að hennar áliti. Henni leist líka betur á hann en nokkurn hinna, og bar því hlýjastan hug til hans. Einn dag þegar Lord Caren tók eftir því, að hann var að flækjast í net þessarar stúlku, sagði hann henni um trúlofun sína. Faðir hans, Desmond Caren, hafði unnið föðurlandi sínu mikla frægð. Á öllu Englandi var ekki til meiri stjórnmálamaður en hann. Konungi fanst svo mikið til hans koma, að hann gerði hann að Barón á Brookland. Ætt hans var bæði gömul og göfug, en hann var þó sá fyrsti í henni, sem tók aðalsnafnbót. Allan Caren lávarður var einkasonur þessa mikla manns, og hlaut því að sjálfsögðu erfðanafn hans og jarðeignir, þar á meðal greifasetrið Brookland. Það höfuðból hafði gengið í erfðir til elzta sonar í ættinni mann fram af manni. Þegar Desmond Caren var dáinn, og erfðaskrá hans var lesin upp, fanst ýmsum af ættingjum hans hún vera nokkuð undarleg. Öll auðæfi hans átti Allan sonur hans að fá með því

skilyrði, að hann ætti fyrir konu Miss Aðalheiði Carlton fósturdóttir hans. Ef Allan Caren ekki vildi ganga að því, að eiga Miss Carlton, þá átti allur auðurinn að ganga til hennar undir eins og hún yrði fullmyndug. Allan varð því annaðhvort að ganga að því að eiga hana eða verða arflaus. Alt þetta sagði Allan sjálfur Nitu greifainnu. Hún hafði bæði orðið hrygg og reið, og sagt, að faðir hans hafði verið bæði harður og hjartalaus. "Nei", sagði Caren, "greifainna, þetta megið þér ekki segja. Faðir minn var sá heiðarlegasti maður, sem hægt er að hugsa sér, og hann var alveg sjálfráður því, hvað hann gerði við eigur sínar". — "Er hún falleg, þessi drós, sem þér hefir verið fyrirhugað að eiga?" spurði greifainnan. — "Því á ég óhægt með að svara. Hún var uppeldisdóttir föður míns, en hefir gengið á skóla erlendis, svo ég þekki hana varla. En móðir mín hefir sagt henni frá þessu, og hún bíður eftir, að ég uppfylli samninginn. Ég hélt að það væri réttara og heiðarlegra, að segja þér frá þessu, Nita". — "Af því þér hélduð að mér væri farið að þykja vænt um yður", mælti hún brosandi. "Hvað ætlið þér nú að gera?" — "Ég ætla að biðja Miss Carlton að gefa mig lausan", svaraði hann með alvöru. — "En ef hún vill nú ekki gera það?" — "Þá verð ég, nauðugur viljugur, að eiga hana". — Þetta samtal átti sér stað nokkrum dögum áður en Lord Caren lagði á stað í Parísarferð sína. En nú ætlaði hann að hitta Nitu og láta hana vita, hvernig sér hefði gengið að fá sig lausan. Þegar hún hélt að hann færi að koma, bjó hún sig mjög skrautlega. Þegar Lord Caren kom, þurfti hún ekki annað en líta hann til að sjá, hvernig í öllu lá

"Hún vill ekki gefa yður lausan", mælti hún um leið og hún rétti honum hendina alsetta demantshringjum.

"Nei", mælti hann, "og þess vegna er ég kominn til að kveðja yður, Nita".

"Því þá það?"

"Jú, ég má til", mælti hann. "Sjáið þér ekki, að ég verð að leggja ást mína í bönd. Þér megið reiða yður á það, ef ég væri laus, þá skyldi ég biðja yður að verða konan mín. En af þeirri ástæðu, að ég er það ekki, verð ég að kveðja yður fyrir fult og alt".

"Það er þó ekki sjálfsagt!"

"Já, það er nauðsynlegt. Þó ég ekki elski þá stulku, sem á að verða Lady Caren, þá vil ég samt í hugsunum, orðum og gerðum vera henni trúr. Ég og ættmenn mínir látum sæmd vora og æru ganga á undan öllu öðru".

"Og þér elskið hana ekki?"

"Nei. Í því er freistingin fólgin, Nita".

Hún færði sig nær honum og lagði hönd sína á handlegg honum. "En ef þér sjálfur skoruðust undan þessum samningi?"

"Aðalsnafn mitt leyfir mér það ekki, og ef ég gerði það, yrði ég fátækur maður. Og þér, jafnfalleg sem þér eruð, gæeuð ekki átt fátækan mann"

"Nei, það væri mér ómögulegt", mælti hún og hrollur fór í gegn um hana af þeirri tilhugsun. "Ætti ég peninga, þá skyldi ég gefa yður þá alla saman, en ég er alveg komin upp á náð frænku minnar, og hún myndi aldrei samþykkja, að ég ætti fátækan mann".

"Það er ekkert eftir nema að kveðjast", mælti hann hryggur. "Sannleikurinn er sá, að ég gat ekki séð yður, svo ég elskaði yður ekki, Nita. Verið þér sælar".

Annaðhvort þótti Nítu vænt um Caren eða henni sárnaði, að þessi ágætismaður var henni tapaður. Víst var það að henni völcnaði um augu. "Verið þér sælir", mælti hún og varir hennar skulfu. "Allan. Þetta eru hörð forlög"

Hann tók í hönd hennar, en hún sneri sér að honum eins og til að kyssa hann.

"Nei, Nita! Ég ætla ekki að kyssa yður", mælti hann. "Verið þér sælar. Það getur skeð, að við hittumst að mörgum árum liðnum aftur, og þá getum við verið góðir vinir".

Hann yfirgaf hana hryggur í huga. Hún var falleg og góð, að honum fanst. Hvernig gat hann yfirgefið hana. Honum fanst hann fara úr Paradís út í næturkulda og myrkur. Að eins einn þekti sorg þá, er skar hjarta hans.

Þegar hann var farinn, gekk hún að spegli til að gæta að, hvort hún væri rauðeygð eftir tárin. Austin Chandos mátti ekki sjá hana rauðeygða, því hann var sá næsti, úr því að Lord Caren var hættur að hugsa um hana. Nú varð hún að gera sig ánægða með að verða Lady Chandos. Augu hennar litu út líkt og vant var, en samt baðaði hún þau úr ilmvatni, og bjó sig til að taka á móti Sir Austin Chandos.

Caren lávarður hélt áfram til Parísar með huganu fastan við þessa fögru konu, sem hann hafði yfirgefið. Hann dvaldi í París til 12. júní, og ekkert lét hann sig skifta undirbúninginn undir brúðkaup sitt. Ef Lady Caren skrifaði honum og spurði hann um eitthvað, þá sagði hann, að hún skyldi ráða því. Þann 12. júní kom hann aftur til London og fór strax til Brookland. Lady Caren tók hjartanlega á móti honum.

"Hvað mér þykir vænt um, að þú ert kominn aftur, Allan minn. Ég er alt af hrædd um þig þegar þú ert á ferðalagi. Nú er alt búið undir morgundaginn".

"Ég vona þú hafir fátt fólk, móðir mín", sagði hann.

"Allan!" mælti Lady C... "Það er ekki rétt

að tala svona. Aðalheiður er fósturdóttir föður þíns, og hana unni hann mjög mikið. Hún getur ekki gift sig án viðhafnar. Við höfum að eins sex brúðarmeyjar. Það getur ekki minna verið. Og boðsfólkið er að eins 50 manns, og það að eins af stærstu aðalsættunum. Ég vona þú verðir ánægður með þetta, Allan"

"Já, móðir mín. Á milli okkar þarf enginn misskilningur að vera. Mér er alveg sama um alt".

"Ó, Allan! Hugsaðu þér þetta öðruvísi. Þú þarft einungis að þekkja Aðalheiði. Hún er í sannleika sú göfugasta og bezta stúlka, sem hægt er að hugsa sér, og þú þarft að sannfærast um þetta, þá er ég viss um, að þú hlýtur að elska hana. Ég vonaði, að ég mundi verða bæði glöð oa ánægð á brúðkaupsdaginn þinn".

Hún féll á kné við hlið hans, tók um hendur hans og vætti þær tárum.

"Góði Allan, reyndu að elska Aðalheiði. Gerðu það mín vegna".

Hann brosti dauflega.

"En kæra móðir mín, ef ég get ekki elskað hana vegna hennar sjálfrar, hvernig á ég þá að elska hana þín vegna?"

Síðar spurði hann móður sína þess, hvort hún hefði nokkra hugmynd um, af hverju faðir hans hefði gert þessa ráðstöfun, en hún roðnaði við og leit niður fyrir sig.

"Hann hefir víst álitið, að þú gætir ekki fengið betri stúlku en Aðalheiði fyrir eiginkonu", mælti hún.

Lord Caren fór að þessu samtali loknu til hótels þess, sem hann hélt til á. En hann háttaði ekki um kveldið, heldur sat og horfði á stjörnurnar þangað til lýsti af degi. Á þann hátt eyddi hann nóttunni fyrir brúðkaup sitt.

## IV. KAPÍTULI.

Brúðkaupsdagur Aðalheiðar Carlton var runninn upp. Ilmur af Orange blómum hlátur og gleði var hvívetna. Fólkið í húsinu klæddi sig í skrautbúning sinn. Og allir vildu auka á gleði Aðalheiðar, því hún var elskuð af öllum.

Það var fallegur hópur brúðkaupsskarinn.

Brúðarmeyjarnar sex voru allar hvítklæddar.

Lady Caren var á silfurgráum silkikjól, og hinir brúðkaupsgestirnir voru í allavega litum búningi. Menn dáðust að öllum þeim dýrmætu gjöfum, sem brúðurin fékk, en undruðust um leið yfir því, að engin gjöf var frá brúðgumanum. Hjónavígslan átti að fara fram kl. 11, og nú var komið að þeim tíma.

Ein manneskja í þessum glaða og skrautklædda hóp var bleik sem dauðinn. Þær sem bjuggu brúðurina undruðust það, hve náhvít hún var. Enginn blóðdropi var sjáanlegur í andliti hennar.

Hinn fallegi og skrautlegi brúðarkjóll gat ekki komið henni til að brosa, og þegar slörið og Orange-blómin voru látin á hana, þá skalf hún eins og verið væri að færa hana lifandi í líkklæði.

Lady Caren leit líka alvarlega út, og hin alvarlegu augu hennar fylgdu brúðurinni hvert sem hún fór.

Þegar búið var að búa brúðurina, dáðust allir að fegurð hennar, og sögðust ekki hafa séð jafnfallega brúður. Hið gullfallega hár hennar leit svo fallega út undir brúðarblæjunni. Hún hafði ekki sagt eitt einasta orð, meðan verið var að búa hana. Vanalega er ekki gott að gera ungri brúður til hæfis.

Hún vill náttúrlega líta vel út í augum hans, sem er henni meira virði en allur heimurinn. En Aðalheiður var þögull sem steinn. Ekkert gamanyrði hraut henni af vörum, og hinar fölu kinnar hennar framleiddu ekki eitt einasta ánægjubros. Hún gerði alt, sem hún var beðin um, og fólkinu fanst hún vera undarleg brúður. Það var sem kulda legði frá henni og þegar ungar vinstúlkur hennar hvísluðu að henni hamingjuóskum, svaraði hún ekki. Og því var það ekki að ástæðulausu, að boðsfólkið fór að hafa orð á því sín á milli að eitthvað mundi að henni ganga.

Lady Caren færði henni vínglas.

"Drektu þetta, elsku Aðalheiður mín", mælti hún. Svo hvíslaði hún þessum orðum í eyra hennar: "Þú lofaðir mér að bera það vel. Láttu nú ekki hugfallast".

"Ég skal ekki gefast upp, Lady Caren, en ég vildi að þetta væri um garð gengið. Hann yfirgefur mig strax, og það verður hart að bera".

"Guð gefi að alt gangi vel", sagði Lady Caren.

Í þessum svifum var kallað á brúðurina, því nú átti að leggja af stað til kirkjunnar. Alt var gert sem henni gat verið til sæmdar. Forsætis ráðherrann var viðstaddur. Hann hafði verið aldavinur Lord Desmond Caren. Hann hafði lofað mjög hina frábæru fegurð Aðalheiðar, en samt tók hann eftir því, hve föl hún var. Aðalheiður átti að keyra með honum til kirkjunnar. Nú var komið að þeirri stund, sem hún átti að giftast Lord Allan Caren. Á leiðinni til kirkjunnar var hún sífelt að hugsa um þetta. Hugsa um það, að eftir lítinn tíma mundi fólk hafa sig til spotts og aðhláturs, benda á sig og segja, að þetta væri konan, sem brúðguminn hefði yfirgefið á sjálfan brúðkaupsdaginn. Einnig hugsaði hún um það, að eftir örstutta stund mundi alt komast í uppnám, og boðsgestirnir myndu auðvitað flytja þá

fregn út um alt. Alt í einu vaknaði hún af þessum leiðinlega draumi við það, að hún tók eftir því, að ráðherrann var að tala við hana. En hún átti mjög erfitt með að setja sig inn í það samtal. Hún heyrði hann vera að tala um hamingju dáins vinar sins. En hún átti erfitt með að skilja samhengi í því sem hann sagði. Hann horfði á hana með meðaumkvun, næstum ótta.

"Þér saknið móður yðar í dag?" sagði hann.

Hún stundi við. "Ég vildi að ég lægi við hlið hennar", hugsaði hún.

Ráðherrann ímyndaði sér, að hún hlyti að vera mjög taugaveikluð, þar sem hún var svo hrygg, en hann dáðist að fegurð hennar.

Nokkrum mínútum seinna var hún kominn inn í miðjan brúðkaupsskarann. Biskup hafði verið fenginn til að gifta, svo alt væri sem hátíðlegast.

Alt í kringum brúðurina voru menn í einkennisbúningi, og konur klæddar hvítum silkikjólum.

Ofursti Seaton var einn af brúðarsveinunum. Aðalheiði var snöggvast litið á hann, en í andliti hans var ekkert nema stranga alvöru að finna. Og henni fanst hann líta út eins og dómari, sem situr í dómarasæti á móti vilja sínum. Í augum hans var enga meðliðun að finna, og henni fanst óhamingja sín vera meiri en nokkru sinni áður.

Hljóðfæraslátturinn hætti og biskupinn talaði hátíðleg og fögur orð, og að því búnu lagði hann fyrir brúðhjónin vanalegar spurningar: "Ég, Allan Caren, tek þig, Aðalheiður Carlton, mér til eiginkonu, o. s. frv.

Málrómur hans var kaldur og óþýður. Aðalheiði fanst hún geta hljóðað upp, þegar þetta napra háð dundi yfir hana. Hann tók hendi hennar og dró hringinn á fingur henni. Nú var hún orðin Lady Caren. Henni fanst sem alt í draumi. Hljóðfæra-

slátturinn byrjaði aftur og hljómaði um alla kirkjuna, og brúðhjónin, ásamt brúðarsveinum og brúðarmeyjum, gengu inn í skrúðhúsið til að skrifa nöfn sín. Einhver nefndi hana Lady Caren. En hún skalf, er hún mintist þess, hvernig hann, sem nú var orðinn maðurinn hennar, hafði nefnt hana þessu nafni kalt og biturt. Að nokkrum mínútum liðnum myndi skömmin, sem hún átti í vændum, koma í ljós, og fólk byrja að hlægja að henni. Nokkrir myndu auðvitað vorkenna henni, en hinir yrðu samt fleiri, sem gleddust yfir óförum hennar. Að nokkrum mínútum liðnum ætlaði maðurinn hennar, sem nú var orðinn, að yfirgefa hana og sjá hana aldrei framar. Einu sinni enn ætlaði hún að biðja hann að yfirgefa sig ekki. Svo varð að taka því, sem að höndum bar.

Á meðan brúðarmeyjarnar voru brosandi og glaðværar að skrifa nöfn sín, sneri Aðalheiður sér að manni sínum og bað hann að tala við sig eina mínútu. Hann leiddi hana til hliðar, og þá fóru brúðarmeyjarnar að brosa, því þær héldu að hann ætlaði að hvísla að henni ástarorðum.

Í fyrsta skifti þann dag leit hann framan í hana, og hann fann til meðaumkvunar með henni, þegar hann sá, að sorg og angist skein út úr andliti hennar. Hún hafði hendurnar undir brúðarslörinu, og hann sá þá skína í giftingarhringinn. Svo hóf hún upp hendurnar eins og hún væri að biðja til guðs:

"Í guðsnafni hlífðu mér af því ég er svo ung!" mælti hún.

Það, að hún vildi biðja sig um meðlíðun, hrærði hjarta hans.

"Við hverju á ég að hlífa yður?" mælti hann.

"Fyrir þeirri skömm og niðurlægingu, sem ég verð fyrir, ef þú yfirgefur mig nú við kirkjudyrnar, eins og þú hefir talað um. Ó, Lord Caren, hlífðu

mér af því ég er kona, sem get fundið til. Hlífðu mér af því ég er konan þín. Vegna þess bands, sem við höfum bundist í dag, þá hlífðu mér!"

Hann sá að hún gat naumast talað.

"Ég vil vera ambátt þín", sagði hún ennfremur. "Ég vil lifa og deyja fyrir þig, ef þú að eins hlífir mér við þessu!"

Hann þagði.

Hún leit aftur framaní hann, og að nýju hrærðist hann til meðaumkvunar, þegar hann sá, hve hrygg hún var.

Hugsaðu þér, hvað brúðkaupsdagurinn er fyrir aðrar stúlkur og hvað hann er fyrir mig. Hugsaðu þér ást þá og umhyggju, sem boðin er ungum stúlkum með hjónabandinu, og hugsaðu þér hvað bíður mín. Hafðu meðlíðun með mér af því ég er ung kona. Ég veit, að svívirðingin drepur mig. Já, hún drepur mig", endurtók hún. "Þú verður ekki kominn langt frá kirkjunni, þegar ég dett niður dauð. Í guðsnafni hlífðu mér við þessu!"

"Það skal vera eins og þú óskar", mælti hann. Hann gat ekki annað en kent í brjósti um hana.

"Yfirgefðu mig ekki, ef þú að eins getur þolað nærveru mína, þá skal eg aldrei heimta minstu vinahót af þér, — aldrei ónáða þig".

"Þú vilt víst, að ég ferðist með þér til Brooklands í dag. Ég skal gera það. Þegar við komum þangað, getum við talað um framtíðina. En hvað er að þér? Ertu veik?"

Henni lá við að hníga niður, svo mikið varð henni um, þegar þessari þungu byrði var létt af henni.

"Ég þakka þér innilega", sagði hún lágt. "Þú hefir frelsað mig frá mikilli skömm. Á morgun hefði nafn mitt staðið í öllum blöðum og komist inn á hvert einasta heimili. Blöðunum hefði þótt slæg-

ur í því, að flytja söguna um giftingu mína!" Þess vegna þakka ég þér fyrir, að þú hefir frelsað mig frá öllu þessu".

"Ég hafði ekki hugsað út í þetta", mælti hann hreinskilnislega. "Ég hugsaði einungis um sjálfan mig og það sem ég verð að líða. Þú segir satt. Við verðum að láta alt sýnast eins og það ætti að vera, í það minsta fyrst um sinn, svo fólk fái ekki tækifæri til að tala um okkur. Svo er nógur tími til að hugsa um ókomna tímann".

Meðan gengið var í skrúðgöngu út úr kirkjunni, þakkaði hún guði fyrir þau loforð, sem maðurinn hennar hafði gefið henni. Einu sinni leit hún til hans og brosti blítt og ánægjulega :

"Ég skal vinna þig, elskan mín. Ég skal reyna að kenna þér að elska mig"

Eftir brúðkaupið fór fólk að tala um það sín á milli, að undarlegt hefði verið, hve Lord Caren hefði verið þögull, og hversu dauf hin unga brúður hefði verið. Í fyrstunni hafði enginn veitt því eftirtekt, vegna skrautsins og hvað alt, sem brúðkaupið snerti, var stórkostlegt. Ræður voru fluttar og allstaðar var glaumur og gleði, en svo fóru menn að taka eftir því, hve brúðhjónin bæði voru undarleg. Hann tók eftir því, sem hún sagði, og svaraði því. Eins var með hana, hún var boðin og búin til að gera alt sem hann vantaði, en enginn minsti vottur um ást var sýnilegur af hans hálfu.

Hann kallaði hana venjulega Lady Caren og sumum fanst ekki laust við háð í málróm hans, þegar hann nefndi hana því nafni.

Þetta er það undarlegasta brúðkaup, sem ég hefi verið í", sagði fólk sín á milli. "Það virðist vera að eins fyrir siðasakir, að brúðurin brosir lítið eitt einstaka sinnum".

Á leiðinni frá kirkjunni sagði hún við sjálfa sig :

"Með þolinmæði, trú og von skal ég með tímanum vinna þig, Lord Caren".

Gat hún það?

Svar upp á þessa spurningu er frásögn sú, sem hér fer á eftir.

Arnljótur B. Olson

## V. KAPÍTULI.

Það leit helzt út fyrir, að málþráðarskeyti hefði verið sent um það, að ungu hjónin væru á leiðinni til Brookland. Á hverri járnbrautarstöð, þar sem nokkur viðstaða var, þyrptist fólkið saman til að sjá þau Lord Caren og konu hans. Það sagði sín á milli, að þau væru ein sér í vagnklefa. Lávarðurinn hafði sagt, að hann vildi helzt vera út af fyrir sig, og enginn undraðist yfir því, heldur þótti mönnum kynlegt, hve mikið af blöðum og bókum hann hafði með sér. Menn álitu, að hann gæti ekki varið tímanum betur en tala við konu sína. En Lord Caren hafði nú aðra skoðun. Hann hefði viljað gefa mikið til að þurfa ekki að fara þessa ferð, en hann hafði nú einu sinni lofað því, og það loforð varð hann að efna.

Það voru margir, sem öfunduðu þessa fögru, skrautklæddu konu, þegar hún sté upp í vagninn, með marga þjóna í kring um sig, sem hlýddu hverri bendingu frá henni, og eiga einn af ríkustu og fallegustu lávörðum Englands fyrir eiginmann. Enginn hefði getað trúað því, að hjarta þessarar konu liði sárar kvalir.

Þjónustustúlka Lady Caren, Jane Hinton, og þjónn lávarðarins, Robert Darham, voru í sama vagni aftar í lestinni. Þau töluðu ekki orða saman. Jane sat í djúpum hugsunum. Hún var reynd og

greind. Hún hafði verið í þjónustu hjá Isabel Rockingham áður en hún gifti sig, og hún vissi, að vanalega eru brúður glaðar og hamingjusamar. Af hverju hafði húsmóðir hennar vakað nótt eftir nótt og grátið eins og hjarta hennar ætlaði að springa, og á morgnana varla getað klætt sig? Hún sá líka, að húsmóður hennar var engin ást sýnd, engin smá, fljótlega skrifuð bréf voru send henni, sem Lady Isabel hafði svo oft fengið meðan hún var trúlofuð. Kveldið fyrir brúðkaupið hafði hún setið á herbergi sínu og verið að laga til brúðarkjólinn, og þá hafði hún svo greinilega heyrt grát. Og brúðkaupsmorgunian hafði brúðurin verið svo veikluleg, að það var kallað á Lady Caren, og Jane hafði heyrt Miss Carlton segja. "Mínir kraftar eru að þrotum komnir. Hvað á ég að gera?"

Það var þess vegna engin undur, þó stúlkan sæi, að ekki var alt með feldu. Hún sá, að húsmóðir hennar lagði meir en lítið í sölurnar, og hún sá líka, að Lord Caren lét sér alls ekki ant um konu sína. Henni fanst því ráðlegast, bæði vegna sjálfstar sín og húsbænda sinna, að skifta sér sem minst af Mr. Darham, þjóni lávarðarins.

Mr. Darham hafði líka margt að hugsa um. Hann hafði heyrt söguna um Juanitu greifainnu. En þó hann væri vel greindur, gat hann ekki skilið, af hverju Lord Caren skyldi fara að giftast Miss Carlton, ur því hann ekki elskaði hana. Því það fanst honum hægt að sjá, að honum þætti alls ekkert vænt um hana. Þau höfðu ferðast margar mílur, án þess að tala saman. Loks sagði Jane: "Ég vona, að okkur líði vel á Brookland". Og Darham óskaði þess sama, "þó er ég í efa um það," mælti hann. "Ef ég væri lávarður, skyldi ég aldrei gifta mig". Og Jane fanst það alveg rétt. Svo var samtalið þar með búið.

Í vagninum þar sem nýgiftu hjónin voru, var heldur ekki mein gleði eða skemtun á ferðum. Þegar lestin stóð við, horfði fólk með undrun og aðdáun a hið fagra, föla andlit, sem leit út um gluggann á vagninum. Þau höfðu enn ekki talað eitt orð saman. Þegar lestin var að fara af stað, hafði hann spurt hana um, hvaða bók hún væri að lesa. Hún leit framan í hann og augun flutu í tárum, en hann annaðhvort sá það ekki eða vildi ekki sjá það. Hann leit strax undan

"Ég les 'Cornhill', sögu eftir Mrs. Gaskill".

"Hvað er það?" spurði hann.

"Um konur os stúlkur", sagði hún, en sá samt eftir að hafa sagt það.

"Konur og stúlkur! Er það skemtilegt?" Og hann rétti henni bókina eftir að hafa skorið út úr fyrir hana. Nú varð löng þögn. Svo mælti lávarðurinn alt í einu: "Viltu hafa gluggann aftur?" En hún neitaði því. "Mér þykir graslyktin af jörðunni svo góð", mælti hún. Hún horfði út um gluggann á skógana og engin, sem sýndust fljúga framhjá. Vesalings Aðalheiður! Að aldri til var hún næstum barn. Vel gat verið, að hún hefði einhverntíma hugsað um brúðkaupsferðina með manni, sem elskaði hana og tilbæði. Hún hefir að líkindum hugsað um, hve glöð og ánægð hún myndi þá verða. En, nú. Nú var hún í raun og veru að ferðast þessa ferð. En hversu ólíkt var það ekki því, sem hana hafði í sínum barnslegu draumum dreymt um? Þegar hún leit á hið alvarlega, harða en fagra andlit manns síns, stundi hún við.

Hann leit snöggt á hana. "Þú ert víst þreytt". mælti hann, "það er svo heitt í dag". Oa hin ólánsama kona gladdist af þessum fáu orðum.

"Er ennþá langt til Brookland? Hvað oft, sem

ég fer þessa leið, man ég ekki nöfnin á járnbrautastöðvunum".

Lávarðurinn leit á úrið sitt. "Við eigum eftir klukkutíma ferð og vegurinn frá Lynne Regis til Brooklands, sem við keyrum, er ekki langur".

Nú varð aftur þögn. Hún las eða lét sem hún væri að lesa, svo lagði hún bókina frá sér og horfði út um gluggann. Henni þótti gaman að horfa á alt, sem sýndist hendast framhjá, — gamlar kirkjur, falleg smáþorp, ár, skóga og græn engi. Hvað heimurinn sýndist fagur! Fuglarnir á trjánum, blómin í sólskininu, alt sýndist vera svo rólegt og ánægjulegt. Það var sem hjarta hennar þyrsti eftir gleði og ánægju og gerði uppreist móti sorg hennar. Aftur stundi hún þungan, en lávarðurinn virtist nú ekkert taka eftir því.

Rétt á eftir stansaði lestin hjá Lynne Regis. Þar vissi hvert mannsbarn, að Caren lávarður var með konu sína á leið til Brooklands. Skrautlegur vagn beið eftir þeim, og þjónninn sagði húsbónda sínum, að mikill undirbúningur væri gerður til að taka á móti honum. "Fánar eru hafnir á stöng allstaðar og stráð blómum um alt", mælti hann ennfremur. "Það var ómögulegt, að fá það ofan af því". Lávarðurinn hafði nefnilega óskað eftir, að engin viðhöfn ætti sér stað, þegar hann kæmi til Brookland. Hann leit mjög ergilega út. "En ég var búinn að — —" lengra komst hann ekki, því honum varð litið á konu sína, og hann las í augum hennar óánægju og sorg. "Nu, jæja, við verðum þá í staðinn að þóknast þeim", sagði hann svo. "Keyrðu hægt".

Hann hafði samt ekki búist við öllum þeim fólksfjölda, er kom á móti honum og bauð þau velkomin með söng og hljóðfæraslætti. Og þótt hann af fremsta megni reyndi að herða hjarta sitt fyrir öllu,

konu þó tár í augu hans. Nú óskaði hann að hafa við hlið sér konu þá, sem hann elskaði.

"Lengi lifi Lady Caren!" var hrópað meðan vagninn keyrði hægt framhjá. "Guð blessi hana", sagði fólkið. "Guð gefi þeim hamingjusama framtíð!" Hún var ekki ókunnug meðal þeirra. Í öllum þessum mannfjölda fanst enginn, sem hún ekki hafði hjálpað, annaðhvort með góðum ráðum eða peningum. Og þegar það fréttist, að hún ætti að verða Lady Caren, hafði það ákvarðað að taka á móti henni eins vel og mögulegt væri.

"Lengi lifi Lady Caren!" það sýndist sem þetta hljómaði um alt og fuglarnir í loftinu tæku undir. Blóðið hljóp fram í kinnar hennar, og hún auðsjáanlega gladdist af, að sjá jafnmörg kunnug andlit í kring um sig.

"Það lítur út fyrir, að því þyki vænt um að sjá mig", mælti hún blátt áfram. "Þú lætur það ekki vita, að þér þykir ekkert vænt um mig, Allan. Ætlarðu að gera það?" Hún var svo alvörugefin og bað hann svo innilega, að hann gat ekki neitað bón hennar.

"Nei, það þarf ekki að vita það", sagði hann. Og þegar vagninn stansaði fyrir framan hinar skrautlegu tröppur, sem lágu upp að höllinni, tók hann í hönd konu sinnar og þakkaði fólkinu fyrir þá hjartanlegu móttöku, sem það hafði veitt henni.

En hvað Lady Caren þótti vænt um, að enginn fékk að vita, hvernig í öllu lá. Og hún þakkaði guði fyrir það.

Í ganginum stóð þjónustufólkið, og heilsaði Aðalheiður því öllu vingjarnlega. En öllum fanst hún vera alt annað en glöð. Alt fólkið hafði fengið eitthvað að gjöf, og allir voru glaðir og ánægðir, nema sjálf brúðhjónin! Það hafði verið borið á borð handa þeim einum í einu herberginu. Lady Caren

gekk strax til herbergja sinna, og þegar hringt var til miðdegisverðar, lét hún skila til Lord Caren, að hún hefði höfuðverk og gæti ekki komið niður að borða, heldur ætlaði að drekka bolla af te í herbergi sínu.

Það sýndist sem lávarðurinn tæki þessu mjög rólega. Þjóninum, sem kom með skilaboðin til hans, hélt að hann myndi strax flýta sér upp til hennar með meðal við höfuðverk, en lávarðurinn sagði að eins "jæja", sneri sér síðan að ráðsmanninum og sagði: "Ég vona, að þú hafir látið vinið standa á ís, Forbes".

Þegar ráðsmaðurinn sagði ráðskonunni frá þessu, hristi hin góða Mrs. Carbon höfuðið og sagði: "Það sýnir ekki mikla ást, eða finst þér það?"

Caren lávarður borðaði einn í því herbergi, sem konungar höfðu borðað í í gamla daga, og Lady Aðalheiður drakk ein te á herbergi sínu. Eftir máltíð kveikti lávarðurinn í vindli og gekk út. Í garðinum kring um höllina var fagur lundur með linditrjám alt í kring, svo háum og laufríkum, að saman náðu í toppunum svo ekki sást til himins. Þar inni var svalt því sól náði ekki til. Til og frá stóðu líkneski úr marmara og 'Dryader', og jók það mjög fegurð þeirra, að græn tré stóðu alt í kring um þau. Stundum var farið með ljós út í lundinn. Í lundinum voru einnig margir járnbekkir og stólar og borð með blómum og bókum á. Hvert einasta kveld, sem Lord Caren dvaldi á Brookland, gekk hann inn í þenna lund og reykti þar vindil sinn, og þangað gekk hann nú á brúðkaupsdaginn sinn 14. júní.

Lady Aðalheiður drakk einn bolla af tei eins og áður er sagt. Jane kom með steiktan hænuunga til hennar, en hún vildi ekkert þiggja. Loks borðaði hún þó fáeinar vínþrúgur til að þóknast Jane.

Þegar Jane sá, að Lady Caren ætlaði ekkert að hreyfa sig úr herbergi sínu, bað hún hana að koma

út. "Veðrið er svo gott og þú styrkist við að vera úti", sagði Jane. Hún hafði lengi verið í þjónustu Aðalheiðar og þótti mjög vænt um hana.

Hin unga kona stundi þungan þegar Jane kom með kjóla, sem hún svo átti að velja úr. Eins og það stæði ekki á sama, hvernig hún var búin. Hér var enginn, sem veitti því neina eftirtekt, hugsaði hún. Jane tók kjól, sem var bryddur með kniplingum og rauðum blómum og mjög fallegur.

"Viljið þér fara í þennan, Lady Caren?" spurði hún svo, en Aðalheiður leit varla á hann. Henni stóð alveg á sama um, hvernig hún var búin.

Þegar hún var klædd og hið fagra hár liðaðist um höfuð og háls henni, var hún mjög fögur, en um leið mjög döpur að sjá. Allir, sem sáu hana, kendu í brjósti um hana og skildu ekkert í af hverju að hún skyldi vera svona sorgmædd og veikluleg eins og hún virtist vera.

Hún spurði hvar lávarðurinn væri. Þjónninn, sem hún spurði að þessu, leit alveg hissa framan í hana, svo hún blóðroðnaði.

"Um þetta leyti dags reykir lávarðurinn vanalega vindil út í garðinum", svaraði þjónninn fullur meðaumkvunar með þeirri brúður, sem ekki hafði hugmynd um, hvar mann hennar var að finna.

"Ég ætla að ganga til hans", mælti hún. Hún mundi, að hann var vanur að sitja í trjálundinum, og þangað gekk hún. Hann hvorki heyrði hann né sá, hann sat hjá einu líkneskinu í djúpum þönkum, og hann hrökk við, er hún kom við handlegg hans.

"Fyrirgefðu", mælti hún, og var blóðrauð í framan. Ég ætlaði ekki að ónáða þig, en ég vildi fegin mega tala við þig".

"Þú gerir mér ekkert ónæði", mælti hann kuldalega.

Mig langaði svo til, að þakka þér fyrir, að þú

frelsaðir mig í morgun, fyrir að þú gerðir eins og ég bað þig um. Mér fanst ég ekki geta verið róleg fyr en ég hafði þakkað þér fyrir það".

Hann hneigði sig og vissi ekki, hvað hann ætti að segja. Hann vildi ekki segja henni, að honum hefði þótt vænt um það, og lét því nægja að hneigja sig.

"Ef ég hefði vitað, að þú varst í svona djúpum hugsunum", mælti hún, "skyldi ég ekki hafa komið og ónáðað þig".

"Jú, við þurfum að tala saman", mælti Lord Caren, "og það er bezt að ljúka því af. Þú baðst mig í morgun að hlífa þér og mér líka fyrir umtali fólks. Það hefi ég nu gert. Það er bezt að við komum okkur nú saman um, hvernig við í framtíðinni högum okkur", mælti hann í hörðum róm. "Viltu ekki setjast niður?"

Hún hrökk við, en settist svo á stól þar nálægt. Hún leit út eins og elskulegt, hjálparlaust barn.

"Þú verður að fyrirgefa, þó ég segi eitthvað, sem ekki lætur vel í eyrum", mælti hann. "Ég þarf líklega ekki að minna þig á, að þú giftist mér í dag þvert á móti vilja mínum." — Hún náfölnaði, ætlaði að segja eitthvað, en hætti við það. — "Af hverju þú gerðir það, það veiztu bezt sjálf", mælti hann ennfremur, "enda er of seint að tala um það nú. Við erum hjón bæði fyrir guði og mönnum, býst ég við, þó milli okkar sé veggur, sem dauðinn einn getur rifið sundur".

Hún sagði ekkert, en kreisti svo fast saman höndurnar, að giftingahringurinn skarst inn í fingur hennar.

"Það var samt mjög skynsamlegt, sem þú sagðir í morgun", mælti hann. "Ég ætlaði mér fastlega að ferðast strax langt í burtu og sjá þig aldrei framar, en þú hafðir alveg rétt fyrir þér. Það hefði vak-

ið umtal um alt England. Mér þykir vænt um, að þú baðst mig um að koma með þér hingað, og að ég skyldi gera það".

"Það þykir mér líka", sagði hún.

Lávarðurinn hélt strax áfram: "Það sem nú verðum að gera, er að villa fólki sjónir, og láta alt líta sem bezt út, svo fólkið fái ekkert til að tala um, og það vona ég við getum gert".

Það brá fyrir dálitlum vonarglampa í augum hennar. "Hvað mér þykir vænt um það", mælti hún lágt.

"Já, alt er betra, en að láta tala um sig yfir þvert og endilangt England. Nú ætla ég að segja þér, hvernig ég hefi hugsað mér að hafa það, Lady Caren".

Hún leit til hans alvarlega. "Ætlar þú æfinlega að kalla mig Lady Caren?" spurði hún.

"Já, þú skalt hafa full not af nafni þínu".

"Það var ekki meining mín, en hvað þú misskilur mig. Mér fanst það að eins hljóma óþýðlega".

"Þú gleymir, að einasta skilyrðið fyrir, að við búum hér er, að alt sé kalt okkar á milli. Það verður alt af að vera svo. Þú skilur það víst, Lady Caren?"

Já, hún skildi það vel.

"Jæja, ef þú vilt hlusta á mig í nokkrar mínútur, þá skal ég skýra þetta betur. Við skulum bæði búa hér á Brookland, en skilyrðin fyrir því, að við búum hér bæði heima eru þessi: Þú getur valið þér eins mörg herbergi og þú vilt, en ég hefi mín út af fyrir mig. Við borðum hvort í okkar herbergjum nema þegar gestir eru, þá vil ég að við borðum saman. Þú ræður því, hvort þú tekur þér húsmóðursætið við borðið eða ekki. Ég ferðast burtu þegar mig langar til, og verð eins lengi í burtu eins og mér líkar. Þú getur gert það sama. Ég býð hing-

að vinum mínum nær sem mér dettur það í hug, og það getur þú gert líka. Mér finst við vel geta búið í sama húsi, án þess að hafa mikið saman að sælda" Hann þagnaði og leit framan í hana. "Samþykkir þú þetta?"

"Já", mælti hún, "ég samþykki alt sem þú óskar eftir".

"Þegar ég er heima", mælti hann ennfremur, "þá skal mér vera ánægja í, að keyra með þér eða fara skemtiferðir, hvort heldur ríðandi eða gangandi. Og hvað peningum viðvíkur, þá skalt þú fá bankabók, sem þú brúkar eftir því, sem þér bezt líkar".

Það lék dálítið bros um varir hennar, þegar hann sagði þetta, og hann tók eftir því, en ekki skildi hann það fyr en löngu síðar. Hún þakkaði honum og hann stóð upp. "Við þurfum nú ekkert meira að tala saman, Lady Caren", sagði hann. En mundu eftir því, að ef þú á einhvern hátt þarft hjálpar við, þá skal ég vera reiðubúinn að veita þér hana". Aftur þakkaði hún honum og gekk svo heim til hússins.

Um kveldið áður en hún sofnaði bað hún guð heitt og innilega, að mýkja hjarta hans, svo að hann með tímanum elskaði sig.

---

## VI. KAPÍTULI.

Það voru liðnar 5 vikur frá giftingunni. Þau höfðu heimsótt nágranna sína og boðið þeim aftur til sín. Að eins þegar gestir voru borðaði Aðalleiður í borðsalnum og tók sér þá húsmóðursætið við borðið. Öllum þótti gaman að koma að Brokk-

land. Aðalheiður var svo vingjarnleg við alla, og öllum þótti hún bæði falleg og skemtileg. Það var hreinasta unun að eins að horfa á hana, sagði fólkið. Máltíðarnar voru hinar ríkmannlegustu, og alt var gert til að gera gestunum lífið sem þægilegast. Á eftir hverju heimboði þakkaði lávarðurinn konu sinni fyrir, hve hún hefði leyst skyldur sínar vel af hendi.

Allan þennan tíma hafði hún nákvæmlega hlýtt og farið eftir þeim fyrirskipunum, sem hann hafði sett. Hún hafði aldrei komið inn í herbergi hans. Hún hafði ekki séð hann nema á morgnana og á sunnudögum, þegar þau eftir venju óku saman til kirkjunnar í Lynne Regis. Þegar ókunnugir borðuðu hjá þeim, töluðu þau saman til að vekja ekkert umtal. Þegar þau óku saman, töluðu þau varla orð saman. Og margan dag sáust þau alls ekki.

Aðalheiður hafði valið sér herbergi í vesturparti hallarinnar. Þau voru stór og björt. Úr einu herberginu lágu dyr út í garðinn, svo hún þurfti ekki fremur en hún vildi, að ganga í gegnum ganginn eða gestaherbergin.

Annaðhvort vildi þjónustufólkið ekki taka eftir, eða það alls ekki veitti sambúð hjónanna neina eftirtekt. Víst var um það, að ekki var um það talað. Ráðskonan kom hvern morgun inn til Aðalheiðar til að fá skipanir hjá henni fyrir þann daginn. Og alt gekk eins og Aðalheiður væri hin ánægðasta. Fyrst hafði lávarðurinn oft sent til hennar og látið spyrja hana um, hvort hún vildi aka, ganga eða ríða út með honum, en oftast var svarið það sama: Hún þakkaði fyrir og kvaðst vilja vera heima. Hún ætlaði sér ekki að ónáða hann um of, og vildi að hann gæti verið frí og frjáls fyrir sér. Ef hún var stödd í gestaherbergjunum og heyrði til hans, flýtti hún sér í burtu. Hann hefði tæpast vitað af, að hún var

í húsinu, hefði hún ekki ekið með honum til kirkjunnar og verið við er gestir komu.

Hann tók rólega og brosandi á móti öllum þeim hamingjuóskum, sem hann fékk, og allir hrósuðu honum fyrir, hve hann hefði valið sér fagra og yndislega konu. Hann var mjög kurteis og nákvæmur við hana, þegar aðrir sáu til, og þá roðnaði hún af ánægju. Þeir, sem sáu hana þá, héldu hana mjög hamingjusama. Hann gætti þess vandlega, að tala hlýlega til hennar, þegar aðrir heyrðu til, því hann minntist alt af þessara orða hennar: "Hlífðu mér af því ég er svo ung!" Hann hlífði henni á þennan hátt. Enginn sá þann vegg, sem lá á milli þeirra, og sem hann hafði sagt að dauðinn einn gæti rifið niður.

Aðalheiður var ekki alveg svift hamingjunni. Hún fann auðvitað, að ást hennar var einkisvirt og hún hafði orðið að þola skömm og niðurlægingu, en að náttúrufari var hún léttlynd og stundum kom það fyrir, að hún söng og hló eins og barn, er enga sorg þekkir. Þá hljómaði hin fagra rödd hennar um Brooklands gömlu skrautsali, og gamla þjónustufólkið leit þá svo ánægjulega út, því það stóð þá í þeirri trú, að hún væri glöð og hamingjusöm. Það komu þær stundir fyrir, að hún virtist gleyma hinum svarta skugga, sem eins og grúfði sig yfir lífi hennar, — því, að hún átti þann mann, sem vægast sagt, ekki elskaði hana.

En svo komu aftur dagar, sem hún varla gat yfirgefið herbergi sitt. Þá fanst henni byrðin verða svo þung, og eina frelsisvonin væri dauðinn. En guð er svo miskunnsamur, að leggja engum þyngri byrði á herðar, en hann er fær um að bera.

Einn morgun bað lávarðurinn hana að finna sig, og ef hún ætlaði að koma, þá findi hún hann í bóka-

herberginu. Hún flýta[illegible]r þangað alveg forviða. Og þar var hann fyrir m[illegible] pið bréf í hendinni.

"Ég óskaði eftir að ráðfæra mig við þig, Lady Caren", mælti hann um leið og hann rétti henni stól. "Ég hefi fengið bréf frá Lady Die Benton, sem er frændkona mín. Hún óskar eftir að mega heimsækja okkur ásamt manni sínum, Sir Guy Benton. Þú manst víst eftir honum?"

"Já, ég sá hann oft í London og mér leist mjög vel á hann, en ég hefi aldrei séð Lady Die".

"Þú skalt alveg ráða því, hverju ég svara".

"Því get ég ekki ráðið".

"En væri það þægilegt fyrir þig, að fá gesti hingað?"

"Ójá, mér finst stundum vera svo einmanalegt hér"

[illegible]ún leit svo sakleysislega og unglega út, að [illegible]æstum kendi í brjósti um hana.

[illegible]a, ég er viss um, að þér leiðist hér", mælti hann. "Á ég þá að segja Lady Die að koma?"

Hann hafði sagt þetta brosandi. En svo datt honum í hug, að hún hefði átt sig móti vilja sínum. Hann næstum sá eftir að hafa brosað. En hjarta hennar hafði það glatt ósegjanlega mikið.

"Já", mælti hún, "ég hefi heyrt að Lady Die sé mjög skemtileg, skynsöm og vel uppalin kona".

Hann hneigði sig og hún sá, að hann vildi ekkert meira við hana tala.

"Ég vildi að eins heyra álit þitt um þetta", mælti hann svo.

"Hvenær kemur Lady Die hingað?" spurði hún, um leið og hún stóð upp. "Ég skal sjá um að herbergin séu til taks".

"Þau koma hingað á fimtudagskveldið".

"Óskar þú eftir nokkru þessu viðvíkjandi?"

"Nei, Mrs. Carbon veit hvaða herbergi Lady

Die hafði, þegar hún dvaldi hér fyrir 4 árum síðan. Þakka þér fyrir, Lady Caren". Og nú hneigði hann sig aftur og samtalið var á enda. Hún fór út og nokkurs konar örvænting greip hana.

"Hann elskar mig aldrei", mælti hún við sjálfa sig, "og ef hann ekki gerir það, þá væri bezt að deyja".

Hún mundi eftir, að Lady Caren hafði talað um þessa Lady Die, og hversu Sir Guy þótti vænt um hana og væri henni eftirlátur. "Hún sér strax að manninum mínum þykir ekkert vænt um mig", hugsaði hún, og hún gat varla tára bundist. En svo fór hún að finna Mrs. Carbon og leit líka sjálf eftir að alt væri til reiðu að taka á móti gestunum.

Á fimtudagsmorguninn gekk hún út í garðinn til að tína nokkrar rósir. Lávarðurinn gekk þar fram hjá og sá hana. Það var í fyrsta sinni eftir brúðkaup þeirra, að þau hittust í garðinum.

"Ertu að tína rósir?" spurði hann til þess að segja eitthvað.

"Já, og sjáðu hvað ég hefi gert, Lord Caren. Ég hefi rekið mig á stóran þyrnir, sem stungist hefir í fingurinn á mér, og ég kenni svo til".

Honum fanst hann mega til að bjóða henni að ná honum út. "Það tekur ekki eina mínútu", sagði hann. "Þolir þú vel kvalir?"

Hún leit til hans ásakandi augnaráði. "Já", mælti hún alvarlega, "ég þoli þær vel".

Hann tók um hendi hennar á meðan hann dró þyrnirinn út, og tók þá eftir hringnum, sem fyrir þau bæði var ekki annað en leiðinlegur fjötur. Hve lítil var ekki hendi hennar, sem skalf er hann snerti hana. Blóðið hljóp fram í kinnar hennar og hún leit út fyrir að vera hálf hrædd við hann. "Ég

vona, að þú finnir ekki mikið til", sagði hann. En hún ansaði ekki, heldur sneri sér undan með augun full af tárum.

---

## VII. KAPÍTULI.

Lady Aðalheiður sat ein í hinu smekklega og skrautlegu herbergi sínu. Í fyrsta skifti eftir brúðkaup sitt langaði hana nú til að líta vel út. Konan sem hún átti nú að sjá, hlaut að vera fallég, úr því að maður hennar elskaði hana jafn innilega og hún hafði heyrt að hann gerði. "Honum þykir víst miklu meir til hennar koma en sjálfs síns. Hann tekur náttúrlega nákvæmlega eftir, hvernig hún er klædd, og velur líklega sjálfur handa henni þau blóm eða skrautgripi, sem hún skreytir sig með". Þannig hugsaði Aðalheiður og löng, djúp stuna leið frá brjósti hennar.

Hana langaði svo innilega til, að Allan óskaði eftir, að hún liti vel út, svo Lady Die litist vel á hana, en það voru lítil líkindi til þess, að hann gerði það. Hann hafði svo greinilega látið það í ljós, að honum ekki geðjaðist að henni, og hvernig gat hún þá vonast eftir, að hann hugsaði nokkuð um útlit hennar? "Hans einasta ósk hvað mig snertir", hugsaði hún, "er að verða sem fyrst laus við mig". En svo sá hún þó eftir, að ætla honum svona ilt, og hélt, ef á alt væri litið, þá væri hann ekki svo slæmur.

Jane varð mjög glöð, er hún sá að Lady Aðalheiður hafði meiri áhuga á, að búa sig betur en vant var. Hún sýndi henni kjól, sem var bryddur með hvítum kniplingum, — einn af þeim kjólum, sem fyr-

ir brúðkaupið var pantaður frá París, og sem Aðalheiður hafði ímyndað sér, að hún myndi aldrei fara í. "Ef þér verðið í þessum kjól og brúkið nokkra gimsteina, þá lítið þér vel út, Lady mín", sagði Jane.

Það var sem birti yfir Aðalheiði, þrátt fyrir alt, sem hún varð að líða, var hún þá svo barnsleg, að hafa gaman af að líta vel út.

"Mér þætti gaman að vita, hvort Lord Caren þykja demantar fallegir". Jane leit á hana stórum augum, því þetta var í fyrsta skifti, sem hún hafði heyrt hana óska eftir að vita, hverju lávarðinum geðjaðist bezt að.

"Ég veit með vissu, að honum þykja gimsteinar fallegir", sagði Jane, "því hann vildi alt af að móðir sín bæri gimsteina".

Jane þurfti nú ekki lengur að ergja sig yfir því, að húsmóðir hennar vildi ekki skreyta sig. Því Lady Aðalheiður sagði henni strax að koma með gimsteina hyrzlu sína. Hún næstum skalf af ákafa, þegar hún sá hina fögru steina. Hún hefði gjarnan viljað hafa gimsteina frá hvirfli til ilja, ef hún hefði verið viss um, að lávarðinum geðjaðist að því.

Hún valdi sér hálsfesti, brjóstnál, armband og gimsteinastjörnur, sem hún setti í hár sitt.

Þegar hún var alklædd og sá sig í speglinum, mátti hún vera ánægð með útlit sitt, því hún var bæði fögur og tíguleg. Hún var lítið eitt rjóðari, en hún átti að sér, og í andliti hennar speglaði sig óttablandin von. Þennan morgun hafði hann verið vingjarnlegri við hana en endrarnær, og nú átti hún að borða með honum í dag.

Hún beið á herbergi sínu þangað til hún heyrði að gestirnir væru að koma. Ef hún hefði verið elskuð af manni sínum, myndi hún hafa flýtt sér út til að bjóða hjónin velkomin. Hún var glöð en hálffeimin í hinni nýju stöðu sinni sem húsmóðir. Nú

gekk hún niður í gestasalinn, en þar var enginn. Það var sem vonbrigðum brigði fyrir í andliti hennar. Hún hafði vonast eftir að sjá mann sinn þar, og sjá hvort honum geðjaðist að sér, og hvort hann væri eins vingjarnlegur og um morguninn. En nú var var hann farinn út til að taka á móti gestum sínum.

Hún fékk hjartslátt, þegar hún heyrði hlátur og mannamál. Hún, sem átti ekki ást manns síns, kveið fyrir að mæta konu, sem var elskuð og virt af manni sínum. Skyldi nú Lady Die sjá strax, að Lord Caren hvorki elskaði eða kærði sig neitt um konuna sína?

Hún fékk ekki tíma til að hugsa meira um þetta, því Lord Caren kom nú inn með gesti sína. Á þessu augnabliki fann hún betur en nokkru sinni áður til stöðu sinnar. Hér var enginn elskulegur og blíður eiginmaður, sem greip hendi hennar og með ánægju sagði hana vera konuna sína. Lord Caren sagði blátt áfram: "Lady Aðalheiður Caren, Sir Guy og Lady Benton".

Lady Die gekk strax til Aðalheiðar, tók um báðar hendur hennar og kysti hana. "Við erum frændkonur", mælti hún, "og ég er viss um, að við verðum fljótt vinkonur".

Sir Guy hrósaði Aðalheiði mikið, svo hún smám saman fékk löng til að líta á mann sinn, til að sjá, hvort hann væri á sama máli. En hann veitti henni enga eftirtekt, heldur var í fjörugu samtali við Lady Die.

"Hvað það er fallegt hér á Brookland", sagði nú Lady Die, "mig langaði svo að koma hingað, því ég þekki engan stað sem er fallegri á sumrin".

"Hér er fallegt árið í kring", ansaði Lord Caren.

"Já, það er eðlilegt að yður finnist það", mælti hún brosandi, og leit um leið á Lady Aðalheiði. "Guy segir alt af, að hann hafi ekkert tekið eftir,

hversu fallegt var á Beecham fyr en hann fór að búa þar stöðugt".

Lord Caren hneigði sig alvarlega, því hann var alveg í vandræðum með að svara spaugsyrðum Lady Die. En Aðalheiður tók sér það mjög nærri.

"Ég hélt, að ég mundi hitta Lady Caren hér", mælti Lady Die.

En Lord Caren hló. "Lady Caren er hér", mælti hann.

"Maður villist á þessum nöfnum", mælti Lady Die. "Það ætti ekki að vera nema ein Lady Caren. Aðalheiður er það fallegasta nafn, sem ég hefi heyrt, og því vil ég kalla yður Lady Aðalheiði. Lady Caren er ekki eins þýðlegt nafn. Eða hvað finst yður, Allan?"

Allan lávarður komst alveg í vandræði, því um þetta hafði hann aldrei hugsað. Hann sagði samt, að sér findist það sama.

"Allir góðir menn, sem elska konuna sína, kalla hana einhverju gælunafni. Hvað kallar þú Aðalheiði, Allan?"

Hverju átti hann að svara? Hann brosti vandræðalega og Aðalheiður eldroðnaði. En til allrar hamingju var hringt til að skifta um föt, svo hann komst hjá að svara.

"Á ég ekki að vísa yður á herbergi yðar?" mælti Lady Aðalheiður í mjúkum og lágum róm, og þær gengu út úr salnum.

Þegar þær voru farnar, snéri Sir Guy sér að Allan og sagði: "Ég óska yður til hamingju, Allan. Aldrei á æfi minni hefi ég séð svo elskulega og fallega konu, sem Lady Aðalheiði. Því hafið þér aldrei nefnt hana í bréfum yðar. Die og ég höfum alt af verið að hugsa um, hvernig hún myndi líta út. Ég er viss um, að hún á ekki sinn líka á öllu Englandi".

Lord Caren varð alveg forviða. Hann hafði aldrei hugsað hið minsta um, hvort konan hans væri skemtileg eða ekki. Honum stóð það alveg á sama, en það var það vissa, að ekki geðjaðist honum að henni".

"Ég hefði getað ímyndað mér, að þér gætuð ekki um annað skrifað en hana", mælti Sir Guy, því hann vissi ekkert um, hvernig sakir stóðu. "Aldrei hefi ég hitt fyrir jafn yndislega konu, sem hefir alt jafn skemtilegt við sig og hún hefir. Og ef hún er eins góð og hún er falleg, þá hljótið þér að vera mjög hamingjusamur".

"Já, ég ímynda mér, að flestir álíti mig mjög hamingjusaman mann", mælti Lord Caren. En Sir Guy tók ekki eftir hinum napra málróm hans. "En nú skulum við fara og skifta um föt", og þeir gengu til herbergja sinna. Lord Allan var í vondu skapi. Hann var búinn að heyra nóg af svo góðu. Það var þó fyrir sig, þegar þeir voru einir, Sir Guy og hann, en þegar Lady Die kom líka, var það óþolandi.

"Ég ætla að skrifa Randolph og bjóða honum hingað, og einhverjum fleirum, og ef húsið er fult af gestum, fær Lady Die nóg að hugsa", mælti hann við sjálfan sig.

Hann hafði því næst fataskifti en honum leið illa. Hann var að náttúrufari ærlegur maður, og kunni því illa, að standa í falskri stöðu, og hann ásetti sér að breyta því sem fyrst. En þegar hann flýtti sér niður tröppurnar, sá hann bregða fyrir hvítklæddri konu í einum ganginum, og strax kom lítið hendi við handlegg hans.

"Mér þykir svo leiðinlegt, að þú ert í vondu skapi, Lord Caren. en þú mátt ekki láta sjá, að þú sért reiður við mig?"

"Ég skal reyna það", mælti hann. Þetta er sú

versta staða, sem nokkur getur verið í, en ég skal gera það sem ég get til þess að dylja það". Og með þetta varð Lady Aðalheiður að gera sig ánægða

---

## VIII. KAPÍTULI.

"Ó, hvað hér er fallegt!", sagði Lady Die. "Aldrei hefi ég verið eins ánægð og nú".

Máltíðin sem Aðalheiður hafði kviðið svo fyrir, var liðin. Maður hennar hafði sannarlega verið eins þægilegur við hana eins og hann gat. Hann hafði drukkið henni glas af víni, og gestirnir tóku ekkert eftir, hvernig sambúð þeirra í raun og veru var. Eftir máltíðina gengu karlmennirnir út í garðinn og reyktu þar vindil. "Eigum við að elta karlmennina?" spurði Lady Die, "ég vildi svo fegin vera hjá mínum manni". Og Aðalheiður játti því lágt, því hún var viss um, að hún myndi ekki vera velkomin. Þegar þær svo komu inn í trjálundinn vildi Sir Guy endilega breiða teppi á jörðina þar sem þær sátu, til þess að það færi sem bezt um þær. "Hér er í sannleika fallegt", sagði Lady Die, "þessi skrautsalur náttúrunnar er miklu fallegri en nokkurt herbergi getur verið. Mér finst líka eins og fuglarnir syngi hér betur en annarstaðar."

"Yður þykir víst vænt um Brookland", mælti Lady Aðalheiður hugsandi.

"Mér finst ég vera hér alveg eins og heima, og hvergi er eins fallegt og hér. Yður þykir víst vænt um það líka? Hefir Brookland ekki verið heimili yðar í mörg ár?"

"Að nokkru leyti. Þar sem Lady Caren bjó,

þar átti ég heima, en ég var sjaldan hér, því ég var 6 ár í skóla á Frakklandi og 3 ár í skóla á þýzkalandi. Ég er að eins 19 ára nú, og ég man varla eftir mér áður en ég ferðaðist til útlanda".

"Munið þer eftir foreldrum yðar?" spurði Lady Die blíðlega.

"Nei", svaraði Lady Aðalheiður í sorgblöndnum róm. "Ég hef engar kærar endurminningar eins og flestir aðrir hafa, ég man hvorki eftir föður né móður. Samt finst mér stundum ég minnast föður míns, en móðir mín dó er ég fæddist. Mig minnir, að ég hafi átt heima í húsi nálægt skógi. Hve lengi ég dvaldi þar, hef ég enga hugmynd um, en svo hefi ég víst farið sjóferð, því ég man eftir stórum bylgjum".

Lady Die hlustaði á með mestu eftirtekt. "Var faðir yðar nokkuð skyldur Caren ættinni?" spurði hún.

"Nei, en Lord Caren sagði mér, að faðir minn hefði verið bezti vinur sinn. þegar þeir voru drengir, en hann vildi aldrei tala um hann. Einu sinni er ég kom heim, bað ég hann að segja mér eitthvað um foreldra mína, en hann vildi helzt ekkert um þá tala, svo ég nefndi það aldrei oftar".

"það hefir þó ekki verið neitt leyndarmál, býst ég við?"

"Nei, langt frá. Faðir minn var bezti vinur Lord Carens, og þegar hann fann, að hann mundi deyja, bað hann Lord Caren að ala mig upp, og það gerði hann. Ég er alls ekki vanþakklát, og Lady Caren hefir ávalt verið mér sem bezta móðir, og mér þykir fjarska vænt um hana".

"þið Allan hafið víst elskast frá því þið voruð börn?"

það var sem skugga legði yfir andlit Aðalheiðar. "Nei", mælti hún, "ég sá Allan ekki fyr en fyrir ári

síðan. Hann var aldrei heima, þegar ég kom heim. Fyrst þegar ég kom til Brooklands, var hann á skóla í Eton. En seinna meir, þegar ég kom heim í skólafríinu, var hann á skóla í Oxford, og nú þegar Lady Caren tók mig af skólanum, var hann á ferð utanlands. Og þannig atvikaðist það, að við hittumst ekki fyr en í fyrra".

"Ástin hefir þá strax tekið sér bústað í hjörtum ykkar? Þér þurfið ekki að roðna eins og það sé nokkuð ljótt, að þér elskið manninn yðar. Kærleika á milli hjóna met ég mest af öllu í heiminum. Mér þykir svo hjartanlega vænt um minn mann".

Hverju skyldi hún svara, konan, sem ekki átti hjarta manns síns. Hún þagði og laut niður að hinu háa grasi, sem var í kring um hana.

"Hún er feimin", hugsaði Lady Die. "Hún hugsar fleira en hún talar". Og ekki hélt hún minna upp á þessa nýju vinkonu sína fyrir það.

"Eruð þér að eins 19 ára?" sagði Lady Die. "Þér eruð auðvitað ekki eldri að sjá, en það er eins og andlitsdrættir yðar beri vott um mótlæti, eða eitthvað það, sem ekki er náttúrlegt hjá konu á yðar aldri".

Lady Aðalheiður stundi þungan. Hversu lítið dreymdi ekki þessa konu, sem var svo ánægð, og elskuð af manni sínum, um alt það mótlæti, sem hún leið daglega?

Karlmennirnir höfðu gengið lengra í burtu, en nú fundu þær reykjarlykt. "Þarna koma mennirnir okkar", sagði Lady Die, "ég þekki svo vel reykjarlykt, mér þykir hún svo góð. Sir Guy þykir ekkert varið í, að reykja á kveldin, nema ég sé hjá honum. Þér hafið víst ekki vanið Allan á það sama?"

Lady Aðalheiður fölnaði eins og ætlaði að líða yfir hana. "Kæra Lady Die", sagði hún, "talið

ekki um þetta við Allan. Í öllum bænum gerið þér það ekki".

"Er hann þvílíkur harðstjóri?"

"Nei, nei, þér misskiljið mig. Hann vill bara ekki láta stríða sér".

"Já, þá hefir hann breyzt æði mikið, því þegar við fyrir þremur árum síðan hittumst á Hendon Hall var ég alt af að stríða honum, og ég er þó viss um, að honum þótti ég skemtileg".

"Já, það er ég viss um að honum þykir. Hann varð svo glaður þegar hann heyrði, að þér ætluðuð að koma".

"Ég þorði nú varla að skrifa honum fyrst", sagði Lady Die, "ég man víst eftir, hvernig ég var fyrst eftir brúðkaupið; ég var gröm út í hvern, sem heimsótti okkur, ég vildi alt af vera ein með Guy. Ég geld satt að segja, að ég hefði hatað hvern, sem hefði heimsótt okkur fyrstu sex vikurnar, sem við vorum gift. Ég vona samt, að þér hatið mig ekki, Lady Aðalheiður?"

"Nei, þvert á móti, ég er yður þakklát fyrir að þér heimsóttuð mig".

Lady Die leit upp alveg hissa.

"Hafið þér nokkurntíma séð Trenton Abbedi?" spurði hún svo.

"Nei, en mér hefir verið sagt, að það sé fallegasti kastalinn á öllu Englandi, og mig langar mjög mikið til að sjá hann".

"Ég ætla að segja Allan það, og svo förum við þangað á morgun".

"Nei, það megið þér ekki gera. Þér megið ekki segja Allan, að mig langi til að fara þangað. Honum þætti það svo undarlegt". Nú þagnaði hún alt í einu, því Lady Die horfði á hana með mestu undrun.

"Nú eruð þér að gera að gamni yðar, Lady Aðal-

heiður, og þó eruð þér of alvarlegar til þess. Því skyldi ég ekki mega segja Allan, að yður langi til að sjá Trenton?"

Lady Aðalheiður roðnaði við. "Ég vil ekki láta hann vita, þó mig langi til að ferðast eitthvað".

"Nú, það er svona lagað. Þér viljið ekki biðja hann neins, nema það sé í fullu samræmi við hans eigin óskir. Lady Aðalheiður Caren, það var gott, að ég kom hingað! Vitið þér, að með þessu skemmið þér alveg manninn yðar, og skemdur eiginmaður er mikla verri en skemt barn, þó vont sé. Ég verð að kenna yður, að þér getið verið góðar, þó þér í öllu farið ekki að annara vilja, og þér getið verið á-kveðnar án þess að vera of strangar".

"Já, þér megið kenna mér um það eins og þér viljið", mælti Aðalheiður óánægjulega, og í því gengu menn þeirra fram hjá. Önnur konan leit með ánægjubrosi framan í mann sinn, en hin snéri sér undan til þess að sjá ekki hið kalda og óþýða augnaráð manns síns, ef honum á annað borð skyldi verða að vegi, að líta til hennar.

Þær voru nú aftur einar, og Lady Die fór að tala um, að Lord Allan væri sá bezti reiðmaður, er hún hefði þekt, "og einnig keyrir hann mjög vel", bætti hún við. "Finst yður það ekki? Hann hefir náttúrlega oft keyrt út með yður?"

"Nei, ég hefi aldrei beðið hann um það".

"Nú, ja ja, hver hefir sína siði, en sem stendur skil ég yður alls ekki, Lady Aðalheiður, en kannske geri ég það með tímanum. En ég er hér um bil viss um, að þér eruð hræddar við Allan, og það getur orðið mjög hættulegt fyrir yður, ef þér látið hann verða þess áskynja".

"Die! Komdu inn og syngdu fyrir okkur", kallaði Sir Guy, og Lady Die stóð strax upp, tók í hendi

hans þegar hann kom til þeirra, og svo gengu þau öll saman inn í gestasalinn.

---

## IX. KAPÍTULI.

Hversu hræðilegt var það ekki fyrir Aðalheiði, að eiga ekki ást manns síns? Aldrei hafði Lady Aðalheiður fundið sárara til þess, en eftir að Lady Die og maður hennar komu til Brooklands. Sir Guy bað konu sína að syngja, hann fann nóturnar fyrir hana og stóð við hlið hennar meðan hún söng, og á öllu sást, að hann dáðist að henni.

Aftur á móti sat húsmóðirin á Brookland ein sér, og hlýddi á. Hún tók sér mjög nærri, að maður hennar hafði ekki einu sinni litið á búning hennar. Hún hafði þó vonað fastlega, að hann myndi segja nokkur orð við hana því viðvíkjandi, sérstaklega úr því honum þótti gimsteinar fallegir. En það var öðru nær en hann gerði það, og það var ekki að sjá að honum þætti neitt til þeirra koma. Hann hafði rétt henni stól, spurt hana hvort hún vildi hafa gluggann opinn eða ekki, sagt að veðrið væri gott, og svo fanst honum, að hann væri búinn að gera vel og hún gæti ekki ætlast til meira af sér.

Á meðan Lady Die söng tók hún nákvæmlega eftir honum. Hann greip hverja bókina eftir aðra, leit á þær, en lagði þær svo frá sér aftur. Svo skoðaði hann nokkrar myndir, sem voru nýkomnar frá London, en alls enga ánægju var hægt að sjá á honum. Svo gekk hann að einum glugganum og sýndist vera í þungu skapi. Hvað myndi ekki Lady

Aðalheiður vilja gefa fyrir að geta lesið hugsanir hans?

En það vissi hún vel, að henni var ekki unt að skapa honum neina gleði.

Lady Die söng mjög vel og með mikilli tilfinningu fallegt kvæði um ást, er skyldi vera ódauðleg. Það var eins og tónarnir þrengdu sér inn í hjarta Aðalheiðar, og móti vilja hennar runnu tár niður kinnar henni. Hún laut yfir bók, sem hún hélt á, svo enginn tæki eftir þeim.

Alt í einu hætti Lady Die að syngja. "Við verðum öll svo hljóð yfir að heyra þessi sorgarlög", mælti hún. "Kæra Lady Aðalheiður, þér eruð með tárin í augunum. Aldrei skal ég syngja oftar, ef þér hryggist af því".

Lord Caren sneri sér snögglega við, þegar hann heyrði nefnd tár, og það var hægt að sjá, að honum líkaði miður. Lady Aðalheiður sá það líka og harkaði af sér eins vel og hún gat. "Söngur gerir mig ávalt hrygga". sagði hún, "ég get ekki hlustað á alvörugefin lög, án þess mér vökni um augu".

"Ég hefi oft hugsað um, hvernig á því standi", sagði nú Lady Die, "að ég, sem er sú glaðasta og léttlyndasta manneskja, sem til er, skuli verða mest hrifin af sorgarlögum. Mér þykir miklu meira varið í alvarleg stykki en fjörug lög. Sama er að segja með sögur. En hvernig skyldi standa á þessu?"

"Þér sækist eftir því, sem er í fullri mótsetning við sjálfa yður", sagði Lord Allan.

"Það getur vel verið. En hvað þér eruð vænn að útskýra þetta, Allan. Hefði ég spurt Sir Guy að þessu, hefði hann bara komið með langa heimspekisræðu.

Sir Guy svaraði með einhverju spaugsyrði, og Lord Caren hló hjartanlega að því. Það var í fyrsta

sinni eftir brúðkaup þeirra, sem kona hans hafði heyrt hann hlægja. Hún leit til hans með undrun, og hann sá það, og strax varð hann eins alvörugefinn og vant var.

Lady Die var kát og skemtileg, hún talaði svo fjörugt og blátt áfram um alt sem hún hafði séð í London í veizlunum við hirðina. Aldrei hafði hún séð annað eins skraut, og eins mikið af gimsteinum. "Mér þykja gimsteinar svo fallegir og allir ekta skrautgripir", bætti hún við.

"Það getur vel verið við þvílík tækifæri", sagði Lord Caren, "að þeir eigi vel við, en annars þykja mér blóm miklu fallegri", og hann leit með ánægju á kjól Lady Die. Hann var úr hvítu silki, alveg skrautlaus, og hún bar enga skrautgripi, þrátt fyrir það þótt henni þætti jafnmikið í þá varið sem hún hafði sagt.

Þannig bar Lady Aðalheiður ekkert úr býtum fyrir alt það ómak, er hún hafði gert sér með búning sinn, og hún hugsaði með sér, að honum geðjaðist að öllu nema því, er henni kæmi við. "Bara að hann vissi, hvað mig langar til að geðjast honum", hugsaði hún.

"Allan! " sagði Lady Die alt í einu. "Þér sögðuð áðan, að Beauty Randolph kæmi hingað bráðum".

"Já, ég hefi boðið honum að koma hingað, og ég vona að hann komi. Mér þykir hann svo skemtilegur".

Lady Die sá á svip Aðalheiðar, að hana langaði að vita, hver þessi kafteinn Randolph væri, og hún sagði henni, að það væri ekkert á móti því, að hún spyrði um það, og þá þorði hún loks að spyrja um það.

"Hver er þessi 'Beauty'?" sagði hún hikandi.

"Hann er "Household" uppáhald. Hann er fallegur og hreinskilinn, en feiminn sem ung stúlka.

Hann roðnar, ef einhver talar til hans, en samt er hann hugrakkur sem ljón, og alt af er hann ástfanginn. Hann er það undarlegasta sambland, sem ég þekki af manni til. Hann heitir kafteinn Beri Randolph, og verður Jarl af Shirley, þegar frændi hans deyr. Hann verður ástfanginn í hverri ungri, fallegri stúlku, sem hann sér. Hann getur ekki að því gert. Og í London þykir ekkert í þá stúlku varið, sem kafteinn Randolph hefir ekki orðið ástfanginn í".

"Hversvegna er hann kallaður 'Beauty'?"

"Af því andlit hans er hvítt sem snjór og rautt sem blóð, og hann hefir mikið gult hár. En, Allan, í hverri á 'Beauty' að verða ástfanginn hér?"

"Það veit ég ekki, ég hefi ekkert hugsað um það og engri hefi ég boðið hingað. Þér verðið líklega að hafa hann, Die".

"Nei, þakka yður fyrir. Hann var ástfanginn í mér fyrir tveimur árum síðan. Er það ekki satt, Guy?"

"Sir Guy hló, og sagði, að hann gæti orðið ástfanginn í henni aftur. "Ástfanginn í þér, elsku konan mín", bætti hann við.

Lady Aðalheiður virti þessi hjón fyrir sér, sem höfðu jafnmikla tiltrú hvort til annars, að þau gátu gert þannig að gamni sínu. Henni virtist það alveg ómögulegt.

"Aðalheiður", sagði Lady Die, "hafið þér gaman af að láta piltum lítast vel á yður?".

Aðalheiður varð eldrauð í framan og leit mjög vandræðalega út.

"Onei", svaraði hún.

En Lord Caren greip frammí fyrir henni og sagði: "Lady Aðalheiði þykir meira varið í það, sem einhvers er vert, heldur en annan eins hégóma".

Ekki vissi Aðalheiður, hvort maður hennar sagði þetta til að hrósa henni eða þvert á móti. En hún

var svo alvörugefin og mæðuleg að sjá, að allir hefðu getað kent í brjósti um hana.

Lady Die fór nú út úr herberginu, og Aðalheiður ætlaði á eftir henni, en þá sagði Lord Allan, að hann þyrfti að tala við hana. Hún beið þess vegna kyr, og hjarta hennar sló hratt af eftirvæntingu eftir að fá að vita, hvað hann ætlaði að tala við hana. Skyldi hann ætla að þakka henni fyrir, hve hún hafði skemt vel gestum hans? Skyldi hann ætla að tala nokkur vingjarnleg orð við hana, sem hann þó ekki var vanur að gera?

Þegar Lord Caren hafði boðið Sir Guy góða nótt sneri hann sér að henni mjög alvörugefinn án þess að segja neitt.

"Þú óskaðir að tala við mig, Lord Caren".

"Já", mælti hann. "Ég vil hvorki vera harður né ósanngjarn, en þú verður að muna eftir einu, og það er það, að láta ekki koma fyrir oftar það sem kom fyrir hér í kveld. Kona, sem grætur í annara viðurvist á sínu eigin heimili, vekur umtal, og engin vel mentuð kona myndi láta annað eins koma fyrir. Þetta er nokkuð, sem mér er ómögulegt að líða. Þú gerir sv[illegible] að muna eftir þessu, Lady Caren".

Hún blóðroðnaði. "Þakka þér fyrir", mælti hún kuldalega. "Þú skalt ekki þurfa að minna mig á það oftar".

Arnljotur B. Olson

## X. KAPÍTULI.

Um kveldið, er Sir Guy og Lady Die voru komin til herbergja sinna, fóru þau að tala um Lord Caren og Aðalheiði. Die sagðist ekkert skilja í, hvernig sambúð þeirra í raun og veru væri.

Hún kvaðst alt af hafa haldið, að Allan yrði bæði góður og eftirlátur eiginmaður, en það væri langt frá að svo væri, því Aðalheiður væri auðsjáanlega hrædd við hann, og þyrði varla að tala orð, þegar hann væri viðstaddur. Aftur á móti þóttist hún viss um, að Aðalheiður elskaði Allan mjög heitt. Sir Guy þótti um engan mann eins vænt og Lord Allan, að konu hans undanskilinni, og þess vegna tók hann svari Allans. Hann áleit, að Aðalheiður, sem var svo ung, vantaði þekkingu til þess að stýra jafnstóru heimili, og þess vegna væri hún feimin og drægi sig í hlé. "En af hverju heldur þú, að hún elski hann svo heitt?"

"Ó, það er nú hægt að sjá. Hvenær sem hún heyrir til hans, roðnar hún svo yndislega, og ef hann talar við hana, er eins og sál hennar fái nýtt líf. Ef hann gengur svo nærri henni, að hann komi við kjólinn hennar, þá titrar hún. Já, hún elskar hann, Guy, líklega helzt of mikið".

"Því segir þú þetta, Díana! En hvað kvenfólk annars hefir mörg leyndarmál"

"Tíminn mun sýna það, hvort ég hefi rangt fyrir mér".

"Ég er viss um, að Allan elskar hana, það er ómögulegt annað. Segðu mér, kæra Die. hefurðu nokkurntíma séð jafnfagra og yndislega konu og Lady Aðalheiði? Það er alveg óhugsandi, að maður henn ar ekki elski hana.

Þau töluðu nú saman um Allan og hina spönsku greifainnu Juanitu Silvala. Hvorugt þeirra hafði séð hana, en þau höfðu mikið heyrt um hana talað. Þau höfðu heyrt, að hún hefði gaman af að lokka karlmennina að sér og fleygja þeim svo frá sér aftur, þegar hún kyntist nýjum pilti, sem henni þótti meiri fengur í. Ef Lord Allan hefði verið alvara með að fá hana, þá hefði víst verið hægt fyrir hann að láta

hana verða Lady Caren. En í stað þess valdi hann Aðalheiði, unga og yndislega stúlku, sem ekkert átti til annað en fegurð sína. Þau höfðu ekki minstu hugmynd um, að Allan hefði átt Aðalheiði einungis vegna erfðaskrár föður síns.

Þetta kveld grét Aðalheiður ennþá sárara en vanalega. Hún var frá sér af örvæntingu yfir því, hvernig maður hennar breytti við hana. Hjarta hennar nærri brann af löngun til þess að ganga til manns síns og segja honum leyndarmál sitt, sem algerlega myndi eyðileggja hann. Að siða hana alveg eins og hún væri illa uppalin skólastelpa! Hún átti í megnu stríði við sjálfa sig, en að lokum sigraði ást hennar, og hún hélt áfram að bera hina þungu byrði, er hún varla gat risið undir.

Hún hafði gengið frá honum þetta kvöld með þóttasvip, og hann hafði aldrei séð hana svo áður. Og köld og þóttaleg sat hún inni í svefnherbergi sínu, með tárvot augu. "Það er hart", sagði hún aftur og aftur við sjálfa sig, "að ég skuli þurfa að líða fyrir annara syndir og yfirsjónir".

En svo varð hún smámsaman rólegri. Veslings Allan, ef hann bara vissi alt. Ég verð að vera þolinmóð og bera þetta vegna hans, og með tímanum mun hann elska mig. Og þessi orð hafði hún upp aftur og aftur. Hún reiddi sig á ókomna tímann. Hann var vinur hennar, sem einhverntíma mundi flytja henni huggun og gleði. En hún stundi þungan í hvert skifti, er hún hugsaði um, hve langt myndi verða þangað til sá tími kæmi.

Næsta morgun við morgunverð var talað um, hvar menn ættu að skemta sér um daginn. "Við skulum keyra til Trenton Abbedi", sagði Lady Die. "Ég hefi fastlega ásett mér, að fara þangað í dag".

"Á ég að að keyra þig?" spurði Sir Guy.

"Nei", mælti hún, "Allan keyrir mig, þú keyrir

með Lady Aðalheiði í hennar vagni. Samþykkið þér það?" spurði hún Aðalheiði.

"Já, með mestu áhægju", svaraði hún. Henni fanst svo mikið til um, að það skyldi vera tekið tillit til, hvers hún óskaði sér.

"Þér fáið góðan fylgdarmann þar sem Guy minn er", sagði Lady Die, og ég myndi ekki sleppa honum við neina aðra en yður. En þér megið ekki heldur verða afbrýðissöm, þó ég segi eitthvað fallegt við Allan".

Hvernig átti hún að vera afbrýðissöm? Hún var svo gröm með sjálfri sér, og henni fanst hún geta hlegið kuldahlátur yfir því að nokkrum skyldi koma annað eins til hugar. En hún gætti sín, og enginn sá neina gremju á svip hennar.

"Já, ég skal lofa yður því, að ég skal ekki verða hrædd um hann", sagði hún svo. En hún leit ekki á mann sinn, þegar hún sagði þetta.

"Það sýnir, að þér berið fullkomið traust annaðhvort til mín eða Allan, og ég skal með tímanum komast að, hvort okkar það er".

Aðalheiður sá, hve mikla nærgætni oa umhugsun Lord Allan sýndi Lady Die. Hann gætti að, hvort aktýgin væru rétt á hestunum. "Prins Charlie (svo hét annar hesturinn), er dutlungasamur og misjafnlega fjörugur, og við verðum að hafa góða stjórn á honum, Die".

"Alt sem lifir verður að hafa fjör í sér", sagði Die, "menn, konur og börn. Ef þau eiga ekki fjör og gleði, væri betra fyrir þau að vera án lífsins".

Hún hafði veitt Allan nákvæma eftirtekt allan morguninn, og hún sá, að hann að vissu leyti var mjög afskiftalaus af konu sinni. "Ég skyldi víst fljótt opna á honum augun væri ég í Aðalheiðar sporum", hugsaði hún. "Aðalheiður er allt of eftirgefanleg við hann, en það er alls ekki rétt að koma honum upp á það".

Ástæðan fyrir því, að Lady Die vildi keyra með Allan, var sú, að hún vildi fá tækifæri til að tala við hann einan og hrósa hinni ungu konu hans. Hún sá, að ekki var alt sem skyldi á milli þeirra, og óskaði svo innilega eftir, að sjá þau bæði ánægðari, en þau voru nú. Henni hafði strax litist svo vel á Aðalheiði, hún var svo ólík öllum öðrum, er hún hafði kynst. Hún talaði svo hlýtt og hreinskilnislega um hana við Allan á leiðinni, að það var auðheyrt, að orðin komu frá hjartanu. Hún hrósaði henni fyrir fegurð hennar og framkomu og hve hún hefði fallega rödd. En alt þetta hafði engin önnur áhrif á Lord Caren en þau, að hann dáðist að, hve Lady Die gæti hrósað annari konu mikið.

"Þér ættuð að vera mjög ánægður og hamingjusamur, Allan, því þér eigið þá yndislegustu og skemtilegustu konu, sem ég hefi þekt, og það hefir þó mikið að segja."

Það var sem Lord Caren vildi ekkert um þetta tala. Tvívegis reyndi hann til að breyta um umtalsefni. Hann vakti eftirtekt hennar á einu og öðru, sem fyrir augun bar. Hann talaði um eitt og annað, sem hann ætlaði að láta gera á löndum sínum. En Lady Die [illegible] undan. Hún lét hann fyllilega skilja, að aðrir litu á konu hans, sem hina fullkomnustu, sem til væri, — hann gat svo hugsað um það, hvað hann vildi.

Sir Guy hafði og mjög mikla skemtun af ferðinni. Hann var alla leiðina að tala um Lord Caren. Aðalheiði hafði frá því fyrsta þótt Sir Guy skemtilegur, en af því hann var alt af að tala um mann hennar við hana, þótti henni ennþá meira til hans koma. Hann mundi eftir svo mörgu frá drengjaárunum, og alt, sem hann sagði, bar vott um, hve hugrakkur, göfugur og góður Allan var.

"Ég þakka yður hjartanlega fyrir samveruna",

mælti hún, þegar þau voru rétt komin heim aftur. "Aldrei á æfi minni hefi ég skemt mér eins vel". Sir Guy lét í ljósi gleði sína yfir því, og sagði að það kæmi víst af því, að hann hefði talað svo mikið um mann hennar, en Aðalheiður ansaði því engu.

Sir Guy hugsaði með sjálfum sér: "Ekki get skilið í, ef tvær jafn elskulegar og skemtilegar persónur, sem þessi hjón eru, geta ekki elskað hvort annað. Die hlýtur að hafa rangt fyrir sér í þessu".

---

## XI. KAPÍTULI.

Þetta kveld kom 'Beauty' Randolph til Brookland, og Aðalheiður sá mann þar sem hann var, sem var alt öðruvísi en allir, sem hún hafði áður séð. Hún skildi strax, þegar hún sá hann, af hverju hann var kallaður 'Beauty', því andlit hans var hvítt og mjúkt eins og á ungri stúlku. Hann hafði mikið gult hár, breitt enni, blá, dreymandi augu, sem leiftruðu stundum alt í einu af eldi og [illegible]ga. Hann hafði hvítar og smáar hendur, en handtök hans voru hörð sem stál.

Útlit hans og skaplyndi var svo ólíkt, að það var næstum óskiljanlegt. Hann hafði farið herferð til Indlands, og þó hann væri að eins 24 ára gamall hafði hann áunnið sér mikla frægð, bæði fyrir það, að hann var ávalt fremstur í flokki manna sinna á móti óvinum sínum, og eins fyrir tígrisdýrsveiðar. En þegar hann kom til Englands aftur, lagði hann niður hermensku að vilja móður sinnar.

Í allri London var enginn í eins miklum metum meðal aðalsfólksins eins og hann. Kvenfólkin

þótti svo gaman að sjá hið fallega andlit hans og heyra hina mjúku rödd hans, sem hafði hljómað svo sterkt og djarflega í bardögunum, og sjá hinar fallegu hvítu hendur, sem höfðu barist svo vasklega.

En hinn ungi maður hafði einn veikleika og hann var sá, að hann varð ástfanginn í hverri fallegri stúlku, sem hann sá, og hann sagði sjálfur, að hann gæti ekkert að því gert. Fegurðin hafði algerlega vald yfir honum. Samt sem áður hafði hann aldrei gert sig sekan í neinu óheiðarlegu. Aldrei hafði hann flekkað mannorð neinnar konu né stúlku, aldrei spilt hamingju þeirra. Ungar konur og stúlkur höfðu mikla ánægju af að tala við hann og gefa honum undir fótinn, og það gerði hann líka með mestu ánægju, því allir vissu að með því var ekkert alvarlegt meint. Svo voru þær að stríða honum með, að einhverntíma yrði hann í raun og veru ástfanginn, og sögðu honum að gæta sín. En hann sagði, að allir fjötrar, er kvenfólkið legði um sig, væru rósafjötrar, sem hann gæti slitið, hvenær sem hann vildi.

Annaðhvort var hann heppinn eða óheppinn, en ennþá var hjarta hans ósnert. Heimurinn hafði tekið á honum með silkihöndum.

Strax frá því fyrst að Aðalheiður sá hann, hafði henni litist vel á hann. Hann var svo ólíkur öllum, sem hún hafði áður þekt. Sama var að segja um hann, — hann var alveg gagntekinn af fegurð hennar. Hann hafði séð svo margar fallegar stúlkur um dagana, sem höfðu brosað óspart til hans, en Aðalheiður var svo ólík þeim öllum saman, og virtist hafa svo fá bros til að gefa burtu. Honum fanst, þrátt fyrir hve ung og fögur hún var, að það hvíla eins og einhver skuggi yfir henni, svo dimmur, að það skar hann í hjartað að sjá það. Hann var alveg frá sér numinn af framkomu hennar. Hún var svo einstaðingsleg. Það var eins og hún áliti sig ekki til-

[illegible] fólkinu, og að sér væri þar alveg ofaukið. Hann gat ómögulega skilið, af hverju þetta stafaði. En samt sem áður fanst honum hún einmitt fyrir þetta vera svo aðlaðandi. Hann hafði oft verið ástfanginn í konum vina sinna, og þeim þótti gaman að, en aldrei hafði honum dottið í hug, að spilla þeim við [illegible]. Honum hefði fyr komið til hugar, að brjótast inn í hús vinar sins til að stela frá honum, heldur en ræna frá honum trausti konu hans.

En Aðalheiður var svo alt öðruvísi en hinar. Í fyrsta [illegible] sem hann talaði nokkur lofsyrði um hana, [illegible] á hann hálf hikandi, eins og hún ekki skildi h[illegible].

"Allan", mælti Lady Die hlægjandi, "varaðu þig, sérðu ekki að 'Beauty' er orðinn ástfanginn í Aðalheiði?"

Lord Caren brosti. "Á, er hann það?" mælti hann. "En ég er ekki hræddur, Diana". Þó hann hefði aldrei talað eitt einasta vingjarnlegt orð við hana, né reynt að vinna þó ekki væri nema vináttu hennar, þóttist hann viss um, að hún yrði sér trú.

Lady Die skemti sér sérlega vel. Aðalheiður hafði ekki minstu hugmynd um, að 'Beauty' væri ástfanginn í henni, og hann varð þess vegna mjög alvarlegur.

Nokkru seinna komu til Brookland Lady Kan og dóttir hennar, sem hét Alísa, falleg og skemtileg stúlka. Það hefði verið trúlegt, að 'Beauty' hefði snúið sér að henni, en það var öðru nær. Hann fylgdi jafn trúfast og fyrri Lady Caren. Alísa Kan var að vísu ekki eins lagleg eins og Lady Die eða Aðalheiður, en hún var samt lífið og sálin í öllu og mjög yndisleg stúlka. Lady Caren, sem alls ekki var fljóttekin, þótti samt strax vænt um hina glaðlyndu og góðhjörtuðu stúlku. Og aldrei spurði hún að neinum nærgöngulum spurningum, og var því sú

eina af öllum gestunum, er sýndist enga eftirtekt veita því, hvernig sambúðin var á milli hjónanna. Ef hún talaði við Aðalheiði um mann hennar, þá gerði hún það alveg eins og hún myndi hafa talað við hverja aðra gifta konu. En hinir gestirnir á Brookland fóru nú bráðlega að taka eftir, að ekki var alt sem skyldi á milli hjónanna. Aldrei sáust þau tala ástúðlega saman, og ef einhver bað Aðalheiði að biðja Lord Caren um eitthvað, roðnaði hun og reyndi ávalt að komast hjá því.

Það var langt síðan að jafn mikill glaumur og gleði hafði ríkt á Brookland. Herbergin voru full af gestum, og það hefði víst mátt víða leita, ef hefði átt að finna aðrar eins kátar og fjörugar manneskjur eins og Alísu Kah, 'Beauty' og Lady Die. Það var hlátur, söngur og hljóðfæraslátur frá morgni til kvelds. Á hverjum degi var annaðhvort riðið eða keyrt í burtu, og ávalt var 'Beauty' fylgdarmaður Lady Aðalheiðar.

Einu sinni sagði Lady Die við manninn sinn: "Hvað getur ekki komið fyrir, ef ung, falleg kona mætir tilfinningarleysi hjá manni sínum, en er svo alt af með öðrum eins manni og Kaftein Randolph?"

Lady Die gat ekki dulist það, að Lord Allan var aldrei ástúðlegur við konu sína. Hann sýndi henni æfinlega mikla kurteisi, en hann var kaldur og tilfinningarlaus gagnvart henni, og það áleit Lady Die verst af öllu.

Lady Die reyndi, hvenær sem hún fékk tækifæri til, að nálægja þau hvort annað. Hún fékk þau til að ganga með sér um blómgarðinn og reyndi til, að fá þau til að tala saman, en Lord Caren svaraði að eins því, sem hún spurði hann um, sagði kannske nokkur orð við konu sína, og flýtti sér svo í burtu. Einu sinni kom það meira að segja fyrir, að hann

varð mjög óþolinmóður yfir því, að hún vildi fá hann til að tala við sig og Aðalheiði, og eftir það reyndi hún aldrei til þess.

"Þess meira, sem ég reyni að draga þau saman, þess meira fjarlægjast þau hvort annað", hugsaði Lady Die, "og þess vegna er bezt, að ég skifti mér ekkert af því. Og hún breytti rétt í því.

Arnljotur B. Olson

## XII. KAPÍTULI.

Það var nýbúið að borða miðdagsmatinn. Karlmennirnir sátu ennþá við borðið. Kafteinn Randolph var að segja sögu af sér og tígrisdýri, sem hann hafði yfirunnið, og hinir hlustuðu á með mestu athygli, svo þeir tóku ekkert eftir, hvað tímanum leið. Lady Caren og Lady Díana höfðu lagt sig út af. Lady Die sagði það væri það bezta meðal til að styrkja líkamann, að hvíla sig um miðjan daginn í 5 mínútur Lady Aðalheiður las í bók, en Miss Alísa Kan var mjög ergileg yfir því, að karlmennirnskyldu sitja svona lengi á eftir matnum.

Þegar 5 mínútur voru liðnar, stóð Lady Die upp og opnaði einn gluggann, svo að kveldloftið streymdi inn til þeirra. Alt í einu sneri hún sér að Lady Aðalheiði. "Karlmennirnir sitja of lengi við borðið", sagði hún svo.

"Það er kaftein Randolph að kenna", sagði Aðalalheiður. "Hann er víst að segja þeim eina bardagasöguna sína núna".

"Já, en þér verðið að gefa Allan vísbendingu um að koma".

Lady Aðalheiður leit upp alveg forviða. "Ég

get ekki beðið Allan um það", mælti hún svo, "hann héldi víst, að ég væri ekki með sjálfri mér".

"Þér eruð húsmóðirin og yður ber að hlýða í öllu", sagði Lady Die. En svo sá hún eftir að hafa sagt þetta, og hún gekk til Aðalheiðar og kysti hana.

"Það kemur oft fyrir að ég tala, án þess að hugsa nokkuð um það, sem ég segi, fyr en ég er búin að segja það, og svo sé ég líka alt af eftir því á eftir. Ég veit, að þér eruð alt of góðar og gæfar til að vilja í nokkru setja yður á móti vilja manns yðar. Ég get dáðst að undirgefni yðar, en mér er ómögulegt að breyta eftir henni. Ef Guy stríðir mér, langar mig sérlega mikið til, að gefa honum sitt undir hvort, þó ég viti að það sé næsta ókvenlegt, en svo vil ég líka kyssa hann á eftir".

Lady Aðalheiður stundi þungan. Hún dáðist að því, hve gott samkomulag var á milli Lady Die og manns hennar, en það var heldur ekki frítt fyrir, að hún öfundaðist yfir því.

"Við skulum koma út í garðinn" sagði Lady Die. "Alísa, komið þér með okkur. Það er eins og sólin og blómin bjóði manni til sín".

Þær gengu því næst allar út í garðinn og settust niður. Alt í einu heyrðu þær, að karlmennirnir voru á leiðinni til þeirra. Miss Alísa áleit að það væri réttast, að tala ekkert orð við þá. En Lady Die hló dálítið háðslega, og hélt að sumar af þeim mundu líða mest við það sjálfar.

Lord Caren gekk strak til þeirra, er þeir komu í garðinn. "Við eigum víst skilið, Die, það sem þér sýnist að vilja láta okkur fá, langa áminningarræðu. En það var 'Beauty' að kenna, því hann var að segja okkur sögu".

"Það er rangt af honum", mælti Lady Die. "En

þér þurfið ekki að afsaka yður fyrir mér, heldur fyrir Lady Aðalheiði".

Lord Caren sneri sér strax til konu sinnar, — það kom ekki oft fyrir, að hann gerði sig sekan í ókurteisi gagnvart henni.

"Mér þykir mjög leiðinlegt, að við sátum svona lengi við borðið", sagði hann mjög vingjarnlega. Aðalheiður roðnaði og leit niður til þess að mæta ekki augnaráði hans. Allir tóku eftir þessu, ekki síst Lord Caren sjálfur. Það var auðséð, að henni fanst hann ekki þurfa að afsaka sig fyrir sér. En nú kom 'Beauty' og sagði .

"Trúið þeim ekki, Lady Caren. Það er nú kom 'Beauty' og sagði :

"Trúið þeim ekki, Lady Caren. Það er nú vanalega eibogabara í hverju húsi, og eitt af þeim er ég. En eigum við ekki að ganga til linditrjánna?"

Án þess að segja eitt einasta orð, sneri Aðalheiður sér frá manni sínum og gekk með kaftein Randolph að linditrjám nokkrum, sem voru uppáhaldsstaður hennar.

Alísa horfði á eftir þeim löngunar augum. "Ekkert skil ég í því," sagði hún við sjálfa sig, "að Lady Caren gengur ekki með manni sínum, en er alt af með þeim eina karlmanni, sem ég gæti verið með. Það sýnir ekki mikinn smekk af húsmóðurinni á heimilinu".

En Alísa Kan hafði ekki minstu hugmynd um það, að ef Lady Aðalheiður hefði mátt ganga við hlið manns síns og tala alúðlega við hann, hefði hún álitið sig þá hamingjusömustu manneskju í heiminum

Lord Caren sá, að Alísu leiddist, og hann var með henni alt kveldið, en henni fanst ekki mikið til hans koma móti því, sem að vera með kaftein Randolph.

Næsta morgun var veður hið bezta, og Lord Caren stakk upp á því við morgunverð, að gestirnir skyldu ganga út að stórum skógi þar í grendinni. "Caprifóliurnar, uppáhaldsblómin yðar, Die, eru nú í fullum blóma", mælti hann.

Það urðu samt ekki margir af gestunum, sem fóru til skógarins. Sir Guy varð að svara bréfum sínum. Lady Kan varð einnig að skrifa, og Alisa varð svo gröm yfir því hve litla eftirtekt kafteinn Randolph veitti sér, og vildi því vera heima. "Ég fæ höfuðverk af að ganga í sólarhitanum", sagði hún.

Það voru þau kafteinn Randolph, Lady Die, Lord Caren og Aðalheiður, sem héldu af stað. Lady Die beið með mikilli óþolinmæði eftir því, að Lord Allan sýndi nú konu sinni þá kurteisi, að ganga með henni og 'Beauty' beið eftir því sama, en þau þurftu ekki lengi að bíða, því Lord Caren gekk strax til Lady Die og rétti henni hendina. "Nú, Die", sagði hann, "við skulum nú tína Caprifólur".

Það var ómögulegt að sjá, hvort Aðalheiði líkaði betur eða ver. Hún sneri sér að kaftein Randolph og sagði brosandi: "Nú, nú, kafteinn, hvað ætlið þér að finna handa mér?"

En hann svaraði að eins með alþektri hendingu: "Ég hefi keypt nokkuð handa henni", og þetta marg-endurtók hann hlægjandi meðan þau héldu af stað.

"Ekkert þykir mér fallegra en þessi grasengi á Englandi", sagði hann. "Þegar ég var á Indlandi, dreymdi mig svo oft um þau. Mér þykir að vissu leyti meira varið í þau en skógana".

Þau beygðu dálítið út af veginum og komu að lítilli hæð, sem var alþakin af viltum rósum og Caprifólum. Lady Die hljóðaði upp af gleði og aðdáun.

"Setjist hér niður, Lady Die", sagði Lord Caren,

"ég ætla að fara upp á hæðina og tína eins mikið og þér getið borið".

Lady Die og Lady Aðalheiður settust nú niður fyrir neðan hæðina, en Lord Allan fór strax að tína blómin.

"Lady Caren", sagði Randolph hálf letilega, "ef þér viljið fá nokkrar rósir, skal ég ná þeim fyrir yður".

"Nei", sagði Aðalheiður brosandi, "þér skuluð alls ekki hafa fyrir því".

En alt í einu heyrðist köll og hávaði. Lord Caren, sem stóð hærra en hitt fólkið, leit fljótlega í kring um sig, fleygði strax frá sér blómunum og flýtti sér niður til þeirra. Þau heyrðu kallað: "Óður hundur!"

Óður hundur!' Lady Die æpti upp yfir sig af hræðslu. "Hann kemur hingað. Hvað eigum við að taka til bragðs" En Lord Caren hafði strax gripið hana og borið hana upp á hæðina. "Reynið nú að koma yfir girðinguna, og þá er yður óhætt", sagði hann. Þetta bar alt svo fljótt að, að ekki varð fleira sagt. En Aðalheiði fanst sem stungið væri hníf í hjarta sér, því augliti til auglitis við dauðann hafði Allan gleymt henni til þess að frelsa Lady Die.

---

## XIII. KAPÍTULI.

Alt í einu sást stór óður hundur koma hlaupandi. Tveir menn komu hlaupandi á eftir honum, en þess meira, sem þeir æptu og kölluðu á hann, þess meira stökk hann áfram. Lady Aðalheiður rak upp hljóð af hræðslu.

"Verið þér ekki hræddar", sagði kafteinn Randolph. "þetta er ekki í fyrsta sinni, sem ég mæti vitlausu dýri, og svo gæti ég gjarnan látið lífið fyrir yður".

Í snatri tók hann silkiklút úr vasa sínum og batt um hendi sér. "Guð veri með mér", mælti hann svo.

Síðar meir, þegar Lady Caren hugsaði um þetta hræðilega atvik, fanst henni miklu meira til hinnar ungu hetju koma af því hann á neyðarinnar tíma fól sig guði á vald.

Á næsta augnabliki kom hundurinn á móti þeim með gapandi gin, og hljóp þegar að kaftein Randolph en hann var ekki óviðbúinn og sló dýrið með hnefa sínum milli augnanna. Tvö högg, jafnvel útilátin, fylgdu á eftir því fyrsta, og dýrið datt niður dautt fyrir fætur honum. Lady Aðalheiður grét bæði af þakklátsemi og líka af hræðslu við hættuna, sem nú var afstaðin.

"þarna liggur hann dauður", mælti kafteinn Randolph við eltingamennina, sem nú komu nær.

"Dauður?" spurðu þeir með mestu undrun.

"Já", mælti hann rólegur, "ég braut hausinn í sundur!"

Mennirnir horfðu alveg forviða á hinn unga mann. "þér eruð hugrakkur maður, herra minn", mælti svo annar þeirra.

"Kæra Lady Caren", mælti kafteinn Randolph. "það er engin ástæða fyrir yður, að vera lengur hræddar. Dýrið liggur þarna dautt".

"Aðalheiður!" mælti lág rödd við hlið hennar. Ég get ekki fyrirgefið sjálfum mér, að ég skyldi fyrst hugsa um Die". Maður hennar laut yfir hana og horfði sorgbitinn í andlit hennar. Hann hafði aldrei fyr talað jafn alúðlega við hana.

"Það gerir alls ekkert til", mælti hún, "það var mjög eðlilegt, að þú skyldir hugsa fyrst um Die".

Kafteinn Randolph varð alveg forviða að heyra þetta. Hann hafði strax í byrjun furðað sig á því, að Lord Allan hjálpaði fyr frændkonu sinni, en sinni eiginkonu, og þó heyrði hann nú þessi blíðu orð: "Það var alveg eðlilegt, að þú skyldir hugsa fyrst um Die".

Það var alveg ómögulegt, að hann elskaði konuna sína, jafn fögur og hún var. Ef hann elskaði hana, þá hefði hann líka fyrst frelsað hana. Eftir þetta var Randolph viss um, að Lord Caren ekki elskaði konu sína, og hún heldur ekki hann.

"Það er nú allstaðar eitthvað að", hugsaði hann með sér, "og eitthvað er að hér á Brookland".

Lady Die varð föl sem nár, hún sagðist ekkert óttast meira en vilt dýr. "Aðalheiður!" sagði hún, "það væri náttúrlegt, að þér hötuðuð mig fyrir að ég tók manninn yðar frá yður, en ég varð alveg forviða af hræðslu, svo ég vissi ekkert, hvað ég gerði".

"Ég hafði verndarmann", mælti Lady Caren, og horfði þakklátlega á kaftein Randolph, en hún hræddist að sjá, hve fölur hann var.

"Eruð þer særður?" spurði hún.

"Ég vona ekki", mælti hann, "en ég held samt, að ég hafi rifið mig á hendinni". Það var blóðblettur á henni.

"Hann hefir bitið yður!" hljóðaði Lady Die.

"Nei", mælti hann rólega, "hann hafði engan tíma til þess, en ég fann, að ég kom við tennur hans, þegar ég sló hann síðasta höggið, og þær hafa líklega farið inn úr skinninu".

Kvenfólkið vildi láta sækja læknir strax, en kafteinninn áleit, að ef eitur hefði komist inn í hendina á annað borð, þá myndi það drepa hann áður en læknirinn kæmi. En hann bað Lord Allan að binda

fast um hendi sér og koma svo með sér til næsta húss.

Skamt þaðan var lítið hús, og þangað flýtti nú allur hópurinn sér.

"Ég ætla að brenna eitrið út", sagði kafteinn Randolph. "Það er það vissasta. En kvenfólkið ætti að ganga út á meðan, því þær geta ekki horft á það".

Lady Caren leit á hann hinum rólegu, skæru augum sínum. "Leyfið mér að vera inni", mælti hún. "Skeð getur, að ég geti eitthvað hjálpað til". Og hún sat kyr inni, en Lady Die sat fyrir utan skjálfandi af hræðslu.

"Hitaðu tangirnar", sagði Randolph við Lord Caren. Til allrar hamingju var eldur lifandi í kolanum, og Lord Caren gerði tangirnar hvítglóandi, og kafteinn Randolph hélt þeim við sárið. Lady Aðalheiður horfði alt af á þá og sást hvergi bregða. En hún hefði ekki getað hugsað sér, að nokkur maður gæti liðið aðrar eins kvalir með jafnmikilli rósemi, eins og kafteinn Randolph.

"Ég er viss um, að þetta dugar, 'Beauty'" sagði nú Lord Caren.

"Ég get þolað það í hálfa mínútu ennþá", sagði kafteinn Randolph. "Það er bezt að vera viss".

Þegar þetta var afstaðið, spurði hann Lady Aðalheiði, hvort hún gæti hjálpað sér um nokkuð til að binda um sárið.

"Lofið þér mér að binda um hendina", mælti hún, og hún gerði það mjög vel, og meðan hún var að því, féllu tár af augum hennar niður á sárið.

"Þessi dropi læknar", sagði kafteinn Randolph.

Hún tók silkisjal, sem hún átti, og batt það í bindi um öxl hans, leit síðan brosandi til hans. Eftir ráðum hennar drakk hann svo lítið eitt af víni, og síðan héldu þau heimleiðis.

## XIV. KAPÍTULI.

Lord Allan hafð verið sjónarvottur að því, að kafteinn Randolph brendi sárið, og hvernig Lady Aðalheiður aðstoðaði hann, án þess að láta sér bregða. Það hafði haft mikil áhrif á hann og í fyrsta skifti á æfinni horfði hann á konu sína með aðdáun. Hann hugsaði nú meira og meira um hana. Flestar aðrar konur mundu hafa sýnt reiði eða afbrýðissemi, ef þeim hefði verið sýnt annað eins skeytingarleysi og hann hafði nýlega sýnt Lady Aðalheiði. Sumar konur mundu hafa ávítað hann, aðrar ekki ansað honum, en Lady Aðalheiður var öðruvísi, hún hafði brosað svo blítt til hans, og meira að segja, afsakað hann sjálf.

"Hann frelsaði líf hennar á meðan ég einungis hugsaði um Lady Die", sagði Lord Caren aftur og aftur við sjálfan sig.

Á heimleiðinni var Lord Caren miklu vingjarnlegri við konu sína, en hann var vanur að vera, og bauð henni að leiða hana, en hún afþakkaði. "Ég má ekki hugsa að eins um sjálfa mig", sagði hún. "Die er ekki búin að ná sér ennþá, og hefir meiri þörf fyrir stuðning en ég".

Þetta sagði hún brosandi og varð því næst samferða kaftein Randolph, sem í raun og veru hafði frelsað líf hennar, eða frá því sem verra var biti hundsins *).

---

*) Ef að vatnsóður hundur bítur mann, deyr maðurinn af því, sé ekki á augabragði leitað lækningar við því.

Þýð.

Hún hló og gerði að gamni sínu, en hjarta hennar blæddi af því að maður hennar hugsaði svo lítið um hana, að mitt í dauðans greipum gleymdi hann henni til að frelsa aðra konu, en enginn sá né skildi, hvað Aðalheiður leið, nema kafteinn Randolph, hann var sá eini, sem sýndist að skilja hana.

"Eftir þetta skulum við alt af vera vinir, Lady Caren", sagði hann blátt áfram, "af því ég með guðs hjálp varð til að frelsa líf yðar. Mér finst þér vera mér meira, en nokkur önnur manneskja í heiminum. Ég vildi óska að ég ætti systir, er væri lík yður, góð, blíð og hugdjörf, og mig langar til að biðja yður stórrar bónar".

"Það yrði mér ervitt, að neita yður um nokkuð, eftir það sem gerst hefir hér í dag.

"Verið þér þá nokkurs konar eldri systir mín. Maðurinn yðar og ég höfum ávalt verið allra beztu vinir, og ef að hann væri hér, er ég viss um, að hann vildi, að þér yrðuð við bón minni. Ég meina ekkert ljótt eða óheiðarlegt með þessu, Lady Caren, nei, langt frá, því ég ber fyrir engri konu eins mikla virðingu og yður. Viljið þér nú ekki alt af vera vinkona mín, og finna að við mig, þegar þér álítið þess sé þörf? Ég get ekki lýst því fyrir yður, hve mikla ánægju ég hefði af því, ef þér vilduð nú lofa mér þessu".

"Ég lofa því", mælti hún, "og skal vera yður góð og einlæg vinkona, eins lengi og ég lifi".

Eftir þetta töluðu þau ekki mikið saman, því bæði höfðu nóg að hugsa. Hann hugsaði um, hvernig sambúð hjónanna myndi vera varið. En hún var að hugsa um hið mikla tilfinningarleysi marns síns gagnvart sér.

Lord Caren leið heldur ekki sérlega vel á heimleiðinni, en Lady Die náði sér fljótt aftur.

"Allan", mælti hún, "að mínu áliti hafið þér

hagað yður alveg ófyrirgefanlega gagnvart konu yðar, þar sem þér létuð hana hugsa um sig sjálfa, en björguðuð mér".

"Ég veit það", mælti hann auðmjúkur. "Það eru víst margar konur til, sem aldrei mundu fyrirgefa annað eins. Ég veit ekkert, hvernig á því stóð — ef ég á að segja sannleikann, þá alveg gleymdi ég henni, en hugsaði að eins um yður. En dæmið mig nú ekki meira, Die".

"Það er nokkuð undarlegt þetta", mælti Lady Die, "en ég skal ekki nefna það meira úr því yður er það á móti".

Þegar heim kom, var náttúrlega talað um þenna atburð. Alísa Kan náfölnaði. "Ég sé eftir, að ég var ekki með", mælti hún við kaftein Randolph.

"Ekki sé ég eftir því", svaraði hann, "það hefði getað orðið lífshætta fyrir yður".

"Já, en ég hefði þó getað létt undir með yður", svaraði hún. En kafteinninn veitti þessu enga eftirtekt. Hann var alt af að hugsa um Lady Caren og mann hennar.

Ekkert í heiminum hataði Lord Caren eins mikið eins og þjófnað. Ef einhver kom til hans og bað hann um mat, föt eða peninga, var hann fús að gefa honum það, en ef einhver stal frá honum, — það gat hann ekki fyrirgefið.

Einn morgun var honum sagt frá, að maður að nafni Yem. Conyers hefði skotið héra í skóginum, er tilheyrði herragarðinum. Skinnið, hausinn og lappirnar höfðu sést fyrir utan kofa hans. Nú var lávarðurinn spurður að, hvað ætti að gera við hann.

"Hegna honum fyrir það", var svarið. "Látið setja hann inn".

Þenna sama morgun var Lady Aðalheiður, kafteinn Randolph og Alísa Kan á gangi skamt frá höllinni. Þá komu boð til Lady Aðalheiðar frá

Mrs. Conyers, er var mjög veik, og bað hún hana að finna sig.

"Ég ætla að keyra yður þangað", sagði kafteinn Randolph, "það er of langt að ganga það".

"Viljið þér koma með, Alísa?" sagði Lady Caren.

Alísa svaraði ekki strax. Hún vonaðist eftir, að kafteinn Randolph byði sér það líka, en þegar hann talaði ekki neitt um það, að hún kæmi með, sagðist hún ekki vilja fara.

"Ekki get ég skilið, af hverju Alísa er orðin svona umbreytt", sagði kafteinninn, þegar hún var farin frá þeim. "Í fyrra kyntist ég henni og áleit hana vera þá skemtilegustu og kátustu unga stúlku, er ég hafði hitt. Af hverju skyldi hún vera orðin svona umbreytt?"

Lady Caren brosti. Hún þóttist vita, hvers vegna Alísa var orðin svona umbreytt.

Kafteinninn keyrði Lady Caren niður að húsi Mrs. Conyers. Hann beið úti á meðan hún gekk inn. Hún kom aftur eftir lítinn tíma, og hann sá, að illa lá á henni.

"Hvað hefir komið fyrir?" spurði hann. Get ég nokkuð hjálpað yður?"

Hún leit á hann með tárin í augunum. "Kafteinn Randolph", sagði hún og stundi við, "ég hefi séð svo mikla fátækt og eymd, að það sker mig í hjartað. Ég ætla að segja yður það alt saman. Sara Conyers hefir legið veik í marga mánuði. Hún segir, að maðurinn sinn sé sér mjög góður og þykji vænt um sig og börnin, en stundum kemur það fyrir, að hann drekkur sig fullan, og þá er hann að heiman í 3 til 4 daga, og þá hefir hún og börnin ekkert að borða. Í gærkveldi kom hann heim og þá sagði hún honum, að hún og börnin væru nærri dauð úr hungri og enginn matur eða peningar væru til í húsinu.

Hann gekk þá í burtu, náði í einn héra og sauð hann handa henni. Hann sagði, að einn af skógarvörðunum hefði gefið sér hann, til þess að hún yrði róleg. En nú kemur það í ljós, að hann hefir stolið honum, og Lord Caren hefir skipað, að láta setja manninn í varðhald".

"Hann á það skilið", sagði kafteinninn.

"Það getur verið, að hann hafi gott af, að honum sé dálítið hegnt fyrir það", sagði Lady Aðalheiður, "en það er kona hans, sem ég er að hugsa um. Hún grét svo sárt og ásakaði sig fyrir að hafa komið honum til að taka hérann. "Ef ég hefði ekki nefnt, að við værum soltin, hefði hann ekki gert það", mælti hún. Hún bað mig grátandi um, að biðja Lord Caren um, að náða hann. Ég er viss um, að ef þér hefðuð séð hina fátæku, ólánssömu konu, að þér hefðuð kent í brjósti um hana. Hún á fjögur börn, sem öll voru grátandi. Ég hefi aldrei kent í brjósti um nokkra manneskju eins og þessa veiku og fátæku konu".

"Það er mjög leiðinlegt", sagði kafteinninn.

"Það sýnist vera hart, að svo hundruðum skiftir af hérum skuli hlaupa í kring um kofa fulla af svöngu fólki, og þó má það ekki taka einn þeirra".

"Þetta megið þér ekki láta manninn yðar heyra. Honum er svo ant um, að lögunum sé hlýtt".

"Já, en það er hart að hegna manni, þó að hann taki einn héra, þegar svona stendur á. Hvað get ég gert til að fá hann lausan?"

"Farið þér til Lord Caren og biðjið hann að láta hann lausan", mælti kafteinninn.

Hún hristi höfuðið. "Það þori ég ekki, — það er að segja, ég held það þýði ekkert. Getið þér ekki ráðlagt mér neitt annað?"

Hinn ungi maður varð alveg forviða. "Það er alveg óhugsandi, að Lord Caren neiti yður um það.

Farið strax til hans, þegar við komum heim, og segið honum, hvað þér takið yður þetta nærri. Biðjið hann að gera það fyrir sjálfa yður, og ég er viss um, að hann gerir það"

"Haldið þér að hann geri það?" spurði hún mjög alvarlega.

"Já, það er ég viss um, Lady Caren. Þér gerið mig alveg forviða! Hver gæti neitað yður um nokkuð, sérstaklega þegar ekki er meira varið í það en þetta?"

---

## XV. KAPÍTULI.

Lady Aðalheiði leið alls ekki vel. Hún sá [illegible] að hafa nokkurntíma heimsótt hina veiku konu. [illegible] varð hún að biðja mann sinn bónar, og hún vis[illegible] vel, að það var ekki sagt, að hann bænhey[illegible] Og það sem verst var af öllu var, að kaftein[illegible] dolph vissi alt um þetta. Hvað myndi hann [illegible] hugsa, ef Allan yrði ekki við bæn hennar? Han[illegible] myndi sjá, að hún væri sú manneskja, sem Lord Caren vildi síst gera greiða. Hún var því mjög alvarleg þegar þau gengu inn í höllina.

"Ég held helzt, að þér séuð hræddar við að biðja Lord Caren um þetta", sagði kafteinninn hlægjandi. "Þér litið út eins og barn, sem á von á hirtingu".

Lady Aðalheiður reyndi að brosa, hún vildi ekki fyrir nokkurn mun láta hann vita, að það var sannleikur, sem hann sagði.

"Hvar er Lord Caren?" spurði hún þjón, sem hún mætti í hinum stóra gangi.

"Í tóbaksherberginu", var svarið.

Hún barði á dyrnar og henni var sagt að "koma

inn". Lord Caren leit upp brosandi, en brosið hvarf, þegar hann sá, hver inn kom, og óánægjuský sveif yfir andlit hans.

"Ég hélt það væri Die. Óskar þú að tala við mig, Lady Caren?"

Brosið hafði þá verið ætlað Lady Die en ekki henni. Hann gladdist yfir, að sjá frændkonu sína koma, en varð ergilegur, þegar hann sá, að það var konan hans.

"Ég kem til að biðja yður stórrar bónar", sagði hún blátt áfram, "og ég vona, að þér neitið mér ekki um hana".

"Þú mátt vera viss um, að ég vil gera það, ef hun er ekki ósanngjörn".

Málrómur hans var kaldur og kurteis, en hann dró úr henni allan kjark. Hún stóð alt af í dyrunum.

"Viltu ekki koma inn og fá þér sæti?" spurði hann og stóð upp.

Hún gekk inn, framhjá stólnum, sem hann hafði boðið henni og beint til hans. Hún lagði hendina sína litlu á handlegg hans, en aftur misti hún kjarkinn, hún fann að eins og hann hrylti við, er hún snerti hann. "Ég kom til að biðja þig bónar, ekki fyrir sjálfa mig, heldur fyrir aðra".

Hann hneigði sig kuldalega, en með sjálfum sér hugsaði hann, að þetta skyldi ekki koma fyrir aftur. Hún mátti ekki koma inn til hans hvenær sem hún vildi og biðja hann um það, er henni þóknaðist.

"Mér skal vera ánægja að hlusta á þig", sagði hann þurlega.

Hún leit til hans. Úr augum hennar mátti lesa alla þá sorg, er hjarta hennar átti.

"Ó, brostu til mín", sagði hún hrygg. "Talaðu hlýlega við mig, annars þori ég ekki að segja það, sem ég ætlaði að biðja þig um".

"En, kæra Lady Caren, þú ert þó ekkert barn, er gleðst af brosi en hræðist grettið andlit".

Tárin komu í augu hennar og varir hennar skulfu Flestir mundu hafa kent í brjósti um hana.

"Æ, bara að þú værir vingjarnlegri við mig, Allan".

"Þú gleymir samtali okkar", mælti hann, og andlit hans var hart og kalt. "Tár áttu ekki að koma fyrir."

Hún eldroðnaði og tárin stönsuðu. "Ég bið fyrirgefningar", mælti hún, "ég hafði gleymt því. Ég hefi ekki einasta tapað minni, heldur og skynsemmni líka, úr því ég bað um slíkt".

Það var honum sjálfum að kenna, að hún sagði þetta, en þó féll honum það illa.

"Mér þykir leiðinlegt", sagði hún, "að ég ónáðaði þig, en ég skal nú ekki tefja hér lengi. "Ég kom til að biðja þig að fyrirgefa Conyers".

"Þú gerir vel í því, eða hitt þó heldur", sagði hann beisklega. "Hann er sá versti þjófur og þorpari í öllu nágrenninu. Í staðinn fyrir, að láta hann sleppa við hegningu, vildi ég helzt láta hann líða tvöfalt við það, sem hann verður dæmdur til, og ég skyldi víst gera það, ef ég vissi, hvernig ég ætti að fara að því".

"Það er ekki hans vegna, heldur vegna konu hans, sem ég bið um þetta", mælti Aðalheiður. Og svo lýsti hún fyrir honum allri þeirri fátækt og eymd, er hun hafði verið sjónarvottur að. Hann hlustaði með eftirtekt á hana, og er hún þagnaði, sat hann nokkra stund þegjandi.

"Það hefir verið leiðinlegt fyrir þig að sjá og heyra þetta", mælti hann svo, "en ég get ekki séð, að ég geti neitt gert fyrir þig í þessu efni. Ég hefi fastlega ásett mér, að líða ekki þjófnað á jarðeign minni. Ef Conyers hefði beðið mig um hjálp, skyldi

hann hafa fengið hana, en nú vildi hann heldur brjóta lögin, og því verður hann nú að líða fyrir það".

"Já, en konan hans hefir ekkert ilt gert, og þó líður hún miklu meira við þetta en hann. Þó hann sé í fangelsi, fær hann þó bæði mat og drykk, en konan og börnin svelta".

"Það gengur nú svo í heiminum", mælti hann, "að sá saklausi líður fyrir þann seka. Þú veist, að ég get ekki ráðið bót á því".

"Já, það gengur nú svo", sagði hún. En í hjarta sér hugsaði hún: "Hver ætli viti það betur en ég?"

Hún ætlaði að fara við svo búið burtu úr herberginu. Hann var að vísu ekki ókurteis við hana, en það var auðséð, að honum geðjaðist ekki að því, að hun skyldi vera þar. Hana langaði svo til að segja nokkuð, er myndi fljótt hafa haft þau áhrif á hann, að hann ekki neitaði henni um jafnlítið, en hún kaus samt heldur að vera blíð og auðmjúk. Hún hugsaði líka um, hvað kafteinn Randolph myndi segja er hann vissi, að hún hefði fengið afsvar.

"Lord Caren", sagði hún blíðlega. "Í guðs nafni veittu mér bæn mína. Það er meira en meðaumkvun með hinnni fátæku konu, sem knýr mig til að biðja þig þessarar bónar, en ástæðuna fyrir því get ég ekki sagt þér".

Hún greip svo um hendur hans og leit tárvotum augum framan í hann. Eitt augnablik leit út fyrir, að hann ætlaði að láta undan, en svo sagði hann mjög alvarlega:

"Ég get það ekki, Lady Caren. Mér þykir leiðinlegt að neita þér um jafnlítið og þetta, en trúðu mér, ef ég léti þetta óhegnt, þá væri mér alveg ómögulegt í framtíðinni, að vernda skóga mína fyrir næturþjófum, og ég fullvissa þig um, að það hefði vondar afleiðingar í för með sér".

"Þú neitar þá bæn minni".

"Já, en mér fellur það mjög illa, oa ég vona, að í næsta skifti, er þú biður mig um eitthvað, geti ég orðið við bæn þinni".

Í nokkrar mínútur var Aðalheiður eldrauð í framan, og það var sem reiðiyrði brynni á vörum hennar, en hún hélt því til baka. Roðinn hvarf og hún fölnaði upp.

"Mér fellur illa, að hafa ónáðað þig með nærveru minni, og auðmýkt mig til einskis", sagði hún um leið og hún gekk út úr herberginu. Hann bað hana ekkert um að dvelja lengur. Honum fanst að hann hafa breytt rétt, en aftur á móti þótti honum leiðinlegt, að geta ekki orðið við bón hennar.

"Það er alt af leiðinlegt, þegar kvenfólk fer að blanda sér inn í þesshattar. Hjá þeim ráða tilfinningarnar mestu, en skynsemin situr á hakanum".

Hann tók aftur til að skrifa, en nú gekk það ekki eins vel og fyr. Það var sem svifi milli hans og pennans hið tárvota andlit konunnar hans. Honum leið illa, og svo gekk hann út úr herberginu.

Lady Aðalheiður vildi ekki láta neinn sjá að hún hefði grátið, og gekk þess vegna til sinna eigin herbergja.

"Hvernig á ég að geta borið þetta til lengdar?" sagði hún. "Ó, guð, hjálpaðu mér til að bera alt þetta með þögn og þolinmæði. Bara að hann vissi það alt saman, þá myndi hann breyta öðruvísi við mig, en hann gerir. En hann skal aldrei fá að vita það svo framarlega, sem guð gefur mér þrek til að bera það".

En hún grét eins og hjarta hennar ætlaði að springa. Það var svo hart, að hún skyldi vera sem ambátt þar sem hún átti að vera húsmóðir, og hún hlýddi með ótta og hræðslu þar sem hún hefði átt að ráða öllu.

"Hann að segja mér, að sá saklausi líði fyrir þá seku!" hrópaði hún, "eins og ég viti það ekki. Fyrir hvern líð ég? Hvers vegna er ég ánægð með að dvelja hér? Eiginkona en ekki elskuð. Það er troðið á hjarta mínu, ást mín einskis metin, og ég er höfð að háði og spotti. Og hvers vegna þoli ég alt þetta? O, guð, því verð ég að þola alt þetta?"

Eftir, að hafa útausið þannig hjarta sínu, varð hún rólegri. Hún þvoði sér úr volgu vatni og klæddist mjög skrautlega. Hún hugsaði sér, að hvorki kafteinn Randolph eða Lady Die skyldu komast að því, að henni félli miður, að hún fékk ekki bæn sína uppfylta. Svo gekk hún niður í salinn, rólega og brosandi eins og ekkert væri um að vera. Kafteininum var þar, og hún sá, að hann hafði verið að vonast eftir sér. Hann gekk hratt á móti henni og sagði: "Þér eruð brosandi, og ég er viss um, að þér hafið góðar fréttir að færa Mrs. Conyers".

"Nei, það hefi ég ekki".

Hann leit á hana alveg hissa.

"Neitaði Lord Caren bæn yðar?"

"Já, það var líka alveg vitlaust af mér að biðja um það. Þessi Conyers er einhver sá versti næturþjófur hér í kring og Lord Caren getur ekki látið svoleiðis mann sleppa hjá hegningu".

Alt þetta samtal heyrði Lord Caren, því hann kom inn í þessu að leita að Lady Die.

---

## XVI. KAPÍTULI.

Þessi atburður hafði meiri áhrif á Lord Caren, en hann vildi kannast við. Hann heyrði, hversu á-

kaft hún hafði afsakað hann, og þó var hann nýlega búinn að auðmýkja hana. Hversu margar konur myndu ekki í hennar sporum hafa sýnt ónot og glaðst yfir, að heyra honum niðrað og kallaðan harðstjóra. Þetta var þá ástæðan fyrir því, að hún vildi fá ósk sinni framgengt, en sem hún ekki vildi nefna. Hún vildi ekki láta kaftein Randolph vita, að hún hefði beðið hann bónar, en fengið afsvar. Hann gat ekki annað en dáðst að þolinmæði hennar, og hvernig hún þoldi honum allan þann kulda og ónærgætni, er hann svo oft sýndi henni.

"Það eru ekki margar konur í heiminum, sem eru líkar henni", hugsaði hann. En þó að hann hugsaði hlýlegar til hennar en vani hans var, dreymdi hann þó ekki um ást

Nokkrir gestir voru boðnir til miðdagsverðar, og eftir máltíðina hópuðust flestir af þeim að stórum glugga, er sneri í vestur. Kveldloftið streymdi inn um hann og flutti með sér ilm af margvíslegum blómum, sem uxu fyrir utan. Fuglarnir sungu á trjánum og alt var kyrt og rólegt. Lady Aðalheiður sat á stól við gluggann, og golan feykti til og frá hinu mikla hári hennar. Hún var svo fögur og skrautlega búin, að allir dáðust að henni, ekki síst Lady Die.

Kafteinn Randolph virti hana nákvæmlega fyrir sér, og undraðist yfir því, að það var sem óánægjuskuggi hvíldi yfir andliti hennar. Alísa Kan varð æ meira og meira afbrýðissöm, er hún sá, hve mikla eftirtekt kafteinninn veitti Aðalheiði. Loks gekk kafteinninn til Lady Aðalheiðar, studdist við stól hennar og sagði: "Ég er að reyna að ráða eina gátu".

Án þess að snúa sér við, spurði hún hvort hún gæti nokkuð hjálpað honum.

"Af hverja kemur það, að þér, sú fegursta og

gáfuðasta af öllum konum, eruð ávalt hrygg að sjá?"

Hún roðnaði og fullyrti, að svo væri ekki. En hann sagði, að þó hún gerði að gamni sínu og sýndist fjörug, klæddi sig vel og brosti öðru hvoru, þá lægi þó þunglyndi á bak við.

"Ég hefi enga ástæðu til að vera þunglynd eða óánægð", sagði hún. "Það hljóta því að vera einhverjir drættir í andliti mínu, er gera þetta að verkum".

"Nei, þér hafið enga ástæðu til að vera hryggar, en ég held — — —"

Hann komst ekki lengra með setninguna, því hún sneri sér að honum og leit hræðslulega framan í hann. Hún sá, að Lord Caren var á leiðinni til þeirra. Hann leit svo vingjarnlega og ánægjulega út, að hún varð alveg forviða. Hann settist niður við hlið hennar. "Nú get ég sagt þér góðar fréttir", sagði hann. "Mér þótti svo fjarska leiðinlegt, að neita bæn þinni í morgun, en nú hefi ég hugsað um það, og ég vona, að þú verðir ánægð með það, sem ég hefi gert".

Aldrei gleymdi hann þeirri gleði, er skein út úr andliti hennar við þessi tíðindi, og gerði hana líkasta engli.

"Ég gat ekki látið Conyers sleppa við hegningu, en ég hefi gert tvent, ég hefi séð um, að hann fær væga hegningu, og ég hefi séð fyrir konu hans og börnum".

"Á hvaða hátt?" spurði hún og leit framan í hann". Augu hennar leiftruðu af gleði.

"Nyrzta "port"-herbergið stendur autt, þangað getur hún flutt. Hún fær nóg til að lifa af, og þú getur hjálpað henni eins mikið eins og þú vilt".

Hún þakkaði honum innilega fyrir það, sem hann hafði gert. "En hvað þú ert góður", sagði hún.

Hann brosti og var mjög ánægður yfir því, að hafa gert hana ánægða og látið fólk sjá, að hann virti óskir og vilja hennar.

Hún komst mjög við af þessu. Gleðin skein út andliti hennar og hið yndislegasta bros lék um varir hennar. Hann hafði verið svo vingjarnlegur við hana, og hún áleit, að vinátta ætti skylt við ást. Gat ekki skeð, að smámsaman lærði hann að elska hana? Hana næstum svimaði, þegar hún hugsaði til, hvílíkrar hamingju hún yrði þá aðnjótandi.

Hun gekk út úr herberginu, þar var hlátur, söngur og hljóðfærasláttur. Hún vildi vera ein sér og hugsa um hamingju sína. Hann, maðurinn hennar, er hún elskaði svo heitt, hann hafði hugsað um hana allan daginn. Það hafði hrygt hann, að neita henni og hann hafði alt af verið að hugsa um, hvernig að hann gæti bætt úr því. Hún hafði aldrei verið svona glöð síðan daginn þegar hún fyrst vissi, að hún yrði að líða fyrir syndir og órétt annara. Hún blessaði í hjarta sínu hina fátæku konu, sem óbeinlínis var orsök í þessari gleði hennar.

Hann hafði hugsað um hana allan daginn! Var það sá sami maður, sem fyrr hafði sagt, að sér geðjaðist ekki að henni? Hún þakkaði guði fyrir, að hafa gefið sér þolinmæði til þess, að bera það, sem hún hafði orðið að líða, og hún vonaði, að með tímanum myndi sér takast að vinna hann.

Hún gekk út á svalirnar. Þar voru alls konar blóm. Hún horfði til himins, og þakklætistár glitruðu í augum hennar. "Guð gefi, að hann einhverntíma elski mig", hugsaði hún.

Alt í einu heyrði hún fótatak.

"Hver er þar?" spurði Lord Caren. Hún gekk inn. "Ert það þú, Aðalheiður? Mér fanst ég sakna þín".

Þetta var í fyrsta sinni, sem hann nefndi hana

Aðalheiði, og hljómurinn af því var henni sem inndælasti hljóðfæraslátttur.

"Mig langaði svo til, að vera ein í nokkrar mínútur", sagði hún, "en nú fer ég inn aftur. Hún tók um hendi hans og kysti hana. Hann dró hana ekki að sér, heldur lagði hina á höfuð henni. "Viðkvæma hjarta!" mælti hann. "Viðkvæma, meðaumkvunarfulla hjarta!" Og svo gekk hann í burtu.

Nú var hún ennþá glaðari. Hann hafði talað svo blíðlega við hana, og hönd hans hafði hvílt á höfði henn hafði hvílt á höfði hennar.

"Ég skal með tímanum vinna hann", mælti hún. "Himneski guð, hjálpaðu mér til að vinna hann, og nokkra stund stóð hún sem í draumi. En er hún ætlaði aftur inn, sá hún vasabók liggja við fætur sínar.

Hún brosti. "Nú hefi ég fundið eitthvað verðmætt", hugsaði hún. Hún hélt bókinni upp við ljósið og leitaði eftir nafni á henni. En þegar hún sneri henni til, losnaði bandið utan af henni og ljósmynd datt út úr henni. Hún tók hana upp, og sá, að það var mynd af óvanalega fríðri konu, andliti, sem ekki var hægt að gleyma, en sem fylgdi huga manns alt til dauðans. Það var mynd af spánskri konu, og Lady Aðalheiður hafði aldrei á æfi sinni séð jafnfallegt andlit.

Hún horfði á myndina. Hver gat hún verið, þessi fallega kona? Hún sneri myndinni við, og á bakhliðinni var skrifað með hendi manns hennar: "Nita. Töpuð 14. júní".

Myndin datt úr hendi hennar, og hún rak upp lágt hljóð. En svo tók hún myndina upp aftur og leit á hana. Henni fanst augun horfa á sig og segja: "Já, horfðu nákvæmlega á mig. Hann elskaði mig, en tapaði mér daginn sem hann giftist þér. Ég átti og á enn hjarta hans, og því mun

hann aldrei elska þig. Já, horfðu á mig, ég á hjarta hans".

Henni fanst, sem hinar fögru varir töluðu þetta, þó það einungis væru hennar eigin hugsanir. Hún lét því næst myndina í bókina aftur. Gat ekki skeð, að einhver annar en Lord Caren ætti bókina? En sú von brást strax, því nafn hans stóð þar og ýmsir reikningar, er tilheyrðu honum, voru þar. Það var því enginn efi á, að hann átti bókina.

Aftur tók hún myndina og gekk út á svalirnar, og virti hana enn betur fyrir sér. Hún átti án efa hjarta manns hennar, og hún þurfti ekki eftir þetta að gera sér von um að vinna það. Hún stundi þungan.

Það virtist vera svo hart, að hún fyrir hálfri stundu síðan hafði verið svo glöð og ánægð og í fyrsta skifti mætt vinskap og blíðu frá hálfu manns síns, en nú var heimurinn í augum hennar auðn ein og myrkur. Hver var hún, er hann hafði elskað og tapað 14. júní?

---

## XVII. KAPÍTULI.

Lord Caren hafði gengið inn til gesta sinna. Aldrei hafði hann hugsað jafnhlýlega til konu sinnar og nú. Hvað hún gat verið þakklát, blíð og hjartagóð. Hann var svo ánægður með sjálfan sig, fyrir að hafa látið að óskum hennar, og honum þótti vænt um að sjá, hvað henni þótti mikið til þess koma. Þegar hann fór að hugsa um hana, fanst honum að hún vera mjög yndisleg og góð. Hann skildi ekkert í því, að hún, jafnfögur, skynsöm og gallalaus, skyldi hafa samþykt hina skammarlegu erfðaskrá. Það var

svo ólíkt henni. Þegar hann lærði að þekkja hana, fanst honum, að hún myndi vera sú síðasta í öllum heiminum, er gerði sig seka í því. Hann þóttist viss um, að hann myndi aldrei skilja þetta, en honum datt náttúrlega ekki í hug, að ef hann vissi það, yrði það honum hið þungbærasta, er fyrir hann gæti komið. Hann hugsaði um, hve þakklát hún hafði verið, og hve lítið það hafði kostað hann, að veita henni þessa ánægju. Hann lofaði því með sjálfum sér, að hann skyldi aldrei framar neita henni um, að hjálpa þurfandi fólki, hún hafði svo mikla ánægju af því. Rödd hennar hafði skolfið, er hún þakkaði honum, og honum fanst hendi sín brenna, sem hún hafði kyst. Hann saknaði hennar úr herberginu, og hann langaði til að sjá hana aftur.

En þegar hún loksins kom, var orðin mikil breyting á henni. Gleðin, sem hafði skinið úr augum hennar, var horfin, en í staðinn komin sorg og örvænting. Vanalega var hann sá fyrsti, er hún leit til, þegar hún kom inn, en nú gekk hún framhjá honum eins og hún sæi hann ekki. Hvílík umbreyting!! Lord Caren vissi ekki, hvað hann átti að halda.

Kafteinn Randolph settist strax hjá henni, og hún talaði við hann miklu glaðlegar og hlýlegar, en nokkru sinni áður. En hann fann þó vel, að öll gleði hennar var uppgerð, og þrátt fyrir það, þó bros léki um varir hennar, þá skulfu þær af geðshræringu. Hann sá, að hún var hryggari en nokkru sinni fyr. Lord Caren gekk til þeirra en hún lét sem hún taki ekkert eftir honum.

"Lady Aðalheiður", sagði hann, "viltu syngja fyrir okkur?"

"Nei", sagði hún, "ég vil heldur sitja kyr og tala við kaftein Randolph".

Hún brosti framan í kafteininn, en leit ekki til

manns síns. Hann spurði hana að einhverju fleira, og hún svaraði honum, en leit aldrei á hann.

"Af hverju talar hún svona kuldalega við mig og lítur ekki einu sinni við mér", hugsaði hann. Er þetta sama konan, sem fyrir hálfum tíma kysti á hönd mína og brosti svo blíðlega til mín?"

Aðalheiður lét sem hún væri hin glaðasta alt kveldið. Gestunum fanst hún aldrei hafa verið jafnskemtileg. Lady Die var alveg hrifin af henni. Alisa Kan var afbrýðissamari en nokkru sinni áður. En Aðalheiður lét alt kveldið sem hún ekki sæi mann sinn, og nú fyrst lærði hann að meta hið vingjarnlega og hlýlega viðmót hennar, og hann saknaði þess.

Um kveldið, er þau skyldu ganga hvert til sinna herbergja, gerði Lord Caren það sem hann aldrei hafði gert fyrri. Hann rétti henni hendina, þegar hann bauð henni góða nótt, en hún að eins hneigði sig djúpt og leit ekki við hönd hans.

"Hví skyldi ég hreyfa við henni?" sagði hún við sjálfa sig. "Hún tilheyrir þeirri, sem hann tapaði 14. júní".

Hverju getur ekki afbrýðissemi komið til leiðar? Alt til þessa tíma hafði hún getað sætt sig við, að hann ekki elskaði hana, en nú, er hún vissi að hann elskaði aðra, þá var úti með þolinmæði hennar. Henni fanst, að í hjarta sér brenna eldur, sem hún hafði ekki þekt fyr. Allan þann tíma, sem hún hafði lagt sig alla fram til að vinna hann, hafði hugur hans dvalið hjá þessari spönsku konu. "Hann hlýtur að hata mig. Hörð eru forlög mín. Ég hefi næstum beðið hann um að elska mig. Ég hefi kyst hönd hans á sama tíma sem hann hataði mig af því, ég stóð á milli hans og konu þeirrar, sem hann elskar".

Þessi uppgötvun breytti framkomu hennar alger-

lega. Í viðmóti sínu gagnvart Lord Caren var hún nú hin kaldasta. Allir veittu því eftirtekt, ekki síst Lady Die.

Morguninn eftir ætlaði alt fólkið að fara skemtiferð. Lady Die vildi helzt ríða við hlið Lady Aðalheiðar, og Lord Caren skoðaði sig alt af sem sjálfsagðan fylgdarmann Lady Die. Þau þrjú riðu því saman. Hann virti konu sína fyrir sér og gat ekki annað en tekið eftir, hve fögur hún var. Hún bar sig vel á hestbaki, og útiloftið hafði sett roða í kinnar henni, svo allir hlutu því að dáðst að henni. Já, hann hlaut að viðurkenna það með sjálfum sér, að í seinni tíð dvaldi hugur hans æ meira og meira hjá henni.

Þegar þau fóru í gegnum lítið þorp, þá sagði Lady Die :

Allan, hér býr fóstra móður minnar. Ég hefi lofað, að heimsækja hana í dag".

"Gamla Mrs. Dingley", sagði hann. "Hún býr hér í litlu húsi við veginn. Ég kem oft til hennar yðar vegna, Die".

Þegar þau komu að húsi Mrs. Dingley, kom ungur maður í hendingskasti út úr húsinu. Hann var að sjá í mjög vondu skapi. Lady Die bað Lady Aðalheiði, að koma með sér inn, því hana langaði til, að hún kyntist gömlu konunni og hjálpaði henni, því hún var fremur fátæk. Lord Caren hjálpaði þeim af baki og svo gengu þau öll inn í húsið. Þar sat hin gamla kona hágrátandi, og hjá henni var ung kona, einnig mjög sorgbitin að sjá. Þegar þau höfðu heilsað, fór gamla konan að segja þeim raunasögu sína. "Maðurinn, sem þið mættuð, var sonur minn og þessi kona er konan hans", sagði hún. "Hann er einasta barnið mitt og ég sé hann aldrei framar".

Lady Die tók um hendur gömlu konunnar, og bað hana að segja sér, hvað að henni gengi.

Gamla konan sagði: "Sonur minn varð ástfanginn í tveimur stúlkum. Anna, sem hér situr, var önnur þeirra. Hann kyntist henni þegar hann var drengur, og lofaði þá að eiga hana. Ég hefi ekkert út á hana að setja. Hún er góð og dugleg stúlka, en skynsöm er hún ekki. Svo kom önnur stúlka hingað, Annabel Davis að nafni, svo fögur, að allir dáðust að henni, og syni mínum leist svo vel á hana, að hann varð næstum vitlaus af, að geta ekki fengið hana. Hann bað Önnu um, að leysa sig frá loforði sínu, en það vildi hún ekki gera. Hann varð að standa við það, sem hann hafði lofað henni, nefnilega að ganga að eiga hana".

"Mér þótti svo vænt um hann", sagði Anna grátandi.

"Já, hún vildi ekki tapa honum", hélt hin gamla kona áfram, "og svo átti hann hana. Annabel varð frávita af reiði og lét sem hún sæi ekki son minn. En þeim, syni mínum og Önnu, samdi ekki saman, og aldrei var hér friður né ánægja".

"Þér verðið að taka kjark í yður og reyna að
"Ég vildi að ég væri dauð", sagði Anna.
vinna mann yðar aftur", sagði Lady Die. "En þolinmóð verðið þér að vera". En Lady Aðalheiður gekk til hinnar ungu konu, lagði hönd sína á handlegg hennar og sagði: "Það er satt, Anna, við forlögum líkum yðar, fæst engin hjálp nema dauðinn". Það var sem orð hennar kæmu frá hjarta hennar sjálfrar.

Lord Caren leit á hana, en hún virtist enga eftirtekt veita honum né Lady Die.

"Að biðja um brauð", sagði hún ennfremur, "og fá stein, — að gefa manni yðar alla ást yðar alt líf yðar, en fá í staðinn að eins fyrirlitningu, enginn veit hvað það er sárt, nema guð einn. Aðrir geta sagt yður að herða upp hugann og byrja nýtt líf, en ég

veit, að það bezta, sem getur komið fyrir þá konu, er d a u ð i n n".

Strax eftir þessi orð gekk Lady Aðalheiður út úr húsinu, án þess að líta í kring um sig.

Lord Caren leit alveg forviða á Lady Die. Hann vissi ekki, hvað hann átti að hugsa.

---

## XVIII. KAPÍTULI.

Lady Die og Lord Caren fóru út rétt á eftir, og gengu til hesta sinna. Lady Aðalheiður stóð þar, alveg róleg að sjá, en stolt og tígugleg. Hún brosti til Lady Die, og enginn hefði getað ímyndað sér, að hún hefði fyrir nokkrum mínútum síðan verið í jafnmiklum geðshræringum og hún hafði verið.

"Kæra Aðalheiður", sagði Lady Die, "þér eruð líkastar hvirfilvindi, sem kemur snögt og hverfur snögglega, — ég gat tæpast náð andanum áðan".

"Er það svo? Ég kemst stundum í svo miklar geðshræringar, og veit þá varla hvað ég segi". Hún sá á andliti manns síns, að hún mundi ekki hafa breytt skynsamlega, hún hafði aldrei séð hann jafnreiðan. Hann talaði ekki eitt einasta orð við hana, en hló og gerði að gamni sínu við Lady Die. Hann leit ekki einusinni við henni, og hún sá mjög eftir að hafa sagt það, sem hún sagði í húsinu. "Hvað þýðir fyrir mig öll mín þolinmæði og umburðarlyndi, þegar alt er lagt út á versta veg fyrir mér?" sagði hún við sjálfa sig.

Þegar þau komu aftur til hins fólksins, reið Lady Die til manns síns, og sagði honum það, er við hafði

borið. Aðalheiður var því ein hjá manni sínum á meðan.

"Allan", mælti hún, "ég sársé eftir, að ég sagði það, sem ég talaði áðan, ég hugsaði hreint ekkert út í það, sem ég sagði".

"Mér er alveg sama", sagði hann. "Þó þú viljir láta allan heiminn vita, hvaða skilyrðum sambúð okkar er bundin, þá máttu það mín vegna".

"Ég vona, að þú takir þér það ekki nærri", mælti hún blíðlega.

"Nei, langt frá, það kemur mér ekkert við. Þú ert frjáls að segja meiningu þína. En það geta verið skiftar skoðanir um, hvort alt af eigi við að segja hana. En nú verð ég að fara, ég lofaði gestunum, að vísa þeim veginn til Gaston Copse".

Hann reið í burtu, og alla leiðina forðaðist hann hana, og eftir að þaukomu heim, gekk það eins. Hún var mjög sorgbitin yfir því. "Eitt augnablik unlt af óþolinmæði hefir eyðilagt fyrir mér það, sem ég var búin að ávinna mér með margra mánaða þolinmæði", hugsaði hún. En þegar hún hugsaði um myndina af henni, sem hann tapaði 14. júní, þá hurfu allar blíðari tilfinningar gagnvart honum úr hjarta hennar.

"Mér er ómögulegt að vinna hann, úr því hann elskar jafnfagra konu og myndin er af", hugsaði hún.

Sambúðin ð milli þeirra varð æ kaldari og kaldari. Lord Caren tók sér mjög nærri, það sem kona hans hafði sagt á hinu óhamingjusama heimili. Hann hafði verið farinn að veita konu sinni nána eftirtekt. Hann var farinn að dáðst að hinni yndislegu framkomu hennar í öllum greinum, og honum þótti vænt um að sjá, hve öllum þótti mikið til hennar koma. Svo vildi hann heldur ekki, að gestir hans vissu um hina köldu sambúð þeirra.

Nú var þessu öllu lokið. Hún hafði að fyrra

bragði gefið til kynna, hvernig að sambúð þeirra væri varið, svo Lady Die hafði heyrt. Allir skildu, við hvað hún átti.

Hann hugsaði sér, að héðan af skildi hann ekkert gera til að bæta samkomulag þeirra. Hún hafði nú komið því svo fyrir, að þau byggju saman um tíma, en skildu svo, og berðu því við að þeim gæti ekki lynt saman. Hún gat nú sjálf ráðið, hvenær það yrði. En Lord Caren hugsaði ávalt meira og meira um það, hvers vegna þessi blíða, þolinmóða og hægláta kona hefði átt hann á móti vilja hans.

"Það getur ekki hafa verið af því, að hún elskaði mig", hugsaði hann, "til þess er hún of sönn og göfug kona. "Nei, þetta fæ ég aldrei skilið. Því meir sem ég hugsa um það, því minna skil ég í því".

Um þessar mundir fékk Lord Caren bréf frá móður sinni, gömlu Lady Caren. Hún spurði hann, hvort hún mætti koma og heimsækja hann. "Ég hefði mikla ánægju af, að koma til Brookland nú", skrifaði hún, "ég myndi hitta svo marga þar, sem mig langaði til að sjá, og ég vildi svo gjarnan dvelja þar nokkrar vikur".

Lávarðurinn rétti konu sinni bréfið og hneigði sig kuldalega. Hann skildi ekkert í, að hún roðnaði og varir hennar skulfu.

"Á ég að svara því, eða vilt þú gera það?"

"Það er skrifað til þín, svo þú náttúrlega svarar því, eg ætla líka að skrifa henni nokkrar línur".

Þenna dag var hún miklu hryggari en vanalega. Hún kveið svo fyrir, að láta Lady Caren sjá, hve skamt hún var á veg komin með að vinna ást manns síns. Hún vissi, að Lady Caren myndi á augabragði sjá, hvernig sakirnar stóðu, að á milli þeirra var múr, sem illa mundi ganga að brjóta niður.

"En ég get ekki að því gert", hugsaði hún. "Ég hefi gert það, sem ég hefi getað, og ekki sé ég

eftir loforði mínu, en það er sem þungur steinn hvíl á hjarta mínu, og líf mitt er eyðilagt".

"Er von á móður yðar, Allan?", sagði Lady Die "ég er í sannleika glöð yfir, ef svo er".

"Það er eðlilegt, henni þótti ait af svo vænt um yður, ég var næstum afbrýðissamur yfir því". m

Die hristi alvörugefin höfuðið. "Ég á við, Allan, að ég óska eftir að hún komi hingað, því ég álít að hér sé engin vanþörf á, að tala um fyrir sumum hverjum. Ég er of ung og óreynd til þess, og svo kæri ég mig ekki um, að blanda mér inn í annara málefni".

Hann skildi fullvel, hvað hún meinti, nefnilega sambúðina milli hans og konu hans. Hann lét þó sem hann skildi hana ekki.

"Við erum öll of óskynsöm", sagði hann, "og það skaðaði víst engan, þó manni væri sagt til syndanna af einhverjum, sem maður virti".

"Ég vildi óska, að sumir okkar hefðu minni skynsemi, en meiri sanngirni til að bera", sagði Die.

Hann kysti á hendi hennar. "Kæra frændkona, sagði hann, "prestar kenna, vitrir menn halda ræður sínar, en sérhver maður þekkir sorgir síns eigin hjarta".

Lady Die svaraði ekki. Hún fann, að Lord Caren talaði þetta af hjartans sannfæringu. Hún fann, að hann bar í hjarta sér djúpa sorg og að hann myndi alls ekki vera tilfinningarlaus eða vondur maður. Hún vissi, að hér voru tvær óhamingjusamar manneskjur, og þó höfðu bæði til að bera æsku, fegurð, gáfur og auðæfi. Hún fann, að hún myndi seint skilja, af hverju það kæmi, að þeim gæti ekki samið.

Lady Caren móðir Allans var komin. Það allra fyrsta sem hún gerði, var að virða tengdadóttur sína

fyrir sér, og hún sá strax, að hún var langt frá að vera ohamingjusöm. Hún flýtti sér því næst til herbergja sinna til að hugsa í næði um raunir sínar.

Að vísu leit út fyrir í fljótu bragði, að alt væri eins og það ætti að vera. Lord Caren var bæði skemtilegur og gestrisinn húsbóndi, sem gerði alt til að skemta gestum sínum. En Lady Caren þurfti ekki að dvelja þar lengi til að sjá, að sambúðin á milli sonar síns og tengdadóttur var kaldari en sjálfur dauðinn.

Strax fyrsta kveldið reyndi hún að tala við Aðalheiði í einrúmi, en það var sem hún forðaðist að vera ein með henni. En Lady Caren fann upp ráð. "Það er svo heitt hér inni, Aðalheiður", sagði hún. "Viltu ekki koma með mér út í laufskálann. Mig langar svo til að sjá 'burknirinn'."

Á Englandi er 'burknir' í miklu afhaldi og hafður í sérstöku húsi, þar sem hann er ræktaður út af fyrir sig.

Þar voru gosbrunnar um alt, og til og frá voru bekkir, til þess að menn gætu setið þar.

Þegar þær komu þangað, settust þær niður og Lady Caren sagði: "Mig langaði til að tala við þig, Aðalheiður. Segðu mér, hvort þú ert hamingjusöm".

'Ég kvarta ekki", sagði Aðalheiður og sneri sér undan, "og aldrei skal ég gera það, Lady Caren, það máttu vera viss um".

"Ég spurði ekki þess vegna, Aðalheiður", sagði Lady Caren, "því þú ert of góð og göfug stúlka til þess að þú kvartir. En ég er svo áhyggjufull þín vegna. Ég vonaði svo fastlega, að þú með þinni fegurð, blíðu og þolinmæði myndir vinna Allan".

"En nú er það ekki, það getur hver og einn séð, Lady Caren", sagði Aðalheiður beisklega.

"Já, ég sé það Aðalheiður, og þú trúir ekki, hve ég tek það nærri mér".

"Það er ekkert hægt að hjálpa því, og ég álít bezt að tala ekki um það meira".

"Ó, vertu ekki stolt, Aðalheiður, ég held að ég líði meira en þú".

"Ég er ekki stolt", sagði Aðalheiður raunalega. Ég veit ekki, af hverju ég ætti að vera það. Ég veit, að einhvervarð að líða fyrir það, sem þú þekkir til. og ég er viljug til að gera það, en mér finst ekki þurfa að tala meira um það".

"Já, mælti Lady Caren, "ég hefi hugsað alt of mikið um sjálfa mig, ég hefi heimtað of mikið af þér, án þess að hafa nokkurn rétt til þess. Ég sé nú, að það var rangt látt og illa gert, og ég sé svo fjarskalega eftir að ég gerði það".

"Þú gerðir það í beztu meiningu" sagði Aðalheiður, "og Allan hefir liðið engu síður en ég. Hjónaband okkar hefir frá því fyrsta verið mjög óhamingjusamt".

"Þá hefir þér liðið illa", sagði Lady Caren. "Eiginkona og ekki eiginkona, húsmóðir á heimilinu, en þó án nokkurrar stöðu, sjálf elskandi en ekki elskuð. Ó, hversu hörð forlög hefi ég lagt þér á herðar?"

"Ég get borið það", sagði Aðalheiður lítið eitt glaðari. "Ég get borið það betur, en hann hefði getað borið sorgina og skömmina".

Lady Caren laut niður og kysti hana innilega. "Ég vildi", sagði hún, "að hann þekti þig eins vel og ég geri, þá myndi hann elska þig meira en alt annað í heiminum. Aðalheiður, ég hefi engan rétt til að spyrja þig, ég hefi gert þér nógu mikið ilt, en segðu mér· Hefurðu gert það sem þú hefir getað til að vinna hann?"

"Já, ég hefi gert alt, sem í mínu valdi stendur,

en alt er árangurslaust, ég sé ekki, að mér þýði neitt að reyna það meira. En eitt vil ég biðja þig um, Lady Caren. Nefndu aldrei oftar sambúð mína og manns míns. Ég þoli það ekki, ég get liðið og borið harm minn í hljóði, en ég þoli ekki að heyra aðra tala um það. Nú verð ég að fara inn aftur, gestir mínir munu sakna mín''

Og nú yfirgaf hún tengdamóðir sína.

Arnljótur B. Olson

---

## XIX. KAPÍTULI.

Lady Caren vildi ekki ganga strax aftur inn í gestasalinn. Henni leið mjög illa, ver en henni hafði liðið nokkru sinni áður. Hún hafði gert alt sem hún gat, til þess að sonur hennar gengi að eiga hina yndislegu og fögru Aðalheiði, en nú sá hún, að hjónaband þeirra var mjög óhamingjusamt. Aðalheiður var orðin svo breytt, að hún varla þekti í henni hina glöðu, barnslegu og blíðu stúlku, sem hún hafði alið upp. Nú var hún orðin köld, nærri þóttaleg, og hið þýða og þægilega viðmót hennar var horfið.

"Hún er mjög óánægð, það sé ég betur en hún hyggur", hugsaði Lady Caren með sér, "og ég er viss um, að þess verður ekki langt að bíða, þar til hún hefir ekki þolinmæði til að bera þetta lengur. Segi hún Allen frá öllu, mun það drepa mig, því ég er ekki sterk fyrir, — en ekki get ég láð henni, þó hún gerði það. Hver gæti þolað þegjandi það sem hún verður að þola? Hún sem daglega verður að þola rangindi og afskiftaleysi manns síns".

Lady Caren sat þenna dag alein innan um hin

yndislegu blóm. Hún var farin að eldast, en var ennþá lagleg og mjög tiguleg kona. „Eg sé engin ráð við þessu", sagði hún við sjálfa sig. „Það hefði verið betra, að þau hefðu aldrei gifst. Æ, að öll þessi eymd skuli vera að kenna einum manni".

Alt í einu hrökk hún við við það, að hendi var lögð á herðar henni. Það var sonur hennar, sem kom inn til hennar.

„Mamma! Það er óvanalegt að finn þig eina, og jafn hrygga eins og þú litur út fyrir að vera. Vekur vera þín á Brookland upp gamlar endurminningar?"

„Nei, Allan, en mér þykir vænt um, að þú komst. Mig langaði svo til að tala við þig".

Hann settist niður við hlið hennar. „Mér finst það vera eins og þegar ég var drengur, að sitja hér hlið þína. Ætlarðu að ávíta mig?"

„Ég vildi óska, að þú værir drengur ennþá" sagði Lady Caren og stundi þungan.

„Af vissum ástæðum óska ég þess sama", sagði hann rólega.

„Hafa vonir þínar svikið þig, Allan? Við gerðum þó eins og við gátum til að gera þig hamingjusaman, bæði faðir þinn og eg".

„Maður verður að sætta sig við, þó rósablöð visni", mælti hann og reyndi að brosa.

„En, Allan, ég skil ekki, hvers vegna þú segir þetta. Þú ert einn af hinum ríkustu mönnum á Englandi".

„Já, og ég sækist ekki eftir meiri auðlegð, en ég nú þegar á".

„Þu ert heilsugóður, hefir góða hæfileika. Þú ert virtur og elskaður af öllum og þó talar þú um visnaðar rósir". Og hún leit kvíðandi framan í hið fagra, karlmannlega andlit hans.

"Þetta er hlutur, sem ég get sjálfur best dæmt um".

Móðirin lagði hönd sína á höfuð hans. "Allan getur þú ekki sagt mér öll leyndarmál þín?"

Allan leit beint í augu hennar. "Mamma, getur þú ekki sagt mér öll þín leyndarmál?" Hún sneri sér undan augnaráði hans, til þess að láta hann ekki sjá, hve mjög henni brá. "Mamma, þú átt þín leyndarmál, lofaðu mér að eiga mín".

"Hvaða heimsku ferðu með," sagði Lady Caren. "Hefir ekki líf mitt verið sem opin bók, sem hver hefir mátt lesa".

Það var sem hún væri bæði óttaslegin og hálfreið, þegar hún sagði þetta. Sonur hennar leit upp alveg hissa. hann var óvanur að heyra hana tala þannig.

"Ég var að gera að gamni mínu, mamma. "Ekki veit ég til, að þú þurfir neinu að leyna fyrir mér, en ég fer samt næstum að halda það".

Ef hann hefði veitt móður sinni nána eftirtekt, þá hefði hann hlotið að sjá, að varir hennar skulfu og augu henna lýstu hræðslu og ótta. Hún reyndi nú að koma því í tal, er henni lá þyngst á hjarta, en hún vissi varla, hvernig hún skyldi byrja.

"Mér sýnist Aðalheiður ekki líta hraustlega út, Allan".

"Sýnist þér það? Veðrið hefir verið svo heitt, og ég held að enginn líti vel út eða líði vel".

Það leit út fyrir, að hann talaði alveg blátt áfram. En Lady Caren tók eftir því, að þegar Aðalheiður var nefnd, var sem hann yrði alvarlegri og fjarlægðist hana.

"Það lítur ekki út fyrir, að hún sé ánægð. Þú veist, Allan, að ég hefi alt af skoðað hana sem dóttur mína, og ég er áhyggjufull hennar vegna".

"Hugsar þú um visna[illegible]" spurði hann hlægjandi.

"Nei, Allan, ég geri alls ekki að gamni mínu".

"Áðan varstu að leggja saman öll þau gæði, sem ég væri aðnjótandi. Eins má telja það sem Aðalheiður hefir til að bera. Hún er ung og mjög falleg".

"Finst þér hún vera falleg?" sagði Lady Caren glaðlega".

"Náttúrlega", sagði hann rólega. Hún er líka rík, og hefir, eins og þú sagðir að ég hefði, ágæta stöðu í mannfélaginu. Hvað þarf meira til að gera manneskju hamingjusama?"

"Ég get sagt þér, hvað hana vantar", sagði Lady Caren, "ég skil ekki í, að þú reiðist móður þinni fyrir það".

"Ég að reiðast þér? Það stríddi á móti náttúru minni. Segðu það sem þú vilt".

"Aðalheiður þarf að eiga ást manns síns, en ég er hrædd um, að hún hafi ekki fundið hana ennþá".

"Hefir hún kvartað fyrir þér?" spurði hann mjög rólega.

"Aðalheiður að kvarta! En hvað þú þekkir hana lítið, Allan! Taktu eftir því, sem ég segi. Það er móðir þín, sem talar við þig og segir þér af hjartans sannfæringu, að hvergi í heiminum finst göfugri né betri kona, en Aðalheiður, konan þín!"

"Ég neita því alls ekki", mælti hann rólega.

"Nú, ur því þú berð ekki á móti því, að hún verðskuldi kærleika, því elskar þú hana þá ekki?"

"Við skulum ekki tala um það". Svo sat hann nokkrar mínútur steinþegjandi, þá sagði hann alt í einu: "Ég er oft að hugsa um hina undarlegu erfðaskrá föður míns, og þess meira, sem ég hugsa um hana, þess undarlegri virðist mér hún vera. Það var óréttlátt og ljótt, að gera mig, eina barnið hans,

arflausan. Hvernig gat hann, sem ærlegur, heiðvirður maður, gert það?"

Lady Caren fölnaði upp. "Ég get ekki sagt um það. En hann hefir víst haldið, að Aðalheiður yrði óvanalega góð kona, því hann þekti hina mörgu og góðu hæfileika hennar".

"Nei, það hefir ekki verið það, sem kom honum til þess. Ekki hefði faðir minn gert mig arflausan, þó ég sæi ekki sömu kosti og hann hjá einni persónu. Það hefði líka verið heimskulegt".

"Ég get ekki sagt um það," sagði Lady Caren. En hann tók ekkert eftir því, að hún kreisti fast saman höndunum, og reyndi að sýnast sem rólegust.

"Nei, það er engin von, að þú getir það, mamma. En það er það vissa, að faðir minn hefir álitið sig breyta rétt, þegar hann samdi erfðaskrána, og trúin á hann, sem heiðvirðan og réttlátan mann, gefur mér þolinmæði til að una við hlutskifti mitt. Faðir minn var heiðursmaður, og ef ég tapaði trúnni á hann myndi ég jafnvel tapa trúnni á guð".

Lady Caren sagði ekkert, en hún kysti hendi hans.

Rétt á eftir sagði hún svo: "Nú skulum við fara inn til gestanna, því þeir fara annars að undrast um okkur".

---

## XX. KAPÍTULI.

Morgunverðar herbergið á Brookland var eitt af þeim fegurstu í allri höllinni. Það var stórt og hátt uudir loft. gluggarnir náðu, að frönskum sið, frá gólfi og upp að lofti, og úti fyrir voru allskonar blóm, sem vöfðu sig upp með gluggunum.

Öllum þótti skemtilegt, að sitja í þessu herbergi og létu sig sjaldan vanta til morgunverðar. Aðalheiður sat ávalt í húsmóðursætinu, og kafteinn Randolph reyndi alt af að ná í sæti við hlið hennar. Inn í þetta herbergi var alt af farið með póstinn, og lásu menn þar bréf sín, og höfðu svo nóg að tala um á eftir. Einnig komu gestirnir sér þar saman um, með hvaða skemtun þeir skyldu eyða þessum og þessum deginum. Alísa Kan sagði að morgunverðartíminn væri skemtilegasti tími dagsins, og hinir gestirnir voru henni sammála.

Öfund á heima meira og minna í hverju mannlegu hjarta, og það sýnist vera fyrirgefanlegt, að ef maður, sem verður að vinna baki brotnu til þess að geta framfleytt lífi sínu, líti yfir þennan glaða, áhyggjulausa og iðjulausa hóp, — þó að þá vaknaði í hjarta hans öfund og óánægja yfir þessum málshætti: "Í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauðs neyta".

Þó mátti finna í þessum glaða hóp hjarta miklu göfugra og betra, en flestra annara, hærri og lægri. Það var Lady Aðalheiðar. Hún var jafn yndisleg eins og morguninn sjálfur, og kafteinn Randolph kallaði hana morgunstjörnuna. Miss Alísa Kan var einnig mjög yndisleg. Lady Die sagði, að á morgnana væri fólk ávalt svo sérviturt. Þennan morgun, sem hér ræðir um, var hin virðulega Lady Caren, móðir lávarðarins, nýkomin. Aðalheiður vildi láta hana sitja í hinu gamla sæti sínu við enda borðsins, en hún vildi það ekki.

"Ég skipa það sæti ekki eins vel og þú, kæra Aðalheiður", sagði hún innilega. "En því kemur Allan ekki?"

Það kom oft fyrir, að Lord Caren kom með þeim seinustu inn í borðsalinn. Svo þegar hann kom, tók móðir hans nákvæmlega eftir, hvernig hann

heilsaði þeim, er fyrir voru. Hana sjálfa kysti hann innilega og spurði um líðan hennar. Hann kysti glaðlega á hönd Lady Die, sagði nokkur spaugsyrði við Alísu. En fyrir konu sinni hneigði hann sig stirt og kuldalega. Hún leit niður fyrir sig og hann settist í sæti sitt, án þess að tala orð við hana.

"Er pósturinn kominn?" spurði hann.

"Nei", sagði kafteinn Randolph.

"Ekki veit ég hvernig færi fyrir okkur hér úti á landi, ef enginn póstur kæmi".

"Mér fyrir mitt leyti", sagði Alísa, "þykir sá tími dagsins skemtilegastur, sem pósturinn kemur".

"Já", sagði kafteinn Randolph, "hinum ungu og fögru þykir það. Ég vildi að ég væri bréf, þá þætti yður ég kannske skemtilegur".

"Það gæti verið, að þér hefðuð slæmar fréttir að færa", sagði hún og blóðroðnaði, "og þá rifi ég yður í sundur og fleygði yður í burtu".

"Ó, hvílík forlög! Þér yrðuð ekki svo harðar, Lady Aðalheiður, þér mynduð lesa mig og geyma svo".

Lady Aðalheiður var sú eina, sem aldrei lét neina gleði í ljósi, þegar pósturinn var borinn inn. Kafteinn Randolph hafði tekið eftir því og sagði: "Ég hefi tekið eftir því, Lady Aðalheiður, að þér veitið póstinum alls enga eftirtekt".

Hún leit rólega framan í hann. "Aldrei á æfi minni hefi ég fengið bréf, sem nokkuð hefir verið varið í".

Allir urðu forviða, er þeir heyrðu þetta. Hún hafði sagt það svo rólega og blátt áfram.

"Ekki einusinni ástabréf?" hrópaði kafteinn Randolph.

Hún roðnaði. Henni hafði ekki komið til hugar, að þetta hefði neinar afleiðingar í för með sér, en Lady Die kom henni fljótlega til hjálpar.

"Þér gleymið, kafteinn Randolph, að Lady Aðalheiður þurfti ekki á þvílíkum bréfum að halda. Hún var stöðugt með unnusta sínum".

Lord Caren sagði ekkert, og nú varð leiðinleg þögn. Svo sagði Lady Die:

"Engin skynsöm manneskja getur kallað ástabréf skemtileg. Þó ég sé ekki eldri en ég er, þá hefi ég þó fengið fjarska mörg ástabréf. Meðal annars er sjaldan nokkurt orð satt í þeim".

"Guy!" hrópaði Lord Caren. "Þetta er vægast talað ósatt. Ég er viss um, að þú hefir aldrei skrifað ósatt orð á æfi þinni".

"Ég hefi fengið ástabréf frá fleirum en Sir Guy Veriton", sagði Lady Die og leit brosandi til manns síns.

Lady Aðalheiður hlustaði með athygli á samtalið. Hversu hamingjusöm voru ekki þessi hjón, sem spauguðu þannig og gerðu að gamni sínu hvert við annað! Hvílíkur munur var ekki á hinu innilega sambandi milli þessara hjóna, og hinu kalda samlífi milli hennar og manns hennar. Hún stundi þungan, svo kafteinn Randolph, sem alt af veitti henni nána eftirtekt, tók eftir því.

"Mér geðjaðist alt af svo vel að Caren", hugsaði kafteinn Randolph með sér, "en nú þykir mér með hverjum deginum æ minna og minna til hans koma. Hvers vegna sýnir hann konu sinni jafnmikinn kulda og hann gerir? Aldrei veitir hann henni hina minstu eftirtekt. Það er sem honum standi alveg á sama um hana, og þó er hún sú fullkomnasta kona, sem ég hefi nokkurntíma þekt. Af hverju skyldi sambúð þeirra vera jafn þur og köld eins og hún er?"

Honum þótti þetta mjög leiðinlegt, því þó hann yrði ástfanginn í hverju fögru andliti, eins og áður er sagt, þá fanst honum meira til Lady Aðalheiðar koma, en allra þeirra sem hann hafði áður þekt.

Hann dáðist svo að, hve saklaus og góð hún var, og með hve mikilli þolinmæði hún bar kulda og tilfinningarleysi manns síns. Hann skoðaði hana sem hetju, og leit upp til hennar með lotningarverðri tilbeiðslu, sem ekkert átti skylt við ást þá, sem hann vanalega bar til annara kvenna.

Þegar hann var að hugsa um alt þetta, var póstur'inn borinn inn. Lord Caren tók hann í sundur og rétti sérhverjum sín bréf. Kafteinninn fékk mörg, og Lord Caren gat ekki annað en brosað, þegar hann sá, hve mörg af þeim voru rituð með kvenmannshendi.

Alísa fékk einnig tvö bréf, og hún roðnaði og vonaði, að kafteinninn sæi, að þau voru rituð með karlmannshendi. Svo kom eitt bréf til Lady Caren.

"Það er frá Indlandi, mamma", sagði Lord Caren um leið og hann rétti henni það. "Skrifar þú nokkrum þar?"

Ef einhver hefði virt Lady Caren fyrir sér, þegar hún las þetta bréf, hefði hann séð, að hún náfölnaði. Hún reyndi að dylja það með því að drekka úr kaffibolla, en hendur hennar skulfu, svo hún var nærri búin að missa bollann. Þegar hún var búin að lesa bréfið, stakk hún því í vasa sinn. Hún tók engan þátt í samtalinu, og Lord Caren tók eftir því, og sagði: "Gengur nokkuð að þér, mamma? Þú litur svo illa út. Eigum við ekki að koma út, loftið er svo þungt hér inni?" En það vildi hún með engu móti, fyr en búið væri að lesa.

"Hefir nokkuð komið fyrir mamma?" spurði hann svo.

"Nei, Allan, það var satt, sem þú sagðir, það var svo heitt í húsinu, og ég er ekki vel hraust í dag. En nú skulum við koma út, veðrið er svo gott".

Þau gengu til og frá og töluðu um hitt og þetta.

Alt í einu sagði Lord Caren: "Frá hverjum var Indlandsbréfið?"

"Það var frá Clavering hershöfðingja, bezta vini föður þíns, Allan".

"Frá Clavering hershöfðingja. Hvað hefir hann dvalið lengi á Indlandi?"

"Það eru 20 ár síðan að hann fór frá Englandi, en 15 ár hefir hann verið á Indlandi".

"Um hvað skrifar hann?" spurði lávarðurinn. Hann þóttist viss um, að móðir sín léti sig lesa bréfið, en það gerði hún samt ekki.

"Hann talar um, að koma til Englands, og segir, að fyrst af öllu vilji hann heimsækja mig og börn mín. Hann hefir nefnilega heyrt um giftingu ykkar, og gleðst mjög yfir henni".

"Hvers vegna gleðst hann af því? Hann þekkir alls ekki Aðalheiði".

Lady Caren varð mjög vandræðaleg. "Hann vissi um ósk manns míns í því tilliti og þykir nú vænt um, að hún rættist", sagði hún.

"Hvenær kemur hann?"

"Hann talar um, að koma fyrir jólin, en ef hann getur það ekki þá ætlar hann að heimsækja okkur í London í maímánuði".

"Hann getur komið hvenær sem hann vill, það skal verða tekið vel á móti honum. Sestu nú hérna, mamma, og reyndu að ná þér aftur. Mér leiðist svo að sjá þig svona föla. Ég verð að líta eftir hestunum".

Lady Caren sat ein í fáar mínútur og tár runnu niður kinnar hennar. "Mér finst það svo hart og óréttlátt, að leyndarmálið skuli vera lagt á herðar tveimur saklausum konum. Hvað á ég að gera, ef hann kemur? Ó, guð minn góður, hvað á ég að gera?"

## XXI. KAPÍTULI.

September var kominn. Trén voru lítið eitt farin að fölna. Samt sem áður var herragarðurinn Brookland í mesta blóma. Lady Caren hafði sagt syni sínum, að fólk vonaðist eftir að hann héldi mikla veizlu í tilefni af brúðkaupi sínu. Í fyrstunni lét hann sem hann heyrði það ekki. En hún lét sig ekki. "Þú hefir nú um langan tíma haft húsið fult af gestum, sem auðvitað hafa skemt sér vel, en þæðu þó að fá samsæti áður en þeir færu".

"Við getum haldið eins margar veizlur og þú vilt, en kallaðu þær ekki brúðkaupsveizlur. Við giftumst í júní, en nú er september".

"Það er auðvitað nokkuð seint, og ekki vil ég gera neitt, sem er á móti vilja þínum. En það ber vott um virðingarleysi fyrir Aðalheiði, að gera það ekki, en það fellur mér svo illa", sagði Lady Caren.

"Ég hugsaði ekki um það frá þeirri hlið. Það skal verða alveg eins og þú vilt. Við getum haft veizlu þann 18. Ég vona, að Aðalheiður hafi ekki hugsað neitt um þetta. Henni hefir að líkindum ekki dottið það í hug fr[illegible]ur en mér".

"Þú verður að senda boð til Kilsborough Castle, og svo eru hertoginn og hertogainnan af Groton bæði heima".

"Þið Aðalheiður skuluð ráða því öllu saman, mamma. Ég skal gera veizluna eins skemtilega og ég get gert, en ég get ekki hugsað um undirbúninginn né boðsbréfin. Það er líklega þetta, sem þú hefir verið að hugsa um í seinni tíð, þú hefir verið svo hrygg að sjá, en að þú skyldir ekki nefna það fyrri".

Síðan að Lady Caren fékk Indlandsbréfið, var hún sem alt önnur manneskja. Henni brá við, hvað lítið sem fyrir kom. Hún sem hafði haft til að bera svo mikla ró og tiguleik, var nú kvíðandi og óttaslegin. Hún varð ergileg af hve litlu sem fyrir kom, og stundum sýndist eins og hún af fremsta megni vildi hylja eitthvað. Lord Caren hélt nú að hann hefði komist að, af hverju hún var svona breytt. Hún hafði alt af verið ástúðleg við Aðalheiði, en nú næstum keyrði það fram úr hófi. Hún bar miklu meiri umhyggju fyrir henni en sjálfri sér. Hún leið ekki hið minsta hugsunarleysi, þegar það snerti hana.

Strax á eftir að hún hafði talað um veizluna við son sinn, fór hún að finna Aðalheiði. Henni var það vel fyrirgefanlegt, að hún vék lítið eitt frá sannleikanum.

"Aðalheiður", mælti hún, "Allan hefir fastlega ásett sér að halda stóra veizlu í virðingar og minningarskyni um giftingu ykkar."

Hin unga kona leit fram í tengdamóðir sína, og ofurlítið vantrúarbros lék um varir hennar.

"Til virðingar fyrir hjónaband okkar, Lady Caren? Það er fallega gert af honum".

Lady Caren líkaði þó hvorki brosið né tónninn, sem hún talaði í. Hún reyndi ávalt að bæta milli sonar og tengdadóttur.

"Já, það er mjög fallega gert. Ég ímynda mér, að hann vilji gjarnan sýna hinum göfugustu af nágrönnum sínum, hve fallega konu hann á".

Lady Aðalheiður leit rólega en um leið djarflega framan í tengdamóður sína.

"Lady Caren. Okkar á milli er engin þörf á, að brúka slíkt hæverskutal". En er hún sá, hve hrygg Lady Caren varð, sagði hún: "Nú, jæja, hvað er það, sem Allan vill láta gera?"

Lady Caren stundi þungan. "Aðalheiður, talaðu ekki eins og ykkur Allan standi á sama hvort um annað. Ég tek það svo nærri mér, að það næstum drepur mig".

"Nei, ég skal ekki gera það, ég skal leggja fram alla krafta mína til þess, að veizlan geti orðið skemtileg".

Hún sá, að Lady Caren hafði þunga byrði að bera, og að hún mátti ekki heyra nefnda hina köldu sambúð milli sonar síns og tengdadóttur. Aðalheiður hugsaði því minna um sínar eigin raunir, en tók með lífi og sál þátt í undirbúningnum undir samsætið, til þess að þóknast sem mest tengdamóður sinni.

"Ég er svo glaður og ánægður", sagði kafteinn Randolph. Ég vildi sjá yður sem drotningu í samsæti, Lady Aðalheiður, áður en ég færi burtu".

"Og ég er einnig mjög glöð yfir því", sagði Lady Die. "Við skulum öll dansa okkur í gott skap, og þess þurfum við öll með".

Alt var nú undirbúið fyrir veizluna. Kveldið fyrir heimsótti lávarðurinn konu sína, aldrei þessu vant. Hun var ein í herbergjum sinum, og varð alveg forviða, þegar hún sá hann koma inn, því hann hafði aldrei komið í herbergi hennar fyr. Hann hafði í hendinni nokkrar gimsteina öskjur. Það leit út fyrir, að hann væri hálf vandræðalegur á svipinn.

En hvað blómin þín eru falleg", sagði hann og leit með aðdáun alt í kring um sig. Þykir þér vænt um að hafa blóm hjá þér, Aðalheiður?"

"Já, mér þykir svo vænt um þau, og það er svo náttúrlegt, að maður vilji hafa það hjá sér, sem manni þykir vænt um. Mér finst þau vera gamlir vinir mínir".

En svo eldroðnaði hún, og sá eftir að hafa sagt þetta. En hann virtist samt enga eftirtekt hafa veitt því.

"Hvergi í greifadæminu finnast eins falleg blóm og hér á Brookland", sagði hann, "og aldrei hafa umsjónarmennirnir rækt eins vel skyldur sínar eins og nú. Ég er viss um, að það er þér að þakka".

Hún sat í uppáhaldssæti sínu, nálægt stórum, purpurarauðum "heliotrop". Hún stóð ekki upp, og hann gekk beint til hennar. Blóðið hljóp fram í kinnar henni, og hjarta hennar sló hratt. Hvers vegna skyldi hann koma til hennar, og hvað vildi hann henni? Gat það skeð, þrátt fyrir öll vonbrigðin, að einþá tækist henni að vinna hann?

"Aðalheiður", sagði hann alvarlega og rólega, "ég hefi tekið eftir, að þú berð aldrei gimsteina".

"Ég á bæði perlur og rúbína, sem Lady Caren hefir gefið mér".

"Á morgun kemur alt göfugasta fólkið í öllu greifadæminu hingað. Það hefir þekt föður minn og mig í mörg ár. Ég kann ekki við, að þú þá berir ekki gimsteina".

"Ég get haft perlurnar mínar, þær eru mjög fallegar", sagði hún.

Hann varð hálf vandræðalegur. Svo sagði hann: "Þegar móðir mín flutti héðan, skildi hún náttúrlega eftir alla ættar-gimsteinana. Þeir tilheyra ávalt þeirri, sem er húsmóðir á Brookland, og ég get ekki hugsað mig þig án gimsteina".

"Mig langar ekkert til að bera þá", sagði hún lágt.

"Þú misskilur mig", sagði hann nokkuð ákaft. "Þvert á móti, ég bið þig um að bera þá".

Hann setti öskjurnar frá sér og opnaði þær, hverja eftir aðra. Gimsteinarnir glitruðu á flauelinu, svo maður þoldi varla að horfa á þá.

"Þeir eru mjög fagrir", mælti hún með hinni mestu rósemi. "En það hefir enga þýðingu fyrir

mig að taka við þeim. En ef þú vilt, skal ég bera þá á morgun".

"Hvers vegna hefir það enga þýðingu, að þú takir við þeim?"

Hún leit framan í hann, og hið blíða augnaráð hennar snerti strengi hjarta hans.

"Þú manst víst ekki eftir, að vera mín hér verður ekki langvinn. Þessir gimsteinar verða aldrei mín eign".

Í fyrsta skifti á æfi sinni fanst honum sem hann langaði til að faðma hana að sér og kyssa hana, — biðja hana að yfirgefa hann aldrei. En þá datt honum í hug hin gamla, bitra hugsun: Hún átti hann á móti vilja hans.

"Berðu þá á morgun, ef þú vilt gera svo vel", sagði hann. En um leið og hann gekk í burtu, hugsaði hann með sér, að hann vildi ekki vera án hennar, að heimilið án hennar var autt og tómt.

---

## XXII. KAPÍTULI.

"Brookland ætti að skifta um nafn í dag og kallast Paradís", sagði Lady Die. "Aðalheiður, þér hafið meiri fegurðarsmekk en nokkur annar".

"Hvers vegna haldið þér það?"

"Af því þér raðið svo vel saman blómum, rósum og málverkum. Ég hefi verið viðstödd hinar skrautlegustu veizlur í London og París, en ekkert hefi ég séð, er jafnist á við Brookland í dag".

Lady Die sagði þetta því fremur, sem Lord Caren heyrði til, því fyrst, þegar talað var um samsætið, hafði hann sagt í hugsunarleysi við Lady Die.

bergja sinna til að klæða sig. Lady Die gekk inn til Aðalheiðar, og sá hina nafnfrægu gimsteina Carens ættarinnar liggja þar. Frá sér numin hrópaði hún: "Aðalheiður, þér verðið eins og drotning! Á öllu Englandi finnast ekki gimsteinar, er geti jafnast á við þessa".

Það leit ekki út fyrir, að Aðalheiði þætti neitt í þetta hrós varið. Vanalega þykir þó ungum og fögrum konum mikið til þess koma.

"Ég veit ekki, hvort mig langar svo mikið til að líkjast drotningu", sagði hún. "Ég man ekki til, að ég hafi lesið um neina þeirra, sem var hamingjusöm. Eða munið þér eftir því?"

"Nei, það held ég ekki. Konur í hárri stöðu eru sjaldan ánægðar. Há staða hefir marga þunga ábyrgð í för með sér. Ég ímynda mér, Aðalheiður, að þér hafið fundið, að það er sannleikur".

En Aðalheiður eyddi þessu. Hún ætlaði ekki að láta neina heyra það frá sínum vörum, að hjónaband hennar var óhamingjusamt. Hún gat ekki annað en glaðst í hjarta sínu, er hún sá sig í speglinum klædda í hina skrautlegasta búning. Enginn málari hefði getað málað eins fagra konu eins og hún var. Hún var í hvítum silkikjól bryddum með vatnsliljum, en í hverri lilju lá gimsteinn á stærð við vatnsdropa. Hún hafði einnig gimsteina um háls og handleggi. Þjónustustúlkan leit á hana og vonaði, að hún myndi láta í ljós ánægju sína, en það var síður en svo. Hún stundi þungan, er hún hafði horft á sig um stund.

"Ég skil ekkert í þessu", hugsaði stúlkan með sér. "Hví skyldi húsmóðir mín stynja, þegar hún sér sjálfa sig? Engin verður þó hálft svo fögur sem hún af öllum fjöldanum, sem kemur í kveld".

Lady Aðalheiður gekk niður í gestasalinn. Það kom stundum fyrir, að henni fanst hún varla geta

staðið upprétt, og svo var nú. Henni kom til hugar, að nú væri enginn blíður eiginmaður, sem tæki um hönd hennar og segði henni, hve mikið honum þætti til hennar koma, leiddi hana inn í salinn og gerði hana kunnuga gestunum. Hún varð að ganga þangað ein. Aftur félst henni hugur, en svo reyndi hún að herða sig upp.

"Þetta dugar ekki, ég kæri mig ekki um, að allir viti, að maðurinn minn ekki elskar mig, og ég vil að Allan sjái, að ég jafnast á við þá, er hann tapaði 14. júní". Og eftir að henni hafði dottið þetta í hug, gekk hún inn í gestasalinn, róleg og tiguleg. Enginn sá, að hjarta hennar sló hratt og órólega.

Hertoginn af Granton jós yfir hana lofsyrðum. Honum þótti ávalt mikið koma til fríðra kvenna en engri hafði hann séð eins fríða og Lady Aðalheiði. Hún sá mann sinn mitt á meðal gestanna. Bara að hann hefði sagt að eins eitt lofsyrði um hana hversu mundi þá ekki alt hafa litið bjartara út í augum hennar. Henni fanst hún verða þreytt, og hana langaði svo í burtu frá öllum þessum glaum. En hún fékk engan tíma til að hugsa um það, því nú áttu menn að ganga skrúðgöngu inn í danssalinn

Lord Caren leiddi hertogainnuna af Granton, en hertoginn af Granton leiddi Aðalheiði. Þau gengu inn í hina storu málverkastofu, sem var ein af þeim fallegustu á öllu Englandi. Og hertoginn hvíslaði að Lady Aðalheiði, að engin af öllum þeim konum, er myndirnar sýndu, væri hálft svo fögur sem hún. En það var sem hún gæfi því engan gaum, hún hvorki roðnaði né leit til jarðar, og hertoganum næstum þótti fyrir, er henni fanst svo litið til þess koma. Þau dönsuðu saman fyrsta dansinn, og hún var mjög fegin þegar hann var úti. Henni þótti ekkert varið í hertogann og lof hans. Hinn eini maður, sem hana langaði til að vera saman með.

gekk á milli gestanna og hugsaði ekki einu sinni til hennar.

Hertoginn vildi varla skilja við hana, honum fanst svo mikið til hennar koma, og hefði helzt viljað vera við hlið hennar alt kveldið.

"Lady Aðalheiður, þér eruð eins fölsk og allur heimurinn", sagði einhver við hlið hennar í ásakandi róm. Og er hún leit við sá hún kaftein Randolph standa hjá sér.

"Í hverju er ég fölsk?" spurði hún kuldalega.

"Þér gefið hertoganum öll bros yðar, en ég fæ engin".

"Ekki veit ég neitt til þess, en ég varð að dansa við hann kurteisinnar vegna"

"Ég vildi óska, að allir hertogar Englands væru komnir í Rauðahafið", sagði kafteinninn ergilegur.

"Það væri leiðinlegt, þá druknuðu svo margir ágætismenn. Ég get ekki skilið þvílíka ósk".

"Þykir yður hann skemtilegur, Lady Aðalheiður?"

"Hver?"

Hertoginn, náttúrlega. Kvenfólki finst alt af svo mikið til allra hertoga koma".

"Ég er alveg forviða á, hvernig þér talið", sagði hún alvarlega, en kafteinninn blóðroðnaði. "Ég hefi ekkert hugsað um, hvort mér líst á hann eða ekki".

Hún stóð þar róleg og alvörugefin, hátt upphafin yfir jafn hégómleg spursmál og kafteinninn flutti.

"Það er konunni meðfætt að pína", sagði hann. Hún leit hálfhrædd framan í hann.

"Það er þó ómögulegt, að hann tali nokkurt heimskuhjal við mig, þegar hann veit að ég er gift", hugsaði hún með sér, en blóðið hljóp fram í kinnar hennar og hjartað sló harðara, er hún hugsaði út í

að hann vissi svo mikið um, hvernig sambúðin var milli lávarðarins og hennar. Hann vissi að hún var gift, og að maður hennar ekki elskaði hana, — þótti ekki einu sinni neitt til hennar koma, og að hann var sá eini, sem enga eftirtekt veitti henni. Hann vissi, að margir dagar liðu, án þess þau töluðu orð saman. Að hún hafði alls engin áhrif á hann. Hún var einmana í allri sinni dýrð. Hann vissi alt þetta, og þó myndi hann ekki voga, að segja neitt vitleysis þvaður við hana".

"Lady Aðalheiður, þér lofuðuð að dansa þennan dans við mig", sagði hann. Hún leit til hans.

"Ég skal dansa við yður, ef þér lofið að tala skynsamlega".

"Ég skal gera alt, sem þér viljið". Og hann hugsaði með sjálfum sér, að það væri ekkert til í heiminum, sem hann vildi ekki gera fyrir hana, hann kendi svo í brjósti um hana, hún var svo yndisleg, blíð og einmana.

Hertoginn hafði veitt þeim nána eftirtekt. "Kafteinninn er ástfanginn í Lady Aðalheiði, það er auðsjáanlegt", hugsaði hann. "Hvar er maður hennar?" Nú datt honum í hug, að hann hafði ekki séð Lord Caren tala eitt einasta orð við hana. "Þeir hefir víst sinnast", hugsaði hann, "þó það sé ólíklegt, þau sem eru nýgift". Hann hugsaði sér að svala forvitni sinni, og nokkru síðar gekk hann til Lord Caren. "Ég hefi ekki óskað yður nægilega til hamingju, Lord Caren, með hinni elskuverðu og fögru konu yðar".

Lord Caren hneigði sig að eins. Hertoginn sagði einhver fleiri lofsyrði um konu hans, en hinn að eins samþykti það, og hertoginn hugsaði með sér: "Ég hafði rétt fyrir mér, ekki er alt sem skyldi á Brookland, og ég vildi gjarnan vita, hvernig í öllu liggur".

## XXIII. KAPÍTULI.

Þótt Lord Caren rétt tæki undir við hertogann, þegar hann hrósaði konu hans, gladdist hann þó með sjalfum sér yfir því, að hún vakti svona mikla eftirtekt. Hann gekk yfir þveran salinn og þangað sem hún sat. Hún var að tala við hertogann af Granton, og lávarðurinn horfði lengi á hana með mestu aðdáun. Hann hlaut að viðurkenna, að hún að öllu leyti hafði fullkomna fegurð til að bera, og leit út eins og tigulegasta drotning. En þó að hann með sjálfum sér hugsaði að hún ætti hvergi sinn líka, þá var svo langt langt frá, að hinn minsti snefill af ást gerði vart við sig í hjarta hans. Á meðan hann stóð kyr og horfði á hana, kom einhver og kallaði á hertogann. Strax og kafteinn Randolph sá Lady Aðalheiði sitja eina, gekk hann til hennar. Úr andliti hans skein bæði umhyggja og virðing fyrir henni. Hann laut niður að henni og sagði nokkur orð og hún leit upp brosandi. Kafteinninn sagði eitthvað aftur, og hún brosti á ný. Svo stóð hún upp og gekk í burtu. Yfir andlit lávarðarins sveif dimmur skuggi. Hann elskaði hana ekki, en hún bar hans nafn, hún var konan hans og tilheyrði honum, -- enginn annar mátti skifta sér af henni hið allra minsta.

Hún var aftur orðin ein. Honum fanst hann geta lesið út úr andliti hennar, hve einmanaleg og hrygg hún var. Hann kendi í brjósti um hana. Hann var alls ekki vondur maður. Hann gekk beina leið til hennar.

Aldrei gleymdi hann þeirri gleði, sem lýsti sér í andliti hennar, þegar hún sá hann koma. Hann

varla vissi, hvernig á því stóð, að hann sagði: "Viltu dansa við mig, Aðalheiður?"

Hún stóð strax upp. "Já, með mestu ánægju", sagði hún. Hann næstum skalf, þegar hún lagði hendi sína á handlegg hans. Það var í fyrsta sinni síðan þau höfðu gengið frá altarinu hinn ógæfusama dag, er þau höfðu gifst.

"Ég held, að allir skemti sér vel", sagði hann.

Það var svo nýtt fyrir hana að tala við mann sinn, að hún tæpast trúði því, að svo væri, og hún vissi varla hverju hún svaraði.

"Hvaða dans er næst?" spurði hún blátt áfram. En nú byrjaði valz. Hún leit hálfhrædd framan í mann sinn.

"Ef þér viljið ekki dansa valz við mig, Lord Caren, þá get ég beðið þangað til næsta dans".

Honum næstum hitnaði um hjartaræturnar er hann sá, hve auðmjúk og eftirgefanleg hún var, og hve ljóslega hún gaf í skyn, að hún vissi, að hann ekki elskaði hana.

"Ég vil gjarnan dansa valz við þig, ég hefi tekið eftir því, að þú dansar mjög vel".

Hún fékk megnan hjartslátt, og nú lagði hann handlegg sinn um mitti hennar og þau dönsuðu af stað. Henni fanst, sem væri hún í öðrum betra heimi, henni sýndust ljósin bjartari, blómin fegri. Hún elskaði hann svo heitt.

"Þannig vildi ég deyja", sagði hún og stundi af sælu.

"Ertu þreytt?" spurði lávarðurinn.

"Nei, ekki það allra minsta", sagði hún.

"Nú fer hann frá mér strax aftur og talar aldrei jafn hlýlega til mín aftur", hugsaði hún. Þau dönsuðu þar til valsinn var úti, þá leit hún framan

hann, og hann sá, að hún ætlaðist til, að hann segði einhver vingjarnleg orð við hana, og hann gat ekki að sér gert að segja : "Mér hefir verið regluleg ánægja að þessum dans".

"Mér þykir svo vænt um það", mælti hún. "Ég hefi aldrei hugsað um, hvort ég dansaði vel eða illa, en framvegis skal ég æfa mig betur". Hann gat ekki annað en brosað að, hversu barnsleg hún var.

Rétt á eftir sagði hann : "En hvað þessir demantar fara þér vel, Aðalheiður".

"Sýnist þér það? En hvað það gleður mig".

Hann ætlaði að fara að segja einhver fleiri hlý og vingjarnleg orð við hana. Hann ætlaði að halda lengur um hina litlu hvítu hönd hennar, gleðja hjarta hennar með þeim orðum, er undi aldrei gleyma, — en þá kom honum í hug þetta sama gamla : Hún átti hann á móti vilja hans. Hún notaði óréttláta erfðaskrá til þess að neyða hann til að eiga sig. Hún vildi verða Lady Caren, en hugsaði ekkert um hans eigin hamingju, og þessi hugsun rak í burtu allar blíðar og hlýjar tilfinningar hans gagnvart henni. Hann sneri sér við og hún sá strax breytinguna, sem á honum varð, og henni fanst, sem hníf væri stungið í hjarta sér.

"Ég sé, að hertogainnan er ein", mælti hann þurlega, "ég verð að fara til hennar." Hún sagði ekkert. Það var sem nokkurs konar angist gripi hana. "Það verður alt af við það sama", hugsaði hún. "Aldrei mun hann elska mig, öll von er úti. öll mín viðleitni er til ónýtis".

Í því Lord Caren gekk yfirum salinn, hugsaði hann : "Ég hefði elskað hana, ef hún hefði ekki átt mig á móti vilja mínum".

"Ég held, að Lord Caren elski ekki konu sína". sagði hertoginn við konu sína.

"Ég skil ekkert í því", sagði konan hans. "Aldrei hefi ég talað við jafn skemtilega og velmentaða konu sem hana".

"Ég skil það ekki heldur", sagði hertoginn, "en ég er viss um, að ég hefi rétt fyrir mér. Hann einasta élskar hana ekki, það er svona rétt að hann getur fengið af sér að tala við hana".

Hertogainnan stundi við. Hún var langt frá að vera ánægð, en hertoganum þótti þó vænt um hana. Hún sárkendi í brjósti um Aðalheiði, því það var deginum ljósara, að maður hennar skifti sér ekkert af henni.

Á heimleiðinni hugsaði hún sér, að hún skyldi reyna að nálægja þau hvort annað, eftir því sem hún gæti. Hún vissi ekki, að aðrir höfðu reynt það að árangurslausu.

"Mér geðjast ekki að hinum unga kaftein Randolph", sagði hertoginn eftir nokkra stund. En kona hans brosti.

"Hann er að vísu kvenhollur, en allir vita, að hann er ekki hættulegur".

"Hann er nú ástfanginn fyrir alvöru", sagði hertoginn. "Hann er ástfanginn í Lady Aðalheiði".

"Það hefir litla þýðingu fyrir hann", sagði hertogainnan. "Ég get lesið í andliti manna, hvað í þeim býr, og Aðalheiðar er eitt af þeim sem má treysta".

"Já, en maður hennar sýnir henni kulda og afskiftaleysi, og hún er ung. Ég er hræddur um, að einhverntíma komi það fyrir á Brookland, er okkur fellur mjög illa að heyra"

## XXIV. KAPÍTULI.

Veizlan var liðin og gestirnir fóru nú að smátínast í burtu. Lady Kan var sú fyrsta, sem fór. Alísu langaði til að vera á Brookland á meðan kafteinninn var þar, en móðir hennar sagði: "það hefir enga þýðingu, dóttir góð. Mér fellur kafteinninn vel í geð, en ég held hann hugsi ekkert um þig. Láttu hann sakna þín, og þá getur verið, að honum lærist það".

Lady Kan sá, að dóttir hennar elskaði kaftein Randolph. Hún óskaði einkis fremur, en sjá hana ánægða, en hún gat í þessu efni ekkert hjálpað henni. En hún hafði rétt fyrir sér. þegar þær voru farnar, saknaði kafteinninn Alísu, og hugsaði nú meira um hana en áður. Lady Caren hugsaði sig lengi um, hvort hún ætti að hverfa heim til sín eða ekki, og hún spurði Lady Die ráða.

"Ég veit ekki, hvað ég á að gera", sagði hún. "þó ég verði hér áfram, þá veit ég ekki með hverju ég á að sameina þau, en ef ég fer í burtu gæti skeð að þau lærðu þess fremur að skilja hvort annað. Hvað haldið þér, Die?"

"Ég held, að þau elski aldrei hvert annað, og ég álít að það sé Allan að kenna. Aðalheiður er fögur og blíð og eftirlátssöm, því í ósköpunum elskar hann hana ekki?"

"Já, það er óskiljanlegt", sagði Lady Caren.

"Hann ætti að hugsa út í, hvað ung hún er", sagði Lady Die ennfremur, "og hve fögur hún er. Hann getur þó ekki ætlast til, að hún gangi gegnum lífið án þess að njóta ástar og umhyggju. Hún er að vísu hrein og saklaus sem engill, en hann ætti að

gæta séð, að þeir menn eru til, sem kunna að meta fegurð og hæfileika hennar".

"Við skulum vona hið bezta", sagði Lady Caren. En með hverjum degi sem leið, varð hún órólegri. Hún ásetti sér að fara heim til sín. Hún talaði lengi við Aðalheiði, og spurði hana, hvort henni líkaði betur, er gestir voru á Brookland eða ekki, en Lady Aðalheiður sagðist helzt vilja, að engir gestir væru þar. Lady Caren hélt því heim til sín. Næst á eftir henni fór Sir Guy og kona hans. Lady Die ásetti sér að tala alvarlega við Lord Caren áður en hún færi, og einn morgun hitti hún hann einan í bókaherbergi sínu.

"Allan", sagði hún, "við höfum alt af verið sem systkini, og ég vona þú reiðist mér ekki, þó ég segi blátt áfram það sem mér býr í brjósti áður en ég fer héðan. Þér vanrækið konu yðar, Allan. Hún er sú bezta og inndælasta kona, sem ég þekki. Þér sýnið henni afskiftaleysi, hugsið ekkert um hana. Þér hafið þó engan rétt til þess, það er óréttlátt, það er ljótt, og þér meir en sjáið það sjálfur".

Hefir Aðalheiður kvartað undan mér við yður?"

"Nei", sagði hún með tárin í augunum. "En haldið þér að ég sé blind?"

"Nei ég vona ekki, en má ég spyrja yður að einu. Hefur Aðalheiður ekki nafn mitt og er hún ekki húsmóðir hér á Brookland.

"Jú", sagði Lady Die, alveg forviða.

"Trúið mér, Die, einasta vegna þess giftist hún mér"

"Lady Die æpti upp yfir sig af reiði. "Þér hafið, Allan, hræðilega rangt fyrir yður. Hún elskar yður af öllu sínu hjarta".

Hann hló háðslega. Segið þér ekki þetta, Die, hún hefir alt, er hún óskar sér".

"Þér eruð skammarlega ósanngjarn, Allan. Ég

get fullvissað yður um, að engin 16 ára gömul stúlka elskar unnusta sinn eins heitt og Aðalheiður elskar yður. Ég hefi veitt henni nákvæma eftirtekt, og ég er viss um, að hún elskar yður af öllu hjarta".

"Þetta er að eins ímyndan yðar, Die. En úr því yður er svona ant um mig, get ég sagt yður, að á milli mín og Aðalheiðar hefir aldrei verið um ást að ræða."

"Þér ættuð að skammast yðar að tala svona!" hrópaði Lady Die. "Verið þér eins kaldur og tilfinningarlaus, sem yður lystir, en ég er viss um, að Aðalheiður elskar yður. Ég hefi séð hana titra, er þér komuð nálægt henni. Hún roðnar, er þér talið við hana. Þér eruð blindur, ef þér sjáið þetta ekki, Allan".

"Ég gæti hreinsað mig undan öllum þessum ákærum, ef ég vildi, en ég ætla samt ekki að gera það. En ég vil ráðleggja yður, Die, að blanda yður aldrei framar inn í málefni milli hjóna, sem yður kemur ekkert við".

Lady Die hafði ekkert upp úr samtalinu við Lord Caren, annað en það, að upp frá þessu varð mjög kalt á milli þeirra. Hún kvaddi Lady Aðalheiði hjartanlega, en ekki þekti hún frekar hugsanir hennar þegar hún fór frá Brookland, en daginn sem hún kom þangað.

Kafteinninn fór síðast frá Brookland. "Ég vildi he..t vera hér kyr", sagði hann við Lady Aðalheiði. "Vera mín hér hefir umbreytt mér, og aldrei mun ég gleyma henni, og þér megið heldur ekki gleyma mér, Lady Aðalheiður".

Hún brosti vingjarnlega, en það var sem hugur hennar væri langt í burtu. D

"Ég skal ekki gleyma yður", sagði hún blátt áfram".

"Ég mun verða betri maður, ef ég veit að þér

hugsið til mín og haldið spurnum fyrir um mig, — ekki svo að skilja, að ég hafi verið vondur maður", bætti hann við, "en síðan ég kyntist yður, lít ég á alt með öðrum augum en áður".

Hún leit hlýlega til hans. "Ef ég hefi haft góð áhrif á yður, þykir mér mjög vænt um það".

Hann spurði hana, hvort hann mætti heimsækja þau, þegar þau kæmu til London, og hún játti því, og svo kvöddust þau. Það var sem Lord Caren yrði feginn, þegar hann var farinn. Þó hann ekki sjálfur elskaði konu sína, þá máttu þó ekki aðrir gera það.

Nú voru þá hjónin aftur orðin ein. Sama dag, sem kafteinninn fór, sagði Lord Caren við konu sína: "Úr því að engir gestir eru hér lengur, er þá ekki bezt að við tökum upp sömu háttu og fyr, Aðalheiður?"

N

Hún hneigði sig, en svo leit hún framan í hann, og í augnaráði hennar lá meiri ásökun en orð geta lýst.

"Rétt eins og þér sýnist", flýtti hún sér að segja, "ef þér þóknast að breyta einhverju svo segðu til".

"Nei, ég þarf engu að breyta", sagði hann, en hann hugsaði með sér: "Að Die skyldi halda að þessi manneskja elskaði mig!"

"En hefði hann séð konu sína rétt áeftir að hann fór út úr herberginu, hvernig hún stóð þar með samanlagðar hendur og horfði á þann blett, sem hann hafði staðið á, og ef hann hefði heyrt að hún sagði: "Með hverjum degi verður von mín veikari, aldrei get ég unnið hann", — þá hefði hann kannske sannfærst um, að Lady Die hafði ekki haft svo rant fyrir sér.

W

Og nú varð þá alt eins og það hafði áður verið á Brookland. Margur dagurinn leið svo, að þau sáu ekki hvort annað. Fólk út í frá sagði, að eitthvað

gengi að Lady Aðalheiði. Hún var svo föl og óánægjuleg. Það var að eins sá munur á, að nú hugsaði Lord Caren varla um annað en konu sína, þar sem honum hafði naumast komið hún til hugar áður, — nú þekti hann hana betur. Hann hafði tekið eftir fegurð hennar, og hve miklum hæfileikum hún var gædd, að allir dáðust að henni, og hann vissi að hún var hreinskilin og sakleysisleg. Hann skildi ekkert í því, af hverju hún hefði átt hann þvert á móti vilja hans. Hann hugsaði um það frá öllum hliðum, en gat enga ráðningu fundið. Hann sá, að það gat varla verið af því, að hana langaði svo mjög til að verða Lady Caren, því hún var reiðubúin til að yfirgefa stöðu sína nær sem væri. Hann hugsaði um þetta nótt og dag. Hún hefði mátt vera ánægð með það hefði hún vitað það. Alt var betra en hið rólega tilfinningarleysi, sem hann áður hafði sýnt henni.

Þannig leið tíminn til jóla. Á jólamorguninn rétti lávarðurinn henni hönd sína og bauð henni gleðileg jól. "Við verðum nú að undirbúa okkur undir jólaheimboðin, og hvenær eigum við að flytja til London?"

"Hvenær sem þú vilt".

"Getum við flutt í lok apríl?"

Hún játti því.

"En við þurfum ekki að tala um það núna, Lord Caren. Þú hefir nú verið mjög góður mér, og það er engin þörf á, að ég noti mér góðsemi þína lengur. Við höfum nú verið það lengi saman, að við getum gefið einhverja sennilega ástæðu fyrir því, að við skiljum eins og við höfum talað um".

Hann sneri sér snögt við. "Við skulum ekki tala um það núna", sagði hann.

Síðustu dagana af apríl settust þau að í London.

## XXV. KAPÍTULI.

Í stórum, skrautlegum sal í London, þar sem alt má fá fyrir peninga var samanhrúgað dýrum málverkum, myndastyttum og alls konar skrauti. Í þessum sal sat kona svo fögur, að ætla mátti, að þangað væri komið lifandi eitt af hinum fögru grísku líkneskjum. Á salnum voru fjórir stórir gluggar, er allir sneru út að Hyde Park. Konan var skrautlega klædd. Hún virtist vera þreytt, því hún hálflokaði augunum þreytulega, ef það kom fyrir að hún opnaði þau, lét hún þau strax aftur.

Hún hringdi rétt í þessu litilli silfurklukku, sem stóð á borði við hlið hennar. Hendi hennar var fögur og hvít sem mjöl og á fingrunum bar hún marga dýrmæta hringi.

Lagleg frönsk þjónustustúlka kom nú inn.

"Hvar er blævængurinn minn?" spurði hin fagra kona með hljómskærri rödd. "Hefi ég ekki oft sagt yður, Heloise, að þér aldrei megið gleyma að færa mér hann?"

"Ég hélt hertogainnan hefði hann, en ég skal strax sækja hann" ætli stúlkan.

Að [illegible]rmu spor[illegible] kom hún aftur með skrautlegan blævæng. Ska[illegible] var alt sett gimsteinum, en í vængnum voru [illegible]orir af mjög sjaldgæfum fuglij

"Fékk ég nokkur bréf með póstinum?" Stúlkan fór strax að vita um það, og kom skjótt aftur með mörg bréf á silfurbakka. Hertogainnan leit fljótlega yfir þau, lagðist síðan niður í legubekkinn og lokaði augunum.

"Madama Guisar hefir sent yðar náð hirðbúning,

óskið þér að sjá hann?" spurði stúlkan. Hin fagra kona opnaði ekki augun, en sagði stúlkunni að koma inn með búninginn. Hún gerði svo, og hertogainnan fékk þar kjól, sem hver drotning mundi vera fullsæmd af.

Heloise lagði hann þannig, að sólin skein á hann "Hann er mjög fallegur og ég vona að yðar náð sé ánægð með hann".

"Ég held hann dugi", sagði hertogainnan, og svo lét hún aftur augun.

"Hvað skyldi það annars vera, sem húsmóðir minni geðjast að?" hugsaði stúlkan með sér.

"Farðu burt með hann", sagði hertogainnan.

Stúlkan ætlaði nú út, en mætti fyrir utan þjóni, sem kom með boð frá hertoganum um, hvort hertogainnunni þóknaðist að taka á móti honum.

"Segið hertoganum að ég sé ein í salnum", mælti hún kuldalega. Heloise ætlaði að fara út, en hertogainnan sagði henni að vera kyrri og taka burtu öll visin blöð af blómunum.

Stúlkan roðnaði, hún vildi ógjarnan vera viðstödd, er þau töluðust við. "Hvað var hertogainnan að tauta fyrir munni sér? Eitthvað um leiðindi og hvernig hún ætti að lifa þessu lífi".

Nú gekk hertoginn af Ormont inn í salinn. Hann var hár, tíguglegur gamall maður. Hár hans var hvítt, en höfuð sitt bar hann sem stoltasti konungur. Þrátt fyrir aldur hans var eitthvað það í allri framkomu hans, sem vitnaði um mikilmensku og höfðingsskap. Það var sem væri hann fæddur til að skipa og stjórna. Svipur hans var hreinn, og aldrei hafði ein einasta lá eða óheiðarleg hugsun komið í huga hans. Í æsku hafði hann verið með hinum fríðustu og prúðustu mönnum á Englandi. Þegar hann kom inn, virtist hann vera forviða að sjá þjónustustúlkuna inni.

"Ég hélt þú værir hér ein, Nita".

Hún sneri sér hálf eitt til hliðar. "Farið þér út, Heloise, þér getið gert þetta seinna. Svo stundi hún, eins og hún átti vanda til, ósegjanlega þreytulega.

Hertoginn stóð kyr þangað til stúlkan var gengin út. Honum kom ekki til hugar, að hún hafði látið stúlkuna vera inni til þess að þurfa ekki að hlusta á blíðmæli hans. Þegar þau voru orðin ein, kysti hann á hendi hennar og sagði: "Nita, á morgun rennur upp þýðingarmikill dagur fyrir þig".

"Þú átt víst við, að ég verð gerð kunnug við hirðina", sagði hún kuldalega.

"Já, ég er hræddur um, að þér hafi leiðst. Þú ert ung og elskar líf og gleði. Eftir daginn á morgun þarftu varla [illegible] leiðindum.

"Ekki það?"

"Nei, þú ve[illegible]tt nafnfræg. Innan fjögra daga verður nafn [illegible] allra vörum, það fullvissa ég þig um".

Hún lét enga ánægju í ljósi yfir þessu, heldur stundi hún og lokaði augunum enn þá betur. "Setjum svo, að ég verði sú, sem mest lofið fær, hvað gagnar mér það?" hugsaði hún.

Hertoginn dáðist með sjálfum sér að rósemi konu sinnar. Samt hefði honum fundist náttúrlegra, að hún hefði glaðst, og sýnt orðum hans meiri eftirtekt.

Hann lagði nú nokkrar litlar öskjur á borðið. "Þetta eru gimsteinar ættarinnar", sagði hann. "Einu sinni átti þá voldug drotning, en aldrei hefir fegri kona borið þá en þú, elskaða Nita".

Meðan hann talaði, opnaði hann öskjurnar, gimsteinarnir voru bæði stórir og mjög fagrir. Hertoginn rétti henni þá og hneigði sig mjög djúpt fyrir

henni. Hún tók á móti þeim með hinni sömu ró og tilfinningarleysi, sem hún hafði áður sýnt honum.

Hann beygði sig niður og kysti hönd hennar. Hún dró hana að vísu ekki frá honum, en auðsjáanlegt var, að henni var ekki um það gefið.

"Elskulega Nita, lofaðu mér að óska þér langra, gleðilegra lífdaga, svo þú sem lengst getir borið þessa gimsteina. Ég vona að þér líki vel umgerðirnar?"

"Ég held að þær séu eins og þær eiga að vera", sagði hún, og ekki þakkaði hún honum öðruvísi fyrir þessa skrautgripi, sem hver þjóðhöfðingi var fullsæmdur af.

"Nita", sagði hann og laut niður að henni, ég ætlast ekki til að þú þakkir mér með orðum, en það er annað, sem ég óska eftir".

Hann vonaði að hún myndi kyssa sig en sú von brást.

"Hvers óskar þú?" spurði hún.

Hann færði sig fjær. "Ég óska einkis", sagði hann í breyttum róm. Enginn dáðist meira að stolti og tígugleik, en hertoginn af Ormond, en honum fanst ekki svo sérlega mikið til þess koma, þegar kona hans átti hlut að máli og beitti fálæti og stolti gagnvart sjálfum honum.

Það voru liðnir þrír mánuðir síðan hertoginn af Ormond, einn af helztu aðalsmönnum Englands, gekk að eiga hina fögru greifainnu Júanítu af Silvara. Þau höfðu fram að þessum tíma dvalið á meginlandinu. Nú voru þau sest að á Englandi, og nú átti hún að gerast kunnug við hirðina.

---

*Arnljótur B. Olson*

## XXVI. KAPÍTULI.

Hertoginn var genginn út, hann undraðist hve lítið henni þótti til hinna fögru gimsteina koma, en þó undarlegt virtist vera, þess meira dáðist hann að henni.

Nokkra stund sat hún alveg kyr, en ekki leið á löngu fyr en tár streymdu niður kinnar hennar.

"Hvað ég gat verið blind og heimsk!" hrópaði hún. "Ég bað um brauð, en lét mér svo nægja stein. Get ég, sem hefi hjarta sem logandi eld, látist elska þó hjartað þyrsti eftir ást?"

"Ég var viti mínu fjær, að ganga að þessum ráðahag, þó hann væri álitinn sá bezti og göfugasti á öllu Englandi". Hún henti gimsteinunum frá sér. "Ég gæti trampað þá undir fótum mér, mér væri mesta ánægja, að mylja þá ögn fyrir ögn, og sýna honum þannig, hversu mikið ég met alla gripi hans".

Hún stóð nú á fætur og gekk til og frá um herbergið. Hún líktist helzt gyðju haturs og reiði, hún reigði höfuðið aftur, munnurinn stóð hálfopinn, í augum hennar brann eldur, og hendurnar kreisti hún svo fast saman, að för komu undan nöglunum.

"Ég hugsaði, að ég gæti lifað glöð og ánægð, ef ég hefði nafnbætur, auð og metorð, en ég hefi getið skakt til, — hjarta mitt hrópar svo hátt eftir ást og sælu, að ég næstum hræðist sjálfa mig. Hvernig á ég að lifa því lífi, sem ég lifi? Hvernig á ég að fá hina löngu, leiðinlegu daga til að líða? Ó, að ég væri dauð!" Og þessa síðustu setningu marg endurtók hún. Þó hafði hún alt, sem hún óskaði eftir, og auður getur veitt.

Nú kom Heloise aftur inn og hún ætlaði ekki að geta haft augun af gimsteinunum.

"Hvað viljið þér?"

"Maðurinn, sem á að laga hár yðar, er kominn og óska[r að] vita, hvenær hann á að koma á morgun".

Hertogainnan ákvað tímann og Heloise ætlaði að fara, en hertogainnan sagði henni, að taka gimsteinana með sér. "Láttu þá í gimsteinahyrzlu mína", sagði hún. En hún talaði ekkert um það, að Heloise skyldi gæta þeirra, eins og jafndýrir gimsteinar og göfugir ættargripir áttu þó heimtingu á.

"Aldrei hefi ég þekt neina þvílíka hertogainnu", hugsaði stúlkan með sér. "Skyldi vera hægt, að útvega það, sem henni lízt á? Henni er færður búningur, sem hæfir hverri drotningu, en hún lítur varla á hann. Hún fær gimsteina, sem hver prinsessa gæti verið stolt af að bera, en hún virðir þá ekki meira en duftið, sem hún gengur á. Ég hefði gaman af að vita, hvað henni getur geðjast að.

Þegar stúlkan var gengin út, fór hertogainnan að hugsa um alt það lof og hrós, sem hún myndi fá. Hún þóttist vita, að öllum myndi þykja hún miklu fallegri, en hinar ljóshærðu, rólegu ensku stúlkur. "En hví skyldi mér ekki standa á sama?" hugsaði hún svo.

Aftur opnuðust dyrnar og Lady Montfalcon kom inn. Hún heilsaði hertogainnunni með handabandi.

"Hvað gengur að yður?" spurði hún. "Þér eruð svo þreytulegar að sjá. Þér verðið að ná yður fyrir morgundaginn"

Lady Montfalcon var um þessar mundir drotning samkvæmislífsins í London. Hún var ekkert fr[áb]ærlega fögur, en hún var höfðingleg í allri framgöngu og mjög tiguleg. Að vera í kunningsskap við hana, var lykillinn að öllum æðstu samkvæmum í London.

Orð hennar voru lög, tæki hún eitthvað nýtt upp, varð það strax í móð. Ef hún talaði niðrandi um einhvern, átti sá hinn sami ekki uppreisnar von á meðal aðalsfólksins í London.

Lady Montfalcon braut aldrei á móti þeim reglum, sem hún hafði einu sinni sett sér. Ein af þeim var, að gera enga konu kunnuga við hirðina, nema að hún væri svo fögur, að hún sjálf fengi hrós fyrir, að koma með hana á samkvæmin. Að vera gerð kunnug af Lady Montfalcon, var sama og vera fræg fyrir fegurð. Ef það fréttist, að hún ætlaði að koma með konu með sér, vakti það mikið umtal. "Ný fegurð", sögðu piltarnir hver við annan. "Nýr keppinautur", sögðu stúlkurnar. Engum þýddi, að biðja Lady Montfalcon um, að gera sig kunnuga, ef hún var eins og fólk er flest. Þegar hertoginn af Ormont bað hana að gera hina ungu konu sína kunnuga við hirðina, leit hún brosandi til hans og sagði: "Þér vitið, hvað fólk segir viðvíkjandi reglum mínum".

"Ég óttast það ekki", mælti hann. "Ég get sagt yður án þess ég skrumi nokkuð, að ég held í fullri alvöru, að hún sé hin fegursta kona í öllu Englandi".

"Þá er alt gott", sagði hún. Og þegar henni svo var sýnd hin unga hertogainna, óskaði hún sjálfri sér til hamingju með þann sigur, sem hún nú skyldi vinna. "Engin verður eins fögur og hún", hugsaði Lady Montfalcon. "Við höfum nóg af ljósum fögrum konum, en hertogainnan af Ormont mun skína meðal þeirra sem stjarna um heiðskíra nótt".

Allir voru mjög forvitnir eftir að sjáa undarfögru konu. Lady Montfalcon hefði verið ánægðari, ef hertogainnan hefði látið meiri gleði og áhuga í ljósi, en hún nú gerði. En þetta var samt nýtt fyrir

hana, og hún gat ekki annað en dáðst að tíguleik hinnar ungu hertogainnu.

"Það verður fjarska margt fólk þarna" sagði hún. Allir eru næstum viti sínu fjær eftir að sjá yður. Þér verðið vonandi ekki feimnar, þó fólk horfi á yður?"

"Nei", mælti hertogainnan rólega. "Það megið þér vera vissar um, Lady Montfalcon".

Lady Montfalcon spurði hana nú um búning hennar og gimsteina, og hertogainnan svaraði öllu þessu svo rólega og hugsunarlaust, að Lady Montfalcon að síðustu hálfreiddist.

"Þér fáið keppinaut á morgun, hertogainna, og fólk segir meira að segja, að hann verði hættulegur".

"Mér þykir ekkert að því".

"Lady Aðalheiður Caren kemur til hirðarinnar, og verður gerð kunnug þar. Mér er sagt, að hún sé frábærlega falleg".

Hertogainnan fölnaði upp, varirnar sýndust næstum blóðlausar, hendur hennar skulfu. Hún stóð samt upp jafnróleg og hún átti að sér.

Ilmurinn af þessum blómum er of sterkur fyrir mig, ég vil helzt aldrei hafa Heliotroper inni í húsi. Hvað voruð þér að segja um keppinaut minn, Lady Montfalcon?"

Maður hennar er lávarður Caren á Brookland, einhver ríkasti og gáfaðasti maðurinn á öllu Englandi. Ég held hún hafi verið fósturdóttir föður hans".

"Verður hún gerð kunnug við hirðina á morgun?" spurði Nita seinlega.

"Já, ég hefi séð gimsteina hennar. Þeir eru hinir skrautlegustu, þér megið ekki standa henni að baki í því tilliti. Það virðist þó, sem yður standi á sama um alt þetta".

Hertogainnan roðnaði. "Ég er ekki hugsunar-

laus", sagði hún. "Það er sem þér segið, það dugir ekki, að ég standi á baki neinni á morgun, þér megið alveg reiða yður á mig. En er þessi Lady Aðalheiður Caren eins falleg og sagt er?" spurði hún hugsandi, og rödd hennar lýsti nokkurs konar hrygð, en Lady Montfalcon tók ekkert eftir því.

"Já, það held ég", sagði Lady Montfalcon, "ég hefi heyrt svo marga tala með mestu aðdáun um hina frábæru fegurð hennar, en ég hefi því miður ekki séð hana".

"Hún er víst ung og hamingjusöm? Elskar maður hennar hana heitt?"

Lady Montfalcon hló hjartanlega. "Hvers konar spurning er þetta? Ég get ekki svarað henni. Þett[illegible]ði sú síðasta spurning, sem ég spyrði nokkurn mann um"

Hertogainnan roðnaði. "Ég skil ekkert í, hvers vegna ég spurði um það".

"Úr því hún er ung og fögur, tel ég víst, að maður hennar, Lord Caren, elski hana. En, mín kæra hertogainna, ást eiginmanna er stundum ekki langvarandi".

Skömmu eftir þetta fór Lady Montfalcon.

Nú var sem hertogainnan vaknaði af dvala, alt tilfinningarleysi hennar var nú horfið á svipstundu. Maður hennar og þjónustustúlka gátu verið ánægð yfir því, hve mikið athygli hún veitti nú búningi sínum og gimsteinum. Hertoginn brosti, þegar hann sá breytinguna, sem á henni varð. "Hún hefir nú gimsteina æðið, sem allar konur fá fyr eða seinna", hugsaði hann.

"Áður hafði hún ekki litið á hirðbúning sinn, en nú stóð hún tímum saman og horfði á hann. Hann varð að vera eins skrautlegur og hægt var, enda var hann það. Hún hafði alveg gleymt Monsieur Anatole, manni þeim, sem laga átti hár hennar eftir nýj-

asta móð. En nú varð hann alt í einu að þýðingarmiklum manni í augum hennar. Enginn gat gert henni til hæfis. Þeir, sem áður höfðu undrast yfir fálæti hennar, dáðust nú að fyndni hennar og glaðværð. Sama kveldið var hún svo hlýleg og ræðin við mann sinn, að hann komst í sjöunda himinn. Hún var hin lítillátasta við alla, sem ekki var þó vani hennar, — og orsökin til alls þess var sú, þó hún ekki vildi kannast við það, að hún átti von á, að sjá h a n n aftur.

Hún hafði treyst of mikið á viljakraft sinn. Líf hennar hafði verið rólegt og tilbreytingalaust, þangað til hún kyntist Caren lávarði. Honum gaf hún hið heita, ástríðufulla hjarta sitt. Hún var einkabarn greifa Di Silvara. Hann hafði tapað lífi og öllum eignum sínum í borgarastríðinu á Spáni, og þá var hún 15 ára gömul, og átti engan að nema eina frændkonu, sem átti heima í London. Hún tók hina ungu stúlku að sér og ól hana upp. Hún sá, að Júanita mundi verða óviðjafnanlega fögur, og sagði því við hana :

"Þeir, sem lifa í heiminum, og vilja fá góða stöðu í honum, verða að vera heimslegir. Þú ert falleg, Nita, og með fegurð þinni og aðstoð minni ættir þú að geta fengið hvaða aðalsmann sem er í þessu landi. Taktu nú eftir því, sem ég segi : Hugsaðu ekkert um annan eins hégóma sem ást og þvíumlíkt. Þú verður að giftast ríkum manni. Ég vil ekki sjá þig framar, ef þú átt fátækan mann, og þú færð þá ekki einn einasta skilding eftir mig, en ef þú átt ríkan mann, skaltu fá alt sem ég á".

Júanita var að eins 16 ára, þegar hún sá Caren lávarð í fyrsta sinni. Hún var barn að aldri, en í hjarta og hugsunum fullþroska. Hún elskaði hann af öllu sínu hjarta. Hún tilbað hann svo, að hún næstum hræddist sjálfa sig. Mrs. Clair, frænka

hennar, sagði henni, að hann með tímanum yrði lávarður á Brookland, og hún væri mjög heppin, ef hún gæti klófest hann og orðið svo Lady Caren. Caren elskaði hana að vissu leyti, honum faust hún vera sú fegursta og skemtilegasta stúlka, sem hann þekti, en samt bað hann hennar ekki, og áður en hann fékk nokkurt tækifæri til þess, dó faðir hans, og hann varð nú annaðhvort að eiga Miss Carlton eða að verða arflaus. Hann varð nú að yfirgefa Júanitu sína, og þegar svo skilnaðarstundin kom, fann hann hve heitt og innilega hann elskaði hana. En fyrir hana, sem elskaði hann eins og spanskar konur að eins geta, fyrir hana varð skilnaðarstundin beiskari en sjálfur dauðinn.

Samt sem áður lét hún sem sér stæði alveg á sama. Kona af gömlum spönskum aðalsbálki grætur ekki þó hún fái ólæknandi sár. "Ég skal ekki gefast upp fyrir þetta", hugsaði hún.

Hún reyndi að gleyma honum. Hertoginn af Ormont hitti hana nokkrum sinnum. Hann varð frá sér numinn af fegurð hennar og bað hennar svo. Þá var það, að hún treysti sjálfri sér um of. Hún áleit, að hún gæti lifað, án þess að elska, bara hún hefði auð og allsnægtir, svo myndi hún verða ánægð.

Hertoginn var göfugur og góður maður. Hún dáðist að því, hve tigulegur hann var, og henni þótti hann skemtilegur, en hún bar ekki minsta snefil af ást til hans. Hún vissi, að þó hún biði í 20 ár, fengi hún aldrei eins gott gjaforð og þetta. Hún varð hertogainna af Ormont. Hún varð ráðandi yfir öllum hinum mörgu og stóru ættaróðulum hans, og Ormonts höllin í London var sögð með hinum skrautlegustu höllum þar. Búningur hennar, gimsteinar, hestar og vagnar yrði svo skrautlegt, að hálft England myndi öfunda hana.

"Hvers get ég óskað frekara?" spurði hún sjálfa sig, "ég væri blind og heimsk, ef ég neitaði öðrum eins ráðahag".

Ef Lord Caren hefði slept arfi sínum og átt hana, hefði hún með gleði lifað í fátækt með honum, en nú hafði hann ekki nefnt það á nafn, svo nú var bezt að eiga hertogann, og reyna að njóta lífsins sem bezt.

Mrs. Clair var mjög ánægð yfir ráðahagnum. "Þú hefir veitt betur en ég bjóst við, Nita, og enginn veit, hvað framtíðin geymir í skauti sínu handa þér" Mrs. Clair stóð í þeirri meiningu, að Júanita hefði hætt að hugsa um Caren, til þess að ná í hertogann af Ormont. Brúðkaupið var hið skrautlegasta, sem hugsast gat. En þann sama dag sá Júanita, að hún hafði dæmt sjálfa sig skakt, og ætlað sig sterkari fyrir, en hún í raun og veru var.

Það var ekki eingöngu að hertoginn dáðist að henni, heldur elskaði hann hana innilega. Hefði hann ekki elskað hana, en verið eins kaldur og tilfinningarlaus, eins og hún virtist að vera, þá hefði alt getað farið vel, en hann elskaði hana, og sem eðlilegt var, óskaði hann eftir ást á móti, — en hana gat hún ekki gefið honum. Já, meira að segja, hún gat varla þolað blíðlæti hans. Hún hrökk saman, ef hann nálægðist hana, og vildi helzt aldrei vera ein hjá honum. Í fyrstunni hafði hann álitið þetta stafa af feimni, og fanst því meira til hennar koma; en svo fór hann að hugsa betur út í það. "Gat það verið, að hin unga, fagra kona hans hefði gengist fyrir auðæfum hans, en hefði ýmigust á sjálfum honum?" Sú kom tíðin, að hann fékk svar upp á þessa spurningu sína.

Hingað til hafði hún ekkert hugsað um, hvort hún myndi sjá Lord Caren aftur. Heimurinn er svo stór, og það voru lítil líkindi til þess, en nú var hann í London, og að öllum líkindum mættust þau í

samkvæmum á hverjum degi. Hún fann til einhverrar undarlegrar gleði í hjarta sínu. Hún átti að fá að sjá hann og konu hans líka.

"Ég er svo forvitin eftir að fá að vita, hvernig hún lítur út", hugsaði hún. "Skyldi hann elska hana eins mikið og hann elskaði mig. Ég skal samt fá hann til að viðurkenna, að hann hefir ekki átt þá fegurstu konu, sem til er. Ég skal koma honum til að játa, að hann sjái eftir, að hann kaus ekki heldur að lifa í fátækt með mér. Ég hlakka til að sjá, hvort hann lítur á mig með nokkuð af hinni fornu ást í augnaráði sínu, og hvort hann man eftir, að ég elskaði hann. Æ, hvað ég elskaði hann!"

"Þú situr í svo djúpum þönkum, kæra Júanita, að þú tekur ekkert eftir mér", sagði hertoginn brosandi.

"Ég bið afsökunar", sagði hún vingjarnlega, "ég var að hugsa um nokkuð, sem Lady Montfalcon sagði mér. Hvað varstu að segja?"

"Ég var að spyrja þig um, hvort þú vildir fara á hinn stóra dansleik, sem haldinn verður við hirðina, eftir að búið er að kynna fólkið. Ég vildi óska að þú færir, því þar verður margt skemtilegt fólk".

Henni kom nú til hugar, að Allan Caren yrði þar og hún fengi tækifæri til að tala við hann. Hún leit til manns síns miklu blíðlegar en vanalega, og sagðist gjarnan vilja fara. "En því kemur þú ekki líka?" bætti hún við.

Hann kysti á hönd hennar. "Jú, ég er mjög glaður yfir því, að fara með þér". En nú tók hún ekki lengur eftir orðum hans.

Hún svaf lítið um nóttina, hún var alt af að hugsa um, að nú ætti hún að fá að sjá hann. Skyldi hann minnast á fyrri daga? Ekki var nú langt síðan að þeim hafði þótt svo vænt hvoru um annað. Henni fanst nóttin aldrei ætla að líða. Það var

ekki hinn upprennandi dag, er hún þráði svo mjög, eða að sjá, hver sú yrði, er mest þætti tilkoma á samkomunni. Nei ,það var til að sjá Allan Caren og að komast eftir, hvort hann myndi eftir henni, eða elskaði þá konu, hverrar stöðu hun hafði getað lif sitt til að hafa.

---

## XXVII. KAPÍTULI.

Níundi mai var runninn upp bjartur og fagur. Blómin voru farin að rakna við úr vetrardáinu, og fuglarnir sungu ánægjulega. Aldrei gleymdi hertogainnan af Ormont þessum degi.

Þegar leið að þeim tíma, sem átti að fara að kynna hana við hirðina, klæddist hún í hinn skrautlega hirðbúning sinn og hlóð eins miklu af gimsteinum utan á sig, sem hægt var. Hún var frábærlega fögur, þegar hún var komin í hirðbúninginn, henni fór hann vel, og hún bar sig eins og drotning. Þegar hún leit í spegilinn, brosti hún ánægjulega yfir fegurð sinni.

"Það er ekki vegna sjálfrar mín, sem mér þykir vænt um fegurð mína", hugsaði hún, "heldur vegna hans, af því að einu sinni þótti honum vænt um mig og skeð getur, aðhonum þykji það ennþá".

Hún sté upp í skrautlegan vagn og ók til konungshallarinnar (St. James).

Alla leiðina hugsaði hertogainnan ekki um annað en Caren lávarð. Hún hlakkaði svo til að sjá hann, og skeð gat hún gæti talað við hann. Að nokkur hætta stafaði af fundi þeirra, kom henni ekki til hugar. Hún vildi endurnýja kunningsskap þeirra og komast að því, hvort honum þætti ennþá nokkuð

vænt um sig. Hún gat ekki séð neitt ljótt í því, hún þekti ekki hjarta sitt, né vissi hvað í því bjó.

Lady Montfalcon varð mjög ánægjuleg, þegar hún sá hina fögru hertogainnu. "Þér eruð alls ekki feimnar", sagði hún.

"Feimin? Hví skyldi ég vera það?"

"Sumar konur eru það, og ég gæti sagt yður margar sögur um það, en nú er enginn tími til þess. Eins og ég sagði yður, er hér mesti fjöldi fólks samankominn".

Hertogainnan skemti sér nú vel við að horfa á hin fögru andlit, hina skrautlegu búninga og alla hina dýru gimsteina.

"Ekki datt mér í hug, að jafnmargar fallegar konur væru til á Englandi", sagði hún við Lady Montfalcon.

"Það hafa fleiri en þér haldið það sama, en þeir hinir sömu hafa stórlega rangt fyrir sér. Ég hefi verið við flestar hirðir í Evrópu og hvergi séð neitt, sem jafnast á við hina fögru, rólegu framkomu enskra kvenna".

Alt í einu tók hertogainnan eftir tveimur konum, önnur var há og höfðingleg, nokkuð öldruð að sjá. Hún var skrautlega klædd, í blárri flauelskápu, brydda með gyltum kniplingum, og hún bar gimsteina af dýrustu tegund. Hún var í fjörugu samtali við unga stúlku, sem stóð við hlið hennar. Hertogainnan hafði ekki augun af þessari ungu stúlku. Aldrei á æfi sinni hafði hún séð jafnfagra konu, hún var fögur sem lilja, augun voru blá að lit, og út úr þeim skein greind og göfuglyndi. Hárið var mikið og fagurt og féll í lokkum niður um fannhvítan hálsinn. Hún var í fallegum hvítum silkikjól, og gimsteinar hennar báru af öllum, sem sáust þar.

"Ég vildi, að ég vissi, hver þetta er", hugsaði hertogainnan. Hún tók nákvæmlega eftir, hve allar

hreyfingar þessarar ungu konu voru yndislegar. Hún var líkust saklausum, góðum engli.

"Lady Montfalcon", sagði hún alt í einu, "hvaða konur eru það, sem standa þarna við gluggann, önnur er í blárri flauelskápu, en hin í hvítum silkikjól?"

Lady Montfalcon leit í kring um sig. "Eldri konan er Lady Caren, en hin yngri er Lady Aðalheiður Caren, kona Allans lávarðar. Ég talaði um hana við yður í gær. Hún er keppinautur okkar. Ég er viss um, að þið báðar verðið drotningar samkvæmislífsins þetta ár".

Aftur fölnaði hið fagra spanska andlit. "Hún er keppinautur minn", mælti hún seinlega. "Hún er framúrskarandi fögur".

"Já, en þið eruð svo ólíkar, af því getið þér hrósað og dáðst að henni".

Hertogainnan gat ekki haft augun af þessum tveimur konum, móður Allans og konu hans. Þegar hún horfði á hið fagra andlit Aðalheiðar, tapaði hún þeirri von, sem hún hafði haft.

"Ég er viss um hann elskar hana og hefir gleymt mér, ég get ekki jafnast á við hana, hún er svo yndislega fögur. Hvað hann hlýtur að elska hana!"

Lady Montfalcon var alveg hissa yfir hve þögul hertogainnan var orðin alt í einu.

"Er Caren lávarður hér?"

"Ég veit það ekki, en mig minnir að Carens ættin eigi að þjóna í sveit drotningarinnar".

Hún var nú búin að sjá nóg. Hún hafði séð konu hans í allri hennar dýrð. Hún varð eldrauð í framan, augu hennar glömpuðu, en hún hafði ekki tíma til að hugsa um fleira, því nú var gengið inn í salinn þar sem kynna átti fólkið hvert öðru.

— — — Nú var hin hátíðlega athöfn um garð gengin, og hertogainnan keyrði aftur heim til sín. Aldrei höfðu sést við hirðina í einu tvær jafnfagrar

konur. Önnur var drotning meðal hinna ljóshærðu, björtu kvenna, en hin dökk á brún og brá, alveg töfrandi fögur. Allir töluðu um þær, það var ein og sama meining, aðdáunin náði jafnt yfir báðar.

"Ætlið þér ekki að koma á dansleikina, sem sendiherrann heldur í kveld í Lackville höllinni?" spurði Lady Montfalcon hertogainnuna um leið og hún kvaddi hana.

"Jú", mælti hún hróðug yfir allri þeirri frægð, er hún hafði áunnið sér.

"Þá sjáum við tvo keppinauta hvorn við annars hlið, því Carens fólkið verður þar"

Svo kvöddust þær.

Nú átti hún að fá að sjá hann, gat verið að hún dansaði við hann. Hún hugsaði sér að komast eftir hvort hann elskaði þessa fögru konu sína meira en hann hafði elskað hana.

Hún var vingjarnleg við mann sinn og tók brosandi á móti öllu því hrósi, sem hann hlóð á hana. Betur hefði verið, að einhver hefði nú hvíslað að henni, að hún væri í hættu stödd, að hún væri í þann veginn, að beygja inn á ranga leið, er að vísu væri blómum stráð, en færði til eymdar og örvæntingu. En enginn benti henni að stansa meðan tími var til. Hinar illu vættir höfðu lagt fjötra um hjarta hennar, sem ómögulegt var að slíta, nema því að eins að hún hefði þekt sitt eigið hjarta, og gætt með viti og forsjálni.

Þegar hún kom heim, sagði hún manni sínum, að hún væri þreytt og ætlaði að hvíla sig áður en hún færi á dansleikinn um kveldið.

Hertoginn yfirgaf hana, fullviss um það, að hann hafði valið vel, er hann hafði átt þessa undurfögru konu. En á meðan sat hún og hugsaði um fegurð Aðalheiðar Caren, og hvort maður hennar myndi elska hana.

## XXVIII. KAPÍTULI.

Maður getur hugsað sér rauða rós innan um hvítar liljur, purpuralitaða nelliku innan um vafningsplöntu. Alveg eins var hertogainnan af Ormont innanum hinar ljóðhærðu ensku stúlkur. Búningur hennar var hinn skrautlegasti, og hún bar svo marga gimsteina utan á sér, að þegar hún hreyfði sig, var sem logar léku utan um hana. Allra augu horfðu á hana og undruðust skart og fegurð hennar.

"Hver er hún? Nei, hvað þessi er skrautleg!" þessi og því lík orð heyrðust úr öllum áttum.

Hertoginn var í sjöunda himni af sælu. Hann var of stoltur til að láta bera á því, en þeir sem þektu hann, sáu vel, hve mjög hann var upp með sér af konu sinni. Það kom samt alls ekki flatt upp á hann, hve mikla aðdáun kona hans fékk, hann hafði vitað það fyrir fram. Honum fanst hún vera fegursta konan á öllu Englandi. Hann var mjög upp með sér yfir því, að hafa valið sér jafnfríða konu, og honum þótti vænt um, að kona hans fékk alt þetta lof, sem hún með réttu átti skilið.

Hertogahjónin höfðu komið snemma. Hann hafði það ávalt fyrir reglu, að koma snemma. "Það eru nógu margir, sem þykir mest varið í, að koma sem seinast", sagði hann. Hrósinu, sem rigndi yfir hertogainnuna, stóð því sem hæst, þegar lávarður Caren kom á dansleikinn með móður sína og konu. Allra augu snérust nú að Lady Aðalheiði. Var hún fegri en hertogainnan? Er snjóklukka fegri en nellika af sama lit? Báðar þessar konur voru fullkomnar að fegurð, hvor upp á sinn máta.

"Við höfum nóg að horfa á í kveld", sagði greifinn af Lorne, oflátungur mikill. "Aldrei á minni æfi hefi ég séð tvær konur svona jafnfagrar, en um leið svona ólíkar".

Það sem hann sagði var endurtekið um allan salinn. Hertogainnan horfði alt af við og við fram í ganginn. Hún hafði farið á dansleikinn eingöngu til að sjá Caren lávarð, en hann var ekki kominn.

Hún hafði glaðst yfir fegurð sinni og skarti einungis af því, að hann sæi nú, hve mjög aðrir dáðust að henni, og hverju hann hefði tapað. Alt þetta var hún að hugsa um, og hún brosti illgirnislega yfir því.

Hún dansaði við furstann af Gadsteen. Þeir, sem ekki tóku þátt í dansinum, höfðu ekki augun af henni. Furstinn var algerlega hrifinn af henni. En allan tímann gætti hún að, hvort hún sæi ekki Caren lávarð. Furstinn veitti því samt enga eftirtekt. Alt í einu stansaði hún og fölnaði upp. Hann var kominn og hjá honum stóð þessi bjarta, fagra kona, sem hann hafði gengið að eiga. Nokkra stund kom hún engu orði upp, en hún náði sér fljótt. Henni fanst hún nú alt í einu vera hærri og fegri en áður, bros lék um varir henni. Hún vissi, að Caren lávarður horfði á sig. Þau höfðu horfst í augu.

"Mér fellur það illa, yðar tign", sagði hún við furstann, "að ég er þreytt og vil hvíla mig í nokkrar mínútur".

Hann leiddi hana til sætis í skugga af nokkrum og settist við hlið hennar. Henni þótti samt alls ekki neitt til þess koma. Hún vildi vera ein og ætlaðist svo til, að Caren lávarður kæmi til sín. Kurteisisreglan leyfði þó ekki annað en hún talaði við furstann. Hún hló og gerði að gamni sínu, en óskaði í huga sér, að hann væri kominn veg allrar ver-

aldar. Að lokum kom húsmóðirin henni til hjálpar, og leiddi furstann á burt með sér.

Nú var hún ein. Hún sýndist vera róleg en þó sló hjarta hennar ótt og títt, hver einasta taug í líkama hennar skalf, því nú nálgaðist hann hana. Hún vissi það, án þess hún þó sæi hann. Það kom því ekki flatt upp á hana, þegar hún fann, að einhver stóð fyrir framan hana. Hún leit upp og sá þann mann, sem hún elskaði svo heitt.

"Nita", sagði hann. Það var eitthvað það í málróm hans, sem snerti hjarta hennar. "Nita, fyrirgefið mér, en þetta nafn slapp alveg óvart af vörum mér".

"Frá yðar vörum óska ég aldrei að heyra annað nafn". Hún færði sig til, svo hann gæti sest við hlið hennar.

Ástarblossi leiftraði úr augum hennar, sem hefði átt að koma honum til að gæta sín, en hann virtist enga eftirtekt veita því.

"Ekki datt mér í hug, að ég myndi hitta yður hér".

"Því þá ekki?" sagði hún.

"Ég veit það ekki. Þó hafði ég heyrt, að þér væruð í London. Ég hefi oft hugsað um, hvar og hvenær við mundum hittast aftur".

"Þér hafið þá hugsað til mín, þér hafið munað eftir mér!" hrópaði hún, og nú tók hann eftir blossanum í augum hennar, og hann roðnaði. Hann elskaði ekki konu sína, en hann virti hana, og honum kom ekki til hugar, að svíkja hana í neinu. Á meðan hún bjó undir hans þaki, skyldi enginn blettur falla á hana. En þegar þessi ástarsjúku augu hittu hans, var það alt annað en hlýlega, sem hann hugsaði til konu sinnar.

Hún var svo glöð yfir að sjá hann aftur.

"Þekkið þér manninn minn?" spurði hún. En

hann sagðist tæpast þekkja hann. "Þið verðið að kynnast og verða vinir. Hann var að tala um yður í gær".

"Það skal vera mér ánægja". En honum komu í hug þessi orð: 'Eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu'.

Hann leit í augu hennar og las úr þeim, hvað hún vildi, og hann gat ekki neitað henni.

"Viljið þér dansa við mig?" spurði hann. Án þess að svara, lagði hún hönd sína á handlegg hans. Svo liðu þau inn á meðal dansendanna.

---

## XXIX. KAPÍTULI.

Nokkru síðar hafði kafteinn Randolph séð Lady Aðalheiði, og flýtti hann sér nú til hennar. "Hafið þér til dans handa mér? Ég bið bara um einn. Er lávarður Caren hér?"

"Já, hann er hér".

"Þér spyrjið mig ekki um, hvernig ég gat fundið yður í þessum þrengslum".

"Ég býst við, að þér hafið leitað að mér".

"Nei, það hefði enga þýðingu haft. En mig langaði til að sjá, hver það væri, sem allir töluðu um og dáðust að, ég vissi að það hlyti að vera þér".

Lady Aðalheiður brosti að fagurgala hans. Hún skildi hann orðið svo vel.

"Vitið þér, að fólk segir, að þér og hertogainnan af Ormont séu drotningar samkvæmisins. Ég hefi séð hertogainnuna, og mér þykir hún ekki eins fögur og þér".

"Hertogainnan af Ormont? Hver er hún?" spurði Aðalheiður seinlega.

"Mín kæra Lady Aðalheiður, hvað hafið þér verið að gera síðan þér komuð hingað?" spurði kafteinninn.

"Ég hefi dansað og talað við marga ágætismenn oq skemt mér vel".

"En haldið þér, að ég trúi því að þér hvorki hafið séð hertogainnuna af Ormont, né heyrt, hvernig fólk er bandvitlaust í að hrósa henni?"

"Ég hlusta aldrei á bandvitlaust fólk, — ég hefi alt af verið með mínum kunningjum. Hver er hún, kafteinn Randolph?"

"Þarna er maðurinn hennar, hertoginn af Ormont. Hann er að tala við Lady Caren."

Hún leit þangað, og sá laglegan en aldraðan mann, með mörg heiðursmerki á brjóstinu, og sem leit út eins og tígulegasti aðalsmaður frá toppi til táar.

"Hann er gamall".

"Já, en kona hans er ung. Það hefir ekkert að segja meðal hinna æðri stétta, Lady Aðalheiður. Nei, sjáið þér! Nú dansar maðurinn yðar við hertogainnuna".

Lady Aðalheiður leit þangað, sem kafteinninn benti henni. Henni sortnaði fyrir augum. Hún þekti strax hertogainnuna. Það var konan, sem myndin var af, er hún hafði fundið: 'Elskuð og töpuð!' Þau höfðu þá hist þarna aftur, — maðurinn hennar, sem ekki elskaði konuna sína, og hún, sem hann einu sinni hafði elskað svo heitt!!

Hún stundi þungan, en herti sig svo upp. "Vitið þér, hvað hertogainnan hét, áður en hún giftist?"

Júanita greifainna di Silvara. Hún er ættuð af Spáni".

Það hlaut að vera sú sama. Á myndinni hafði

staðið "N i t a". Þetta var þá konan, sem maður hennar unni svo mjög, og nú höfðu þau hist aftur. Hver skyldi endirinn verða?

"Þér verðið að hafa mig afsakaða", sagði Lady Aðalheiður, "en ég vil heldur hvíla mig en dansa".

"Ég verð þá að fá að sitja hjá yður, ég vil miklu heldur tala við yður en dansa".

Hún vildi sitja kyr og virða fyrir sér hina fögru mótstöðukonu sína, taka eftir hverjum drætti í andliti hennar. Í einu orði sagt: athuga nákvæmlega konu þá, er maður hennar hafði elskað. Randolph var í góðu skapi og talaði um alla heima og geima. Hann var alveg forviða yfir þögn og fálæti Lady Aðalheiðar. Hún brosti ekki að orðum hans, og setti heldur ekki ofan í við hann, þegar hann hrósaði henni, sem hún var þó von að gera. Hún tók varla eftir því, sem hann sagði, en horfði alt af á hertogainnuna af Ormont og mann sinn, sem nú sat við hlið hennar.

Caren lávarður var á góðri leið með að flækjast í net það, sem hertogainnan lagði fyrir hann. Eftir að þau höfðu dansað valsinn, hafði hún beðið um ís, og hann fylgdi henni þangað sem ísinn var veittur. Og eftir það vildi hún alls ekki sleppa honum frá sér.

"Ég vona, að við hittumst oft", sagði hún. "Þér verðið strax í kveld að kynna mig konu yðar. Við skulum verða vinkonur, það er ég viss um, og þér, Caren lávarður, verðið að heimsækja okkur við og við".

Hann játti því öllu. Nú kom hertoginn til þeirra. Hann þekti Caren lávarð mjög lítið, en kona hans brosti blíðlega framan í hann. Eftir það gat hún gert alt sem hana lysti fyrir honum.

"Gervase", sagði hún, "Caren lávarður er einn af beztu vinum mínum, og ég óska þú lærir að þekkja hann og verðir vinur hans mín vegna".

"Það er mér hin mesta ánægja", sagði hertog-

inn. "Ég leyfi mér, Caren lávarður, að óska yður til hamingju með hina elskulegu konu yðar. Rétt áðan hafði ég þá ánægju, að kynnast þeirri fegurstu, yndislegustu konu, sem ég nokkurn tíma hefi fyrir hitt, Lady Aðalheiði Caren".

Hertogainnuna sárlangaði að taka fyrir munn manni sínum, en hún hugsaði sig um og áleit bezt, að taka öllu vel. Hún brosti eins blítt og hún gat. "Ég tala ekki um, hvað ég öfunda þig, ég var rétt núna að biðja Caren lávarð að sýna mér konu sína".

"Ef þér eruð ekki boðinn neitt annað, þá væri mér og hertogainnunni hin mesta ánægja í, að sjá yður og konu yðar hjá okkur næsta föstudag. Furstinn af Gadenstein borðar líka með okkur".

Lávarðurinn hneigði sig. Hann virti þennan aldraða heiðursmann fyrir sér, sem var svo algerlega grunlaus um nokkuð ilt eða óheiðarlegt. Honum datt í hug, að hver sá maður, sem notaði sér traust og tiltrú jafn göfugs eiginmanns, væri verri en nokkur þorpari. En svo hló hann með sjálfum sér yfir því, að honum skyldi koma önnur eins fjarstæða í hug.

Hertoginn fór nú frá þeim, en hertogainnan vildi ekki sleppa Caren lávarði. Honum datt nú kona sín í hug og hvort hún myndi skemta sér. Hertogainnan gat sér strax til um hugsanir hans. "Þér hafið hugann annarstaðar", sagði hún, "og takið ekki eftir því, sem ég segi".

Svo beitti hún allri sinni málsnild og brúkaði alla þá fyndni, sem hún átti til, svo hann gleymdi öllu við að hlusta á hana. Og allan þennan tíma horfði Lady Aðalheiður á þau. Hún dansaði, talaði og gerði að gamni sínu, en horfði samt alt af á þau.

Þegar hertogainnan hafði haldið lávarðinum eins lengi hjá sér eins og hún þorði, stóð hún upp og

sagði: "Eigum við nú ekki að leita Lady Aðalheiði uppi, mig langar svo til að kynnast henni?"

Þau fundu hana í litlu herbergi út úr salnum. Kafteinn Randolph sat hjá henni. Hún var þreytuleg að sjá.

Þarna stóðu þá þessar tvær konur augliti til auglitis, sem keptust við að vinna hinn sama mann. Hertogainnan rétti brosandi fram hendina.

"Ég er hjartanlega glöð yfir að hitta yður, Lady Aðalheiður", sagði hún, um leið og hún virti hana nákvæmlega fyrir sér. Hún var hin vingjarnlegasta við Lady Aðalheiði, og vilti henni sjónir með fagurgala sínum, eð svo hélt hún. En hún gat ekki vilt Lady Aðalheiði sjónir, sem las út úr augum hertogainnunnar öfund, ilsku og hatur.

"Lady Aðalheiður var að kvarta um, að hún væri þreytt", sagði kafteinn Randolph.

"Hún hefir dansað of mikið", sagði hertogainnan í afsökunarróm. Kafteinn Randolph tók eftir því og dró sínar ályktanir þar af.

---

## XXX. KAPÍTULI.

"Af hverju ertu að brosa, Allan? Þú ert víst að hugsa um eitthvað skemtilegt?" sagði Lady Caren við son sinn.

Þetta var um morguninn eftir dansleikinn. Lávarðurinn hafði sest niður hjá konu sinni og móður í hinu skrautlega morgunherbergi þeirra.

"Var ég að brosa? Ég var að hugsa um, hve það væri undarlegt, að ef einhver heldri maður hittir einhvern, sem honum fellur vel við, og vill d ila með

honum því bezta sem hann á, þá býður hann honum til miðdagsverðar".

"Það er alveg náttúrlegt. Honum geðjast að þér og vill svo láta þig njóta þess bezta, sem hann hefir að bjóða. Hvern varstu að hugsa um?"

"Hertogann af Ormont. Mér fellur hann vel í geð. Hann minnir mig á hina góðu, gömlu aðalsmenn frá fyrri tímum. Hann bauð okkur heim á föstudaginn".

"Það er maðurinn þessarar fögru konu, sem mesta eftirtekt vakti í gærkveldi?"

Lávarðurinn blóðroðnaði og játti því. "Hvernig lízt þér á hana, mamma?"

"Ég hefi að eins eitt út á hana að setja: Hún er of fögur".

"Það er alls enginn galli", sagði sonur hennar brosandi.

"Jú, mjög alvarlegur galli. Kona, sem er mjög fögur, þarf að eiga skynsaman og gætinn leiðtoga, sem bendi henni þá leið, sem hún skal ganga. Eigi hún engan að, sem bendi henni á hinn rétta veg, gerir hún meira ilt af sér en gott, og ég ímynda mér, að h[illegible]an sé hið mesta daðurkvendi".

"Nei," sagði Allan ákaft, "nú hefir þú stórlega rangt fyrir þér, mamma".

"Er það svo? En þá er það líka í fyrsta sinni, sem ég hefi lesið kvenandlit skakt. Hvernig lízt þér á hana, Aðalheiður?"

Lady Aðalheiður leit til manns síns. Hún sá, að hann horfði á hana alvarlegu, spyrjandi augnaráði.

"Ég get ekki sagt um það, ég talaði að eins við hana í fáar mínútur. Mér fanst hún vera skemtileg. Ef ég sé hana oftar, get ég betur d[illegible]nt [illegible] hana".

Lávarðinum létti við að heyra þetta. Hann brosti til hennar.

"Ætlarðu að heimsækja hertogann á föstudaginn, Aðalheiður?" spurði hann. Hann nefndi hana nú oft Aðalheiði, og þegar hann gerði það, fyltist hjarta hennar af undarlegu samblandi gleði og sorgar.

Átti hún að fara? Hún var búin að hugsa um það með sjálfri sér, en vissi ekkert, hvað hún skyldi gera. Var ekki betra, að ganga beint móti hættunni, — betra að vita með vissu, hvort maður hennar elskaði ennþá þessa fögru konu? Væri ekki betra að vita, hvort nokkur von væri fyrir hana, að reyna að vinna hjarta hans? Fyrst þegar hún sá hertogainnuna, hafði gripið hana örvænting. Henni félst hugur, en svo mannaði hún sig upp og hugsaði sér, að verja öllum kröftum sínum móti klækjum hertogainnunnar. Nú voru þær tvær um að vinna sama manninn. Áður hafði hún verið ein um það, og lítið orðið ágengt. Nú varð hún að beita sér hálfu meira, því mótstöðukona hennar var sú hættulegasta sem hugsast gat. Hún vissi, að upp frá þessari stundu myndi hún og hertogainnan heyja stríð upp á líf og dauða.

Fyrst hafði hún ætlað sér að verða heima, en svo snerist henni hugur og hún ásetti sér að fara. Hún vissi fullvel, að maður hennar elskaði hana ekki, en hún vildi frelsa hann frá þeim fjötrum, sem ástríðufull, vond kona getur lagt karlmannshjartað í. Nú kom alvaran, sem rak í burtu þá sorg og eymd, er áður hafði búið í hjarta hennar, meðan hún var ein um að vinna hann. Hún bar saman mátt sinn og mátt óvinar síns, og henni fanst sem að lokum myndi hún sigra.

"Ég er ekki eins falleg og hún, en rétturinn er á mína hlið", sagði hún við sjálfa sig.

Um alt þetta hugsaði hún, meðan maður hennar

beið eftir svari hennar. Hann var hálf órólegur. Auðvitað gerði það hvorki til né frá, hvort hún færi eða ekki, en bezt væri þó. að hún væri í kunningsskap við hertogainnuna.

"Mér skal vera ánægja t að fara", sagði hún svo, og aftur brosti hann framan í hana.

"Svona bros skal ég einhverntíma fá vegna sjálfrar mín", hugsaði hún með sér, "en ekki vegna annarar konu".

Áður fyr hafði alt af legið mjög illa á henni, — hún var búin að missa alla von um, að vinna hann. En nú, er hún sá hættunni beint í andlitið, óx henni hugur. Hún ásetti sér fastlega, að heyja stríðið, hvað svo sem það kostaði.

Þetta sama kveld stóð hún brosandi fyrir framan spegil sinn. Hún hafði búið sig eins vel og unt var, og hún var mjög vel ánægð með sjálfa sig.

"Ég held ég hafi ekkert að óttast", hugsaði hún. "Ef Allan að eins gengst fyrir fegurð, þakka ég guði fyrir, að hann gafa mér hana". Þegar hún hafði klætt sig, sá hún að maður hennar horfði á hana. Lady Caren, sem alt af hafði lof handa henni á reiðum höndum, lagði hendi sína á herðar henni.

"Allan, sýnist þér ekki Aðalheiður verða fegri með hverjum deginum sem líður?"

Fyr meir mundi hann hafa snúið sér undan og tautað einhver marklaus lofsyrði, en nú brosti hann framan í hana.

"Við megum ekki skemma hana með dálæti, mamma". Bæði orð hans og augnaráð var svo hlýtt og hjartanlegt, að Aðalheiður varð sem öll önnur manneskja. Þau óku svo saman til Ormont hallarinnar, og á leiðinni var hún miklu glaðari og þægilegri, en hún var vön að vera. Hann varð algerlega hrifinn af henni, og nú tók hann eftir, að

hann hafði aldrei talað við neina konu, sem jafnaðist á við hana að greind og fyndni.

Hún var hin glaðasta, er hún kom til Ormont hallarinnar. Hún tapaði alls ekki glaðlyndi sínu, þó hún sæi, hve skrautleg og fögur hertogainnan var.

Hertogainnan stóð prýðilega í stöðu sinni. Lávarður Caren virti hana fyrir sér með mestu aðdáun. Það var sem væri hún vön við frá blautu barnsbeini, að vera innan um alt þetta skraut. En það var þó langt frá, að svo hefði verið. Hana langaði nú mjög mikið til að fá tækifæri til að tala við Caren lávarð, og vinna hann handa sér, því það hafði hún fastlega ásett sér.

Það voru engir fleiri ókunnugir, nema furstinn af Gadstoen, sem kveldið áður hafði mest dáðst að hertogainnunni. Nú hafði hann allan hugann við Lady Aðalheiði, og var alt af í kring um hana. Hún tók því vel. Henni þótti vænt um, að maður hennar skyldi sjá, að öðrum þætti svo mikið til hennar koma. Samt sem áður var hún enn að mörgu leyti saklaus og barnaleg í sér.

Þegar búið var að borða, settust gestirnir inn í salinn. Furstinn hafði mjög mikið gaman af söng, eins og flestir Þjóðverjar. Hann bað Aðalheiði að syngja fyrir sig.

"Ég þarf ekki að spyrja yður að, hvort þér syngið", sagði hann, "ég sé það á andliti yðar og heyri það á málróm yðar, og þegar ég horfi á yður, detta mér í hug fögur, alvarleg kvæði. Ó, lofið þér mér að heyra yður syngja".

"Hvað á ég að syngja fyrir yður?" spurði hún um leið og hún gekk að hljóðfærinu.

"Ekki franska og ítalska söngva, heldur þessi fallegu, dreymandi lög, sem við brúkum á Þýzka-

landi. Kunnið þér ekki þýzku vísuna: 'Ó, ef þú værir mín eigin ást, og alt af vildir vera mín'?"

"Jú", sagði hún, "mér þykir hún mjög falleg".

"Syngið hana þá, ef þér viljið gera svo vel".

Í sama vetfangi hljómaði um salinn svo fagur, sorgblíður söngur, að allir þögnuðu og hlustuðu hugfangnir á hann. Hertogainnan sat í uppáhaldssæti sínu. Hún hafði bent Caren lávarði, að koma og setjast hjá sér. Hann var á leiðinni til hennar, þegar kona hans byrjaði að syngja. Hann varð alveg frá sér numinn, og í stað þess að ganga til hertogainnunnar, gekk hann að hljóðfærinu, — það var sem söngurinn töfraði hann. Þegar hertogainnan sá það, nísti hún tönnum af reiði og eldur glampaði í augum hennar, en hún gætti sín strax og varð á augabragði brosandi út að eyrum. Næst kemur mitt tækifæri", hugsaði hún.

"Ó, ef þú værir mín eigin ást og alt af vildir vera mín", — í því Lady Aðalheiður söng þessi orð með allri þeirri tilfinningu, sem hún hafði yfir að ráða, leit hún í augu manns síns. Hún þorði að syngja það, sem hún þorði ekki að segja við hann.

Hinn fagri, angurblíði söngur hræðri hjarta lávarðarins. Honum fanst hann vera í alglevmingi, og hann horfði stöðugt á hið fagra andlit konu sinnar.

Það er ómögulegt að segja, hver endirinn hefði orðið, ef hertogainnan hefði ekki komið og tekið í handlegg hans.

"Caren lávarður", sagði hún, "ég held þér séuð að sofna, og það vil ég með engu móti. Komið með mér, mig langar til að sýna yður nokkrar fallegar myndir".

Þegar Lady Aðalheiður sneri sér við, sá hún mann sinn ganga yfir salinn með hertogainnunni. Í þetta skifti hafði hún tapað.

## XXXI. KAPÍTULI.

Hertogainnan settist hjá lávarðinum við lítið borð. "Ég ætla að sýna yður óvanalega fallegar myndir", sagði hún, "ég man eftir, hve næman fegurðarsmekk þér hafið".

Karlmönnunum þykir ávalt mikið varið í, að heyra sér hrósað af fallegum konum. Lávarðurinn roðnaði við hól hennar. Hann var ekki búinn að ná sér eftir þau áhrif, sem söngur konu hans hafði haft á hann. Orðin hljómuðu í sál hans; "Ó ef þú værir mín eigin ást og alt af vildir vera mín". Augu hennar höfðu sagt honum, hvað henni bjó í brjósti. Það var sem bæri hún um hjarta hans. Honum fanst að hún væri samboðin hvaða konungi sem væri, að því hvað fegurð og hæfileika snerti. En hvernig gat staðið á því, að hún hafði átt hann á móti vilja hans? Aftur og aftur kom þessi spurning í huga hans, er hann horfði stöðugt á konu sína. Þung stuna leið frá brjósti hans. Hertogainnan tók eftir því.

"Lady Aðalheiður syngur vel", mælti hún.

"Já", svaraði hann, "hún syngur mjög vel".

"Ég hefi aldrei heyrt hana syngja fyr", sagði hertogainnan, "mér datt ekki í hug, að hún syngi svona vel".

"Ég hefi heldur ekki heyrt hana syngja fyr", sagði hann hugsunarlaust.

Hertogainnan leit upp forviða. "Hafið þér ekki heyrt konuna yðar syngja fyr?" spurði hún. "Ég hélt að öll hjón, sem elskuðu hvort annað, mundu

syngja hvort fyrir annað, ég áleit það sem sjálfsagt".

"Má ég spyrja, hafið þér sungið mikið fyrir manninn yðar?" sagði hann.

Hún eldroðnaði og eldur brann úr augum hennar. "Þetta er ekki ærleg spurning, það er að gjalda líku líkt, og vesæl hefnd".

"En hertogainna, þér gáfuð sjálfar orsök til þessarar spurningar".

"Mér stendur alveg á sama, Caren lávarður, hvort ég segi það sem yður líkar eða ekki, — ég vil að eins mega tala við yður".

Lávarðurinn hló. Hann vissi, að þetta var ekki sagt í neinni alvöru. Og nú stríddu þau hvort öðru eins og oft á sér stað meðal þeirra, sem einu sinni hafa hugsað hvort um annað, þangað til lávarðurinn sagði: "Nita, við skulum ekki alt af vera að rífast. Getið þér ekki tekið gamni lengur? Skiljið þér ekki, að ég hefi ekki sagt eitt einasta orð í alvöru?"

Þegar hún heyrði hann nefna sig hinu gamla gælunafni, 'Nita', lék bros um alt andlit hennar, og hún gerði sig eins blíða og henni var unt. "Ég man það", sagði hún, "að þér hafið alt af haft gaman af að stríða mér, en það getur samt orðið full hættulegt fyrir yður. Hinni elskuverðu konu yðar getið þér eflaust strítt eftir vild, hún mundi bara brosa og taka því öllu þakksamlega, en við spönsku konurnar erum öðruvísi".

Einu sinni hafði hann elskað Nitu svo heitt, en nú gladdist hann í hjarta sínu yfir því, að kona hans var svo ólík henni, — að Aðalheiður hans hafði ekki þessa sömu fegurð til að bera. Hún hafði ekki þessi svörtu, tindrandi augu, sem nú litu til hans. Nei, hún átti annað miklu betra: hreina, flekklausa sál. Hann leit til konu sinnar og hugsaði um, að

enginn annar en hann hefði séð hana jafnglaða og ánægða eins og þegar hann hafði talað vingjarnlega við hana.

"Þér eruð sérnilega leiðinlegur í kveld", sagði hertogainnan. "Það kemur þó ekki oft fyrir, að þeim, sem ég tala við leiðist, og þeir hafi hugann annarstaðar".

"Hverskonar ásökun! Mér leiðist alls ekki, Nita. Þér eruð svo heimtufrekar".

Aftur nefndi hann hana gælunafni, en af vananum tók hún ekki eftir að hann sagði það. Hún reyndi nú samt að skemta honum sem bezt hún gat.

Hertogainnan hafði fastlega ásett sér, að töfra lávarðinn, og hann féll algerlega í snöru þá, sem hún hafði lagt fyrir hann, líkt og fluga fellur í kongulóarvef. Augu hennar glömpuðu æ meira og meira. Hún brosti sætara og sætara. Hún næstum talaði í hálfum hljóðum við hann. Hann var eins og ósjálfbjarga. Hann gat ekki slitið sig frá henni. Hitinn og hljóðfærasláttorinn og ilmur blómanna höfðu einnig áhrif á hann. Hann var næstum hræddur við hana. Því hafði hún svona mikil áhrif á hann og vald yfir honum? Honum datt í hug sagan um hafgígjuna, sem svæfði sterka, hugrakka menn, og tók þá svo með sér í djúpið.

Hún sá, hvert vald hún hafði yfir honum. "Nú sleppir hann mér ekki framar", hugsaði hún.

Alt í einu hrukku þau við. Lady Aðalheiður stóð fyrir framan þau í hvítum kjól. Með sitt blíða og milda andlit og bjarta hár, líktist hún fremur engli en jarðneskri veru.

"Ég var farin að halda, að þú værir farinn", sagði hún. Enga minstu ásökun var hægt að finna hvorki í málróm eða svip hennar.

Hertogainnan leit upp brosandi. "Þér sunguð

lávarðinn inn í annan heim, svo ég mátti til, að kveða hann aftur til jarðarinnar".

Hún vissi ekki, hve satt hún sagði, og heldur ekki, hve nálægt hann var kominn jörðunni.

Þær litu rólega hvor á aðra og mældu með augunum hvor annarar kraft. Þær þögðu, en hvor um sig vissi vel, að stríðið milli þeirra var byrjað, og það myndi verða háð upp á líf og dauða.

Lady Aðalheiður vissi, að hún hafði réttinn á sína hlið, heilagan rétt, sem enginn átti með að taka frá henni. Hún átti hina göfugu, óeigingjörnu ást sína, svo óeigingjarna, að hún hefði gjarnan gefið líf sitt fyrir að sjá hann hamingjusaman. Hún átti einnig hina yndislegu fegurð sína, hreint, barnslegt hugarfar og mikla hæfileika.

Hertogainnan hafði á hina hliðina sína töfrandi fegurð, óleyfilega ást og tælandi aðdráttarafl. Hvor þeirra skyldi sigra? Að þeirri spurningu spurði Aðalheiður sjálfa sig, þar sem hún stóð og studdi hendi sinni á öxl mannsins síns. Hún horfði rólega framan í hertogainnuna.

"Ég held, að allir hefðu gott af því, að vera sungnir inn í annan heim, eins og yður þóknast að kalla það. Sá heimur, sem söngurinn flytur oss inn hlýtur að vera göfugri og betri, en sá, sem við lifum í".

"Án efa", sagði hertogainnan hirðuleysislega, en ég er lík lávarðinum, og elska þennan heim. Sá heimur, sem þér talið um, er of myrkur fyrir mig.

Lávarðurinn virti báðar þessar konur fyrir sér. Hann horfði frá sér numinn á konu sína. Það var sem engilljómi legði yfir andlit hennar, hann gat ekki skilið, af hverju það stafaði.

Þá kom hertoginn.

"Þér eruð þá að skoða þessar myndir, lávarður. Þær komu frá Paris í gær". Og nú fóru þeir að

tala um franskar og enskar bókmentir, og allan þann tíma sat Lady Aðalheiður við hlið manns síns, og hlýddi á tal þeirra með mesta athygli. Þeir söktu sér og enn betur niður í samræðuna, er þeir höfðu jafn eftirtektasaman áheyranda.

Kurteisis vegna sat hertogainnan nokkrar mínútur hjá þeim, en fór svo í burtu. "Þegar giftir menn fara að ræða um bókmentir", sagði hún, "langar mig ekki til að hlýða á tal þeirra lengur. Lady Aðalheiði finst það víst skemtilegt, en mér ekki".

Hertoganum geðjaðist mjög vel að Carens hjónunum, honum fanst, sem hann aldrei hefði kynst jafn skemtilegu fólki.

Þegar þau kvöddu hann, sagði hann: "Lady Aðalheiður, ég get ekki lýst þeirri ánægju, sem ég hefi haft af að þekkja yður. Ég er sjaldan margmáll, en mér þætti sérlega vænt um, ef þér og hertogainnan yrðuð góðar vinkonur. Hún er ung og óvön enskum siðum, þess vegna hefði hún svo gott af, að vera í kunningskap við yður, jafngóða og inndæla konu".

Hún leit upp, og sá að maður hennar var rauður út undir eyru, og að eins af meðaumkun með honum sagði hún nokkur vingjarnleg orð, og svo eyddi hún samtalinu með mestu lipurð, án þess að særa tilfinningar hvorugs þeirra.

Þegar þau voru að búa sig af stað, sá Aðalheiður að þjónn hertogainnunnar læddi litlum seðli í lófa lávarðarins. Hún tók eftir, að hann roðnaði og varð mjög ergilegur á svipinn. Því næst sneri hann sér við til þess að vita, hvort hún myndi nokkuð hafa tekið eftir því.

En Lady Aðalheiður lærði nú það erfiðasta, sem nokkur kona getur lært, að láta andlit sitt hvorki vitna um gleði né sorg.

# Arnljótur B. Olson

## XXXII. KAPÍTULI.

Hertogainnan af Ormont stóð ein í skrautsal sínum. Hertoginn hafði fylgt hinum síðasta gesti út. Hún studdi annari hendinni á marmara líkneski, en með henni veifaði hún blævæng sínum, því henni var mjög heitt.

"En hún að voga sér út í stríð við mig, þessi föla enska stúlka, sem ekkert hefir annað að stæra sig af, en þessa heimskulegu rósemi og fallegt hár! Og hún leyfir sér, að standa á milli mín og þess, sem ég elska, — hún með þetta guðræknis andlit og þessar varir, sem eru víst alt af að biðjast fyrir! Svei, ég gæti drepið hana! Ég gæti troðið hana undir fótum mér! Hvað þekkja þessar hæglátu ensku konur til ástar? Og hún kemur á milli okkar einmitt þegar ég var í þann veginn að vinna hann".

Það var alveg hræðilegt að sjá, hve hertogainnan var orðin breytt. Augu hennar brunnu af hatri og reiði. Hún var eldrauð í framan og æddi til og frá um salinn.

"Að hugsa sér að hún tekur hann frá mér með fáeinum marklausum orðum, og hún horfði rólega á mig eins og hún hefði ekkert að óttast! Ég, sem elska hann með þeirri ást, sem honum er verðug! Hún stendur við hlið hans, eins og ætli hún að vernda hann, og eins og hún vilji segja: Þér megið freista hans, ég er hér til að frelsa hann! Ég hata hana!" Og hertogainnan stappaði fótunum í gólfið og skalf af ilsku. "Ég skal fara með hana eins og

þennan blævæng!" Og hún tætti hann allan í sundur og fleygði honum í burtu.

"Ég skal merja hjarta hennar, því ég sé hún elskar hann!! Ég skal særa hana, svo að hún skal líða helvítiskvalir!. Henni hefði verið betra, að láta mig einráða".

Á næsta augnabliki varð hún alveg róleg, og lyktaði af blómi, sem stóð rétt hjá henni. Hún heyrði, að hertoginn var að koma inn, og hún vildi ekki fyrir nokkurn mun, að hann sæi hana í þessu ástandi.

"Ertu þreytt, Nita?" spurði hann.

"Nei, sagði hún brosandi. "Ég gæti vel byrjað daginn aftur, Gervase".

"Hvílík blessun er ekki að vera ungur og hraustur, Nita! Ég hefi líka skemt mér mjög vel í dag. Aldrei hefi ég talað við jafn gáfaðan mann, sem Caren lávarð, og hvað konu hans viðvíkur, þá lízt mér svo fjarska vel á hana".

"Já, þið ættuð víst saman, það er ég viss um", sagði hertogainnan háðslega. En maður hennar veitti því enga eftirtekt. Hann tók að eins eftir brosinu, sem lék um varir hennar.

"Ég vildi gjarnan vera vinur hennar, Nita. Hún hefir auðvitað ekki eins mikla heimsþekkingu eins og Lady Montfalcon, en hún er yndisleg og saklaus, og gædd miklum hæfileikum. Ég vildi óska, að þið gætuð orðið góðar vinkonur."

Hún beit sig til blóðs í varirnar. Svo mælti hún rólega: "Ég vil fara að vilja þínum og óskum og hafa eins mikinn samgang með Carens fólkinu og hægt er".

"Því ertu svona heit í framan, Nita? Hvar er blævængurinn þinn?"

Nú sá hann leifarnar af honum út um alt gólfið.

"Það vildi svo illa til, að hann brotnaði", sagði hún.

"Þú skalt fá annan miklu fallegri", svaraði hertoginn.

"Ó, það er nú það hægasta, að kaupa einn blævæng aftur", sagði hún hugsandi. Hann gat ekki skilið, hvað hún meinti.

Nokkru seinna gekk hún út úr salnum, stolt og tíguleg. Maður hennar horfði á eftir henni, dáðist að henni, og hugsaði um, hve vel hún sómdi sér í þeirri háu stöðu, sem hún var komin í með því að giftast honum.

Lady Aðalheiður nefndi ekki á nafn við mann sinn seðilinn, sem hún hafði séð, að honum var fenginn. Hún var orðin umbreytt mjög. Öll öfund og afbrýðissemi var horfin úr hjarta hennar, síðan hún sá hina hræðilegu hættu, sem maður hennar var staddur í. Í hennar góða, göfuga og hreina hjarta átti engin lág né ógöfug hugsun sér stað. Hann var í hættu, hún mátti til að frelsa hann, eins og góðar konur frá elztu tímum oft hafa frelsað karlmenn frá glötun. Hún mátti ekki hugsa um sínar eigin tilfinningar, heldur standa milli hans og hinnar fögru en vondu konu, sem vildi leiða yfir hann eymd og smán. Hún varð að gleyma sjálfri sér, gleyma að ást hennar var einskis metin. Gleyma öllu nema því, að hún varð að frelsa hann.

Þetta sama kveld, þegar hún var orðin ein í herbergi sínu, féll hún á kné, og snéri hinu fallega, saklausa andliti sínu til himins. Hún bað guð um styrk og þolinmæði, svo hún gæti vakað yfir velferð manns síns. Hún setti sér það fyrir mark og mið, að frelsa hann, og aldrei hefir hreinni né göfugri ást búið í neinu konuhjarta en hennar.

"Guð hjálpar mér", sagði hún við sjálfa sig. "ég skal ekki gefast upp, ég vil standa í vegi fyrir eyði-

leggingu hans, og ég skal vera ánægð, bara ef ég get frelsað hann frá hinni hræðilegu synd og skömm, sem yfir honum vofir".

Hún sýndist vera of ung til að varpa frá sér allri von um ást og hamingju, að hafa það fyrir takmark sitt, sem ómögulegt sýndist að ná, en þó leysti hún það af hendi sem alt annað snildarlega vel.

"Ég má ekki hugsa neitt um mínar tilfinningar, né hvað ég verð að líða", sagði hún, "og ef ég gæt unnið sál hans fyrir himininn, þá er það full borgun fyrir alt, sem ég hefi liðið".

Að þessu takmarki stefndi hún og lagði fram alla krafta sína til að ná.

"Þetta er bardagi vegna kærleikans, og ekki einasta vegna hans, heldur vegna guðsríkis, sem annaðhvort vinnur eða tapar", sagði hún við sjálfa sig.

Það kemur víst ekki oft fyrir, að konan skeytir ekki um tilfinningar sínar, en ofrar hjarta sínu og sál til að frelsa mann, sem enga ást ber til hennar, en geri hún það, líkist hún mest góðum engli.

Þegar Lady Aðalheiður kom niður til morgunverðar næsta morgun, undraðist bæði maður hennar og tengdamóðir yfir hinni miklu alvöru, sem lá yfir andliti hennar. Lady Caren kysti hana og maður hennar horfði lengi á hana.

Það leit út fyrir, að hann væri hvorki rólegur né ánægður. Honum féll alls ekki að hertogainnan fór að skrifa honum, og senda síðan þjón með það. Það var svo æfintýralegt, og það féll alls ekki í smekk ensks prúðmennis. Auðvitað var það satt, að hann hafði einu sinni elskað hana, og nú dáðist hann að henni, en hún var nú annars manns kona, og hann æruverður maður.

Hann hafði tekið sér nærri, þegar hann mátti hætta að hugsa um hana. Hann hafði oft hugsað

til hennar, og varð glaður yfir að hitta hann aftur, og gladdist yfir, að geta oft séð og talað við hana, en ekki kom honum til hugar neitt sem ekki mátti vera. Það var varla til sá maður, er virti meira heimilisfrið og helgi hjónabandsins, en Caren lávarður.

"Því gat hún ekki talað um þetta við mig meðan ég var þar?" hugsaði hann. "Mér fellur þetta ekki, en úr því hún er spönsk kona, meinar hún víst ekkert ilt með þessu".

Ekki varð hann ánægðari, þegar hann hafði lesið bréfið, sem var á þessa leið:

"Kæri vinur minn!! Þér hafið alls ekki verið vingjarnlegur við mig í kveld, — ég er svo hrygg. Æ, lífið er svo leiðinlegt! Ég fer á morgun til Signor Rubinios til þess að láta mála mynd af mér. Þér verðið að koma þangað, því ég geri ekkert út um, hvernig hún á að vera, fyr en þér komið. Þér verðið að koma. Nita",

Honum líkaði alls ekki tónninn í bréfinu.

"Ég held, að hún muni ekkert eftir því, að hún er gift", sagði hann við sjálfan sig. En svo kom honum í hug hið töfrandi fagra andlit hennar og hin svörtu tindrandi augu.

"Hún meinar ekkert með þessu, hún er bara svona gerð", hugsaði hann.

Átti hann að fara? Samvizka hans og æra sögðu nei. En Nitu myndi falla það svo illa, ef hann kæmi ekki. Það tók því ekki, að gera veður út af þessu. Hún vissi ekki svo nákvæmlega um enska siði, og svo gat skeð, að hún fengi hinar og aðrar grillur í höfuðið, ef hann neitaði henni um að koma.

Hann ásetti sér að fara, og biðja Lady Aðal-

heiði um að koma líka. Móðir hans hafði nýlega talað um, að hana langaði til að eiga mynd af Aðalheiði. Signor Rubinos gat svo málað hana líka. Honum hitnaði um hjartaræturnar, er hann hugsaði um, hve falleg sú mynd yrði. Hann ætlaði líka að biðja móður sína um, að koma með þeim. Svo gátu ekki einu sinni hinir siðavöndustu sett neitt út á það.

Hann hefði viljað gefa mikið til að vita, hvort konan hans hefði tekið eftir því, þegar honum var fenginn seðillinn. Hann skammaðist sín fyrir það, og hann vonaði, að hún hefði ekki veitt því eftirtekt.

"Mér fellur illa, ef hún heldur að ég beri ekki meiri virðingu fyrir nærveru hennar á heimili mínu en svo, að ég hafi þannig lagaðan kunningsskap við nokkra manneskju, og það fyrir augunum á henni". Þetta sýndi, að lávarðurinn, þó að hann væri sér þess ekki meðvitandi, virti konu sína æ meira og meira.

Meðan verið var að borða, var hann utan við sig. Hann reyndi að lesa það úr svip Lady Aðalheiðar, hvort hún vissi nokkuð um seðilinn, en hún brosti jafn vingjarnlega til hans og vant var, og á svip hennar var enga ásökun að finna.

"Mamma", sagði hann, "þú varst að tala um, að heimsækja Signor Rubinos. Viltu koma með mér þangað fyrripartinn í dag?"

"Já, það vil ég gjarnan", sagði hún.

"Lady Aðalheiður, mér þætti vænt um, að þú kæmir líka", sagði lávarðurinn.

Hún brosti raunalega, en leit hlýlega til hans. Nú vissi hún, hvað seðillinn hafði haft inni að halda, og hún þóttist vita, að manni sínum hafði ekki geðjast að honum.

"Hann vill að ég komi með sér", hugsaði hún.

Þegar lávarður Caren gekk út úr herberginu, þá

sagði hann: "Hertogainnan af Ormont talaði um að verða þar, svo við verðum ekki ein".

Á þessum tíma var Signor Rubinios frægasti málarinn í London. Hann málaði ekki annað en myndir, og tókst honum það svo vel, að það var sem væru þær lifandi með holdi og blóði.

Hann var frábrugðinn öðrum málurum í því, að hann fékst ekki til að mála annað en fallegar konur. Öllum öðrum neitaði hann, hve mikið sem í boði var, og það þótti því miklu skifta, að fá mynd málaða af honum, því það var næg sönnun fyrir því, að sú kona var fögur, ef Signor Rubinos hafði málað mynd af henni.

Þennan dag voru staddar hjá honum tvær hinar fríðustu konur í London: Hertogainnan af Ormont og Lady Aðalheiður Caren.

Gleðin skein út úr andliti málarans. Að mála þessi fögru andlit mundi verða sannarleg ánægja og auka frægð hans og virðingu.

Hertogainnan var fyrir skömmu komin, þegar lávarður Caren kom. Hún varð mjög ergileg, þegar hún sá, að kona hans og móðir voru með honum. Samt lét hún sem ekkert væri, heilsaði Lady Caren mjög vingjarnlega, en rétti Lady Aðalheiði hendina.

"Mér datt ekki í hug í gærkveldi, er við skildum, að við myndum sjást aftur í dag", sagði hún brosandi.

Hún lét sem hún tæki varla eftir lávarðinum, og hneigði sig kuldalega fyrir honum, en talaði ekki orð við hann.

"Ég hefi sært hana", hugsaði hann með sér. Hann vildi tala við hana, en strax þegar hún sá hann nálgast sig, stóð hún upp og gekk reigingslega í burtu.

Málarinn leyfði aldrei mörgum í einu að vera á vinnustofu hans, en hann hafði skrautlegt herbergi

við hliðina á henni, sem hann bað fólk bíða í. Herbergið var alsett fögrum málverkum, blómum og bókum. Hertogainnan fór þangað inn, og hitti hún þar Sir Geoffrey Plumpton, sem var einn af þeim, er einna mest dáðist að henni, en hafði samt enga von um vináttu hennar. Hann var mjög glaður, þegar hann sá hana koma.

"Mér þykir vænt um, að sjá yður hér", sagði hún við Sir Geoffrey, sem roðnaði út undir eyru. "Ég þarf að fá góða ráðleggingu".

"Í hverju get ég hjálpað yður?" spurði hann.

"Ég ætla að láta mála mynd af mér. Ég hefi orðið fyrir vonbrigðum, ég bað góðan vin minn um að koma og ráðleggja mér, hvernig myndin ætti að vera, en hann neitaði að koma". Hún talaði svo fjörugt og blátt áfram, að enginn skildi hvað hún meinti, nema lávarðurinn og Lady Aðalheiður.

"Nú skuluð þér", bætti hertogainnan við og brosti yndislega framan í Sir Geoffrey, "nú skuluð þér hjálpa mér í stað hans. Hvað sýnist yður svo um myndir eins og þær eru vanalega?"

Hinn ungi barón varð svo utan við sig og feiminn, að það var ómögulegt annað en brosa, og Lady Aðalheiður gat ekki stilt sig um að hlægja ofurlítið. Hertogainnan sá það og hataði hana nú enn meira en áður.

"Má ég gefa fáeinar bendingar?" sagði lávarður Caren og gekk nær.

En hertogainnan lét sem hún heyrði það ekki, en hló og gerði að gamni sínu. Lávarðurinn sá, að hún var reið og myndi seint fyrirgefa honum. Hann virti hana fyrir sér. Það var sem gleddi hún alla, er í kringum hana voru, með fegurð sinni og kæti. Sir Geoffrey varð sem allur annar maður, þegar hann var nálægt henni.

Hafði hann breytt rétt? Henni hafði þótt mið-

ur, að kona hans var með honum, það gat vel verið að hún hafði helzt viljað sjá hann einan, henni þótti alt af svo mikið til hans skoðana koma, og eins gat verið í þessu.

Þegar hann hugsaði um þetta, sagði hann við sjálfan sig, að hann hefði verið ofbráður á sér, og hann afsakaði hana, en ásakaði sig. Kona hans las í augа hans, en sagði ekki eitt einasta orð.

Hann reyndi nú á allar lundir til að ná sættum af henni. En það var ómögulegt, hún var alt af að tala við kvenfólkið og Sir Geoffrey. Hún sá, að lávarðurinn vildi ná tali af sér, en hún vildi ekki, að hann fengi neitt tækifæri til þess. Lávarðinum leið því ekki vel, hann hafði ætlað að breyta hyggilega, en hafði nú reitt hana svo til reiði, að hún fyrirgaf honum það aldrei.

Nú kom Signor Rubinos inn. Augu hans leiftruðu, er hann sá hina fögru konu.

"Ég er hræddur um, að yðar náð sé orðin leið á að bíða", sagði hann.

"Við verðum að sætta okk[illegible] það", mælti hún vingjarnlega. Enginn [illegible] skemtilegri eða viðfeldnari en hún, þegar hún [illegible] að hafa.

"Hafið þér ráðið við [illegible] myndin á að vera. Hún verður að ve[illegible] þér þurfið ekkert að flýta yður með [illegible] hvernig hún verður".

"Ég geri það heldur ekki", sagði hún. "Ég átti von á vini mínum hingað í dag, sem hefir svo gott vit á þess konar, en hann hefir svikið mig".

"Ég get ekki hugsað mér, að neinn vilji svíkja yðar tign".

"Getum við ekki bætt úr þessu á neinn hátt?" sagði Lady Aðalheiður.

"En hvað þér eruð vingjarnlegar! Jú, ég er viss um, að þér eigið hægt með það. Ég er að eins

í efa um, hvort ég eigi að láta mála mig í skrautklæðum, eða einföldum búningi".

"Það verður að vera listaverk", endurtók Signor Rubinos og virti fyrir sér fegurð hennar.

"Má ég koma með eina bendingu?" sagði lávarðurinn.

Hún leit framan í hann og brosti kuldalega.

"Nei," sagði hún, "Signor Rubinos getur greitt fram úr því".

Lávarðurinn þagnaði.

"Ég verð að hugsa um það", sagði málarinn. "Það gæti orðið falleg mynd, ef yðar tign lægi í litlum giltum legubekk, væruð í rauðri flauelskápu, með annan handlegginn beran upp að öxl. Eða eins og ítalskir málarar hafa myndir sínar, í gullllögðum búningi, með hvíta dúfu á annari öxlinni".

Lady Aðalheiður var að náttúrufari listakona. Hún fann nú ekki til nokkurrar afbrýðissemi og sagði því blátt áfram: "Má ég segja nokkur orð um þetta?"

Hertogainnan hneigði sig og sagði, að hún áliti það mikla virðingu fyrir sig.

"Ég held", sagði Lady Aðalheiður, að ef andlitslitirnir eru sterkir, þá eigi alls ekki við, að hafa klæðnaðinn mjög glitrandi. Þér hafið yðar nátt, ekta spanskt andlit, látið því hár yðar falla um herðar niður, og hafið eina stóra, rauða rós í hárinu, og brúkið annaðhvort spanskt slör eða "mantila". Takið svo eftir, að það verður falleg mynd".

"Signor Rubinos hneigði sig.

Það er svo hugðnæmt að heyra fagra konu viðurkenna fegurð annarar konu. Lávarður Caren brosti, en hertogainnan hataði nú Lady Aðalheiði meira en nokkru sinni áður.

## XXXIV. KAPÍTULI.

"Það var ekki ásetningur minn að reita hana til reiði", sagði Lord Caren við sjálfan sig. "Ég gleymdi, hve bráðlát hún er. Hún hefir ekkert ilt meint með þessu, en henni fellur nú illa, að ég hélt að hún væri ekki hyggnari en þetta. Öll framkoma hennar sýnir, að ég hefi haft rangt fyrir mér".

Hann ásakaði nú sjálfan sig fyrir óréttlæti, og langaði til að sjá hana og sættast við hana. Enginn maður gat beðið fyrirgefningar á því, að hann hafði móður sína og konu með sér.

En hann vildi sýna henni, að honum þótti mikið til vináttu hennar koma, og hann óskaði eftir að þau yrðu eins góðir vinir og áður.

Það var liðinn einn dagur síðan þetta skeði, og honum fanst sem hann ætlaði aldrei að taka enda. Hann hugsaði stöðugt til hennar. "Mér fellur svo illa, að gera henni á móti,— af því hugsa ég svo mikið um hana", sagði hann við sjálfan sig.

Hann ásetti sér að heimsækja hana, og fór til Ormont hallarinnar, en þjónninn sem tók á móti honum, sagði að hertogainnan væri ekki heima. Lávarðurinn vissi samt, að svo mundi ekki vera, og fór í burtu í illu skapi. En hertogainnan, sem sá hann út um gluggann, brosti ánægjulega og sagði við sjálfa sig: "Hann gerir það ekki að gamni sínu, að gera á móti vilja mínum í næsta skifti".

Lávarðinum þótti þetta mjög illa farið. Hann hélt að hertogainnan mundi aldrei fyrirgefa sér framar.

"Ég hefði ekki átt að dæma vesalings Nitu

skakt", hugsaði hann. "Hún hefir ekkert ilt haft í hyggju. Ég var líka flón, að láta mér detta slíkt í hug".

Lady Aðalheiður sá, að manni hennar leið ekki vel. Hún gat ekki skilið, af hverju það kom, en hún gerði alt sem hún gat, til að gleðja hann, og stundum tókst henni að fá hann til að gleyma, að hertogainnan var til.

Nú voru liðnir þrír dagar. Þá sagði Aðalheiður, að sig langaði í leikhúsið um kveldið. Lady Caren langaði líka til að fara. Fræg söngkona, Adelina Patti, átti að syngja, og Aðalheiði langaði svo til að hlusta á hana. Lávarðurinn var óvanur við, að heyra konu sína láta í ljósi óskir sínar, og hann brosti, þegar hún talaði um það.

"Það er sjálfsagt", sagði hann. "Mér þykir mjög vænt um, að þú nefndir það".

"Ég er alt af svo hrædd um, að ég valdi þér óþæginda, Allan," sagði hún blíðlega.

Hann leit blíðlega til hennar, og sagði brosandi: "Ég er farinn að hafa mestu ánægju af öllu, sem ég get gert fyrir þig".

Hún leit framan í hann alveg forviða.

"Segirðu þetta í fullri alvöru, Allan?"

"Já, það máttu reiða þig á"

Hún flýtti sér út, til þess hann skyldi ekki sjá, hve glöð hún varð.

"Guði sé lof! " sagði hún við sjálfa sig. En gleði hennar var ekki óblönduð, hún vissi, hve hættulegan óvin hún átti, og að stríðið var ekki nærri því á enda.

Þetta kveld var leikhúsið alveg fult, af því hin heimsfræga kona átti að syngja þar. Flest göfugasta aðalsfólkið í London var þar, og gat að líta margt fallegt þar. En fegurst af öllu var Lady Aðalheiður Caren. Hin fáu orð, sem maður hennar hafði

sagt við hana, höfðu glatt hana svo mjög, að gleðin jók á fegurð hennar. Hún hugsaði ekkert um hina dökkhærðu hertogainnu, hugsaði að eins um það, er hann hafði sagt. Hún var mjög vel klædd og allir veittu henni eftirtekt. Mönnum fanst hún bera af öllum í leikhúsinu að fegurð og yndisþokka.

Lávarðurinn sá, hve mikla eftirtekt kona hans vakti, og honum þótti mjög vænt um það.

"Það er gaman að vera ung og fögur" sagði Lady Caren brosandi við Aðalheiði.

Nú sá kafteinn Randolph þau og kom strax til þeirra.

Lady Aðalheiður", sagði hann, "ég hefi aldrei séð yður eins fagra eins og í kveld, — og heldur aldrei eins ánægða", bætti hann við lágt.

Hún brosti glaðlega.

"Ég veit nú hve mikið er varið í lof yðar", sagði hún, "ég veit þegar þér talið sannleikann og þegar þér víkjið frá honum. En ég er mjög ánægð í kveld".

"Fólk má segja það sem því lízt, en ég er viss um, að ánægjan er það, sem gerir manninn fegurstan", sagði kafteinninn. "En hver er það, sem allir eru að horfa á?" bætti hann við. Hann var samt ekki lengi í neinni óvissu um það.

Í einhverjum skrautlegustu stólunum í húsinu sat hertogainnan af Ormont. Hún hafði dregið knipplingatjaldið upp til hálfs, og myndaði það eins og ramma um höfuð hennar. Hún var að vanda skrautlega klædd. Í hárinu bar hún stóra, nýútsprungna rós, aðra bar hún á brjóstinu, og í hendinni hélt hún á blómvendi. Hún var eins og fögur mynd í ljósgeisla umgerð. Enginn, sem leit hana, gleymdi henni.

Kafteinninn sneri sér brosandi að Lady Aðalheiði.

Lávarðurinn sagðist vilja heilsa upp á hertogainnuna. "Það litur út fyrir, að hertoginn sé ekki með henni", bætti hann við.

Lady Montfalcon og maður hennar voru með hertogainnunni. Það sýndist undarlegt, að meðan hin fræga söngkona lét tóna sína hljóma um alt húsið, þá voru menn alt af að ganga til og frá stól hertogainnunnar. Allir helztu menn í London, máttu til að sjá hana og tala fáein orð við hana, og þóttust fá launað ómak sitt, ef hun lét svo lítið að brosa til þeirra.

Lávarður Caren gekk einnig þangað. Lady Aðalheiður reyndi að hafa allan hugann við hinn fagra, unaðslega söng, en hún gat ekki að því gert, að hún veitti manni sínum nána eftirtekt. Kafteinninn horfði einnig í sömu átt.

Lávarðurinn gekk inn í stól hertogainnunnar, en hún lét sem hún sæi hann ekki. Hún kreisti fast blómin, sem hún hélt á í hendinni, og hjarta hennar sló ótt og títt.

"Innan um allan þennan fjölda, hreytir hún engum ónotum í mig", hugsaði hann og gekk til hennar. Hann talaði nokkur orð í hálfum hljóðum. Honum þætti leitt að hafa stygt hana, en hún lét sem hún heyrði það ekki.

"Hann hefir ekki liðið nóg ennþá", hugsaði hún. "Hann skal fá að vita, hvað það þýðir, að reita mig til reiði".

Hún pressaði varirnar saman og hneigði sig kuldalega fyrir honum, og lávarðurinn sá, að þó hann stæði þar alt kveldið, myndi honum ekkert verða ágengt. Hann vildi samt ekki láta neinn sjá, hve óheppinn hann hefði verið, og sneri sér því að Lady Montfalcon og talaði við hana. Hertogainnan lét sem hún sæi það ekki, og eftir nokkra stund fór lávarðurinn burtu, og kvaddi Lady Montfalcon. En

hertogainnan lét nægja, að hneigja höfuðið lítið eitt, en varir hennar bærðust ekki.

"Þér eruð í engum vinskap við hina fögru hertogainnu", mælti lávarður Hartington við Caren, "ég hélt samt, að þið væruð kunnug".

"Dutlungar kvenfólksins", sagði Lord Caren brosandi á frönsku. Hann lét sem ekkert væri, en honum var þungt niðri fyrir. Hann hélt að öll vináttu væri úti á milli þeirra. Honum hafði þótt svo skemtilegt, að tala við hertogainnuna og vera í vináttu við hana, en nú var alt búið að vera.

Og alt þetta var honum að kenna, af því að hann hafði verið svo heimskur, að halda það ósiðsemi og fljótfærni, þó hún vildi hitta hann hjá málaranum. Hann gat engum kent um þetta nema sjálfum sér.

Kafteinn Randolph hló, er hann kom til baka. "Hertogainnan er líkust Katrínu Rússadrotningu í kveld", sagði hann, "hún sendir þá, sem ekki þóknast henni, í útlegð".

Lady Aðalheiður giskaði á, hvernig farið hafði "Ef hún sýnir honum fyrirlitning, þá skal hann þess betur sjá hve mjög ég elska hann", hugsaði hún.

Hún leitaðist við, að gleðja hann á allar lundir, og eigi leið á löngu, áður en hún hafði komið honum til að brosa. Þá var hún ánægð. Hertogainnan veitti því eftirtekt, og hún sagði við sjálfa sig :

"Ég má ekki láta dragast að fyrirgefa honum.

---

## XXXV. KAPÍTULI.

Lady Clanalpin var hin yngsta af hefðarkonunum í London. Það var að eins eitt ár síðan, að hún gekk á skóla. Hún giftist þegar hun var 18

ára, og hélt enn miklu eftir af sinni barnslegu lund og glaðlyndi.

Hún hrósaði sér mikið af því, að heimboðin hjá sér væru þau beztu í allri London, og það var alveg víst, að allar hennar veizlur og dansleikir voru mjög skemtilegir. Clanalpin átti gamalt hús við Kin, og þar hélt hann veizlur sínar. Lady Clanalpin þótti mjög vænt um þennan stað, og vildi heldur bjóða Londonarfólkinu þangað til sín, en flytja inn í borgina. Henni fanst hún vera frjálsari þar en í hinni miklu borg.

Hún var búin að halda því margar veizlur, en nú vildi hún halda eina til, er tæki öllum hinum fram Maður hennar lét alt eftir henni. "Ljósin út í garðinum skulu líta út, sem tunglsljós væri", sagði hún. "Danssalurinn skal vera sem eitt ljóshaf, — svalirnar skulu vera opnar, svo tunglsljósið að utan nái að skína inn. Alt niður að ánni skulu vera alla vega lit ljós".

Maður hennar hló að hinum barnslegu hugmyndum hennar. Og sama dag voru boðsbréf send í allar áttir.

Lávarður Caren og hertoginn af Ormont voru meðal þeirra, sem boðnir voru.

Lady Aðalheiður hlakkaði til veizlunnar. Hún hafði um nokkurn tíma verið miklu kátari en vant var.

Einn morgun spurði Lady Caren hana, hvernig hún ætlaði að vera búin í þessari tunglsljóssveizlu. "Ég hefi mikið hugsað um það", bætti hún viðj

Lady Aðalheiður leit upp mjög ánægjuleg. Mig langar til að vera sem bezt búin það kveld", sagði hún blátt áfram.

Lady Caren hló. "Ég veit það, góða mín. Allan sagði í gær, að þú værir orðin svo glöð og skemtileg. Ég hefi hugsað mér, að þú yrðir í sægrænum

silkikjól, lögðum með hvítum kniplingum og skreyttum með vatnsliljum. Svo hefir þú gimsteina, og ég ímynda mér, að þessi búningur eigi vel við tunglsljósið hennar Lady Clanapin".

Lady Aðalheiður undirbjó sig sem bezt fyrir veizluna. Einn morgun sagði lávarðurinn við hana:

"Aðalheiður, hefir þú nú búið þig nógu vel undir veizluna. Ég heyri sagt, að allar hinar fegurstu konur í London eigi að vera þar".

Aðalheiði langaði mjög til að vita, hvort hertogainnan yrði þar, en enginn nefndi hana á nafn. Lady Caren spurði son sinn einu sinni, hvort hann hefði séð hana, en hann kvað nei við.

"London er undarlegur staður", sagði hún, "stundum hittast menn á hverjum degi, en aftur líða stundum fleiri dagar, án þessir hinir sömu menn sjáist eða heyri nokkuð hver frá öðrum".

Lávarðurinn vissi vel, hvers vegna hann sá ekki hertogainnuna. Hann hafði séð hana nýlega út í skemtigarði einum, en hún hafði látið sem hún sæi hann ekki.

En nú ætlaði hún sér í þessa dýrðlegu veizlu, og hún hafði hugsað sér, að tala fyrst í stað ekki orð við hann, en svo alt í einu sættast og endurnýja vináttuna.

Það myndi koma alveg flatt upp á hann, og hann yrði svo glaður yfir því, að hann myndi ekki að sinni gera á móti vilja hennar. Hún áleit, að þessi óvild væri hið bezta vopn fyrir sig. Mönnum þykir alt af mest varið í það, sem erfiðast er að fá. Hann hefði nú um nokkurn tíma orðið að vera án hennar, en þess meira myndi honum nú þykja til hennar koma.

Í þessari veizlu ætlaði hún að fyrirgefa honum. Hann var búinn að líða nóg. Henni sýndist hann vera svo raunalegur, þegar hún gekk fram hjá hon-

um alveg þegjandi. Nú ætlaði hún að bæta úr þessu öllu, og honum myndi nú finnast þúsund sinnum meira til hennar koma en áður.

Lady Canalpin var vel ánægð með verk sitt. Danssalurinn var hinn skrautlegasti, og flauelstjöldin fyrir herbergjunum, sem láu út úr honum, voru hálfdregin frá. Hvergi bar skugga á. Og innan um alt þetta liðu skrautklæddar hefðarkonur til og frá. Garðurinn fyrir utan var einnig vel upplýstur. Innan um trén héngu allavega litir lampar, sem litu út eins og tungl í fyllingu, og bekkir voru hér og hvar. Alt var sem í Paradís.

Hertoginn kom að vanda með þeim fyrstu. Hann gekk yfir salinn með konu sinni og dáðist mjög að, hve smekkvíslega öllu var niður raðað. Rétt strax yfirgaf hann konu sína, og fór sjálfur að spila vist.

Hertogainnan var mjög vel búin, og henni fanst sjálfri hún aldrei hafa verið eins falleg og þetta kveld. Hún dansaði við Sir Geoffrey, og svo bað hún hann að ganga með sér í gegn um öll viðtalsherbergin. "Við skulum skoða tunglsljós Lady Canalpin", sagði hún.

Eitt af þessum herbergjum var sérstaklega fallegt. Hvít blómstur voru hingað og þangað og hvítar marmarastyttur stóðu á milli þeirra, og inndæll vatnsniður heyrðist þangað upp. Ljósin nutu sín svo prýðilega innan um alt skrautið og blómin.

Sir Geoffrey var hvorki mælskur né smekkmaður, en samt skildi hann, að öllu þessu var dásamlega fyrir komið. Hertogainnan settist þar, sem bezt heyrðist til vatnsniðsins, og hlustaði með athygli á hann. Sir Geoffrey hélt, að henni þætti mikið til sín koma, og talaði af allri þeirri mælsku, er hann hafði yfir að ráða. Hún hlustaði brosandi á hann. Ef hann hefði vitað, að hún ekki að eins tók ekki

eftir einu einasta orði, sem hann sagði, heldur hugsaði um, hvernig hún ætti að fara að að koma honum í burtu og ná í Caren lávarð, þá helði honum að líkindum ekki þótt eins mikið til hennar koma.

Alt í einu sneri hún sér að honum og spurði :

"Hafið þér nýlega verið að lesa skáldskap? Gangist þér nú strax við því", bætti hún við.

"Nei", sagði hann alveg forviða, "það hefi ég vissulega ekki gert".

"Jæja, þá eruð þér í raun og veru svona skáldlegur. En nú verðið þér að fara. Allar fallegu stúlkurnar inni myndu hata mig, ef ég héldi yður lengur hjá mér".

Sir Geoffrey brosti og varð mjög upp með sér af orðum hertogainnunnar. Svo spurði hún hann alt í einu, hvort hann myndi eftir Caren lávarði, "sem við hittum hjá Rubinios", bætti hún við.

"Já, ég man eftir honum", sagði hann.

"Ef þér sjáið hann í salnum, þá segið honum að hertogainnan af Ormont vilji finna hann. Þér segið honum, hvar mig sé að finna. En yður finst nú ef til vill ekki skemtilegt að vera sendiboði", sagði hún.

Sir Geoffrey gekk í burtu án þess að gruna neitt og hertogainnan brosti, þegar hann var farinn.

"Það er merkilegt, hve hægt er að fara í kring um þessa karlmenn, ef maður nær tangarhaldi á þeim eru þeir hlýðnari en nokkurt barn. Ég efast um, að hann finni lávarðinn samt".

Margir gengu framhjá henni, en hún sýndist vera svo sokkin niður í hugsanir sínar, að enginn vildi trufla hana. Hún sat þar sem drotning innanum öll hin fögru hvítu blóm.

Nú heyrðist fótatak. Svo varð alt kyrt. Hertogainnan vissi vel, hver það var, sem kom, en hún leit ekki upp. Caren lávarður stóð og virti hana

fyrir sér. Hún var blíð á svip, og það jók á fegurð hennar. Hún horfði dreymandi augum á vatnsfallið úti fyrir.

Nú kom hann nær. Hann vissi varla, hvað hann ætti að segja. "Skyldi það vera satt, að hún hefði gert boð eftir honum? Gat ekki skeð, að hún sneri sér frá honum þegar hann ávarpaði hana, og vildi alls ekki tala við hann. Ó, Nita, að þvílíkur kuldi skyldi nokkurntíma ríkja á milli okkar. Og einu sinni höfðu þau þó elskast svo heitt". Nú setti hann kjark í sig. Hann hafði ekkert rangt gert, þó hann hefði haft konu sína með sér. Það var ekki rétt af henni, að reiðast af því. Hann gekk til hennar.

"Yðar náð óskaði að sjá mig".

Hún sneri sér að honum brosandi og rétti honum hendina.

"Eruð þér sorgbitinn?" spurði hún í mjúkum lágum róm.

Hann var engin bleyða, heldur hugrakkur maður, og það þurfti meira en að eins eitt bros til að yfirstiga hann.

"Sorgbitinn, hvers vegna?" spurði hann. Honum datt ekki í hug að afsaka sig, þó hann hafði haft móður sína og konu með sér til málarans.

Hún stóð nú upp og gimsteinar hennar vörpuðu geislum alt í kring um hana. Hún lagði hönd sína á handlegg hans.

"Þér eruð sorgbitinn yfir að hafa dæmt mig rangt".

Hann roðnaði, og hún hélt áfram: "Þér hafið að líkindum misskilið mig. Það er svo langt síðan við skildum, að þér hafið gleymt mér, — gleymt mér, Allan. Ensku stúlkurnar eru rólegar og kaldar, alt öðru vísi en við Castilíu konur. Ég álít yður sem gamlan vin minn, sem ég hélt að skildi mig.

En þér hafið gleymt mér og umgangist mig sem ó-kunnuga".

"Nei, Nita, það er ekki satt. Ég ber í mínu heita hjarta sömu vináttu til yðar".

"En þér misskiljið mig, og hafið konu yðar með yður, — til að gæta yðar, að ég ímynda mér. Ó, Allan, hvað þér eruð orðinn umbreyttur! Getum við ekki verið vinir. Mér þykir svo mikið varið í, að vera í vináttu við yður. En hvernig get ég það, þegar þér hafið jafnlágar hugsanir um mig? Ef þér óskið þess, getum vér náttúrlega látið, sem við höfum aldrei þekst. Ég get þá endað þennan þægilega draum. Við getum lifað í hinum sama heimi án þess að hittast nokkurntíma. Þér skuluð alveg sjálfráður. En ef við höldum áfram vináttu okkar, þá megið þér ekki dæma mig jafn óréttlátt og nú. Þér verðið að muna eftir, að hin spanska kona með sitt heita hjarta er öðruvísi skapi farin en ensku konurnar".

Henni vöknaði um augu, þegar hún sagði þetta.

"Ég álít það hina mestu virðingu og hamingju fyrir mig, að vera vinur yðar, Nita. Þér ættuð að vita það. Og nú skulum við ekki minnast meira á þessa leiðinlegu misklíð".

"Ég skal gleyma þessu, ef þér hátíðlega lofið mér, að það skuli ekki koma fyrir aftur. Mér er alveg sama um, hvað heimurinn heldur um mig, en mér fellur illa, ef þér hugsuðuð eitthvað ilt um mig. Mér þætti miklu betra, að skilja nú við yður fyrir fult og alt, en að þér dæmduð mig jafn ranglega aftur".

Ljósgeislarnir féllu á andlit hennar og breiddu yfir það nokkurskonar töfraljóma. Hann sá mjög eftir, að hafa sært hana. Blómsturilmurinn gerði hann eins og utan við sig. Hann laut niður og kysti á hönd hennar.

"Nú erum við vinir" sagði hann lágt.

"Já, til dauðans", svaraði hún. Hún brosti, og hefði hann séð það, myndi hann hafa gætt sín betur framvegis.

"Ég hefi svæft hann. Aldrei tíðar mun hann efast um mig", hugsaði hún.

Nú heyrðu þau, að verið var að spila fallegan þýzkan vals. Hertogainnan leit framan í hann. Hafið þér lofað þessum dans?" spurði hún.

"Nei", sagði hann.

"Þá skulum við ekkert hugsa um hann", sagði hún og brosti yndislega. "Mér þykir miklu skemtilegra að sitja hér og tala við yður. Enginn ónáðar okkur, því allir eru að dansa. Er ekki öllu vel fyrir komið! Það er engu líkara, en ljósbirtan sé í raun og veru tunglsljós".

Hann sat við hlið hennar, en hún hélt samtalinu uppi. Hún talaði af viti og þekkingu. Hún vildi hrífa hann með fyndni sinni, láta hann dáðst að sér, en hún gætti þess að fara ekki lengra en hún sá sér fært.

Henni tókst það vel eins og alt annað, sem hún tók sér fyrir hendur.

"Er Lady Aðalheiður hér?" spurði hún eftir nokkra stund.

"Já, mælti hann. "Við komum seint. Hafið þér ekki séð hana?"

"Nei, — mér finst stundum, sem ég sé ekki að skapi hennar. Ó, hvað hún er góð, Allan, — ég vildi gefa mikið fyrir, að vera lík henni".

Kænskan, sem fólst í þessum orðum hennar, rak á burtu þann síðasta snefil af efa um hreinskilni hennar, er ríkt hafði í hjarta hans. Honum fanst hún vera svo sönn og blátt áfram.

"Ég get ekki skilið, hvers vegna þér óskið eftir, að vera öðruvísi en þér eruð", sagði hann.

Hún hló. "Sumum þykir ég vera falleg, öðrum ég vera glimrandi, — en ég vildi gefa alla fegurð mína til þess að vera eins góð og blíð eins og Lady Aðalheiður er".

Hann gat ekki álitið annað, en að hún væri góð og skemtileg. Hún laut niður yfir vatnið og raulaði vísu fyrir munni sér.

"Hvaða vísa er þetta, Nita?"

Hún leit framan í hann. "Munið þér ekki lengur eftir henni?" spurði hún.

"Koma og fara hin kæra ást má,
kærleikann leiða um foldu og sjá.
En ef að ég Mary Ann ekki má fá,
elskunnar vegum ég burtu sný frá".

"Mér þykir svo vænt um þessa vísu, en ég vil hafa annað nafn. Nú er valsinn úti og dansfólkið kemur brátt hingað, og þá er úti með samveru okkar. Hver gaf yður blómin, sem þér berið?"

Hann kvaðst sjálfur hafa valið þau. Hún tók þá stóra rós úr blómaknippi því, sem hún hélt á og sagði: "Sir Geoffrey bað mig um eina, en ég neitaði. Þetta eru mínir uppáhaldslitir, ljósrautt og hvítt, þér skuluð verða mér trúr riddari og bera þá".

Hún tók blómið, sem hann bar, og fleygði því í burtu en setti rósina í staðinn. Svo brosti hún hróðug framan í hann.

"Gætið yðar nú, ég ætla einungis að veita þessari rós eftirtekt. Ef hún fölnar og deyr, þá hafið þér gleymt mér, en ef hún heldur sér og lifir, þá veit ég að þér munið eftir mér".

Hann hló. "Er hvað þetta er líkt yður, Nita, ein af þessum spönsku hugmyndum yðar".

"Já, það er líkt mér. Munið nú eftir, að ég er

öðruvísi en þessar ensku konur. Mér finst svo margt náttúrlegt og sé ekkert ilt í, sem þær eru hræddar við".

"Þér eruð svo blátt áfram og alt verður svo náttúrlegt hjá yður. En þarna kemur dansfólkið".

Nú var úti með samtal þeirra.

---

## XXXVI. KAPÍTULI.

Nokkru seinna sá Lady Aðalheiður mann sinn hjá hertogainnunni, og hún sá, að góðverk hennar var ekki nema að eins hálfnað.

"Aftur hefir henni tekist að töfra hann", hugsaði hún.

Veizlan var í alla staði hin bezta. Lady Clanapin var hin ánægðasta, og fullviss um, að þessi veizla var sú langbezta, er haldin hafði verið á þessu ári. Allir gestirnir hrósuðu henni, en enginn hafði þó skemt sér eins vel og hertogainnan af Ormont. Hin marglitu ljós, blómsturilmurinn og hljóðfæraslátturinn, alt þetta hjálpaði henni til í hinu skammarlega ráðabruggi hennar. Seinna um kveldið, er heitt var orðið inni, kvað hún sig langa til að koma út að skoða ána. Lávarður Caren bauðst strax til að koma með henni, og þau gengu niður að ánni. Ljósin skinu yfir ána og niður hennar var sem fegursti hljóðfærasláttur. Þau töluðu ekkert orð, en þögnin dró þau nær hvort öðru, en nokkur orð myndu hafa getað gert.

Hertogainnan stundi nú þungan og leit framan í lávarðinn.

"Hve fagurt og rólegt hér er, engin orð geta

lýst því, maður að eins finnur það!" sagði hún. "En nú fer hertoginn víst að leita að mér, því hann fer alt af svo snemma heim. Við verðum því að snúa við".

Þau gerðu nú svo, en gengu mjög hægt, og töluðu um kvæði, er snerti ást.

Loks komu þau aftur inn í danssalinn, og var hertoginn farinn að leita að konu sinni, enda var þá komin mið nótt.

"Við verðum að fara að halda af stað, Nita, við eigum langan veg að fara", sagði hann. "Þú ert víst orðin þreytt", bætti hann við. Það var þó alls ekki á henni að sjá, að hún væri það. Hún myndi hafa kosið að vera miklu lengur, ef hún hefði mátt ráða. Áður en þau fóru, sagði hertoginn við Caren lávarð, að hann ætlaði sér að taka reiðtúr til Richmond, og hann vonaði að lávarðurinn yrði sér samferða. Hertogainnan leit biðjandi augum framan í hann, svo að hann gat ekki neitað, en sagði að sér skyldi vera það hin mesta ánægja.

"Við erum ekki búin að gera út um það alt ennþá, en ég ætla að hitta yður á morgun og ráðfæra mig við yður", sagði hertoginn.

Hertogainnan hafði alveg rétt fyrir sér, er hún sagðist hafa svæft Caren lávarð.

Hún hafði talað svo hreinskilnislega og látist vera svo aum yfir þessum misskilningi, að honum kom ekki til hugar, að hún meinti annað en hún talaði.

Hann var gáfaður og heiðvirður maður, fljótur að finna út, hvernig menn í raun og veru voru, en hún hafði sáð ryki í augu hans og svæft hann. Hann ásakaði nú að eins sjálfan sig, — en ekki hana. Honum fanst hann hafa verið fljótfær og ranglátur gagnvart henni. Hann rak í burtu alla þá tortrygni, er hann hafði borið til hennar.

Henni var fullvel ljóst, hvern sigur hún hafði unnið. Lengi eftir að hertoginn var sofnaður, sat hún í búningsherbergi sínu, og rifjaði upp fyrir sér alt er við hafði borið. Þjónustustúlka hennar undraðist yfir því, hve lengi hún sat þarna. Ljósastjakar stóðu á borðinu hjá henni og vörpuðu geislum yfir hina dýru gimsteina hennar.

Hún var farin úr veizlufötunum og þjónustu stúlkan hafði farið með þau í burtu. Hún áleit að þau hefðu komið að góðum notum. "Ég fer að halda, að ég sé kæn", hugsaði hún. "Enginn hefði unnið hann eins og ég hefi gert. Ó, hversu ólíkt er líf mitt nú og áður en ég hitti hann. Hversu fagur og yndislegur er hann ekki. Hann er fyrir mig það sem sólin er fyrir blómin. Gæti ég lifað án hans?"

Nei. Hún rifjaði upp hvert einasta orð, sem hann hafði sagt, hvert einasta augnaráð, er hann sendi henni. Engin aðvarandi rödd hvíslaði að henni.

Falska kona, fláráði vinur, varaðu þig!! Því laun syndarinnar er dauðinn!

Var það syndsamleg ást, er fylti hjarta hennar, sú ást, er leiddi hana í blindni á barm glötunarinnar? Sú ást, er lét hana gleyma öllum skyldum bæði við guð og menn. Hún spurði sjálfa sig aldrei að því. Hún hugsaði ekkert um, hve ljótt það var, eða hver endirinn yrði. Ef samvizka hennar lét til sín heyra, lét hún það sem vind um eyrun þjóta. "Lífið er stutt", sagði hún, "og maður lifir að eins einu sinni, ég vil því njóta þess eins vel og mér er unt".

Hið sama hafa heiðingjarnir sagt á undan henni, en þeir vissu ekki betur. Þeir, sem kalla sig kristna, hafa einnig talað þannig, en á dauðastundinni hefir samvizkan vaknað hjá þeim, og þá mundu þeir fegrir viljað hafa breytt betur en þeir gerðu.

Klukkan sló 2, en hertogainnan fann ekki til svefns. Loks tók hún eftir, hve hinar tvær stúlkur, er vöktu eftir henni, voru orðnar sifjaðar. Hún sagði, að þær þyrftu ekki að bíða lengur, en sjálf kvaðst hún ekki vilja hátta strax.

Hún sat lengi alein uppi, þangað til svefninn sigraði hana, og eins og í þoku sá hún mynd Carens lávarðar. Þá gekk hún til hvílu.

"Ég skal aldrei gleyma veizlu Lady Clanalpin og þeim sigri, sem ég vann þar", — með þessi orð á vörunum, sofnaði hún.

---

## XXXVII. KAPÍTULI.

Hertoginn var mjög gestrisinn maður, og hann vildi, að veizlan ,sem hann ætlaði að halda í Richmond yrði svo stórkostleg, að hún yrði lengi í minnum höfð. Hann ferðaðist þangað sjálfur og ráðstafaði öllu við gestgjafann, sem átti að standa fyrir því. Hann pantaði allskonar vín og sagði fyrir, hvaða matur skyldi vera hafður.

Fyrst áttu allir gestirnir að koma saman í Ormont höllinni og borða þar, svo átti að ríða og aka þaðan til Richmond.

Lady Caren vildi ekki fara. Hún hafði um nokkurn tíma verið mjög fálát og niðurdregin og sonur hennar tók sér það mjög nærri, en vissi ekki hvað valda mundi.

Lady Aðalheiður ætlaði að fara. "Þú hittir gamla vini þar", sagði lávarðurinn við hana. "Lady Kan og Alísa eru boðnar, og einnig kafteinn Randolph, en ég veit ekki, hvort hann fer".

"Ég skil ekkert í því", sagði nú Lady Caren, "af hverju Rafteinninn giftir sig ekki. Maður í hans stöðu hefir ekkert leyfi til að vera ógiftur".

Lávarðurinn hló. "Ég held að engin lög séu til, sem geti neytt mann til að gifta sig".

"Skeð gæti, að það væri betur, að svoleiðis lög væru til", sagði móðir hans. "Ungir menn hafa miklu betra af, að festa ráð sitt en vera einhleypir. Ég fæ ekki skilið, hvers vegna hann á ekki Miss Alísu Kan. ég er þó viss um, að henni lýst vel á hann"

"Einmitt það getur verið ástæðan fyrir því, að hann á hana ekki. Karlmennirnir vilja vinna sjálfir, en ekki láta vinna sig. Ef maðurinn giftir sig og vill verða lánsamur, verður hann sjálfur að velja og vinna".

Lávarðurinn sagði þessi orð alveg hugsunarlaust og án þess að meina nokkuð sérstakt, en Lady Aðalheiður varð eldrauð í framan við orð hans.

Það var sú tíð, sem hann hefði látið sér standa á sama um, hvort hann særði hana eða ekki, en sú tíð var liðin, og honum sárnaði við sjálfan sig fyrir að hafa sagt þetta. Hann gekk til hennar og lagði hendur sínar á herðar henni. Hún leit framan í hann.

"Aðalheiður", sagði hann blíðlega, "ef ég einhverntíma segi í hugsunarleysi það sem særir þig, þá minstu þess, sem ég segi nú: Ég meina þau ekki til þín, ég vildi ekki fyrir nokkurn mun hryggja þig".

Hún mintist þeirra tíma, sem hann hugsaði ekkert um, hvort hann gladdi hana eða hrygði. Hún brosti því glaðlega framan í hann, og það fór henni svo vel, að lávarðurinn horfði á hana með aðdáun.

Svo datt honum í hug: Hvers vegna átti hún hann á móti vilja hans? Hún, sem var svo sönn, einlæg og göfug. Hún vissi þó vel, að hann ekki

elskaði hana. Hvernig var þessu varið? Hver gat ráðið þessa gátu? Hann þóttist viss um, að hér væri um eitthvert leyndarmál að ræða. Þess betur, sem hann lærði að þekkja konu sína, því meir þótti honum til hennar koma. Hvernig gat staðið á því, að jafn fullkomin kona í öllu, sem Lady Aðalheiður, átti þann mann, sem ekki elskaði hana og sem hafði beðið hann um, að ónýta þann samning, sem hann fyrirleit?

"Eg gæti bezt ímyndað mér", hugsaði hann, að hér lægi leyndarmál undir, og ef svo er, skyldi ég nokkurntíma komast að því?

Dagurinn, sem fara átti til Richmond, var runninn upp. Lady Aðalheiður hlakkaði ekki mikið til hans. Að vísu þótti henni hertoginn skemtilegur. Hún áleit hann mesta prúðmenni, en henni leiddist hertogainnan. Hún var að vísu framúrskarandi falleg, og karlmönnunum leizt prýðilega á hana. Og hún gat fylgst með í öllu, talað um skáldskap, og næstum hvað léttúðarfult, sem bar á góma, gat hún gefið orð í. En hún gerði sér ekki minsta ómak til að þóknast kvenfólki. Það var ekki annað sjáanlegt en hún hataði sitt eigið kyn, og áliti, að karlmenn væru þær einu manneskjur, er vert væri að tala við.

Lady Aðalheiður ætlaði til Richmond einungis vegna þess, að hún hafði ásett sér að standa á milli manns síns og allra þeirra freistinga, sem myndu mæta honum þar. Hún bjó sig mjög vel. Kjóll hennar var allur lagður dýrum og fögrum knipplingum.

Í Ormont höllinni hittu þau furstann af Gadsteen, Lady Kan og Alísu, greifainnuna af Carstares, lávarð og Lady Paragon, kaftein Randolph og marga fleiri háttstandi menn og konur.

Meðan verið var að borða, komu menn sér saman um, hverjir vildu fara ríðandi og hverjir keyrandi

Lady Aðalheiður ætlaði að keyra í vagni sínum. Alísa Kan spurði, hvort hún mætti vera með henni, og kafteinn Randolph mæltist til hins sama. Hún leit hálf hrædd til manns síns. Hann hafði verið svo góður og nærgætinn við hana, að hún hálfvegis vonaði, að hann mundi keyra með sér. Hún horfði spyrjandi á hann, og hann ætlaði að fara að biðja hana um rúm handa sér, en þá sneri hertogainnan sér að honum:

"Það er að eins eitt, sem ég vona, að ég hafi ánægju af í dag", sagði hún, "og það er að ríða með yður til Kin. Bonnibell minn er hér og margir fleiri góðir hestar. Ég vona, að þér neitið ekki þessari bón minni".

Hann var gestur hennar og átti því ekki gott með að neita því. Þar að auki þótti honum mjög skemtilegt, að ríða með henni. Hún tók sig svo vel út á hestbaki og var alveg óhrædd. Hann leit á hið alvörugefna andlit konu sinnar — hugsaði sig um.

"Ég þóttist vita", sagði hertogainnan fleðulega, "að þér munduð ekki neita mér, og ég hefi því valið hest handa yður".

Hann hneigði sig til samþykkis. Enginn hafði heyrt þetta. Rétt á eftir var staðið upp frá borðum. Lady Aðalheiður gekk til manns síns.

"Allan", sagði hún blíðlega. Þau nefndu nú ávalt hvort annað með nafni. "Allan, viltu keyra með mér?". Hertogainnan heyrði þetta. Hún brosti með sjálfri sér. "Ég varð í þetta sinn á undan þér, mín fagra Lady", hugsaði hún. Lávarðurinn varð í vandræðum við bæn konu sinnar.

"Ég var alveg nýbúinn að lofa hertogainnunni, að ríða með henni", sagði hann.

Mörgum konum mundi hafa sárnað, en Lady Aðalheiður lét sem ekkert væri, hún var hans góði eng-

ill, og ef hún átti að geta komið fram ásetning sinum, mátti hún ekki hugsa neitt um sig. Það var ómögulegt að sjá á andliti hennar, hvort henni þótti betur eða ver.

"Ég vona, að þú skemtir þér vel", sagði hún brosandi, "veðrið er svo gott". Rétt í þessu kom kafteinn Randolph til þeirra.

"Ég get varla trúað minni eigin hamingju", sagði hann. "Á ég virkilega að fá að keyra með yður, Lady Aðalheiður?"

Hún hló og játti því.

Það var ekki frítt fyrir að lávarðinum félli illa, þegar hann sá, hve "Beauty" gladdist yfir að fá að vera með Lady Aðalheiði á leiðinni.

"Hérna kemur Bonnibell", sagði hertogainnan "Ó, hvað ég hlakka til. Hertoginn vill heldur keyra en fara ríðandi, en ég — já, þér munið víst eftir, hve mikið gaman mér þykir að sitja á hestbaki".

"Já, og ég man líka eftir, hve góð reiðkona þér eruð".

"Það er fallega gert af yður, að veita mér þessa ánægju. Þó alt sýnist brosa við mér, þá hefi ég, þegar alt kemur til alls, ekki mikla gleði af lífinu".

Hann var göfuglyndur maður og gladdist af, að geta glatt aðra. Hún gat því ekki valið heppilegri orð.

"Jafn mikið og mér þykir varið í útreiðir, fæ ég þó sjaldan tækifæri til þess. Hertoginn er dálítið sérvitur, og vill ekki hafa nema einstaka mann með mér í útreiðir, og þér eruð einn af þeim".

"Þá vona ég, að þér snúið yður alt af til mín, þegar þér þurfið á fylgdarmanni að halda, ég skal ávalt vera tilbúinn". Hún þakkaði honum og ásetti sér að nota það.

Hertogainnan sat vel á hestbaki, og hún var nú

bundnu máli og yrkið til mín, [illegible] lávarður".

Margt af kvenfólkinu stó[ð] upp, en engin[illegible] hertogainnunni. Allir vissu, að hún vildi ekki [illegible] ónáða sig, þegar hún tók sig út úr á annað borð.

Lady Aðalheiður hafði heyrt á tal hennar við mann sinn, og sömuleiðis kafteinn Randolph.

"Má ég yrkja til yðar, Lady Aðalheiður? spurði hann.

"Ónei, þakka yður, ég læt mér nægja óbundið", sagði hún.

"Alísa, viljið þér koma með mér, golan frá ánni er svo svalandi".

Hún vildi hafa Alísu með sér, svo hún og kafteinn Randolph væru saman úti á svölunum. Hún vissi, að það var Alísu hin mesta gleði, að geta verið hjá honum.

Hún talaði við Alísu þannig, að hæfileikar hennar komu sem bezt í ljós, svo kafteinninn sæi, hve saman gimstein hann fengi, þar sem hún var. Lady Aðalheiður þóttist viss um að Alísu litzt vel á hann.

Hún reyndi af fremsta megni, að gera aðra hamingjusama, á meðan allur hennar hugur og hjarta dvaldi á þeim svölunum, sem enginn sýndist þora að vera á.

Hertoginn var að ræða um stjórnmál við nokkra af gestum sínum. Hann hélt að kona sín myndi skemta hinum gestunum, en hann hafði ekki hugmynd um, á hvaða hátt hún gerði það.

Hún hafði dregið fortjaldið, sem skildi svalirnar frá salnum, niðar. Það var næstum niðamyrkur. Golan færði með sér blómangan og einstaka fugl heyrðist syngja. Hún sat og sneri sér að ánni, brosið var horfið af andliti hennar og þunglyndisblær kominn í staðinn. Hún var óneitanlega fögur, er hún sat þar í kveldkyrðinni. Alt var svo rólegt, að Caren lávarður sýndist ekki vilja rjúfa þögnina.

"Ég get ímyndað mér", sagði hún loks, "að ef við hefðum gifst, þá hefði meiri partur af lífi okkar liðið í þögulli hamingju. Þegar ég er ein hjá yður, finst mér ég falla í algleyming. Ég skil ekkert í, af hverju það kemur".

"Mér finst það sama", sagði hann.

"Ég ímynda mér helzt, að það stafi af því, að við dáustum að því sama, og við skiljum hvort annað svo vel, að við þurfum ekki að brúka nein orð".

"Það er vel trúlegt", sagði hann.

"Ég er því tilfinninganæmari, sem ég læt þær sjaldnar koma í ljós".

"Ég ímynda mér, að flestir haldi tilfinningum sínum leyndum", sagði hann.

"Þeir eiga bezt, sem engar tilfinningar hafa, rólegt, kaldlyndt fólk, sem hvorki þekkir til fullkominnar sælu, né til hinnar djúpu örvæntingar".

"Er það alvara yðar, Nita, að álíta þær manneskjur hamingjusamastar?"

"Já, áreiðanlega. Hvað gera ástríðurnar annað gott, en setja hrukkur á enni okkar, reka æskuna á flótta og setja grá hár í höfuðið löngu fyr en ellin kemur til sögunnar? Nei! Þér megið reiða yður á það, að allar geðshræringar eru mjög skaðlegar. Ninore D. Enelos, sem varnafnfræg fyrir fegurð sína, hélt henni til dauðans. Haldið þér að hún hafi nokkurn tíma grátið af sorg, eða hennar svíknu vonir hafi hlegið eins og margar gera? Nei, sá sem vill halda fegurð sinni, verður að varast alt því um líkt".

"Þér eruð undarlegur lærimeistari, Nita. Hugsið þér til að ganga í gegn um lífið, án gleði og án mótgangs?"

Hún stundi þungan. "Ég mun aldrei njóta neinnar ánægju, og ég hefi liðið verstu kvalir".

Hún færði sig nær honum, og talaði í hálfum

hljóðum við hann. Hún horfði til himins, talaði um stjörnurnar. Hún horfði út á ána, og talaði um það sem hún nefndi hinn fagra söng hennar. Hún talaði um alt, sem hún vissi að mundi hrífa hann, þangað til henni tókst að töfra hann, svo að hann gleymdi öllu nema nærveru hennar.

Hún tók strax eftir því. Hún sá leiftri bregða fyrir í augum hans, og hún brosti sigrihrósandi.

"Nú hefi ég hann á valdi mínu", hugsaði hún. En í sama bili var tjaldið dregið til hliðar og Lady Aðalheiður stóð hvítklædd fyrir framan þau. Hin hreina, rólega framkoma hennar, var blessun fyrir lávarðinn. Töfrarnir, sem hann var í, hurfu burtu og urðu að engu, er hann sá konu sína.

Hann stóð upp. "Komdu og líttu á ána, Aðalheiður", sagði hann. Hún laut yfir grindaverkið og horfði á strauminn. Svo sagði hún: "Áin er mjög falleg. En, Allan, það er víst orðið mjög framorðið. Mér sýnist líka hertogainnan vera þreytt".

"Nei, það er nógur tími eftir ennþá, sagði hertogainnan. "Það bezta við þessar Richmond ferðir er, hvað þær enda seint".

En lávarðurinn hafði tekið hönd konu sinnar, og sagðist vilja fara að halda heim. Aftur hafði hertogainnan tapað.

Ó, hvað hún hataði hina góðlyndu, fögru Aðalheiði! Því verður ekki með orðum lýst. Hún brosti framan í hana, en þó hefði hún helzt viljað kremja hana í sundur. Hún skildi vel, að hún ætlaði sér að gæta manns síns fyrir henni.

"Það verður blóðugt stríð á milli okkar", sagði hún við sjálfa sig, "en að lokum sigra ég. Útlitið er mikið betra á mína hlið". En rétt á eftir, þegar hún heyrði, að lávarðurinn ætlaði að keyra heim með konu sinni, var hún ekki eins viss um sigur sinn eins og hún hafði verið áður.

## XXXIX. KAPÍTULI.

Samkvæmistíðin í London hafði verið mjög svo skemtileg þetta ár, en nú var hún nærri á enda. Oftar en einu sinni hafði hertoginn af Ormont talað um að flytja í burtu, en þá hafði kona hans alt af sagt: "Við skulum vera dálítið lengur, hér er svo skemtilegt og svo margir vinir okkar hjá okkur".

Hún gat ekki hugsað til þeirrar stundar, er hún yrði að sjá af Caren lávarði. Það var orðið að vana fyrir þeim, að sjást á hverjum degi.

Hún sagði satt, er hún kvaðst hafa svæft hann. Hún kunni til fulnustu þá list, að fjötra það sem hún vildi. Jafnungur og óreyndur, sem lávarðurinn var, gat ekki hættulegra kvendi orðið á vegi hans. Hún notaði öll tækifæri, og hafði ávalt net sitt úti. Hún bar undir hann hvað lítið sem var; Hún lét sem hún áliti hann sem eldri bróðir sinn, sem hún bæri hina mestu virðingu fyrir, en hún vaktaði einnig hverja hans hreyfingu og hvert hans orð, og svo hlakkaði hún yfir, hve vel henni tókst að snara hann.

"Einhvern dag mun hann vakna og finna, að enginn fugl í búri er meiri fangi en hann" hugsaði hún.

Hún kom því ávalt svo kænlega fyrir, að engan grunaði neitt. Fólk áleit þau bara góða kunningja, og hefði einhver álitið, að meira byggi undir, hefði hann mátt hlægja að sjálfum sér. En Lady Aðalheiður og kafteinn Randolph sáu vel, hvernig í öllu lá. Hún gat ekki kastað ryki í augu þeirra.

"Það var orðið að vana, að Caren lávarður fylgdi hertogainnunni ávalt, þegar hún reið út, og

hann heimsótti hana á hverjum degi til að vita nær hún óskaði samfylgdar hans.

Hertogann grunaði ekkert. Honum hefði eins vel getað dottið í hug, að lávarður Caren stæli silfurmunum hans, eins og hann léki ástaræfintýri við konu hans. Hann hafði of göfugan hugsunarhátt til að geta látið sér detta slíkt í hug.

Ef hertogainnan var í leikhúsinu, var það ekki nema náttúrlegt, að kunningi hennar kæmi til hennar og talaði við hana.

Ef maður gætir sín og hefir augun opin fyrir öllum freistingum, sem fyrir kunna að koma, þá er alt gott. En gleymi hann þessu, og láti svæfa árvekni og skynsemi sína, er vegurinn fyrir óvininn opinn.

Hertogainnan hugsaði með sér: "Þegar ég hefi náð honum á mitt vald, þá veit ég hvað ég skal gera: Ég hefi auð og völd, en hvað stoðar mig það? Heimurinn beygir sig fyrir mér, menn liggja fyrir fótum mér, en hjarta mitt er dautt og kalt. Ég vil lifa og elska, og sjá að hverju mér verður það".

Hún reyndi að koma sér inn undir við Lady Caren, móður lávarðarins. Henni þótti ekki ráðlegt, að hafa hana á móti sér. Hvenær, sem hún hitti Lady Aðalheiði, talaði hún við hana, en með hverjum degi óx hatur hennar til hennar. Hún sá eins og allir aðrir, að lávarðurinn var orðinn sem annar maður við konu sína. Hann var nú ætíð hlýlegur við hana, ráðfærði sig í öllu með henni, og spurði hana oft, hvort hún óskaði ekki einhvers, sem hann gæti veitt henni.

Lady Aðalheiður var mjög vinsæl. Fólki þótti miklu meira til hennar koma en hertogainnunnar, sem var mjög drambsöm, og engu líkara en hún fyrirliti sitt eigið kyn. Sérstaklega dáðist hertoginn að Aðalheiði, og talaði oft um hana, og kona hans

samþykti það með honum. Hún var of kæn til að láta sér um munn fara, að henni geðjaðist ekki að Lady Aðalheiði. Hún talaði alt af um Aðalheiði, sem fallega og yndislega konu. "Hún er róleg og falleg", sagði hún, "en alls ekki fjörug, og samt er hún skemtileg". Kafteinn Randolph heyrði einu sinni til og spurði hertogainnuna, hverja meiningu hún legði í orðið fjör.

Hertogainnan leit brosandi til hans. "Menn leggja nú margvíslega meiningu í það orð, en meining mín er, að geta skemt fullu húsi af gestum", og hún hló góðlátlega.

"Ég hefi aldrei heyrt konu tala af jafnmikilli fyndni og þekkingu sem Lady Aðalheiði", sagði kafteinn Randolph, "og ég þekki enga konu betri hæfileikum búna og jafnvíðfeldna í framkomu sinni, sem hana".

"Þér takið svari vina yðar, kafteinn Randolph. Þér yrðuð víst mjög ánægður, ef ég segði Lady Aðalheiði fullkomna í alla staði, og ég vil gera það yðar vegna".

"Nei, ekki mín vegna, heldur vegna réttlætisins og sannleikans", sagði hann. Hertogainnan reiddist ekki, en upp frá þessari stundu varaðist hún, að tala um Lady Aðalheiði, þegar kafteinninn heyrði til.

Loks var hertoginn orðinn sárleiður af að vera í London, og kona hans sá, að hún varð að láta undan honum.

"Mér geðjast ekki að lífinu í London", sagði hann. "Við verðum náttúrlega vegna stöðu okkar að dvelja þar vissan tíma, en ég uni mér miklu betur í sveitaloftinu".

Hertogainnunni fanst nú reyndar það vera sama. En þá varð hún að hafa þann með sér, sem henni þótti meira til koma en manns síns. Alt í einu

datt henni ráð í hug. Hertoganum geðjaðist svo vel að Carens hjónunum, því þá ekki að fara með þeim til Brookland?"

Sama dag kom Caren lávarður að finna hana. Hertoginn var ekki heima, en kona hans var ein í herbergi sínu. Honum var vísað þangað inn. Hún þóttist vita, að hann myndi koma og hafði búið sig undir, að taka á móti honum.

Rauðleitum ljósbjarma sló yfir herbergið. Hvít blóm stóðu hér og hvar og tóku sig út sem stjörnur. Sjálf var hún í hvítum kjól, bryddum með rauðum böndum og með blóm í hárinu. Hún hallaði sér upp í hægindastól og hafði rauðan flauelskodda undir höfðinu. Hún hreyfði sig ekki, er lávarðurinn gekk inn, en brosti glaðlega framan í hann.

"Mér þykir vænt um að þér komuð. Funduð þér á yður, að mér leiddist, fyrst þér heimsóttuð mig?"

"Ég hélt, að þér vilduð ef til vill ríða eitthvað út. Veðrið er svo gott í dag".

Hún stundi þungan. "Nei, ég verð nú að sjá á bak hinni mestu ánægju lífs míns".

"Hvers vegna?"

"Ég hefi sagt yður, að hertoginn er svo sérsinna, að hann vill ekki lofa mér að ríða út með neinum nema yður, og nú líður óðum að þeim tíma, sem við verðum að skilja".

"Við förum ekki strax í burtu úr London", sagði hann.

"En við förum", sagði hún. "Hertoginn vill með engu móti dvelja hér lengur, og ég verð að gera eins og hann óskar. Ó, hvað ég mun sakna samveru okkar!"

Lávarðurinn leit út, eins og hann hefði orðið fyr-

ir vonbrigðum. "Ég hafði ekki hugmynd um, að þið færuð svona fljótt. Við munum sakna ykkar mjög. Hvenær farið þið?"

"Hertoginn ræður því. Við getum ekki farið til heimilis hans, því það er verið að breyta höllinni, og á meðan get ég ekki lagt á mig að vera þar, — ímynda mér því, að hann fari til búgarðs síns uppi í landi. Það verður sem fangelsi fyrir mig, en náttúrlega verð ég að fara að vilja hans".

Honum fanst hún vera svo góð og auðsveipin. Hann sá tár læðast niður kinnar hennar.

"Ég vildi, að ég gæti eitthvað hjálpað yður, Nita, mér tekur svo sárt, að sjá yður svona hrygga"

"Ég kvarta ekki. Hvernig líka gæti ég það? Ég hefi alt til alls".

Aftur kom honum í hug, hve þolinmóð hún var.

"Get ég nokkuð hjálpað yður, Nita?" spurði hann.

Hún leit brosandi framan í hann. "Munduð þér reiðast, ef ég segði yður, hvað mér dettur í hug?"

"Reiðast? Nei. Hvernig get ég það?

"Mig langar svo mikið til að sjá Brookland, mig langar svo til að dvelja þar nokkrar vikur. Mig hefi alt af langað svo til að koma þangað. Þar gætum við riðið út og skemt okkur vel".

Lávarðurinn stóð upp og roðnaði út undir eyru.

"En myndi hertoginn vilja þiggja heimbo að Brookland?"

"Ef þér bjóðið honum, skal ég sjá um, að hann þiggi það".

Þegar Caren var farinn, sagði hún brosandi við sjálfa sig: "Kænska, fastur ásetningur og góð heilbrigð skynsemi, getur miklu til leiðar komið".

*Arnljotur B. Olson*

XL. KAPÍTULI.

"Ég veit varla, hvernig ég á að svara þessu", sagði hertoginn nokkrum dögum seinna við konu sína. Hún var ein í herbergi sínu, og hann kom inn til hennar með opið bréf í hendinni. Hún leit glaðlega framan í hann.

"Hvað er það?"

"Læstu það, góða mín", sagði hann. "Caren lávarður býður okkur að koma með sér til ættaróðals síns Brookland. Ég veit varla, hverju svara skal".

"Til Brookland!" sagði hún alveg forviða. "Ég sé ekki, að við getum farið þangað".

Svo las hún bréfið og lagði það svo frá sér aftur. Hún lést vera í vandræðum með, hvað gera skyldi.

"Þú vilt helzt fara norður í land og ég vil það gjarnan líka".

"Caren lávarði þykir fjarska mikið til þín koma, en þú ert víst nú búin að afráða, hvert þú ferð".

Hún lét, sem sér stæði alveg á sama um þetta, og engum gat komið til hugar það, sem hún hafði á bak við eyrað. Hún vissi, að bezt yrði sér ágengt, að láta sem hún færi í öllu að vilja manns síns. Hún kom samt með nokkrar mótbárur, fullviss um, að maður hennar myndi eyða þeim.

"Að vísu var ég búinn að fullráða við mig, hvar við yrðum í sumar, en Carens fólkið eru þær skemtilegustu manneskjur, sem ég þekki", sagði hertoginn.

"Já, það er skemtilegt fólk. Mér hefir þótt svo fjarskalega skemtilegt, að ríða út með lávarðin-

um", sagði hún. "Samt hugsa ég, að Caren lávarður hugsi mest um sjálfan sig með þessu heimboði. Það er ekki meira en vika síðan hann sagði mér, hve mikið hann hefði lært af þér, og honum þykir svo mikið varið í, að tala við þig um stjórnmál".

"Sagði hann það?" spurði hertoginn heiminlifandi. "Það bezta, sem maður getur gert með þá reynslu og þekkingu, sem maður fær í lífinu, er að kenna hana öðrum og láta þá hafa gott af henni, eða hvað finst þér?"

"Vissulega hefir þú rétt fyrir þér. Ég gæti bezt ímyndað mér, að Caren lávarður ætlaði sér að verða lærisveinn þinn".

"Já, hvað segirðu um þetta, Nita? Á ég að þiggja heimboðið eða ekki? Þætti þér skemtilegt, að dvelja nokkrar vikur á Brookland?"

"Mér, já. Mér þykir Lady Caren skemtileg, og mér þykir gaman að ríða út með lávarðinum. En annars ræður þú því alveg".

Hún vissi, að hún hafði unnið spilið, og væri því réttast, að hún þættist vera auðsveip. Hertoginn þakkaði henni með handabandi.

"Nei", sagði hann, "þú ert drotning hjarta míns og á heimili mínu. Óskir þínar eru mér lög".

Úrslitin urðu þau, að hertoginn þáði heimboðið, og tjáði þakkir fyrir.

Nú fyrst fór Caren lávarður að hugsa um, hvað móðir hans og kona mundu segja um þetta heimboð. Lady Caren hafði lofað, að fara með þeim til Brooklands. Nú, henni þætti víst ekki margt að því, að fá gesti, og Aðalheiði ekki heldur. Þó hafði hann tekið eftir, að í seinni tíð hafði engin sýnileg vinátta verið á milli þeirra. Hann áleit bezt, að vera ekki í neinni óvissu lengur, og gekk því inn til þeirra með bréf hertogans í hendinni.

"Ég hefi góð tíðindi að færa ykkur", sagði hann. En það var ekki frítt fyrir, að rödd hans skilfi. Lady Aðalheiður leit upp frá teikningu sinni, og móðir hans lagði frá sér pennann.

"Góð tíðindi", endurtók hún. "Hvað er það, Allan?"

"Hertoginn og hertogainnan af Ormond hafa lofað að heimsækja okkur á Brookland. Hér er bréf hertogans, þú getur lesið það, mamma.

Lady Caren las bréfið og sýndist mjög ánægð yfir því.

"Mér þykir vænt um það, Allan", sagði hún. "Hertoginn er maður, sem vert er að vera í vináttu við, göfugt prúðmenni. Það var rétt af þér að bjóða þeim heim. Hertogainnan er mjög falleg, og með aldrinum verður hún skynsamari en hún er nú".

Lávarðurinn hló. Honum fanst sem létt væri af sér þungri byrði. "Heldur þú, að hún sé ekki nógu skynsöm nú?" sagði hann.

"Maður getur auðvitað ekki dæmt hana eftir sama mælikvarða og enskar konur", sagði hún, "en að mínu áliti er hún of glysgjörn".

Lady Aðalheiður var ekkert farin að segja um þetta. Lávarðurinn var aldrei vel ánægður, fyr en hún hafði samþykt það sem hann gerði. Hann gekk til hennar, horfði nokkra stund á teikningu hennar. "En hvað þú teiknar vel, Aðalheiður", sagði hann, "þú ert að náttúrufari mjög listgefin".

"Ég held það sé fremur þolinmæði minni að þakka en hæfileikum", svaraði hún.

"Ég vona", sagði hann hálf vandræðalega, "að það sé þér ekki á móti skapi, að fá gesti á Brookland í eina eða tvær vikur".

Hún vissi varla, hverju svara skyldi. Átti hún skýrt og skorinort að segja honum, að hún vissi meira en hann hélt, eða átti hún að halda fast við

ásetning sinn og vera þolinmóð til hins síðasta? Hvað átti hún að gera? Þó hún setti sig upp á móti þessu, gat ekkert gott af því leitt. Heimboðið varð ekki tekið aftur. Hún leit alvarlega framan í mann sinn:

"Ég er alt af ánægð, þegar ég veit, að þú ert ánægður. En í þessu efni höfum við gagnstæðar skoðanir. Hertogainnan af Ormond er ein af þeim konum, sem mér geðjast ekki vel að, og hreint út sagt, þá kæri ég mig ekkert um vináttu hennar, en ég vil gera alt, sem ég get, vinum þínum til geðs, Allan, og það ættir þú að vita".

"Ég veit", sagði hann fljótlega, "að allir góðir eiginleikar eiga heima hjá þér. Ég býst við, að þú viljir ekki segja mér, hvað þér þykir að hertogainnunni? Kvenfólk er svo undarlegt í skoðunum sínum. En eitt vil ég segja þér, að það er langt síðan ég fann, að þú, Aðalheiður er sú fullkomnasta og bezta kona, sem ég hefi nokkurntíma þekt".

Lady Caren heyrði þetta, og henni þótti svo vænt um það, að hún stóð upp og lagði hendur um háls syni sínum og kysti hann.

Seinna um daginn gekk Lady Aðalheiður inn í bókaherbergi manns síns. Hann var að skrifa bréf en lagði pennann strax frá sér, er hann sá hana koma inn, og sneri sér brosandi að henni. Hversu ólíkt var ekki viðmót hans frá því nokkrum mánuðum áður!

"Máttu vera að tala við mig í fimm mínútur?"

"Já, þó það væri í fimm ár". Hann stóð upp, og bauð henni sæti. Hann tók eftir, að hún var náföl og skjálfandi.

"Er nokkuð að, Aðalheiður?", spurði hann fljótlega.

"Nei, en mér finst vera kominn tími til, að tala

um nokkuð við þig, þó [illegible] g taki nærri mér, að verða að tala um það".

Hann horfði órólega á hana. "Það er bezt illu aflokið, Aðalheiður. B[illegible]jaðu strax"

"Þú manst víst ekki [illegible]tir brúðkaupsdegi okkar?" Hann hneigði sig, og fanst ekkert þurfa að tala um það nú.

"Við komum okkur saman um þá", hélt hún áfram, "að búa [illegible] nokkurn tíma, og skilja svo, af þeirri ástæð[illegible] okkur [illegible] mdi ekki".

"Já, ég m[illegible]", sagði hann.

Einu sinni [illegible] hefi ég [illegible]purt þig að, hvort ég ætti ekki að [illegible] þú svaraðir því neitandi. Nú vil ég spyrja [illegible] um [illegible] aftur. Samkvæmistíðin er nú liðin, þú [illegible] nú aftur til Bro[illegible]kland, og verður þar umkring[illegible] vinum þínum. Er því ekki kominn sá tími sem ég get farið frá þér?"

"Í öllum [illegible]", sagði hann. "Hvaða ástæðu höfum [illegible] til að skilja, Aðalheiður? Hvað gæti ég fundið að þér? Þú ert blíð sem engill og tiguleg [illegible] drotning. Þú ert elskuð af öllum, [illegible] og allir dáðst að þér. Fólk myndi bara h[illegible] mér, og ekki trúa því, ef ég segði að okkur [illegible] ekki komið saman".

Þrátt [illegible]rir ge[illegible]ngu sína, gat hún ekki varist brosi.

"Svo þú hélst, [illegible]kkur myndi ekki geta samið?" sagði hún b[illegible]

"Ég vissi ekki [illegible] þú ert í raun og veru".

"Mundu eftir þ[illegible] að örlög mín og líf mitt er algerlega í þínum hön[illegible]m. Ef þú vilt að ég fari, — svo fer ég. Ef þú vilt að ég verði, — þá verð ég. En, Allan, vertu sanngjarn við mig í einu".

Hún var svo elskuleg í auðmýkt sinni, að hann hefði ekki getað neitað henni um nokkurn hlut.

"Sýndu mér nú réttlæti", sagði hún. "Komdu

mér ekki til að þykja svo vænt um Brookland, að ég geti aldrei farið þaðan".

Blóðið hljóp fram í kinnar honum og hjarta hans sló hratt. Í fyrsta skifti á æfi sinni langaði hann innilega til að taka hana í faðm sér og kyssa hið fagra andlit hennar.

En þá kom aftur gamli efinn, voldu[illegible] og sterkari en nokkru sinni fyr. Hann greip um hendi hennar.

"Aðalheiður!" hrópaði hann. "Gerðu bæn mína: Segðu mér hvers vegna þú áttir mig".

Hún leit sorglega framan í hann.

"Ég vildi óska, að ég gæti sagt þér það, en ég get það ekki. Þú verður að hugsa um það, hvað sem þú vilt"

"Þú mátt þá heldur ekki láta þér detta í hug, að yfirgefa Brookland"

"Ekki fyr en þú segir mér að fara. Í sama vetfangi var hún komin út úr herberginu.

Arnljotur B. Olson

## XLI. KAPÍTULI.

Um þessar mundir fékk Lady Caren bréf frá Clavering hershöfðingja. Sagði hann, að ófyrirséðar orsakir hefðu hindrað sig frá að koma á þeim tíma, sem hann hafði ákveðið. En nú kvaðst hann mundi heimsækja þau í júlímánuði. Lady Caren varð ávalt hálf óróleg, er hún fékk bréf frá honum. Hún sagði syni sínum frá, að hann hefði skrifað sér og hvenær hann byggist við að koma.

Sonur hennar hló. Brookland er enginn smákofi", sagði hann, "en við verðum samt að láta

byggja við húsið, ef gestir okkar fjölga. Kafteinn Randolph kemur og margir fleiri, en velkomnastur af öllum skal verða hinn góði gamli hershöfðingi".

Lady Caren var samt mjög óróleg, og sonur hennar tók vel eftir því, og féll það mjög illa.

"Mig langar til, að hershöfðingjanum lítist sem bezt á sig hér".

Lávarðurinn hló aftur. "Þú mátt vera viss um að honum mun lítast á sig hér, mamma".

"Allan", sagði hún, "þú mátt ekki hlægja að því sem ég segi: Lofaðu mér því, að vera nú reglulega góður við Aðalheiði á meðan hershöfðinginn dvelur hér".

"Er ég ekki alt af vingjarnlegur við hana?" spurði hann óþolinmóðlega.

"Jú, á vissan hátt", mælti hún sorgbitin, "en sérhver, er lifað hefir í hamingjusömu hjónabandi, hlýtur að sjá, að sambandið á milli ykkar er fremur sem bróður og systur en þeirra, sem elskast, og ég er hrædd um, að hershöfðinginn sjái fljótt, hvernig því er varið".

Lávarðurinn leit alvarlega til móður sinnar.

"Setjum svo, að hann gerði það. Hvað svo? Ekki óttast ég hann".

"Móðir hans náfölnaði og stundi þungan. Sonur hennar horfði forviða á hana.

"Er nokkuð leyndardómsfult við þennan góða, gamla hershöfðingja, mamma? Það er engu líkara, en að þú sért hrædd við hann".

"Nei," mælti hún með breyttri rödd, "en mér er ant um, að hann fái hina beztu hugmynd um okkur, og ég vil, að hann sé fullviss um, að Aðalheiður sé hamingjusöm".

"Ég geri það, sem ég get", sagði hann dauflega. "Ég ólst svo upp, að ég vissi ekki annað, en að ég væri eini erfingi föður míns, en svo kom þessi hræði-

lega, oréttláta erfðaskrá, og ég varð að ganga að eiga þá stúlku, sem ég ekki elskaði, þó hún sé bæði góð og fögur. Ég hefi gert mitt bezta, mamma, og ég get ekki gert meira".

"Gerðu það, sem ég bið þig um, Allan".

"Ég er enginn hræsnari, mamma, ég get ekki hræsnað að eins til að þóknast öðrum. Ég ber hina dýpstu virðingu fyrir Lady Aðalheiði, og sé og kann að meta hina miklu mannkosti hennar, og ég sé um, að allir sýni henni tilhlýðilega virðingu".

"En, élsku Allan, getur þú ekki gert eins og ég bið þig? Ég óska svo hjartanlega eftir, að þú elskir hana, eins og hverjum eiginmanni ber að gera"

"Menn geta fremur ráðið yfir vind og sjó, en hjartastrengjum sínum", sagði hann sorgbitinn. En í huga hans flaug sú hugsun: Var hann ekki farinn að elska hina fögru, blíðlyndu konu, sem að eins að nafni til var kona hans. Hjarta hans sló ávalt hratt, er hann hugsaði til hennar.

Hann kysti móðir sína blíðlega, sem kom þó ekki oft að.

"Vertu ekki neitt kvíðandi, mamma, ég geri það sem ég get. Ég skal alt af muna eftir því, sem þú hefir beðið mig um, og þegar hershöfðinginn skilur við okkur, skal hann standa í þeirri meiningu, að við séum hamingjusömustu manneskjur undir sólunni".

Lady Caren varð að láta sér nægja þetta loforð. Og nú var farið í óða önn að flytja til Brokkland.

Lady Aðalheiður kveið ekki fyrir framtíðinni til neinna muna. Hún hafði sagt manni sínum mein ingu sína afdráttarlaust, og fengið fullnægjandi svar. Hún þóttist viss um, að ef maður hennar hefði boðið hertogainnunni til Brookland, með þeirri hugsun frá beggja hálfu, að þau gætu fengið tækifæri til að

sjást og dvelja saman, — þá stæði honum á sama, þó hann sæi henni á bak.

Hún gat samt ekki ráðið annað af orðum hans en að hann væri alveg saklaus. Hún gladdist af að heyra, hve mjög honum var á móti skapi að hún yfirgæfi hann og hvað hann óskaði innilega eftir, að hún dveldi með honum á Brookland.

Hún leit til himins.

"Með tímanum mun hann elska mig", hugsaði hún með sér. "Það hefði getað orðið létt fyrir mig að vinna ást hans, en nú verður það næsta erfitt. Bara hún taki hann ekki frá mér! " Hún kveið miklu meira fyrir, að sigra hina fögru töfrandi hertogainnu en mann sinn.

"Ef þau hefðu ekki hizts aftur, hversu væri þá ekki alt öðruvísi en það er nú. En einkunnarorð mitt skal vera : GUÐ OG RÉTTURINN MINN".

Svo var það eitt fagurt kveld í júlímánuði, að hertoginn af Ormont kom til Brooklands með konu sina og þjónustufólk. Alt stóð í fullum blóma. Hin stóru, fögru tré voru þakin grænu laufskrúði. Í greinunum sungu fuglar þúsundum saman. Gosbrunnarnir glóðu í sólskininu. Blómin stóðu útsprungin í blómgörðunum

Sólin var að síga til viðar, en varpaði geislum sínum á hallargluggana, svo þeir voru tilsýndar sem eldlitir. Hertoginn gat ekki orða bundist, er þau keyrðu inn um garðshliðið.

"Það er eitthvað hátignarlegt við Brooklands", sagði hann. "Það hrífur mann meira að koma hingað en til búgarðs okkar".

Hertogainnan tók ekkert eftir því, sem hann sagði. Hin dökku, tindrand augu hennar dvöldu hugsandi á hinum stórvöxnu trjám og gráu múrveggjum.

"Alt þetta væri nú mitt, ef þessi skammarlega

erfðaskrá hefði ekki komið til sögunnar", hugsaði hún, "og mér hefði þótt þúsund sinnum betra, að vera ráðandi hér en vera hertogainna af Ormont".

Carens fólkið var komið til Brokklands fyrir nokkrum dögum. Margir gestir voru komnir þangað og alt var tilbúið til að taka á móti hertogahjónunum.

Hertogainnan veitti öllu nákvæma eftirtekt, og hún varð frá sér numin af undrun og aðdáun yfir öllu því skrauti og ríkidæmi, er var á búgarði Carens lávarðar.

"Að hugsa sér, ef þetta hefði verið heimili mitt, og mér skyldi hafa þótt vænna um það, en hið leiðinlega hefðarbýli, með öllu þess gamaldags skrauti".

Það var haldin veizla í tilefni af komu hertogans. Hertoganum þótti hún svo skemtileg, að hann hlakkaði til veru sinnar á Brooklands. Eftir máltíð, fóru þau að spila tvímenningsspil hertoginn og Lady Caren. Hertogainnan snéri sér að lávarðinum :

"Ég dáist mjög að bústað yðar", mælti hún. "Alt er hér svo fallegt. Mig langar til, að þér sýnið mér uppágaldsstaði yðar, því þeir hljóta að vera til".

"Með mestu ánægju", sagði hann, og sneri sér til konu sinnar. "Aðalheiður, viltu ekki koma líka út í garðinn?"

Hún leit brosandi framan í hann. Augnaráð hennar lýsti bæði fullkýmnasta trausti og ást.

"Nei, ég vil ekki koma út strax. Sýndu hertogainnunni uppáhaldsstaði þína. Ég fer ekki út fyr en í kveld".

Lávarðinum hitnaði um hjartaræturnar, er hann fann traust hennar. En hertogainnunni sárnaði það svo, að hún hefði fegin viljað drepa hana.

Þau gengu svo út, og lávarðurinn sýndi henni

trélundinn, sem fyr var getið um. Hún varð frá sér numin.

"Ég get ekki ímyndaó mér, að fegurri staður sé til á öllu Englandi".

Á meðan þau sátu þar og nutu hins hressandi lofts, þá var það ekki hertogainnan, sem lávarðurinn var að hugsa um, heldur um konu sína, sem á brúðkaupsdegi þeirra hafði staðið hér biðjandi fyrir framan hann.

---

XLII. KAPÍTULI.

Caren lávarðu sat einn í trjálundinum. Ljósin, sem lýstu út um loftsgluggana, bentu á, að fólkið ætlaði að fara að taka á sig náðir. Hann hafði boðið gestum s'num góða nótt, en sjálfur gat hann með engu móti sofnað.

"Ég ætla að ganga út í garðinn og reykja mér vindil", hafði hann sagt við þjóninn. "Láttu dyrnar vinstra megin standa opnar.

Honum fanst hann ætla að kafna inni í húsinu. Hann mátti því til, að anda að sér hreinu lofti. Í lundinum var niðamyrkur, og það var einmitt það, sem hann óskaði eftir. Tunglsljós lagði um innganginn, en eftir því sem innar dró, þess myrkara varð, unz maður var staddur í kolniðamyrkri. Hann þreifaði fyrir sér, þangað til hann fann sæti hjá hvítu líkneski, og þar settist hann. Undarleg hugsun hafði flogið í huga hans, sem hann varla vildi trúa, og hér í kyrð næturinnar, spurði hann sjálfan sig að þessari spurningu:

"Er ég orðinn ástfanginn í minni eigin konu?"

Í fyrstunni hafði hann kastað þessari hugsun frá sér, sem einhverju ómögulegu. Hann, sem hafði heitið því, að fyrirlíta hana, af því hún átti hann

móti vilja hans. Hún hafði skilið hann frá Nitu, sem hann elskaði svo heitt, og hún kastaði ósjálfrátt skugga á minningu föður hans, sem honum hafði þótt svo vænt um. Gat það verið, að hann elskaði hana? En ef það var ekki, kvernig stóð þá á þessari unaðsríku tilfinningu, er verndi hjarta hans? Hvers vegna var hún alt af í huga hans? Hvers vegna var hið fagra andlit hennar ávalt fyrir augum hans? Honum fanst rödd hennar ávalt hljóma í eyrum sér. Hvers vegna tók hann eftir sérhverri hreyfingu hennar, hlustaði eftir hverju orði af vörum hennar? Hvers vegna vildi hann ekki fyrir nokkurn mun valda henni hrygðar? Fyrir nokkurum mánuðum síðan áleit hann þó, að sú kona, sem neyddi mann til að eiga sig, ætti skilið sorg og mótlæti.

Aftur og aftur spurði hann sjálfan sig: "Er það mögulegt, að ég elski hana?"

Svo fór hann að hugsa um, hve ólíkar þær væru, hertogainnan og konan hans.

Lady Aðalheiður: Saklaus, blíð, róleg og viðfeld n í allri framkomu sinni, með hin djúpu, fögru augu og alvörugefnu varir. Hvítklædd, með snjóhvíta sál, kvenleg, og elskuð og virt af öllum, sem þektu hana.

Hertogainnan af Ormont aftur á móti: Óvanalega falleg, með svört, eldfjörug augu, lítinn fallegan munn. Drambsöm og tignarleg. Hættuleg sem töfradísir fornaldarinnar. Kona, sem gat komið hverju mannshjarta til að slá tíðara, en sem færði hann ekki einu einasta feti nær himninum. Hún var að öllu leyti heimsleg.

Hann hugsaði langa stund um þessar tvær. Allar hinar göfugu og sönnu tilfinningar hans hneigðust að þeirri forlöldu.— En hún hafði átt hann á móti vilja hans.

"Ég játa það hreinskilnislega", sagði hann, "að ef þetta hefði ekki skeð, áliti ég konu mína þá beztu konu í öllum heiminum".

En hann gat ekki rekið þessa hugsun úr huga sér. Ef hún hefði ekki átt hann móti vilja hans, myndi hann hafa elskað hana heitt og innilega. Ef hann að eins hefði skilið hana í þessu atriði. Ef hann hefði getað fundið einhverja ástæðu fyrir því! En hvernig sem hann braut heilann um það, gat hann enga fundið. Hún hafði átt hann, hvort sem hann vildi eða ekki. Það hlaut því að vera auðæfi hans, er hún sóttist eftir. Það var ekki hægt, að leggja það öðruvísi út. Hann óskaði heitt og innilega eftir, að hún hefði í þessu efni breytt öðruvísi en hún gerði. Honum var ómögulegt að segja um, hvort hann elskaði hana eða ekki, því endurminningin um, að hún hafði neytt hann til að eiga sig, varpaði ávalt skugga á hina mörgu kosti hennar. — —

Hertogainnan elskaði hann heitar en nokkurn annan mann. Það var auðséð á allri framkomu hennar gagnvart honum. — Aftur á móti gat hann lagt hönd sína á hjartað og svarið, að hann var saklaus af, að bera nokkra óleyfilega ást til hennar. Það kom að vísu fyrir, að hún töfraði hann, og kom honum til að dáðst að sér, en hann bar enga óleyfilega ást til hennar, sem hún til hans.

En hann kendi í brjósti um hana, því hann sá, að hún gat aldrei orðið ánægð við hlið hins göfuga prúðmennis, sem hafði deilt með henni hertogakórónu sinni. Hún var of ung og glysgjörn til að geta verið eftirlát og blíð við hinn aldraða mann sinn. En um leið og hann vorkendi henni, reis upp í hjarta hans efi, sem hann gat ekki gert sér fulla grein fyrir.

Honum kom í hug eitt kveld ekki alls fyrir löngu. Allir gestirnir tóku þátt í alvarlegu sam-

tali. Kafteinn Randolph hafði sagt, að sér findist lífið of stutt í hlutfalli við, hve mikið af meðlæti og mótlæti fylgdi því. Lady Caren stundi þungan og sagðist álíta, að lífið hefði í för með sér meira af sorg en gleði. Þá hafði hertogainnan gripið fram í, og sagt með sínu vanalega drambi: "Lífið er ekki til annars en að gleðja. Þeir, sem sakna gleðinnar, eru að eins þeir, sem ekki hafa snarræði eða hugrekki til að ná henni".

Hann hugsaði nú til konu sinnar, er með sinni bliðu röddu hafði svarað: "Lífið er skóli, sem býr okkur undir annað líf. Við getum gert það bjart og dimt eftir hvers eigin geðþótta, en samt sem áður er það undirbúningsskóli, sem býr okkur undir annað og betra líf.

Hertogainnan hafði hlegið, en kafteinn Randdolph sagði: "Þér hafið rétt, Lady Aðalheiður. Það væri betur, að við öll líktumst yður".

Sjálfur hafði hann dáðst að henni, og fundið, að sál hennar lifði í þeim heimi, sem hertogainnan þekti ekki einusinni til.

Það var svo langt frá, að hann væri rólegur eða ánægður. Hann hafði mjög næma sómatilfinningu. Hann fann vel, að aldrei myndi Lady Aðalheiður hegða sér gagnvart nokkrum manni, eins og hertogainnan hegðaði sér gagnvart sjálfum honum. — Hann vissi vel, að allir dáðust að konu hans. Kafteinn Randolph leyndi því alls ekki, að hann áleit hana þá fullkomnustu og göfugustu konu, sem hann nokkurntíma hafði þekt. Þó var hann fullviss um, að kona hans hafði hvorki með orðum eða tilliti gefið honum nokkra ástæðu til þess.

Annað eins traust og tiltrú hefir mikið að segja. Sæll er sá maður, sem getur borið slíkt traust til konu sinnar, og sú kona, sem ávinnur sér það. — Hann hefði ekki getað borið annað eins

traust til hertogainnunnar. Hann hafði grun um, að ef hún væri konan hans, þá myndi honum ekki líka vel, að hún hegðaði sér við annan mann, eins og hún hegðaði sér við hann.

Lávarðurinn sat þarna langa stund. En hann var engu nær, né hafði hann leyst fram úr hinum mörgu efasemdum sínum, þegar hann stóð upp. ——

Það er mjög leiðinlegt að skrifa um konu, sem syndgar af ásettu ráði, að hún heldur frelsi sínu og virðingu í hendi sér og leggur það á metaskálar á móti ást og sérlyndi sínu. Það er leiðinlegt, að verða að lesa og trúa slíku. — Ef einhver er afvegaleiddur eða hrasar,getur maður ímyndað sér, að hans sé freistað um megn. — En um Júanitu, hertogainnuna af Ormont, getur enginn hugsað það. Hennar var ekki freistað af neinu, nema hinni óleyfilegu, ástríðufullu ást sjálfrar hennar.

Það er óskemtilegt, að þurfa að skrifa um afbrot annara. Englarnir geta grátið yfir því. Ég, sem skrifa þessa sönnu frásögu, — ég vil ekki hugsa að hún hafi til fulls þekt synd sína, né séð fyrir afleiðingar hennar. En eitt er víst, — hún vissi vel, að hvaða takmarki hún stefndi.

"Eiga konur, sem hafa skilið við mann sinn og gifst aftur, nokkurntíma afturkvæmt í góðan félagsskap?" spurði hertogainnan einusinni Lady Caren.

"Það er mikið undir því komið, af hvaða ástæðu konan hefir skilið við mann sinn, og svo hverjum hún hefir gifst aftur".

"Guð gæti mín frá, að dæma náunga minn óvægilega", bætti Lady Caren við, "en hreint út sagt, vildi ég ekki vera í kunningsskap við þær konúr".

"Já, en skilnaðir eru mjög algengir. Hvað munduð þér gera, Lady Caren, ef t. d. sonur yðar ætti konu, sem hefði skilið við mann sinn?"

"Sonur minn myndi aldrei gera sig sekan í því,

og ef hann gerði það, myndi ég, þrátt fyrir það hve mér þykir vænt um hann, aldrei líta hann framar.

---

## XLIII. KAPÍTULI.

Eitt fagurt sumarkveld á Brooklands, er Lady Caren óvanalega döpur og áhyggjufull. Um morguninn hafði hún fengið bréf frá Clavering hershöfðingja, þar sem hann segir henni, að hann sé á leið til Brooklands, og muni að öllu forfallalausu koma um kveldið. Hún hafði strax flýtt sér með það til Lady Aðalheiðar.

"Ó, Líða", sagði hún, "mér finst sem eitthvað ólán muni henda mig, ég er alveg eyðilögð af ótta og hræðslu".

Lady Aðalheiður lagði hendur sínar um háls henni. "Já, það sýnist hart", sagði hún, "að öll þessi byrði skyldi falla á þig".

"Þú hefirhaft þinn hluta af henni, Aðalheiður", sagði Lady Caren. Og nú grét hún svo sárt, að það var sem ómögulegt væri að bæta úr sorg hennar.

"Ég þekki hershöfðingjann svo vel, Líða. Hann er heiðursmaður í alla staði, og hann dæmir alt eftir strangasta mælikvarða. Þessi heimsókn hans hefir óhamingju í för með sér, það er ég viss um".

"Nei, þú ert alt of kvíðafull. Hvers vegna ertu hrædd um, að nokkur óhamingja hendi þig?"

"Hershöfðinginn mun tala við Allan, og þá leiðist hvert orðið af öðru. Alt af hefi ég kviðið fyrir, ef þeir hittust. Ó, Líða, spár mínar hafa rætzt".

"En þú getur komið í veg fyrir, að hann segi

nokkuð það, sem hafi illar afleiðingar í för með sér', sagði Lady Aðalheiður.

"Ég get ekki séð, hvernig ég get það", sagði Lady Caren.

"Vertu hjá honum, hvenær sem þú getur því við komið, og segðu hershöfðingjanum, að Allan vilji sem minst um þetta mál tala".

"Já, ég get reynt það, en hershöfðinginn er svo skarpur og greindur maður, að það verður ekki svo auðvelt, að fara í kring um hann. Hugboð mitt er það, elsku Aðalheiður mín, að leyndarmál það, er þú hefir svo vel hjálpað mér til að leyna, muni áður en langt líður opinberast".

"Nú setjum svo, að Allan komist að því? Hvað svo? Nú gerir það ekkert til".

Lady Caren fölnaði upp. "Aðalheiður mín, það mundi drepa mig. Eftir það gæti ég ekki tiðar litið framan í Allan. Það má ekki komast upp! Veiztu hver voru hin síðustu orð mannsins míns við mig?"

"Nei", sagði Aðalheiður, um leið og hún virti tengdamóður sína fyrir sér með hluttekningu.

"Rétt áður en hann skildi við, sagði hann við mig með veikri breyttri röddu: 'Elsku konan mín, sver mér það við alt sem heilagt er, að geyma vel leyndarmál mitt!' — og ég sór. 'Ég get ekki hvílt rólegur í gröf minni, ef Allan fær að vita það' sagði hann. 'Hann skal ekki komast að því', sagði ég grátandi. En svo hefir hann víst fengið óráð því hann sagði, að ef svo skyldi fara, að það yrði uppvíst, annaðhvort fyrir tilviljun eða svik, þá ætti ég að láta setja járngrindur yfir gröf hans, svo hann kæmist ekki upp úr henni, því hann gæti ekki hvílt í friði, ef Allan fengi að vita það. 'Guð hjálpi minni sorgmæddu sál', sagði hann svo. 'Sver það aftur, að það skuli aldrei komast upp'. — Ég sór. Hann nefndi þig ekki á nafn; né loforð mæ

þinni hálfu, en ég varð að lofa honum, að biðja þig að uppfylla ósk hans. Þú vissir, að ég gerði það. En á næturnar hræðist ég svo síðustu orð hans, og einu sinni dreymdi mig svo ljótan draum".

Aðalheiður lá á hnjánum við hlið tengdamóður og fóstru sinnar, og reyndi að hugga hana.

"Ég vil segja þér draum minn", sagði Lady Caren, "þá getur þú betur skilið, hvers vegna ég er svona hrædd".

"Mig dreymdi, að leyndarmálið var orðið uppvíst. Ekki vissi ég samt á hvaða hátt. Fólk talaði í hálfum hljóðum sín á milli um afbrot hins framliðna manns. Mér fanst — ó, Lida! — einasta hugsunin um það gera mig ruglaða. Mér fanst ég ganga um húsið, og hvar sem ég gekk, sá ég alt af manninn minn í líkklæðunum standa hjá mér og segja : "Ég sagði þér þetta, að ég gæti úr þessu ekki fundið frið. Sjáðu mig, hér er ég'. — Eftir þennan draum var ég hrædd bæði dag og nótt".

"En kæra Lady Caren, þetta er að eins draumur. Enginn hefir liðið meira út af þessu leiðinlega leyndarmáli en ég. Aftur og aftur hefir það verið komið fram á varir mínar, að segja frá því, til að hefna mín. En þó ég hafi liðið jafnmikið til þess að halda því leyndu, þá get ég ekki séð, að það leiði svona mikið ilt af, þó það kæmist upp".

"Ég hefi oft hugsað um, hversu ranglátt það er, að öllbyrðin skyldi falla á okkur. — Konur er víst skapaðar til að líða".

"Ég hefi meiri von en þú, Lady Caren. Ef Alfan hefði nokkra hugmynd um þetta, mundi hann veita orðum hershöfðingjans nána eftirtekt, en fyrst hann grunar ei kent, þá hugsar hann ekkert út í, þó honum finnist hershöfðinginn tala nokkuð undarlega. Þú veist, að ég er enginn bjáni, og við skulum vel ráða við hinn góða gamla hershöfðingja".

Lady Caren kysti hana. "Ég held, Aðalheiður, að þú sért sú bezta kona í heiminum. Hversu margar myndu ekki hafa kvartað yfir því, sem þu verður að þola, — daglega talað um þann órétt, sem þær yrðu fyrir. Ég get aldrei að fullu endurgoldið þér".

Lávarðurinn kom nú inn. Honum þótti næsta undarlegt, að móðir hans, sem jafnaðist á við hina tignustu furstainnu, skyldi kvíða fyrir, þó gamall kunningi hennar heimsækti hana.

Lady Caren sagði, að ástæðan fyrir geðshræringu sinni væri sú, að þetta hefði komið svo flatt upp á hana. "Ég hélt ekki ég mundi sjá hershöfðingjann nokkru sinni framar", sagði hún.

"Ég er fullviss um það, mamma," sagði lávarðurinn hlægjandi, "að þú vildir miklu heldur ekki sjá hann".

Hún svaraði engu, en reyndi að láta, sem sér stæði alveg á sama.

Hún situr alein í gestasalnum. Miðdegisverðinum hefir verið frestað um einn klukkutíma, svo hershöfðinginn gæti borðað með. Kvenfólkið er í herbergjum sínum, karlmennirnir í reykinga herberginu. Hún vill vera ein, þegar hún heilsar hershöfðingjanum. Lady Aðalheiður bauð henni að vera hjá henni en hún afþakkaði það. Það voru margar ástæður fyrir því, að hún vildi hitta hann ein og tala við hann.

Hver, sem hefði virt hana fyrir sér, þar sem hún sat, hefði séð, að meira en lítið þr[illegible]i að henni. Hún gætti sín eftir því sem hún gat, þegar hún var með öðrum. En þegar hún var ein hugsaði hún ekki um annað en sorg sína.

Djúpar hrukkur myndast á enni hennar. — Hún stynur og þrýstir nöndunum að brjósti sér. Hvað eftir annað gengur hún að glugganum, og horfir út.

— "Æ, alt hefði farið vel, hefði hann ekki komið, en guð einn veit, hver nú verður endirinn."

Nú heyrir hún vagnskrölt og blóðið hleypur fram í kinnar hennar. — Hann er kominn. — Hún ver megnan hjartslátt, en er hún heyrir fótatak, reynir hún til að brosa.

Þjónninn kemur inn og segir: "Clavering hershöfðingji er kominn".

Dyrnar opnuðust og inn gengur laglegur, roskinn maður. Hann var hvítur fyrir hærum, en hermannlegur í allri framgöngu. Á brjóstinu bar hann heiðursmerki, er fór honum vel. Hann var fríður sýnum, en alvörugefinn mjög. Hann hneigði sig djúpt, er hann sá Lady Caren, og sýndist verða hrærður mjög.

"Velkominn til Brooklands, herra hershöfðingi", sagði hún, og tók í hönd hans.

"Ég þarf ekki að spyrja, hvernig yður líður, Lady Caren. Þér hafið ekkert breyzt öll þessi ár".

"Bjuggust þér við, að sjá mig umbreytta?" sagði hún.

"Ójá. Það eru liðin svo mörg ár síðan ég kom hingað, og þessu tímabili er ég orðinn hvítur fyrir hærum. — Það var æði leiðinleg koma mín síðast". ;

"Hún verður þeim mun skemtilegri nú, vona ég".

"Já, þó ég sakni mjög hins kæra, gamla vinar míns. Hann er farinn þangað, sem við förum að lokum. — En mikið þótti mér vænt um, er ég heyrði um giftinguna".

"Já, ég man eftir, að ég skrifaði yður um það", sagði Lady Caren fljótlega. Ég bað yður —" lengra komst hún ekki , því nú kom lávarður Caren inn til að heilsa hinum gamla hershöfðingja og bjóða hann velkominn.

## XLIV. KAPÍTULI.

"Og þetta er", sagði hershöfðinginn með sýnilegri ánægju — "þetta er Aðalheiður litla, sem ég man svo vel eftir. Nú orðin Lady Aðalheiður, og fyrirtaks fögur. Hver skyldi hafa haldið, að hin litla, feimna telpa skyldi verða svona falleg? Kyssið nú gamlan vin, Lady Aðalheiður".

Hún roðnaði og hann kysti hana innilega.

"Ég hefi aldrei gifst", sagði hann, "og á engar dætur til að gleðja mig í ellinni, en hefði ég átt þær myndi ég hafa óskað, að þær væri líkar yður, Aðalheiður. En horfið nú í augu mér og segið mér, hvort þér eruð hamingjusamar".

Lady Caren leit hálfkvíðin til [illegible] og Aðalheiður tók eftir því.

"Hamingjusöm? Þessi spurning [illegible] st við, eftir það, sem þér hafið sagt um útlit m[illegible], ég þarf því varla að svara henni. Hamingjusöm? Náttúrlega er ég það",

"Guði sé lof", sagði hershöfðinginn. "Ég veit ekki, hversvegna ég hefi nokkurntíma efast um það. En ég hefi hugsað mikið um yður. Kringumstæðurnar voru svo fáheyrðar. En vinur minn hefir gætt skyldu sinnar gagnvart yður, — og ég þykist sjá, að öllu hefir verið haldið leyndu".

Lengra komst hann ekki, því Lady Caren varð mjög óróleg, og sagði nú, að á slaginu kl. 8 ætti að borða.

Nú tók hershöfðinginn eftir nokkrum konum, er stóðu í garðinum fyrirutan gluggann.

"Þér hafið marga gesti hér?" sagði hann og sneri

sér að Lady Aðalheiði. "Hver er þessi fallega kona, sem er að tala við manninn yðar? Hún hefir svört augu og munnurinn er rauður sem rós".

Þrátt fyrir það mikla vald, er Lady Aðalheiður ávalt hafði yfir tilfinningum sínum, gat hún ekki gert að því, að hún roðnaði. Hún reyndi að tala rólega, en henni tókst það ekki. Hann tók eftir því, þó hann ekki gæti gert sér grein fyrir, af hverju það stafaði.

"Það er hertogainnan af Ormont", sagði Lady Aðalheiður. "Maður hennar er hér líka".

"Ég man eftir honum", sagði hershöfðinginn. Er þessi unga, fagra kona, konan hans?? Því eru sameinaður maí og desember? Og þó kemur það oft fyrir. Hún talar alvarlega við Caren. Þau eru víst gamalkunnug. Og eruð þér ekkert afbrýðissamar?"

Aftur roðnaði Lady Aðalheiður. Hún hló. En skeð gat, að hinn gamli, greindi hershöfðingi skildi að það var uppgerðarhlátur.

"Nei, ekki það allra minsta", sagði hún svo. En nú greip Lady Caren fram í, og rétt á eftir fór hershöfðinginn til herbergja sinna. Lady Caren horfði á Lady Aðalheiði mjög óttalgin.

"Kæra Aðalheiður, hvað eigum við að taka til bragðs?".

"Við skulum vera rólegar, og gæta vel að okkar. Ég álít, að tveir kvenmenn geti vel ráðið við, þó svo væri, að tuttugu karlmenn væru á móti þeim".

"En, kæra Líða, þetta er einmitt það, sem hertogainnan segir".

"Þess vegna skulum við álíta, að hún stundum að minsta kosti geti talað skynsamlega. Reyndu að vera róleg. Mér finst að alt muni fara vel".

Nú var farið að borða, og allir veittu því eftirtekt, hve mikla virðingu hershöfðinginn veitti Lady

Aðalheiði. Það var engu líkara, en hann áliti, að hún ein ætti hér alt og réði öllu. Alt, sem hann talaði um, bar hann undir hana. Enginn varð eins forviða á þessu eins og hertogainnan. Samt þótti henni vænt um komu hershöfðingjans.

"Þér fáið nu meiri tíma til að sinna gestum yðar", sagði hún í ás kandi róm við Caren lávarð.

"Þessa ávítan á ég ekki skilið", sagði hann.

"En þér hafið ekkert skift yður af mér núþa í tvo daga", sagði hún hálf hlæjandi, "og ég vona, að hinn góði, gamli hershöfðingi sæki sig eftir Lady Aðalheiði".

"Lady Aðalheiður er ekkert daðurkvendi", sagði lávarðurinn fyrirlitlega.

"Þökk fyrir hólið. Þér litið á mig alveg eins og yður finnist ég vera það".

"Þér eruð orðnar æði ímyndunarveikar, mín kæra hertogainna".

"Þér eruð farinn að rífast við mig, lávarður", sagði hún.

Hann brosti að uppgerðarhræðslu hennar. Og nú tók hann eftir því, að hershöfðinginn var að tala við hann, en hann hafði enga hugmynd um, hvað hann var að segja.

"Unga fólkið getur alt af skemt sér", sagði hershöfðinginn. — Hann var búinn að borða og sat nú í gestasalnum. — "Nei, þakk yður fyrir. Lady Aðalheiður, ég vil ekki ganga út núna. Ég hefði gjarnan viljað það, því kveldin eru mínar beztu stundir, en ellin og kveldin eiga ekki saman. Ég vil heldur tefla skák við Lady Caren, ef hún vill gera svo vel".

Lady Caren vildi það fúslega. Alt var betra en hershöfðinginn væri einn með lávarðinum. Hershöfðinginn leit hlægjandi á Lady Aðalheiði. "Ég sé", sagði hann, "að þér svipist um eftir manni yðar. Það hefir að eins verið fyrir kurteisis sakir, að

þér buðuð mér að koma út með yður, en sannleikurinn er sá, að þér viljið víst alt af vera ein með manni yðar, þegar þér getið því viðkomið. Fallegu augun yðar eru sannsöglari en varirnar, góða mín".

Lady Aðalheiður roðnaði og gekk út. Lávarðurinn fór á eftir henni. Þau gengu þegjandi þangað til þau komu að rósagarðinu. . Þá sneri hún sér að honum með glaðlegu brosi.

"Allan, þetta er hræðilegt. Hvað eigum við að gera, ef hann stendur alt af í þeirri trú, að við elskum hvort annað. Ég veit hreint ekki, hvernig við eigum að haga okkur".

Henni fanst þetta svo hlægilegt, að hún hló hjartanlega að þessu. Hann gat ekki annað en hlegið með henni, og tók um leið um hönd hennar og kysti hana.

"Það undarlegasta af því öllu er", sagði hann, og roði flaug yfir hið fagra, karlmannlega andlit hans, — "að ég held, að hann hafi ekki svo mikið rangt fyrir sér".

Hún vissi, hvað mundi fylgja eftir. En nú kom hertogainnan í hendingskasti til þeirra. Hún hafði heyrt hlátur, og þekt að hann kom frá Lady Aðalheiði, svo hún varð að kasta skugga á gleði hennar, ef unt væri. Hún kom til þeirra og lést vera alveg forviða.

"Lady Aðalheiður", hrópaði hún, "mér fanst ég heyra heilan kór af silfurskærum röddum. "Aldrei hefði ég getað trúað því, að þér gætuð hlegið".

"Ég hefði heldur átt að gráta en hlægja. Nú, Allan, ég hefi nóg annað til að gráta yfir. En hvorki þú, Allan, eða ég ættum að hlægja að þessu smáræði oftar".

"Þér eigið svo mörg leyndarmál", sagði hertogainnan. En Lady Aðalheiður gaf því engan gaum. Hin sæla meðvitund um það, að hún hafði talað við

mann sinn og hann kyst á hendi hennar og sagt það, sem hann sagði, — alt þetta gladdi hana ósegjanlega mikið.

Hertogainnan var alt kveldið mjög ergileg yfir því, að hún gat með engu móti kastað skugga yfir gleði Aðalheiðar. Hershöfðinginn, sem nú sá, hve glöð Aðalheiður var, sagði aftur og aftur við sjálfan sig: "Hún er ánægð. Guði sé lof!"

Lady Caren sýndist nú alt ætla að enda vel.



## XLV. KAPÍTULI.

"Ég vildi heldur vera Lady Caren á Brooklands, en hertogainnan af Ormont", sagði Nita við sjálfa sig. Hvað er það, sem við eigum uppí landinu? Gamalt höfðingjasetur við sjávarströndina, þar sem skrækjandi máfar er eina skemtunin. Að fara þangað, er sama sem að fara í útlegð. Nei, það er alt annað, að eiga Brooklands og sérstakt hús í London, — engan gamlan eiginmann, sem lætur mig yfirgefa dansleiki um miðja nótt, af því hann er þá orðinn þreyttur. Ég hefi að vísu eins mikið af peningum eins og ég vil, en það er eins og þung byrði hvíli á herðum mér sökum þess, hve maður minn er orðinn gamall. Hann hefir enga skemtun af því, sem mér þykir gaman að".

"Ef ég væri Lady Caren, skyldi ég vera ánægð, en því er nú ver og miður, að svo er ekki, þá mætti ég ávalt vera við hlið þess manns, sem ég elska, og ráða öllu hér á Brooklands".

"Biðji hann mig um það, mun ég svara: já".

Nú brosti hún.

"Næsta spursmál er, hvort hann biður mig um það, en ég vona að svo verði. Ég veit nú hér um bil, hvernig sambúðinni milli hans og konu hans er varið. Hann elskar hana ekki, og þeirra á milli hefir aldrei verið um neina ást að ræða. Hann var neyddur til að eiga hana, vegna erfðaskrárinnar. Nú getur hann haldið eignum sínum, þó hann skilji við hana. Komi hann til mín og segist vera þreyttur af að lifa ánægjulausu lífi án ástar, — og biðji mig að verða hans, — vil ég svara : já. Svo verða þá tveir hjónaskilnaðir og eitt hamingjusamlegt hjónaband. Eftir nokkra mánuði gleymist þetta, og við lifum ánægjulegu og glöðu lífi".

Henni kom ekki til hugar, að hugsa það minsta um, hvort áform hennar væru rétt eða ekki. Um virðingu og sóma sinn hirti hún ekkert, — að eins um að svala ástríðum sínum og lifa glöðu lífi. Hún hugsaði ekkert um, að hún ætlaði að drýgja stórsynd, eða um hve ólæknandi sári hún myndi særa mörg saklaus hjörtu. Hún setti sér það að eins fyrir mark og mið, að vinna hann, sem hún elskaði svo heitt. Hún brosti, er hún hugsaði til þeirrar sorgar, er hún ylli Lady Caren móður Allans.

"Látum hana einhvern góðan veðurdag hitta mig sem eiginkonu Allans, og hún skal fljótt mega hætta við siðfræðiskenningar sínar".

Þá gladdist hún, er hún hugsaði til, hvílika smán og sorg hún leiddi yfir Lady Aðalheiði.

"Hann elskar hana ekki", sagði hún og brosti illgirnislega, "það hefi ég fulla vissu fyrir. En ég er viss um, að hún elskar hann. Já, ég mun hefna mín vel".

Það er ómögulegt, að hylja aðrar eins syndir og þessar með neinni afsökunarblæju. Þessi synd var hugsuð af ásettu ráði, hún átti rót sína að rekja frá köldu, spiltu hjarta, sem ekki hafði minsta snefil

af siðgæði til að bera, en sem lét stjórnast eingöngu af girndum sínum.

Hertogainnan gekk til og frá um rósagarðinn á meðan hún var að hugsa um alt þetta. Það var sem ilmvatn streymdi út um hvern saum á kjól hennar.

Alt í einu hrökk hún við. Hún heyrði innilegan hlátur, og sér til mikillar undrunar, sá hún lávarðinn standa hjá konu sinni og tala við hana. Bæði hlógu. Hún varð svo hrygg og reið yfir sjón þessari, að því verður ekki með orðum lýst. Það leit ekki út fyrir, að það yrði svo auðvelt, að fá komið skilnaði af stað hér. Heldur var ekki alveg víst, að ástin væri að eins á aðra hliðina. Hún lét sér samt í engu bregða, talaði við þau nokkur orð og gekk svo í burtu.

Lávarðurinn horfði undrandi á eftir henni, þar sem hún gekk ein e[illegible] garðinum, var hún líkust manni, sem er yfirbug[illegible] í sorg. En svo kom einhver og fór að tala við hann, svo hann gleymdi henni um stundarsakir.

Kveldið var mjög blítt og fagurt. Hægur vindur lék um blöð trjánna, fuglarnir voru hættir að syngja, og öll náttúran sýndist ætla að fara að hvíla sig.

Lávarðurinn mundi ekkert eftir hertogainnunni, fyr en einhver gestanna spurði eftir henni, því hún var ávalt lífið og sálin í hópnum, þegar gleði og gaman var á ferðum.

Hann mundi nú eftir, hve skyndilega hún hafði gengið frá honum, og hve hrygg hún sýndist vera. Hann fór strax að gæta að henni, fyrst í rósagarðinn, svo hjá gosbrunnunum, en hún fanst þar hvergi. Lengst inni í skóginum heyrði hann einn næturgala syngja.

"Hún er víst þarna", hugsaði hann, "og hlustar

á næturgala sönginn". Hann kallaði hátt 'Nita', en enginn ansaði.

Það var orðið skuggsýnt, ekki samt mjög dimt. "Ég skil ekki, að hún hafi farið inn í skóginn, hún kemst þá aldrei ein til baka úr því farið er dimma".

"Nita", kallaði hann aftur, — en það var það sama.

Nú mundi hann eftir uppáhaldsstað sínum, trjálundinum. "Það getur þó varla verið, að hún sé þar?" hugsaði hann, en samt gekk hann þangað.

Sólin náði aldrei að skína inn í þennan lund og allajafna var þar skuggsýnt. Kyrðin inni í honum og blómilmurinn að utan var mjög aðlaðandi fyrir sérhvern mann.

Þegar lávarðurinn stóð við innganginn, heyrðist honum hann heyra grát.

"Nita!" kallaði hann, — en ekkert svar. Þó var hann viss um, að einhver var hjá uppáhaldssæti hans, hjá efsta hvíta líkneskinu. Hann gekk þangað, en nú heyrðist ekki lengur nokkur ekki. Samt var hann viss um, að hún var þar. Hann fann það á sér, að hún var nálægt honum, og nú sá hann skína í hinn rauða skrautlega kjól hennar.

"Nita", sagði hann lágt.

Hún ansaði ekki, en hann sá að hún lá þar með höfuðið við fætur líkneskisins. Hann gekk til hennar.

"Nita, er það mögulegt, að þetta séuð þér? Hvers vegna eruð þér hérna ein og grátandi? Hvað hefir komið fyrir yður?"

Hann tók hendurnar frá andliti hennar, og sá að hún var náföl og fljótandi í tárum.

"Ef þér viljið gera mér greiða, Allan, þá lofið mér að vera einni hér. Mér líður svo illa, að ég veit ekkert hvað ég segi".

það vill verða erfitt fyrir karlmann, að ganga í burtu frá fallegri konu fljótandi í tárum, sérstaklega þegar hún biður hann um það. Lávarðurinn fór heldur ekki í burtu, en tók um báðar hendur hennar.

"Nita, þér verðið að segja mér, hvað þetta á að þýða. Ég sakna yðar og hefi mikið leitað að yður. Hvernig stendur á því, að ég finn yður hér í þessu ástandi? Segið mér það og berið traust til mín".

Hún leit framan í hann, og tárinn runnu ótt og títt niður kinnar hennar.

"það er bezt, að spyrja mig einskis, Allan", sagði hún. "Mér — mér datt ekki í hug, að þér munduð finna mig hér. En ég varð að gráta út sorg mína í einverunni og kyrðinni".

"Hvað er það, sem amar að yður, Nita? Segið mér það".

Hún reyndi til að losa hendur sínar og hún stundi þungan.

"Spyrjið mig ekki. Ef ég nokkurntíma segði yður það, gæti það haft slæmar afleiðingar í för með sér. Látið mig vera eina, — það er það bezta".

En hann tók því fastara utan um hendur hennar.

"Ég verð að vita það, — þér megið til að segja mér það". Arnljótur B. Olson

---

## XLVI. KAPÍTULI.

Aldrei gleymdi hann hinu föla, fagra andliti hennar, er nú sneri sér að honum. — Hún horfði lengi á hann. —

"þér spyrjið mig, hvers vegna ég sé svona hrygg og grátin", sagði hún svo. "það er af því, að ég

er ekki eins og þér, — ég get ekki gleymt. Í guðs nafni vildi ég óska að ég gæti það, en mér er það ómögulegt."

Hann vissi ekki, hverju svara skyldi.

"Ég hefði getað orðið hamingjusöm, hefði ég aldrei hitt yður", hélt hún áfram, — en nei, þess vil ég þó ekki óska. Það er betra, að hafa elskað og tapað, en aldrei hafa elskað. Allan, ég hélt ég væri sterkari en ég er, — ég hélt eins og svo margir aðrir, að ég gæti lifað, ef ég að eins hefði nógan auð,— en ég get það ekki, — get það ekki, — guð hjálpi mér! Hjarta mitt hrópar eftir meiru, — ég get ekki lifað án ástar".

"En, Nita", sagði hann, "þér eigið góðan og blíðan eiginmann".

"Já, en ég elska hann ekki. Líf mitt er ekki annað en löng raunakveðja, því ég elska hann ekki. Ó, guð hjálpi mér! "

Hann leit raunalega á hana, hann sá, hvað henni bjó í brjósti.

"Ég hugsaði", sagði hún, "daginn, sem þér komuð að kveðja mig, — þá hélt ég að ég gæti gleymt yður. En, Allan, ég hefi haldið mig sterkari en ég er".

'Kæra Nita", sagði hann, "ekki get ég ímyndað mér, að viljakraftur yðar svíkji yður".

"Hann hefir þegar gert það! " hrópaði hún ákaft. "Ó, Allan, Allan, ég vildi að ég hefði þann dag, í staðinn fyrir að vera stolt og köld við yður, tekið um háls yðar og beðið yður, að hugsa ekkert um arf yðar, en ganga að eiga mig. Munduð þér hafa gert það?"

"Já, ég held ég hefði gert það", mælti hann alvarlega".

K

"Ó, vei mér! Nú er það of seint. Ó, Allan, mín byrði er svo þung, að ég get ekki risið undir

henni!' Lofaðu mér að gráta út sorg mína!' Ég elska bústað yðar meira en nokkurn annan blett á jörðunni. Mér þykir orðið svo vænt um hann, að ég get ekki hugsað til að fara héðan. Þegar ég fer, verð ég eins og Eva, þegar hún var rekin úr Paradís. Ég vil heldur deyja og fá að hvíla í þeirri mold, sem tilheyrir yður, en lifa nokkurstaðar annarstaðar".

"En, Nita —"

Hann ætlaði að leiða henni fyrir sjónir, hve heimskulegt tal hennar væri, en hún lét hann ekki komast að.

"Takið ekki fram í fyrir mér! Lofið mér að útausa mínu hrygga hjarta fyrir yður, Allan, — þó þér reiðist mér, sýnið mér samt þá sanngirni. Get ég að þessu gert? Reynduð þér ekki alt sem þér gátuð í fyrri daga til að fá mig til að elska yður?"

"Ef ég hefi gert yður rangt til, Nita, þá þykir mér það fjarska leiðinlegt".

"Ég ásaka yður ekki, Allan. En endurminning þeirra daga ætti að gera yður mildan í dómum yðar gagnvart mér".

"Ég er það, og mér hefir ekki dottið í hug, að vera ómildur í dómum mínum. Ég gæti það heldur ekki, Nita, þó ég feginn vildi"

"Ég hata alla meðaumkvun", sagði hún. "En það kemur stundum fyrir, að ég er viti mínu fjær af sorg. Ég vissi ekki hvað ást var, fyr en ég fann yður, Allan. Þér getið tæpast ímyndað yður, hve heitt ég elskaði yður. Er það nokkuð ljótt, þó ég segi yður, að ég hélt að þér einhvern daginn mynduð biðja mig að verða konuna yðar? En það var bara draumur, — heimskulegur draumur. En þegar ég vaknaði af honum, var ástand mitt hræðilegt. Getið þér ásakað mig fyrir það?"

"Nei", sagði hann í hálfum hljóðum, "ég ásaka yður ekki, Nita. Guð hjálpi okkur báðum!"

"Ég hugsaði", sagði hún ennfremur, "að við gætum verið vinir, þegar við hittustum aftur, en ég sé, að það er ómögulegt. Ég hefi liðið mikið undir þessu þaki. Ég var svo blind og vitlaus, að ímynda mér, að ég ætti mestan rétt á yður, — og í raun og veru er það svo, — af því þér elskuðuð mig fyrst, og nú er hart fyrir mig að verða að horfa á, að allur sá áhugi og umönnun, sem þér fyr meir sýnduð mér, skuli nú vera sýnt annari konu, þó hún aldrei nema hafi rétt til þess".

"Vesalings Nita!" sagði hann og tók blíðlega um hönd hennar. Þér hafið liðið alt þetta, án þess ég hefði minstu hugmynd um það".

"Ég hefi haldið hugsunum mínum leyndum þangað til nú, og ég ætlaði mér ekki að láta þær í ljós, ef þér hefðuð ekki fundið mig hér. Mig langaði ekkert til að segja yður það, en svo er líklegast bezt, að þér vitið það. Menn eiga ekkert með, að reyna að vinna ást konunnar, til þess á ...r að kasta henni frá sér sem visnu blómi".

"Nita, þetta er ekki rétt. Í það minsta hefi ég aldrei gert það".

"Þér gerðuð hér um bil það sama. Það er jafngott, þó þér fáið að vita, að ég aldrei get gleymt eins og þér getið. Guð miskuni mér! Engin er ólánssamari en ég, og ánægjusamasta stundin í lífi mínu verður, þegar ég segi skilið við þennan heim".

"Þér þurfið ekkert að tala um þetta, Nita. Ég hefi ávalt virt ást konunnar, — aldrei hefi ég gert gis að henni, og aldrei hefi ég viljað dæma hana ranglega".

"Það getur vel verið, ég er svo leið í skapi núna, að ég veit varla hvað ég segi. Ó, Allan, hversu skemtilegt er ekki að lifa fyrir þær konur, sem eru

elskaðar. Hví skyldi nokkur eiga að lifa og deyja, án þess að þekkja þá sælu".

"Þér hafið þekt þá sælu, Nita", sagði hann mjög hryggur, af því hann sá, hve illa lá á henni. — "Þér vitið hvað það er, því — ég elskaði yður".

"Gerðuð þér það?" spurði hún og leit innilega í augu hans.

"Elskuðuð þér mig þá, Allan?"

Hann beygði sig niður að henni. "Já, það gerði ég, Nita. En ég áleit það skyldu mína, að uppfylla óskir og vilja föður míns".

"Skyldu!" sagði hún og stundi við. "Hversu mörg hjörtu mega ekki líða fyrir þetta eina orð? Allan, elskuðuð þér mig? Segið það aftur, — ég er svo hamingjusöm. Segið það aftur, og ég vil geyma endurminninguna um það til dauðans.

Hann leit framan í hið fagra, sorgbitna andlit hennar, og sá að augun stóðu full af tárum.

"Ég segi það aftur, Nita. Ég elskaði yður heitt, og aldrei hefði ég slept af yður vegna annars en þess, sem ég áleit skyldu mína".

"Þakk, þessi orð hafa veitt mér meiri ánægju, en ég gat nokkurntíma búist við að fá. Þér hafið elskað mig Allan! Eruð þér nú alveg búinn að gleyma mér?"

Hún horfði í augu hans, varir hennar voru rétt við hans, og hún leit út eins og barn, sem biður um kærleika.

Það var því bæði göfugt og mannlegt af honum, að hann lét á móti freistingunni að kyssa hana.

Nú leggið þér hættulega spurningu fyrir mig", sagði hann, "— en, nei, Nita, ég hefi ekki gleymt yður, ég ber mikla virðingu fyrir yður, og vil vera vinur yðar. En ég veit vel, að þér eruð annars manns kona, og það göfugs manns. Aldrei gleymi

ég því djúpi, sem nú er staðfest á milli okkar, og sem er breiðara en sjálfur dauðinn.

Hún hrökk saman. "Það er rétt, sem þér segið, en yður stendur þó ekki alveg á sama um mig, Allan. Að eins ofurlitið verðið þér að skifta yður af mér".

"Já", mælti hann fljótlega. "Þér hafið rétt til mín, Nita, og skuluð hafa hann á meðan ég lifi. Þér hafið liðið mín vegna, og ég vil eftir því sem ég get, bæta fyrir það".

Það brá fyrir nokkurs konar glampa í augum hennar.

"Og þér gefið mér það ekkert að sök, þó ég hafi sagt yður þetta alt saman, Allan. Þér ætlið ekki að fyrirlíta mig þess vegna?"

"Nei", sagði hann dauflega, "alls ekki, Nita".

"Ég er nú miklu ánægðari, úr því þér vitið þetta, að ég get ekki gleymt yður og að ég — æ, ég má til að segja það — elska yður ennþá". —

Hann laut niður, en sagði ekkert orð. Hún brosti sigri hrósandi. — Hann hafði hlustað á hana, án þess að atyrða hana. Nú taldi hún sér vísan sigur.

"Nú verðið þér að fara", sagði hún. "Ó, Allan mér þykir leiðinlegt, að þér funduð mig hér. Þér megið ekki láta samtal okkar hafa nein áhrif á yður. Ætlið þér að láta það hafa áhrif?"

"Nei, ég skal ekki gera það".

En þetta var það óheppilegasta loforð, sem hann gat gefið, því eftir þessa játningu hennar átti hann að segja henni, að nú yrði kunningsskapur þeirra að vera úti og þau mættu ekki sjást framar. Þetta hefði hann átt að segja, og hún hafði búist við, að hann mundi segja þetta. Þess vegna áleit hún sigur sinn hálf unninn, þegar hann ávítaði hana ekkert fyrir ákafa og frekju hennar.

"Ég get ekki skilið yður eftir hér, Nita", sagði hann. "Það er líka komin nótt". En hún bandaði honum frá sér.

"Ég vil ekki, að neinn sjái okkur saman nú, ég fer ein til herbergja minna, og vil ekkert tala meira í þetta sinn".

Hann margbað hana að koma með sér, en það var ekki að neina.

Hann vissi ekki, hve lengi hún dvaldi þar, en hún lét engan sjá sig alt það kveld.

---

## XLVII. KAPÍTULI.

Næsta morgun lá grá þokumóða yfir öllu héraðinu, sem merki þess, að dagurinn yrði mjög heitur.

Lávarðurinn var á gangi í ávaxtagarði sínum. Hershöfðinginn gekk til hans.

"Þér eigið góðan ávaxtagarð hér", sagði hann. "Það má hver hrósa sem vill ávöxtunum á Ítalíu en ég, sem hefi þó ferðast um hálfan hnöttinn, fullyrði, að hvergi finnast eins góðir ávextir og hér á gamla Englandi".

"Ég er alveg á sama máli og þér", sagði lávarðurinn. "Hvergi hefi ég séð fallegri ávexti, en þá, sem vaxa hér. Þeir eru frábærlega góðir".

Hershöfðinginn hallaði sér upp að hvítu grindverki og sagði: "Nei. Allan, yður hefði víst ekki fallið vel, að missa af Brooklands?"

"Nei, það hefði mér ekki gert. Mér þykir mjög vænt um það, og ekkert heimili hefi ég séð eins fallegt og Brooklands.

"Þetta er vel mælt", sagði hershöfðinginn. "All-

ir eiga að elska heimili sitt. Ég var svo hræddur um, að þér kynnuð að yfirgefa það, og varð því glaður, er ég heyrði um brúðkaupið".

Lávarðurinn leit á hann forviða. Hvað kom brúðkaup hans við eignarrétti hans á Brooklands?

"Ég hefi oft hugsað um yður", sagði hershöfðinginn ennfremur, "og meðan ég vissi ekki í hvaða horf málið var komið, var ég mjög kv'ðandi yðar vegna".

"Þér höfðuð þó enga orsök til þess", sagði lávarðurinn.

"Það er sérlega göfugmannlegt af yður að tala svona. Flestir ungir menn hefðu tekið sér það mjög nærri. Það sýnir skynsemi og þolgæði, að taka því eins og þér gerðuð".

Lávarðurinn hélt, að hershöfðinginn meinti erfðaskrá föður sins.

"Ef ég á að segja sannleikann, herra hershöfðingi, þá var ég mjög ergilegur yfir því fyrst í stað. Mér fanst það vera mjög órýmilegt, en það dugar ekki, að ergja sig yfir því, sem verður að vera".

"Nei, rétt er það. En leyfið mér að spyrja yður að einni spurningu. Ég játa, að ég hefi engan rétt til þess, alls engan, en ég var góður vinur föður yðar, og hefi einlægan áhuga fyrir öllu, sem yður viðvíkur. Segið mér, vildi nú Aðalheiður af fúsum vilja giftast yður?"

"Af fúsum vilja?" hrópaði lávarðurinn. "Já, ég held það. Það megið þér vera vissir um".

"Og enginn hefir lagt að henni í því efni?"

Lávarðurinn, sem mundi vel eftir, hvernig alt hafði gengið til, gat ekki stilt sig um að brosa.

"Já, ég get fullvissað yður um það, ég held að gifting okkar hafi í alla staði verið að vilja hennar".

"Og þér fullvissið mig um það?" sagði hers-

höfðinginn, og leit rannsakandi augum framan í lávarðinn.

"Já, það geri ég", sagði hann undrandi. Hvers vegna haldið þér, að Aðalheiði hafi verið þröngvað til að giftast?"

"Ég hélt", sagði hershöfðinginn, að hún hefði ekki viljað valda yður vonbrigðum, og þess vegna hefði hún samþykt ráðahaginn".

"Ég get fullvissað yður um, að svo var ekki", sagði Caren.

"Þess betra", sagði hershöfðinginn. "Mér þykir vænt um að heyra það. Þér skiljið það, að þó mér sé ant um yður, er mér þó enn annara um Aðalheiði".

Lávarðurinn hneigði sig, án þess að skilja, hvað hann meinti. En nú kom Lady Caren til þeirra. Hún var óróleg, en það var sem henni létti, þegar hún sá, að sonur hennar var alveg rólegur.

"Hershöfðingi", sagði hún, "þér hafið ekki haldið loforð yðar. Það var aftalað á milli okkar, að við gengjum þennan morgun til plantnanna, þér, Aðalheiður og ég".

"Ég hefi ekki gleymt loforði mínu, en ég tók það svo, að þið hefðuð ekki tíma til þess fyr en eftir hádegið".

Lady Caren sýndist verða í vandræðum.

"Ég hafði gleymt því", sagði hún svo. "Allan, leiddu mig, mér þykir svo hressandi, að ganga hér litla stund. Hvað hafið þið verið að gera?"

"Við höfum verið að skoða ávextina", sagði hershöfðinginn og hneigði sig kurteislega.

"Og talað um stjórnmál —?"

Sonur hennar hló hátt. "Nei, mamma, stjórnmál og ávextir eiga ekki vel saman".

"Ég var að segja Caren lávarði, hve glaður ég

varð, þegar ég heyrði um brúðkaup hans", sagði hershöfðinginn rólega.

Lady Caren varð náföl. Hún næstum skalf. Sonur hennar tók eftir því.

— "Um giftingu hans?" sagði hún seint, "og þér glöddust yfir henni. Það gerðum við öll líka".

"Ég get ekki annað sagt", sagði he... ofðinginn, "en að Caren lávarður sé mjög hamingjusamur maður. Hann á eina hina elskulegustu og fegurstu konu á öllu Englandi. Ef ég væri ungur, og hún ógift, skyldi ég hafa reynt að ná ástum hennar. Hún er tíu sinnum meira virði en þessi hertogainna, sem þér eruð alt af að tala við Caren.

Allan hló svo hjartanlega að þessu, að hershöfðinginn gat ekki annað en 'rosað með honum. En Lady Caren reyndi að breyta sem fyrst umtalsefninu. Hún gat fengið hershöfðingjann til að tala um herferðir sínar, og svo áleit hún öllu óhætt. En lávarðurinn undraðist stórlega yfir tali hershöfðingjans, og allri framkomu móður sinnar.

"Ég skil hreint ekkert í þessu", sagði hann hundrað sinnum við sjálfan sig um daginn. "Hér er um eitthvert leyndarmál að ræða, — og úr því enginn sýnist hafa tiltrú til mín í því efni, þá verð ég komast eftir því sjálfur".

Daginn eftir sætti hann lagi, að vera einn saman hjá hershöfðingjanum, og fór svo að tala við hann. Hann ætlaði að koma giftingu sinni í tal, en þá kom móðir hans og eyddi því. Og þannig kom margoft fyrir. Hann fór því að gruna, að móðir sín gerði þetta af ásettu ráði, og einn dag sagði hann við hana:

"Mamma, veiztu hvað ég er oft að hugsa um?".

"Nei, þess get ég ekki getið".

"Mér finst að þú sért hrædd við, að láta mig vera einan með hershöfðingjanum".

Hún brosti vandræðalega. "Hvers konar vitleysa er þetta, Allan? Hví skyldi ég hræðast það?| Hann sem er gamall vinur föður þíns"

"Það sýnist vera heimskulegt, að halda það, en þó stend ég í þeirri meiningu. Yfirleitt skil ég ekki helminginn af því, sem hershöfðinginn segir. Hann talar alt af eins og Aðalheiður hafi verið sem fórnarlamb, eða eitthvað því líkt, — ég get ekki skilið það".

"Þetta er að eins ímyndun þín, Allan."

"Það væri gott, ef svo væri. En stundum finst mér, sem hér sé um eitthvert leyndarmál að ræða, en svo get ég samt ekki skilið, hvað það gæti verið".

Lávarðurinn gekk nú í burtu. En móðir hans sló höndum saman af angist.

"Það kemst upp!! Það verður ómögulegt að leyna því. Guð gefi mér styrk til að bera það!"

Lady Aðalheiður kom inn og fann tengdamóðir sína fljótandi í tárum.

"Aðalheiður", sagði veslings konan, "hve lengi stendur þetta yfir? Sjáðu, hve hendur mínar titra. — Reyndu að komast eftir, hvenær hershöfðinginn fer. — Ó, Lída, Lída, kraftar mínir þverra óðum, því ég finn á mér, að leyndarmálið kemst upp!."

---

## XLVIII. KAPÍTULI.

Júaníta hertogainnan af Ormont notaði öll leyfileg og óleyfileg meðul, til að ná ástum annars manns, þrátt fyrir það, að hún sjálf átti göfugan og heiðarlegan mann. Henni kom ekki til hugar, að kalla það synd, því samvizka hennar var fyrir löngu

sofnuð. Henni fanst sem hið djöfullega ráðabrugg sitt vera líkt nokkurs konar æfintýri, en það átti svo vel við hina suðrænu náttúru hennar. Hún hugsaði um þetta nótt og dag.

Einhvern morgun stóð hún á svölunum fyrir utan húsið, hjá tveimur fögrum og stórum blómum. Hún var mjög kvíðandi fyrir því, að hertoginn myndi nú fara, áður en hún næði takmarki sínu — því, að ræna lávarðinum frá Lady Aðalheiði. Meðan hún var að hugsa um þetta, fann hún að hönd var lögð á öxl hennar.

"Það er fallegt hér á Brookland", sagði hertoginn, því þetta var hann, — "okkur líður vel hér, Carens er gestrisið fólk, en mér finst nú kominn tími til að halda heimleiðis.

Hún var alt of kæn til að setja sig beint á móti vilja hans. Hún brosti og leit framan í hann.

"Þú skalt alveg ráða því, Gervase. Mér þykir vænt um, að þú hefir skemt þér vel hér. Þú þarft ekkert annað, en ákveða, hvenær þú vilt fara, — ég skal þá vera tilbúin".

"Mér þykir Clavering hershöfðingi svo skemtilegur", sagði hertoginn, "að ég hefði mikla ánægju af því, að bjóða honum að dvelja hjá okkur í nokkrar vikur, ef þér væri það sama".

"Ég hefi ekkert á móti því. Þú veizt, Gervase, að ég vil gera alt, sem ég get, til að uppfylla óskir þínar".

"Þú er alt af svo góð", sagði hertoginn og kysti á hönd hennar. Alt í einu leit hún brosandi til hans:

"Gervase!! það er nokkuð hér, sem ég vildi fara með með mér heim til Skotlands".

"Hvað er það, Nita? Ef hægt er að kaupa það skal það verða gert".

"Það er ekki hægt að kaupa það fyrir peninga, en það eykur mér nýtt líf".

"Hvað er það, Nita?"

Hún hóf upp höndurnar, og sagði hrifin, að því er sýndist: "Hið hreina, hressandi loft! Ó, hvað mér þykir mikið til þess koma. Gervase, þegar ég kom hingað, var ég þreytt og ekki nærri því heilbrigð. En horfðu á mig nú. Mér finst ég vera eins og önnur manneskja. Mér finst ég vera sterkari, og ég er svo glöð og ánægð hér. Ég vildi, að við gætum flutt þetta loft með okkur. Á Skotlandi er svo kalt. Ó, mér finst sem hrollur fari um mig, þegar ég hugsa þangað".

"Hertoginn brosti að ákafa hennar. "Það er ekki svo gott, að ráða bót á því", sagði hann. "En hjartkæra Nita, úr því þér líður svona vel, skulum við dvelja hér enn þá í tíu daga".

Annaðhvort fékk hún ofurlítið samvizkubit eða hjarta hennar hrærðist af góðsemi hans. Hún laut niður og tók um hendur hans.

"En hvað þú ert góður við mig", sagði hún rólega.

Góður við þig, Nita!! Elsku konan mín, þú ættir að vita, að ég vildi láta lífið fyrir þig! Það ert þú, sem ert góð. Því þú gafst mér ást þína, fegurð og æsku. Alt þetta gafstu mér".

Það var leiðinlegt, að þurfa að svíkja hann, hann var svo blíður og eftirlátur, og alveg grunlaus. Hann bar fullkomið traust til hennar. — Það gat vel verið, að henni hafi komið til hugar eitthvað álíkt þessu, því hún var vingjarnlegri við hann en vandi hennar var til. Þau gengu svo inn, og strax voru hinar betri tilfinningar horfnar úr hjarta hennar. Hún gladdist að eins yfir því, að fá ennþá tíu daga til að koma áformum sínum fram. Þegar þau gengu gegnum gestasalinn, sá hún Aðalheiði sitja

þar og vera að lesa í bók. Hún brosti með sjálfri sér, þegar hún hugsaði til þess, að ekki yrði langt að bíða, að Lady Aðalheiður yrði þarna ekki lengur. Hún fann ekki til neinnar meðaumkvunar með henni, og þó hafði Lady Aðalheiður aldrei gert henni annað en gott. Hertogainnan hugsaði ekki um annað en það, að hún elskaði Caren lávarð, og vildi lifa við hlið hans lífið á enda.

Tíu dagar!! það var ekki langur tími. Hún varð að byrja strax. Hún vildi ekki yfirgefa Brooklands án hans.

Við máltíðir var hún vanalega mjög skrautlega búin, en þennan dag var hún í svörtum kjól algerlega skrautlausum. Flestu kvenfólki myndi ekki hafa þótt smekklegt, að vera þannig búið, en henni fór þó þessi búningur vel. Hún var mjög sorgbitin að sjá, og talaði fátt á meðan á máltíðinni stóð.

Lávarður Caren horfði alveg forviða á hana. Hann ásetti sér, að fá tækifæri þegar búið væri að borða, til að tala við hana og vita hvað að henni gengi. Einhverju sinni, er hann vék nokkrum orðum að henni, leit hún framan í hann, og honum sýndist tár glitra í augum hennar. Hann varð órólegur hennar vegna.

það gat ekki verið af því, að hún byggist við að fara þaðan því hertoginn hafði sagt honum um morguninn, að hann gjarnan vildi dvelja þar lengur. Og ekki hefir hann orðið reiður við hana, því hann elskar hana ofmikið til þess.

"Vesalings Nita", hugsaði hann, "hvað ætli að gangi að henni?"

Hann var góðhjartaður og göfuglyndur maður. Hann sárkendi í brjósti um hana, sem ekki hugsaði um annað en að eyðileggja sjálfa sig og hann.

## XLIX. KAPÍTULI.

Lady Aðalheiður reyndi til að fá hertogainnuna til að taka þátt í samtalinu, eftir að búið var að borða, og eins að spila og syngja, en alt varð árangurslaust.

"Ég er eitthvað svo ergileg og í svo vondu skapi í kveld", sagði hún, "ég man ekki til, að hafa nokkurntíma verið í jafn vondu skapi. Mér leiðist alt, svo hefi ég líka höfuðverk og vil því helzt vera ein. Ég ætla að líta í bók og reyna að komast í betra skap".

Hún var brosandi. Lady Aðalheiður skildi, að hún vildi vera alein, en hún sá líka, að hertogainnan laug öllu hinu upp.

"Hún vill reyna, að ná tali af Allan, þess vegna vill hún vera ein", hugsaði Aðalheiður með sér. Henni fanst hjarta sitt brenna af afbrýðissemi. Síðan Allan hafði breyzt í viðmóti sínu gagnvart henni, var hún farin æ meira og meira að finna til afbrýði. Það jók mjög á byrði hennar, og enginn veit, hve slæmur og þungbær sjúkdómur afbrýðin er, nema sá, sem líður af henni sjálfur. —

Þegar Allan hafði verið hlýlegur og blíður við hana, fór hana að dreyma um hamingju og sælu, en svo á milli leið nún meira en nokkru sinni áður af afbrýðissemi.

Hún bar það alt samt með stökustu þolinmæði. Hún hugsaði alt af til þess, sem hún hafði sett sér sem mark og mið, að frelsa mann sinn frá glötun og eyðileggingu.

Hjarta hennar brann og varir hennar skulfu, er hún sá mann sinn ganga til hertogainnunnar.

"Nita", sagði lávarðurinn, "hvað gengur að yður í kveld? Búningur yðar og öll framkoma, ber vott um það, að yður þykir eitthvað að."

"Já, ég vildi, að ég gæti verið öðruvísi".

"Hvað gengur þá að yður?"

"Ekkert. Ég er að eins í vondu skapi. Já, í svo vondu skapi, að ég næstum get drepið sjálfa mig. Þér þurfið ekkert að hlægja að þessu, Caren. Það er alveg satt, að ég vildi að ég væri dauð".

"En, Nita —".

"Skiftið yður ekkert af því", greip hún fram í. "Þér ætlið víst að halda langa áminningarræðu yfir mér um dygð og skyldu, — ég þekki það. En það er bezt fyrir yður, að tala ekkert við mig, ég tek það upp aftur, að ég vildi að ég væri dauð".

"Því óskið þér þess, svo ung og svo fögur?"

"Líf mitt er fult af sorgum og þjáningum — fult af eymd og örvænting. Því skyldi þá ekki vera bezt að deyja?"

Hann sárkendi í brjósti um hana. Hún var ung og rík og falleg, en þó svo framúrskarandi ógæfusöm.

"Þér þurfið ekki að líta illilega til mín, Caren. Lady Aðalheiður er þarna. Ef yður langar svo mjög eftir hlýleika og góðum vilja, þá farið til hennar, hún hefir ávalt nóg af þess konar".

Lávarðurinn hló að þessum djörfu ókurteisu orðum hennar.

"Þér eruð ekki eins reiðar og þér látist vera, Nita, það er ég viss um, og hvað mig snertir, langar mig ekkert til að tala við aðra en yður".

Augu hennar stóðu full af tárum, og hún var svo fögur í sorg sinni, að hann gat ekki annað en fært sig nær henni.

"Það hefir náttúrlega ekkert að þýða", sagði hún. "Laufin falla af trjánum, og fegurð þeirra verður að engu, rósirnar visna. Hver grætur, þó að stormarnir feyki burtu blöðum þeirra? Er það ekki sama og vinna hjarta konunnar, kasta því svo burtu og eyðileggja það? Það hefir ekki meiri þýðingu en visnað blóm."

Hann varð mjög alvarlegur.

"Þetta eru hræðileg orð, Nita".

"Eru þau það? Ég sagði yður, að ef þér vilduð að eins heyra smjaður og blíðuyrði, þá skylduð þér fara til Lady Aðalheiðar".

Hann laut rólega niður að henni. "Þér eruð alls ekki, réttlát, Nita, ég á þessi orð alls ekki skilið"

Hún snéri sér undan og varir hennar skulfu lítið eitt. Svo leit hún aftur framan í hann.

"Fyrirgefið mér, Allan, ég er í svo vondu skapi núna. Ég fór hingað til þess að vera ein, mér fanst sem ég hefði raun af gleði og hljóðfæraslætti. Því komuð þér til mín? Því voruð þér ekki kyrrir hjá hinum, sem syngja og hlægja eins og lífið hafi enga sorg í för með sér? Nú er ég búin að ergja yður, en samt meinti ég ekkert ilt með þessu".

"Segið mér, hversvegna þér eruð alt af svona óánægðar, Nita, þér sem sýnist alt af að vera svo glaðar og skemtilegar. Ég þykist vita, að það sé næsta alvarlegt, sem gengur að yður".

Hún leit dreymandi augum á blómin fyrir utan gluggann.

"Ég hefi talað við hertogann um að fara héðan og til heimilis okkar á Skotlandi", sagði hún lágt, "og ég hefi hugsað um og séð, hvernig líf mitt verður þar".

"Og hverju líkist það?"

"Spyrjið mig ekki um það. Ég hélt að ég væri sterk, Allan, en ég er það ekki. Ég hélt að ég væri

stolt, en alt stolt er dautt og horfið úr hjarta mínu. Ég óska dauðans, — en, æ, — ég get ekki sagt hvers vegna".

"Þér verðið að gera það, ég vil fá að vita það".

Hún var náföl, augu hennar leiftruðu, þegar hún leit framan í hann.

"Það er af því, að ég get ekki lifað án yðar, — ég get það ekki — og —"

"Allan", sagði blíð og mild rödd á bak við þau, "Clavering hershöfðingja langar að spila vist á móti þér".

Hann gat ekki vel áttað sig á, hvort það gladdi eða hrygði hann, að samtalið tók svo fljótan enda. Eitrið, sem hann drakk úr orðum hertogainnunnar, var svo töfrandi. Það dillaði hégómadýrð hans, að heyra, að þessi kona, sem allir karlmenn dáðust að, skyldi elska hann. Þó fann hann, að það var rangt af honum, að hlusta á hana. Honum létti því, er kona hans kom, og með hinni blíðu rödd sinni feykti töfrunum út í veður og vind.

Að eins eitt augnablik var hann í efa um, hvað gera skyldi. Hertogainnan var alveg mállaus af undrun og reiði. Hann horfði frá einni til annarar.

"Ætlarðu að koma?" sagði Lady Aðalheiður blíðlega. "Hershöfðinginn er ekki ungur lengur, og það er ekki svo hægt að skemta honum, en honum þykir mjög gaman að spila vist. Það er ein af hinum fáu skemtunum hans".

"Caren lávarður er að tala við mig um nokkuð, sem ég vil ekki fresta", sagði nú hertogainnan mjög drembilega.

Lady Aðalheiður leit brosandi til hennar. "Um það getið þið talað hvenær sem er, hertogainna! En vinur okkar er gamall, og hefir stóran rétt til þess, að við skemtum honum sem bezt".

Nú sló hún á réttan streng. Lávarðurinn stóð strax upp, og hneigði sig djúpt fyrir hertogainnunni.

"Ég skal með mestu ánægju tala við yður, hvenær sem þér viljið, en nú verður Lady Aðalheiður að koma , minn stað".

Hann gekk til hershöfðingjans og fór að spila við hann vist.

Hertogainnan sagði ekkert einasta orð. HHún lét sem hún sæi ekki Lady Aðalheiði, þó hún sæti við hlið hennar.

Lady Aðalheiður rauf svo þögnina með því að spyrja hana, hvort henni væri batnaður höfðuðverkurinn.

"Mér hefir aldrei verið neitt ilt", sagði hertogainnan, "meira að segja, ég hefi skemt mér vel. Það er ef til vill ókurteis spurning, sem mig langar til að spyrja yður að, Lady Aðalheiður, en mig langar til að vita, hvers vegna þér hafið alt af vakandi auga á manni yðar".

Lady Aðalheiður leit rólega framan í hana. "Nú skil ég ekki, hvað þér eigið við, hertogainna".

"Nú, ekki það, þá hafið þér ekki mikla skynsemi til að bera. Það yrðu víst ekki margir, sem tækju þessum njósnum eins rólega og Caren lávarður".

"Ég skil ekkert af þessu", sagði Aðalheiður rólega. "Clavering hershöfðingi óskaði eftir að spila vist á móti Allan, og bara lét hann vita það".

"Þér getið verið nógu slungnar, Lady Aðalheiður, en tíminn mun leiða margt í ljós, sem nú er hulið. En nú vil ég bjóða yður góða nótt, því ég er þreytt og sifjuð. Og svo gekk hertogainnan burtu.

## L. KAPÍTULI.

Hálfum tíma seinna gekk hertogainnan fram og aftur um gólfið í hinu skrautlega herbergi sínu. Hún líktist fremur norn en fallegri konu. Hún réði sér ekki fyrir heift.

"Þetta er alveg óþolandi", sagði hún. "Mér ríður á, að koma áformum mínum fram. Hvernig þorir þessi kona, að reyna að koma í veg fyrir þau? Hún skal líða fyrir það. Fyrir þann sigur, sem hún vann í kveld, skal hún úthella blóðugum tárum. Hún elskar hann, — það er ég viss um. En ég skal taka hann frá henni. Ég hafði rétt unnið sigur, þegar hún kom í spilið, en hún skal líða eins miklar kvalir fyrir það, eins og ég nú verð að líða".

Hún hugsaði sér að bíða svo sem einn eða tvo daga. Svo ætlaði hún að hefna sín. Þó að þær hefðu lengi strítt hvor á móti annari, þá höfðu þær þó alt af verið kurteisar hvor við aðra. Hún hló ógeðslega.

"Hann átti hana af því honum var þröngvað til þess, en hann elskar hana ekki. Næst þegar ég tala við hana, skal ég segja henni þetta. Mig hefði hann elskað".

Því lengur, sem leið á tímann, þess harðari varð baráttan milli þessara tveggja kvenna. Lady Aðalheiður vakti og bað. Hún var mjög kvíðandi fyrir því, að manni hennar yrði rænt frá henni, og að afleiðingin af því yrði æfinleg eyðilegging fyrir hann. Annað slagið vonaði hún þó, að hans innri og betri maður myndi sigrast á þeirri freistingu, sem lögð var fyrir hann.

Hún bað guð heitt og hjartanlega fyrir honum, og fyrir sjálfri sér. Hún elskaði hann þúsund sinnum heitara en sitt eigið líf. En hún hafði ekki annað en ást sína og bænir til að skilja hann frá þeirri hættu, sem hann var staddur í.

Hertogainnan hafði leitast við að fá tækifæri til að ná tali af honum, en nú voru þrír dagar liðnir af þessum tíu, og enn hafði henni ekki tekist að ná tali af honum. Henni lá við örvinglan. Það voru nýkomnir nýir gestir til Brooklands, og lávarðurinn hafði engan tíma til neins stefnumóts, en það va[illegible] það sem hún þráði svo mjög. Hun gat talað [illegible] hann svo aðrir heyrðu og sungið fyrir hann, en [illegible] gat aldrei verið ein með honum. Hann sýndi [illegible] alla tilhlýðilega kurteisi, en varð að öðru leyt[illegible] að sinna gestum sínum.

Lady Aðalheiði leið mjög illa. Hertoginn var að vísu ekki mjög ókurteis við hana, en hv[illegible]r sem hún sá sér það fært, særði hún eftir því sem henni var unt tilfinningar Aðalheiðar. Lady Aðalheiður bar það með þolinmæði, en henni fell það mjög illa. Hún var miklu fölari en hún átti að sér. Nú brosti hún aldrei, og augun litu dauflega út. Hún gerði alt sem hún gat til að halda sér uppréttri í þessari voða baráttu, en hún varð samt æ magrari og magrari, og smáhrukkur komu hver eftir aðra á enni hennar og kringum munnvikin.

Lady Caren tók eftir því og fell það mjög illa. Lávarður Caren tók ekkert eftir því, en Clavering hershöfðingi sá það samt.

Einu sinni kom hann óvörum að Aðalheiði í bókaherberginu. Allir gestirnir höfðu ekið burtu, og hún hélt, að hershöfðinginn hefði farið líka. Þennan sama morgun höfðu kraftar hennar svikið hana. Hún fann, að hún gat ekki látið sem ekkert gengi að sér. Hún varð að fá tíma til að gráta út sorg sína

í einrúmi. Hertogainnan hafði haldið orð sín, og fengið hana til að líða. Við morgunverðarborðið hafði hún setið nálægt Aðalheiði, og var að segja sessunaut sínum sögur um þau hjónabönd, sem hefðu orðið til vegna samninga erfðaskrár eða vegna peninga, og svo lagði hún út af því. Hvert orð var Aðalheiði ætlað að heyra, enda gerði hún það, og hvert orð var sem hnífstunga í hennar göfuga hjarta og dreif blóðið fram í kinnar hennar. En hún reyndi að láta sem hún heyrði það ekki. Hún talaði við og við til hertogainnunnar, bauð henni hitt og annað sem var á borðinu, en alt var móttekið með kulda. Hertogainnan sá, að orð sín höfðu áhrif á Aðalheiði, og eftir því, sem hún fölnaði meir, því sárbeittari varð hún í orðum sínum. En svo gat Aðalheiður ekki til lengdar þolað þetta. Hún stóð rólega upp og gekk út úr salnum.

Hertogainnan talaði um að ríða eitthvað út með lávarðinum. Á þann hátt áleit hún, að hún fengi það bezta tækifæri til að tala við hann. En kafteinn Randolph, sem sá hvernig öllu leið, beið þangað til allir höfðu komið sér saman um, hvað skyldi verða saman. Þá kvaðst hann heldur vilja fara ríðandi en keyrandi. Aðalheiður blessaði hann í hjarta sínu fyrir það, en hertogainnan hataði hann Nú þurfti hún ekki að búast við, að ná tali af lávarðinum þann daginn, og svo voru þá einir sex dagar eftir.

Aðalheiður kvaðst ekki hafa tíma til að fara. Hún fann, að henni veitti ekki af, að hvíla sig litinn tíma. Hún hélt, að allir gestirnir hefðu farið, og gekk því inn í bókaherbergið, og gaf þar tilfinningum sínum lausan taum.

At í einu fór hún að hugsa um, að hún hefði ekki breytt hyggilega. Hún skildi til fulls ráðbrugg

hertogainnunnar, og sá, að hún ætlaði að koma á-setningi sínum fram á næstu sex dögum.

"Ég verð að vera þolinmóð", hugsaði hún með sér, "að eins sex daga, svo er alt gott. Ég verð að gera alt, sem ég get til þess að frelsa hann, og ég verð að hafa vakandi auga með þeim án þess að sýna nokkra ókurteisi. Guð gefi mér styrk, því ég hefi sannarlega við mikið að stríða! "

Hún sá nú eftir, að hafa staðið upp frá borðinu. "Ég hefði átt að gæta mín betur, og heyra svo út með þeim. En hún særði mig svo hræðilega".

Þegar hún hugsaði til hinna hörðu og bitru orða setti að henni ákafan grát. Hún byrgði andlitið í höndum sér, og grét, eins og hertogainnan hafði spáð, blóðugum tárum. Þá var það, að dyrnar opnuðust og Clavering hershöfðingi gekk inn. Hún leit forviða upp, og hann sá, að hún hafði grátið.

"Ég hélt, að þér hefðuð farið með hinu fólkinu, hershöfðingi", stamaði hún út úr sér. En hann gekk til hennar mjög alvörugefinn.

"Svo þér hélduð það, og þess vegna urðuð þér heima. Mér þykir vænt um, að það hittist svo á, að ég skyldi einnig verða heima, Aðalheiður. Ég álít mig sem bezta vin yðar og tilsjónarmann. Og þó þér álítið það ókurteisi af mér, þá vil ég þó fá að vita, hvers vegna þér eruð að gráta. Ég vil ekki heyra neinar afsakanir né undanbrögð, heldur hreinan sannleikann. Ef þér ekki segið mér það, þá skal ég sjálfur komast að því".

Hann settist við hlið hennar. Hún sá, að honum var full alvara með, að komast eftir, hvað að henni gengi, og hún vissi ekki, hverju svara skyldi.

Arnbjörg B. Olson

## V. KAPÍTULI.

"Mig langar ekkert til, að blanda mér inn í málefni á milli hjóna, Aðalheiður. Mér finst, að þau eigi að hafa sín eigin málefni út af fyrir sig, og engir aðrir eigi að skifta sér af því. En þér verðið að hugsa út í, hve nákomið band er á milli okkar, og að ég þess vegna hefi rétt til að skifta mér af yður. Þegar faðir yðar lá banaleguna, bað hann mig fyrir yður, og ég lofaði honum því, að ég skyldi ávalt reynast yður sem faðir. Það hefi ég gert eftir því sem ég gat. Þó ég væri í annari heimsálfu, misti ég aldrei sjónar á yður, ég hélt ávalt nákvæmum spurnum fyrir yður. Ekki eitt einasta augnablik hefi ég gleymt yður. Í bardögum, sem ég hefi verið í, á hinum löngu og erfiðu vökunóttum, hvar sem ég hefi verið, hefir hið fagra elskulega barn, sem faðir þess trúði mér fyrir, verið í huga mér".

Hún laut niður og kysti innilega hönd hans.

"Þér hafið verið mér mjög góður", sagði hún með tárvot augu, "og ekki er ég vanþakklát".

"Okkar á milli er um ekkert þakklæti að ræða. Ég á ekki konu og ekkert barn, þér eruð það eina, sem ég á og mér er ant um í heiminum. Hér er því um að ræða traust og tiltrú, en ekki þakklæti. Aðalheiður, þér verðið að bera traust til mín. Þér megið til að segja mér, hvers vegna þér eruð hér ein ar og grátandi, svo óhamingjusamar. Þér verðið að segja mér, hvaða skuggi hvílir yfir þessu heimili".

Hún leit óttaslegin framan í hann. "Hvaða

skuggi", tók hún upp eftir honum. "Hvað meinið þér?"

"Ég meina, að það hvílir yfir Brooklands dimm-ur skuggi. Það getur vel verið, að þér getið hulið hann fyrir annara augum, en þér getið ekki hulið hann fyrir mér. Haldið þér, að ég sé blindur. Æ, barn! Ég er orðinn of gamall og hefi séð svo margt í heiminum til þess að vita ekki, hvernig hamingjusöm heimili eiga að vera. Ég sé vel, hvernig yðar heimili er. Þér sitjið hér alein og grátandi. — Þó ég sé gamall og grár, þá veit ég, að þegar kona grætur á maður hennar að vera til staðar, til þess að þurka í burtu tárin. Þegar konan á við eitthvað að stríða, á hann að hugga hana og hughreysta. Hvað er varið í hjónabandið, ef hjörtun eru ekki sameinuð í trú og ást. En hvernig á ég að geta ímyndað mér, að það eigi sér stað hér, fyrst ég finn yður hér grátandi, á meðan maðurinn yðar skemtir sér við hlið annarar konu?"

"Hann veit ekkert um þetta", sagði Aðalheiður. "Hann hefir ekki hugmynd um, að ég var að gráta".

"Það er einmitt það", sagði hershöfðinginn fljótlega. "Þér segið mér áhyggjur yðar, ég sé sorg yðar, en eiginmaður yðar veit ekkert um það. Er það rétt, Aðalheiður? Mundi það vera svo, ef hjónaband ykkar væri eins og það ætti að vera?

Hún vissi ekki hverju svara skyldi.

Hershöfðinginn var mjög reiður á svip. "Ef eg vissi, að Caren hefði átt yður vegna eigna yðar, skyldi ég aldrei fyrirgefa honum það".

"Hann gerði það ekki", mælti hún afgerandi. "Þér megið trúa mér, þegar ég segi yður, að hann hugsaði ekki um neina peninga".

"Þér voruð þó það sem heimurinn kallar gott gjaforð", sagði hershöfðinginn.

Hún eldroðnaði, og hann leit beint í augu hennar.

"Hugsaði hann ekkert um það?. Viðurkendi hann aldrei, að þér væruð ríkar?"

"Ég hefi aldrei heyrt hann nefna það, og ég ímynda mér, að hann hafi aldrei hugsað neitt um það".

"Því hefir annars verið haldið vel leyndu, Aðalheiður, — ég hefi aldrei heyrt neinn tala um þetta".

"Það var alveg óþarfi, að tala nokkuð um það, — öll leyndarmál eru bezt geymd innan ættarinnar".

Hún greip um hönd hans og leit biðjandi framan í hann: "Hershöfðingi, lofið mér einu. Við höfum haldið sögu ættarinnar leyndri, aldrei talað neitt um hana. Lofið mér því, að gera það sama: aldrei nefna þetta við nokkurn mann".

"Ég skal gjarnan lofa því, ef þér segið mér ástæðuna fyrir, hversvegna þér viljið halda því leyndu".

"Lávarður Caren vildi aldrei láta tala um það, og Lady Caren fellur mjög illa að heyra það nefnt".

"En maðurinn yðar?" spurði hershöfðinginn hvatlega.

"Ég vil ekki, að það sé nefnt á nafn við hann. Þér getið skilið, að fáar konur myndu vilja tala um það".

"Ég skil vel, hve göfuglyndar þér eruð, og ég vil láta að vilja yðar. Engum manni fellur vel, að standa í skuld við konu sína. Þér megið reiða yður á, að ég skal ekki særa sómatilfinningu hans".

"Ég er yður þakklátari fyrir þetta en alt annað, sem þér hafið fyrir mig gert, hershöfðingi".

"Þér skuluð þó ekki láta yður detta í hug, að öll þessi sniðugu undanbrögð hafi komið mér til að gleyma því, sem ég vil fá að vita. Takið nú eftir: — Ég finn yður fljótandi í tárum, þér munduð ekki

gráta, ef þér hefðuð enga sorg að bera. Þér segið, að maður yðar viti ekkert um þetta, en ég segi, að hann ætti að vita um það. Og ef það er eitthvað, sem þér getið ekki sagt honum, þá segið mér það".

"Það væri ekki réttlátt", sagði hún, "það sem ég ekki get sagt honum, ætti ég ekki að segja yður".

"Þér neitið þó ekki að svara spurningu, sem bezti vinur yðar spyr yður að: Elskið þér manninn yðar?"

Aldrei gleymdi hann augnaráði hennar, þegar hún leit í augu hans, og greip um leið um hendur hans.

"Elska ég mína eigin sál, — elska ég líf mitt? Ég elska hann svo heitt, að ég vildi láta lífið með glöðu geði til þess honum gæti liðið vel".

"Nú hafið þér sagt mér sannleikann, en segið mér nú: Elskar Allan lávarður yður?"

Varir hennar skulfu. Hún fölnaði og roðnaði á víxl. Hún stóðst ekki augnaráð hans, en varð að líta til jarðar. Hún hefði viljað gefa mikið til, að geta sagt, að hann elskaði sig, en það gat hún ekki. Henni datt í hug myndin, sem hún hafði fundið, af henni, sem hann hafði elskað, og tapað 14. júní. Nei, hún þorði ekki að segja, að hann elskaði hana. Hún reyndi að brosa og sagði svo:

"Nú spyrjið þér um leyndarmál Allans, en ef þér viljið fá þetta að vita, verðið þér að spyrja hann sjálfan að því".

"Ég hefi fengið fullnægjandi svar, — ég sé nú, hvernig í öllu liggur. Þér elskið mann yðar, en hann elskar yður ekki".

"Þetta er ekki allskostar rétt", mælti hún fljótlega. En hann tók fram í fyrir henni.

"Ég skil þetta alt saman, Aðalheiður mín. Guð hjálpi yður. Guð hjálpi hverri konu, sem ekki á ást manns síns. Ég kenni í brjósti um yður, og skal ekki fyrst það hryggir yður, tala oftar um, að mað-

ur yðar hafi átt yður peninganna vegna. Ég skil það, það er það sem Frakkar kalla "hagnaðar hjónaband".

"Hann er mjög vingjarnlegur og góður við mig", sagði hún.

"Ég skil það, barn. Segið ekki eitt orð meira. Þér hafið fulla orsök til að gráta. Hver er þessi dökkhærða kona, sem hann er alt af með?"

"Þér meinið víst hertogainnuna af Ormont?"

"Hver var hún, hefði ég átt að segja. Þekti maðurinn yðar hana áður en hann giftist?"

"Já", sagði hún, en hún tók mjög nærri sér að segja það.

"Ég skil. Segið mér nú, Aðalheiður, því ég var bezti vinur föður yðar og er einlægur vinur yðar :— Þykir honum ennþá vænt um hana. Ég meina ekkert ilt með þessu, en eru þessi tár henni að kenna?"

Spurningin kom henni svo á óvart, að það liðu nokkrar mínútur fyr en hún vissi, hverju svara skyldi. Svo lagði hún hönd sína á handlegg hans.

"Bezti vinur minn", sagði hún, "far ekki svo héðan, að þér hafið ranga hugmynd um mann minn. Ég hefi yfir engu að kvarta honum viðvíkjandi, Hann er bæði göfugur og góður maður. Ég elska hann, og ég get ekki hugsað til, að þér hugsið nokkuð ilt um hann. Hann er góður við mig, og þó hann ekki elski mig nú, mun honum með tímanum lærast það, og þá elskar hann mig miklu heitara en ég hann. Lofið mér að ráða, og reynið ekki til, að breyta hér. Sérhvert ónotayrði í hans garð, sker mig í hjartað".

Hún laut niður og kysti hið gamla alvörugefna andlit hans. Hershöfðinginn hafði alt af verið svo góður við hana.

"Gerið nú bæn mína", sagði hún. "Við viljum

hvort öðru vel. Trúið mér, það bezta, sem þér getið gert, er að lofa öllu hér að hafa sinn vana framgang. Guð sér um, að alt gangi vel".

"Ég skal aldrei hryggja yður, aldrei framar tala um þetta, fyrst yður fellur það illa. En ég skal komast fyrir þetta leiðindamál, Aðalheiður. Við gamla fólkið lesum betur í hjörtu þess yngra, en þið hugsið, og ég sé vel hjartasorg yðar".

Í því hún gekk út úr herberginu, brosti hún til hans innilega hrærð yfir velvilja og umhyggju hans henni til handa. En hann endurtók með sjálfum sér — "Ég skal komast fyrir þetta leyndarmál. Ég skal komast að, hvort hún grætur vegna þessarar fögru hertogainnu, og ég skal finna út, hvers vegna lávarðurinn átti hana, fyrst hann elskaði hana ekki".

---

## LI. KAPÍTULI.

Aðalheiður beið nú komu manns síns og gesta sinna. Hún var mæta vel búin, og engan vott þess, að hún hefði grátið, var hægt að sjá á andliti hennar. Henni leið miklu betur eftir samtal sitt við hershöfðingjann. Það hafði styrkt hana enn betur í að reyna af öllum mætti að frelsa mann sinn frá þinni voðalegu synd, sem hann var freistaður til að drýgja.

Sex daga ennþá fulla af ótta og hrygð. Sex daga, sem hún varð að vaka yfir hverri hreyfingu manns síns og þessarar fögru, vondu konu. Að vísu bar hún fullkomið traust til hans, er hann hafði þó einu sinni elskað þessa konu. Hún var frábær-

lega fögur, og hún gerði alt sem hún gat til þess að lokka hann í snöruna.

Margar konur myndu í sporum Aðalheiðar hafa brúkað brögð á móti brögðum, og ólíkindalæti. En það var laust við, að hún gerði það. Hún bað til guðs um að halda hendi sinni yfir manni sínum, — kenna honum að elska sig, af því hún var konan hans og elskaði hann svo heitt. Hún hugsaði sér, að breyta eins skynsamlega eins og hún gæti, og vera þolinmóð. — Sex dagar! Æ, hvað þeir yrðu langir og leiðinlegir fyrir hana!' Hún varð að gæta manns síns frá morgni til kvelds, án þess þó að hann eða aðrir veittu því eftirtekt.

Lady Aðalheiður hugsaði um þetta fram og aftur, þangað til henni fanst alt dansa fyrir augum sér. Hún gekk nú að glugganum og horfði lengi á blómin úti fyrir. Einn rósaleggur bar þar af öðrum. Hún hafði fengið hann að gjöf frá Lady Die. Sex rósir voru útsprungnar, og sex dagar voru það, er gera mundu út um framtíð hennar. Hún ásetti sér, að taka eina rós á hverjum degi, og bera hana inn í herbergi sín. Hvernig mundi henni líða, þegar þær væru allar tíndar af leggnum?. Hún mundi þá vera annaðhvort hin hamingjusamasta eða órvæntingarfylsta kona undir sólunni.

Hún sleit nú eina rós af, og bar hana inn í herbergi sitt og lét hana þar í vatn. Svo fór hún niður aftur til að bíða komu gestanna. Nú heyrði hún vagnskrölt, og sú fyrsta, sem hún kom auga á, var hertogainnan. Hefði hún séð, að hún var með glöðu bragði, hefði hún óttast, að maður hennar væri í hættu staddur. En það var öðru nær. Hertogaínnan var auðsjáanlega í vondu skapi og leit þreytulega út. Lávarðurinn var aftur á móti glaður og rólegur. Aðalheiði létti við, að virða þau fyrir sér. Hún gekk til hertogainnunnar, því hún

ætlaði sér, að hafa öllu fremur gætur á henni heldur en manni sínum. Enginn gat heldur tekið til þess, þó hún gæfi sig mest að henni, sem hinum göfugasta af gestum sínum.

Hún spurði hertogainnuna um, hvernig ferðin hefði gengið, en hertogainnan svaraði henni kuldalega.

"Þér eruð víst þreyttar", sagði Lady Aðalheiður, "það hefir líka verið svo heitt í dag".

"Ég hefi ekki fundið það, ég hefi nóga krafta til þess að vera úti í sólskini, án þess að þreytast".

"Þá eruð þér öfundsverðar, því það er góð eign að eiga góða krafta", sagði Lady Aðalheiður.

"Sumt er þó eigulegra", sagði hertogainnan háðslega. En Aðalheiður lét sem hún heyrði það ekki, en var jafn vingjarnleg og áður.

"Þykir yður skemtilegt, að koma á hestbak? Viljið þér það heldur en keyra?"

"Já, ef ég hefi skemtilegan fylgdarmann. Tíminn og hjónabandið breytir mönnum. Áður fyr áleit ég Caren lávarð þann skemtilegasta meðreiðarmann, sem hægt var að kjósa sér".

"Er hann það ekki ennþá?"

"Stundum. Ég held annars, að sveitalífið hafi alt annað en góð áhrif á fólk, annaðhvort stendur maður við í stað, eða fer aftur á bak. Það gerir mikið til, hvort maður hefir skemtilegan samferðamann eða ekki. En mér finst svo langt frá, að Caren lávarður sé það nú".

"Leiðist yður hann þá? Mér fellur illa, að geta ekki verið á sömu skoðun og þér, ég hefi þá skoðun, að fáir séu eins skemtilegir og hann".

"Mér finst alt leiðinlegt", sagði hertogainnan hrokalega. "En ég er bæði forviða og glöð yfir, að yður skuli þykja lávarðurinn skemtilegur fylgdarmaður".

Af þessu samtali áleit Aðalheiður, að maður hennar hefði ekki veitt hertogainnunni mikið athygli á leiðinni.

Arnljotur B. Olsen

## LII. KAPÍTULI.

Næsta dag hélt Aðalheiður hinu sama vakandi auga með manni sínum. Hún sá, að hertogainnan hafði nú fastlega ásett sér að ná tali af honum, en hún gerði alt, sem hún gat, til þess að koma í veg fyrir það. Hún leitaði ekki hjálpar hjá kaftein Randolph, því hún vildi ekki, að nokkur blettur félli á mann sinn. En hún vissi, að hvenær, sem hún bæði hann að hjálpa sér, myndi hann af fúsum vilja gera það.

Henni sárleiddist. En enginn veitti því neina eftirtekt. Hún hélt, að kafteinn Randolph vissi eins mikið í þessu eins og hertogainnan sjálf, en hann gat ekkert gert, en tók nákvæmlega eftir öllu, sem fram fór, reiðubúinn til að hjálpa Lady Aðalheiði, ef hún þyrfti með. Nú var hún búin að slita upp aðra rós til, og sú fyrsta var orðin visnuð.

"Bara að þær væru allar visnaðar og Allan frelsaður. Hvað ég skyldi vera guði þakklát fyrir það!" hugsaði Aðalheiður.

Nú voru fimm dagar eftir. Hún hugsaði um, hvernig eyða skyldi þessum degi án allrar hættu. Hún vissi, að lávarðurinn gerði alt sem hann gat, til að skemta Clavering hershöfðingja. Hún talaði því um það við Capt. Randolph, að nokkrir af karlmönnunum skyldu aka þann dag til St. Bedar klausturs. En þangað var alllangt að keyra fyrir

kvenfólkið. Hún áleit mann sinn úr hættu þennan dag, ef þessu yrði framgengt.

Kafteinninn skildi stsax, hvers vegna Lady Aðalheiður talaði um þetta, og tók því vel. Og áður en búið var að borða morgunverðinn, hafði hann sagt hershöfðingjanum frá þessu klaustri, og fullvissað hann um, að honum mundi þykja gaman að ferðast þangað.

Hershöfðinginn tók vel í það, og sagði, að sig langaði mig til að sjá þennan stað.

Kafteinninn fór þá strax til lávarðarins og sagði honum, að hershöfðingjann langaði mjög til að keyra til St. Bedar klaustursins. Lávarðurinn varð glaður við, að geta skemt honum á þennan hátt.

Þegar hertogainnan heyrði talað um þetta ferðalag, vildi hún strax fara með, en Lady Aðalheiður svaraði: "Við vildum allar mega fara með karlmönnunum, en vegurinn er of langur fyrir kvenfólk. Ef þér endilega viljið sjá klaustrið, þá verðum við að hvíla okkur allan seinni partinn í Caterham, sem er næsta þorp við klaustrið."

Hertoginn kom nú og blandaði sér strax inn í samtalið. Honum var ávalt mjög ant um heilsu konu sinnar. "Þetta verður ekki í seinasta sinni, sem við dveljum á Brooklands, Nita".

Og hann bætti við: "Við skulum vona, að næst þegar við komum hér, að við höfum ástæður til að sjá St. Bedar. Þú átt langa og erfiða ferð fyrir höndum og verður að vera óþreytt undir hana".

Hún svaraði einhverju brosandi, en í hjarta sínu hataði hún Lady Aðalheiði og mann sinn fyrir þessi orð.

"Hefir allur heimurinn svarið sig á móti mér?" hugsaði hún. "Ég skal sjá hann og tala við hann, þó allir reyni að hindra það. Og hvað ferð minni til Skotlands viðvíkur, þá þarf ég ekki mikið að búa

mig undir hana. Minn kæri hertogi, ef þú nokkurntíma ferð þangað, þá verður þú að fara án mín".

Hún varð næstum frávita af reiði og harmi, er hún sá karlmennina fara af stað. Lávarðurinn gekk til hennar að kveðja hana, og hún brosti hið blíðasta framan í hann. Honum sýndist hann sjá tár í augum hennar.

"Góða ferð", sagði hún. "Ég vona, að þið skemtið ykkur vel. Ó, Allan, tíminn hefir vængi. Bráðum kemur sá dagur, er ég sé yður ekki lengur. Það er ekki að undra, þó ég telji hvern daginn, sem líður".

Hann leit hikandi framan í hana. "Hefði ég vitað, að yður þótti verra að ég færi, skyldi ég hafa orðið eftir heima. Það er hægt að ráða bót á því enn, þeir geta farið án mín".

Hún vissi, að það mundi vekja of mikla eftirtekt.

"Nei", sagði hún blíðlega, "ég vil ekki koma í veg fyrir, að þér getið skemt yður. Ég óska af heilum hug, að þér séuð ánægður, en þér megið til að tala við mig í kveld. Þér hafið varla talað orð við mig síðan gestum bættist við".

"Ég skal flýta mér heim", sagði hann.

Lady Aðalheiður gekk framhjá í þessu og heyrði hvað hann sagði. Hún hafði nú ekkert að starfa þennan dag, en það kom ekki að miklum notum, að hertogainnan fengi um kveldið tækifæri til að tala við lávarðinn. Það þurfti ekki annað, en að líta á hertogainnuna, þegar karlmennirnir voru farnir, til þess að sjá, í hve vondu skapi hún var, og að stormur var í nánd.

Lady Aðalheiður settist hjá stórum glugga, og fór að sauma fallegan útsaum. Hertogainnan gekk til hennar. "En hvað þér eruð öfundsverðar, að geta skemt yður við annað eins verk og þetta", sagði hún.

"Þetta er mjög skemtileg vinna", sagði Lady Aðalheiður rólega.

"Ég get öfundað þessar ensku konur af hve hægt þær eiga með að skemta sér. Við spænsku konurnar þurfum meira til þess, að við skemtum okkur vel".

"Ánægja og nægjusemi eru fagrar dygðir, hvort heldur þær eru hjá enskum eða spænskum konum", sagði Lady Aðalheiður. "Því hamingjusamari, sem manneskjan er, þess hægra er fyrir hana að skemta sér. Þetta er nú mín skoðun".

Hertogainnan brosti háðslega.

"Eftir því má ég þá vona, að ég geti einhverntíma glaðst af fallegri blúndu, eins og þér getið. Nú sem stendur þarf ég nokkuð meira til að geta glaðst og verið ánægð".

Lady Aðalheiður gætti sín vel, að reiðast ekki. Hún tók háði og dónaskap hertogainnunnar með mestu þolinmæði. Þær litu hvorar á aðra. Þær vissu svo vel, að næstu dagar mundu gera út um framtíð þeirra, — önnur hvor mundi ganga af hólminum sigri hrósandi, en það var spursmálið, hvor þeirra það mundi verða.

Þó töluðu þær saman eins og ekkert væri.

"Hvað segið þér um, að við getum gátur í kveld, eða eigum við að hugsa fyrir dansi?" sagði Lady Aðalheiður.

"Ég vil hvorugt, hreint út sagt. Engin kveldskemtun er leiðinlegri en sú, sem er hugsuð fyrirfram".

"Þó finst mér, að öll kveldin hér hafi verið fremur skemtileg".

"Mér þykir mest skemtun í, að vera frjáls. Ef ég héldi, að fólk stæði í þeirri meiningu, að ég ætlaði að dansa í kveld, vildi ég alls ekki dansa. Eigi

maður að skemta sér vel hér úti á landinu, þá verður maður að vera fullkomlega frjáls".

"Ég er alveg á yðar máli, enda ræður sérhver því sjálfur, hvort hann tekur þátt í skemtuninni eða ekki".

"Ég get ekki hugsað mér betri skemtun, en það, að ganga að kveldinu til og frá um blómgarðana. Ég hefi hvergi séð eins fögur blóm og hér".

"Því trúi ég vel", hugsaði Lady Aðalheiður með sér, "en þér skuluð ekki ganga þar ein með manni mínum, ef ég má ráða".

Hertogainnan vissi, að ef dansað yrði um kveldið þá fengi hún ekkert tækifæri til að tala við lávarðinn. Hún næstum skalf af heipt, er hún hugsaði til, hve fljótt tíminn leið. Þegar þessi dagur var liðinn voru einir fjórir eftir!! Svo varð hún gagntekin af hræðslu. Ef hún hefði nú tekið feil, — ef lávarðurinn kærði sig ekkert um hana, sem hún hafði þó alt af vonað! Ef hann hefði viljað tala við hana, gat hann oft fundið tækifæri til þess. Ef hann vildi biðja hana, að yfirgefa alt hans vegna, þá var hún margoft búin að gefa í skyn, að óhætt væri að nefna það. Hræðsla og ótti hertóku nú hjarta hennar. Hafði hún rangt fyrir sér? Og ef svo var, hvernig gat hún þá lifað öllu lengur?"

"Ég vildi heldur drepa mig, en að fara frá Brooklands eins og ég kom þangað", sagði hún við sjálfa sig.

Hún hvorki skammaðist sín fyrir eða hræddist áform sín. Hún var bæði blind og dauð fyrir röddu samvizkunnar. Af ásettu ráði gekk hún í móti eyðileggingu sinni og æfilangri skömm.

---

## LIII. KAPÍTULI.

Það var búið að borða. Menn höfðu yfir borðum talað um ferðina til St. Bedar. Kafteinn Randolph og lávarðurinn höfðu sagt frá öllu, er fyrir þá bar á leiðinni, og lávarðurinn lýst eins vel og hann gat öllu, er þeir höfðu skoðað.

Hershöfðinginn hafði mjög mikla skemtun af ferðinni. Hann unni mjög fornu sögum, og St. Bedar klaustur var frægt fyrir, hve lengi það stóð uppi fyrir ofsóknum óvinanna, og mennirnir, sem vörðu hliðin og múrana, gáfust ekki upp, þótt þeir stæðu augliti til auglitis við dauðann. Samtalið hafði verið fjörugt og skemtilegt, en hertogainnan tók engan þátt í því. Hún bjóst við, að um kveldið myndi eitthvað sögulegt koma fyrir, og hún bjó sig undir stríð.

Lady Aðalheiður var með fegursta móti, og mjög skrautlega klædd. Hún var samt hálfkvíðandi, og úr hinum fögru, bláu augum hennar skein angurblíða.

Hertogainnan hafði klætt sig í alt það skart, er hún gat utan á sig látið, en eins og áður er sagt, sagði hún ekki eitt einasta orð.

Þegar búið var að borða, gengu konurnar yfir í annað herbergi og tóku tal með sér. Hertogainnan tók engan þátt í samtalinu. Hún gekk órólega fram og aftur um herbergið. Hún leit við og við í bók, en fleygði henni svo frá sér aftur. Stundum leit hún á fallegar myndir, sem voru þar. Hún tók blóm, en reif þau jafnharðan í sundur, og hún var í svo mikilli geðshræringu, að hún tæpast vissi, hvað

hún gerði. En svo kom henni til hugar, að hinu kvenfólkinu myndi þykja undarlegt framferði hennar, svo hún settist niður og reyndi að sýnast rólegri, en hún gætti nákvæmlega að, hvenær karlmennirnir kæmu út úr borðsalnum.

Það voru samt fleiri en hún sem gættu að því. Lady Aðalheiður sá, hve óróleg hún var, og var búin að hugsa sér, hvað gera skyldi. Loksins opnuðust dyrnar, og karlmennirnir komu inn. Lady Aðalheiður fölnaði, og skuggi sveif yfir andlit hennar. Hertogainnan roðnaði og brosti ánægjulega. Caren lávarður leit í kring um sig. Hann mundi eftir, að hertogainnan hafði verið svo niðurdregin um morguninn. Hann gekk til hennar, hún dró brosandi kjól sinn að sér, svo hann gæti sest hjá henni.

Nú var sú stund upprunnin, sem hún svo lengi hafði óskað eftir. Hann sat við hlið hennar og horfði hlýlega til hennar, reiðubúinn til að tala eða hlusta eftir því, sem hún segði. Hvað átti hún nú að segja? Hún var í vandræðum með, hvernig hún ætti að byrja. Hún gat ekki í annara viðurvist gripið hönd hans og sagt honum hve heitt hún elskaði hann. Hún gat enga bendingu gefið honum um óskir sínar og ástríður. Hún gat ekki sagt honum þarna hin glæpafullu áform sín, — að hún vildi draga á tálar göfugan og góðan eiginmann. Hún gat ekki útausið fyrir honum hinu elskufulla hjarta sínu. Hún gat að eins talað um vanaleg málefni, — en með nógu mikilli ilsku og kænsku má gera hið einfaldasta tal hættulegt.

"Mér þykir mjög vænt um, að þér hafið skemt yður vel í dag", sagði hún, "skemtilegir dagar koma svo sjaldan fyrir".

"Já, ég skemti mér mjög vel. En ég held, að fullkomna ánægju finni maður aldrei, eins og þér

komist að orði. Fullkomna hamingju álít ég vera skugga, sem menn sækjast eftir, en aldrei geta náð".

"Mér þykir leiðinlegt, að yður skuli finnast svo".

Hann roðnaði. "Ég tala ekki beinlínis um sjálfan mig, heldur um fólk yfirleitt, — ég er eins hamingjusamur og flestir aðrir".

Hún stundi við. Brjóst hennar gekk upp og niður, og augu hennar urðu blíð og viðkvæmnisleg.

"Þér ættuð skilið, að vera miklu ánægðari en þér eruð", sagði hún.

"Hvers vegna?" spurði hann hlæjandi.

"Þér spyrjið mig hvers vegna, Allan. Af því þér eruð betri maður en — menn vanalega eru, —— af því þér eruð göfugri, tryggari og prúðari en aðrir. — Það er nóg af karlmönnum til í heiminum, en enginn er líkur yður. —— Af því ég hugsa svo mikið um yður, Allan, og mig langar svo mikið til að sjá yður ánægðan, — ánægðari en alla aðra menn í heiminum. Ég vildi, að ég gæti útvegað yður hamingju, — til þess að geta það, vildi ég líða hinar verstu kvalir".

Það var freistandi, að hlusta á þvílík orð frá vörum jafn fallegrar konu. En Caren lávarður var mjög ærukær maður. Hún áleit, að nú væri hún búin að gefa honum gott tækifæri, ef hann vildi eitthvað segja við hana. En hann leit að eins sorglega til hennar, og sagði:

"Þér eruð of góðar við mig, Nita, og berið of mikla umhyggju fyrir mér".

Hún beit sig í vörina af vonzku, og henni var ómögulegt að leyna því. En því erfiðara, sem það reyndist að vinna hann, því ákafara langaði hana til þess. Ef hann hefði verið ákafari í að vinna hana, hefði hún að líkindum ekki verið svona áleitin. En þessi rólega, hlutdrægnislausa vinátta ergði hana hana mjög, og nú við hlið hans sór hún í hjarta

sínu, annaðhvort að vinna hann eða deyja að öðrum kosti.

"Að kæra sig um nokkuð, er einstök heimska", mælti hún. "Sá er bezt farinn, sem að eins hugsar um sjálfan sig".

Á meðan hún mælti þessi orð, varð honum litið til konu sinnar. Hið fagra andlit hennar lýsti sakleysi og trausti, ást og blíðu, og í hjarta sínu fann hann til, hve fölsk orð hertogainnunnar voru.

"Nú get ég ekki verið á sama máli og þér", sagði hann. "Þeir, sem lifa einmana alt sitt líf, lifa einskisverðu, gleðisnauðu lífi. Þeir, sem breiða blessun, ást og hamingju og frið yfir sitt og annara líf, — þeir eru sælir".

Hún varð hrygg við þessi orð.

"Ég meinti þetta heldur ekki, Allan. Ég er svo óánægð og ógæfusöm, að ég veit tæpast, hvað ég segi".

Nú varð stutt þögn.

"Ég vildi óska, að þér gætuð verið ánægðari, Nita", sagði hann.

"Ég hefi aldrei beðið um nema eina gjöf", sagði hún gremjulega, "en mér var neitað um hana. Aldrei óska ég eftir nema þessari einu gjöf, en hana fæ ég ekki".

"Hvað var það, Nita?"

"Ást yðar", mælti hún stuttlega, og snéri sér frá honum um leið.

Hann sat nokkra stund steinþegjandi og sárkendi í brjósti um hana, en samt var hann alveg forviða á, að hún skyldi tala svona. Hann bar hana í huga sínum saman við konu sína, og hann fann vel, hve miklu kvenlegri hin síðarnefnda var.

Alt í einu stóð hertogainnan upp. Það var sem orðin vildu brjótast út af vörum hennar. Hún mátti til að segja það, sem henni lá svo þungt á

hjarta, eða deyja að öðrum kosti. Henni fanst hún verða að segja honum, hve heitt hún elskaði hann, hve óbærilegt lífið væri henni, og að hún vildi yfirgefa alt sitt til þess að geta notið hans.

Hún var náföl og skalf af geðshræringu. Hún kvaldist meira en unt er að lýsa.

"Það er svo heitt hér. Mig langar út til blómanna. Viljið þér koma með mér, Allan?"

Út meðal blómanna! Hún þóttist vita, að hann myndi ekki geta neitað því. Hans innri og betri maður setti sig upp á móti því, en hvernig átti hann að neita henni um þessa litlu bón?

Honum fanst, sem frelsandi engill koma til sín, er Lady Aðalheiður alt í einu stóð hjá þeim og sagði: "Hertogainnan talaði um í morgun, að hana langaði til að skoða blómin í kveld. "Allan, mig langar svo til, að sýna henni blómin mín".

Hann játti því strax. "Það er það bezta, sem við getum gert", sagði hann, "kveldið er svo fagurt og það er svo skemtilegt, að sjá gosbrunnana þeyta vatninu í loft upp í kveldkyrðinni".

En hertogainnan sagði reigingslega: "Mér þykir aldrei gaman að neinu innan um heilan hóp af fólki".

Lady Aðalheiður hló góðlátlega. Caren lávarður og ég, myndum engan hóp, og ég skal ekki biðja fleiri að fylgjast með. Ef yður þykir gaman að blómum, er ég viss um, að yður muni þykja fallegar franskar rósir, sem ég á. Þær eru ljómandi fallegar".

Hertogainnan þorði ekki að hegða sér dónalega í nærveru lávarðarins. En ef hatur gæti drepið, þá hefði Lady Aðalheiður dáið á sömu stundu. Hún var föl og titraði af reiði, en það var ekki hægt fyrir hana, að gera annað en samþykkja þetta.

Hún gekk út með þeim, og þegar mesta reiðin hafði runnið af henni, talaði hún við þau. En alt tal hennar bar vott um hæðni og kulda. Caren lávarður skildi það ekki, og fanst það skemtilegt. En Lady Aðalheiður óskaði í hjarta sínu, að kveldið væri liðið. Hertogainnan leit hirðuleysislega á blómin, hún dáðist ekkert að þeim eða þótti neitt til þeirra koma. Þegar þau höfðu verið úti hér um bil hálfan klukkutíma, sagði hún, að blómin væru alt öðru vísi, en hún hefði búist við, og fór svo til herbergja sinna. Hún hataði nú Lady Aðalheiði meira en nokkru sinni áður, og ásetti sér á ný, að vinna þann mann, sem hún elskaði, hvað svo sem það myndi kosta.



## LIV. KAPÍTULI.

Þrjár rósir hafði Lady Aðalheiður slitið upp og sett í vatn. Sú fyrsta var visnuð, önnur byrjuð að fölna, en sú þriðja stóð í blóma.

Að eins þrjá daga, — og svo var vonandi, að hið föla, þreytulega andlit Aðalheiðar, myndi fá sinn fagra roða aftur. Að eins þrír dagar! Þá yrði allur kvíði og öll sorg horfin. Hún herti sig upp. Hún hugsaði með sjálfri sér, að hræðsla sín væri óþörf, og ekki nærri eins mikil hætta á ferðum eins og hún væri að gera sér í hugarlund.

"Ég elska hann svo heitt", sagði hún við sjálfa sig, "að ég tel hvert augnaráð, sem hann gefur henni og hvert orð, sem hann talar við hana. En það getur skeð, að ég hafi rangt fyrir mér, og að mér með guðs hjálp takist enn þá að vinna hann".

Henni varð gengið inn í búnings herbergi her-

togainnunnar, og henni létti ósegjanlega mikið, er hún sá ferðakistuna standa þar tilbúna fyrir ferðina. Hertogainnan hafði hlegið að þeim og sagt við sjálfa sig, að það mætti gjarnan fylla þær fyrir sér, en aldrei skyldi hún nota þær framar.

Aðalheiður sá, að hertogainnan sótti miklu meira eftir Allan, en hann eftir henni. Hún las í hjarta hertogainnunnar, og skildi til fulls öll áform hennar. Hún sá, að maður hennar var algerlega óvitandi um þetta alt saman. Væri Caren lávarður látinn einráður, mundi hann aldrei gera sig sekan í neinu svo óheiðarlegu, hvað svo mikið, sem hann liði við það. En þegar frábærlega fögur, kæn og ilskufull kona freistaði hans, eftir því sem hún gat, kona, sem hann hafði fyrir ekki löngu síðan elskað, — þá var ómögulegt að segja um, hver endirinn yrði.

Hún var ekki viss um, hvort Allan var reiður við hana eða ekki fyrir framkomu hennar kveldið áður. Hún hafði að vísu ekki komið öðruvísi fram, en gestrisinni húsmóður bar, en hún vissi ekki, hvort hann hafði skilið hina réttu orsök til breytni hennar.

Hann hafði verið mjög þegjandalegur eftir að hertogainnan yfirgaf þau. Hann sökti sér algerlega niður í hugsanir sínar, og oftar en einu sinni varð hún vör við, að hann horfði á hana, eins og hann vildi reyna að geta sér til um hugsanir hennar.

Skyldi hann reiðast henni og tapa þolinmæði sinni, áður en hún hefði lokið ætlunarverki sínu? Mundi hann segja henni, að hún mætti ekki ergja hertogainnuna með nærveru sinni, sem henni augsýnilega væri á móti skapi? Ef hann gerði það, þá var alt tapað, því hún þorði ekki að óhlýðnast honum. Þá var öll viðleitni hennar til að frelsa hann

til einskis. Augu hennar fyltust tárum við þessa hugsun.

"Guð hjálpi mér, því ég á svo erfitt", sagði hún.

Hún reyndi að taka öllu með ró, gekk svo út og reif upp fjórðu rósina, og setti hana hjá hinum, sem fyrir voru.

Þó hertogainnan hefði ekki ráðið sér fyrir reiði kveldið áður, var hún búin að jafna sig næsta dag við morgunverðinn. Hún var vingjarnleg við Lady Aðalheiði, þótt hún sæi, að í henni hafði hún fundið mótstuðumann, er jafnaðist á við hana sjálfa. Henni fanst samt hún geta verið hlýleg og vingjarnleg við hana, því þetta kveld ætlaði hún sér að spila út sínu síðasta háspili, — og vinna. Og ef það hepnaðist henni, vissi hún að hún mundi leiða sorg og smán yfir höfðuð Lady Aðalheiðar, — en það var það, sem hún óskaði svo heitt eftir að geta gert.

Á meðan á máltíðinni stóð, stakk einhver gestanna upp á því, að gestirnir skyldu skemta sér við að skoða gróðrarstíurnar, og allir féllust á það.

"Yður mun þykja gaman að því", sagði kafteinn Randolph við Lady Aðalheiði, "jafnmikið gaman og þér hafið af blómum. Ég trúi varla, að þér hafið séð öll hin fögru blóm, sem finnast þar".

Lady Aðalheiður leit framan í kafteininn og brosti svo raunalega, að hið harðasta hjarta hefði hlotið að kenna í brjósti um hana.

Hvernig gat hún haft ánægju af nokkrum hlut, þegar hún varð alt af að vera á verði, sem henni féll svo frámunalega illa? Skyldi hún nokkurntíma hafa ánægju af nokkru? Ætli hún yrði nokkru sinni hamingjusöm? Myndi hún nokkurntíma losna við sorgir og áhyggjur, og mega baða sig í sólskini og gleði eins og aðrir gerðu?

Kafteinn Randolph stundi þungan. "Ef hún hefði verið konan mín, skyldi ég hafa gert hana á-

nægða og hamingjusama. Caren er bæði blindur og vitlaus".

Lady Aðalheiður hafði óskað eftir, að hann byði Alísu Kan fylgd sína, og Alísa roðnaði af gleði, þegar hann bauð henni það. Kafteininum leizt æ betur og betur á hana, því Lady Aðalheiður hafði opnað augu hans fyrir mannkostum hennar. Það hefði getað farið tvo, ef Aðalheiður — jafnmikla vanrækslu og maður hennar sýndi henni — hefði ekki verið eins saklaus og góð eins og hún var, — þá hefði getað farið svo, að vinfengi þeirra yrði honum til mikillar sorgar. En hann áleit hana fremur engil en konu. Hann bar lotningu fyrir henni, eins og einhverri æðri veru, og tilbað hana. Hann átti ekkert það leyndarmál til í eigu sinni, sem hann trúði henni ekki fyrir.

Hann sá, að hún elskaði mann sinn af öllu hjarta, og hann hefði glaður gefið líf sitt til, að hún næði ást hans, sem hana langaði svo eftir. Hann særði aldrei með einu einasta orði tilfinningar hennar, og hún hafði ávalt mikil og góð áhrif á hann, því hann fór í öllu að vilja hennar. Hún hafði talað um Alísu við hann, og hrósað henni meira nú, en nokkru sinni áður. Honum hafði ávalt litist vel á hana, og þegar Aðalheiður stylkti hann í því efni, þá fór hann að hugsa um að biðja Alísu að verða konu sína, þegar tími væri kominn til þess.

Hún varð svo glöð, þegar hann sagði henni, að í návist hennar yrðu blómin miklu fegri í augum sínum. Lady Aðalheiður sá gleðina skína úr augum Alísu. Hún skildi, hvað það hafði að þýða og hún laut niður og kysti hana.

Vesalings Aðalheiður! Sjálf var hún svo óhamingjusöm og gat ekki gert sér miklar né glæsilegar vonir um hamingjusama framtíð, en hún gladd-

ist af að sjá aðra hamingjusama, og reyndi á allan hátt að stuðla að gleði og hamingju þeirra.

Nú gengu menn út að gróðrarstýjunni. Hertoginn leiddi konu sína. Hann var ekki nærri vel heilbrigður í seinni tíð, hann hafði sofið illa um nóttina og leit ekki hraustlega út.

"Leiddu mig, Nita", sagði hann. "Mér líður ekki nærri vel í dag".

Hún varð að gera það. Hann var maðurinn hennar og hertogi, svo hún gat ekki neitað honum. Hann studdist við handlegg hennar, en hún, sem var svo stolt af kröftum s'num, varð mjög óþolinmóð yfir að þurfa að styðja hann. Á meðan þau gengu meðal blómanna og stönsuðu við og við til að skoða þau, hugsaði hún með sér: "Á ég að eyða æfi minni þannig? Er ég eiginkona, eða að eins hjúkrunarkona hans? Maður getur keypt hertogakórónuna of dýru verði".

Það var sem hertoginn læsi hugsanir hennar. "Þreyti ég þig, Nita?" sagði hann.

"Já, mjög mikið", svaraði hún.

"Þá bið ég þig fyrirgefningar. Ég hefði átt að hugsa um það fyr. En ekkert er mér kærara í heiminum, en að styðja mig við þig, elskaða Nita mín".

Hún brosti kuldalega. "Handleggur minn er því miður ekki af járni ger", sagði hún.

Hertoginn tók sér mjög nærri svar hennar.

"Ég vona, að þú fyrirgefir hugsunarleysi mitt. Aldrei skal ég gleyma því framar".

Hann reiddist mjög hinu kuldalega svari hennar. Hann hafði gefið henni stórjafir, sem sæmdu hverjum konungi sem var, og hann hafði elskað hana heitt og innilega, og áðan, í fyrsta sinni, hafði hann beðið hana um lítinn greiða. Kuldi hennar skar hann í hjartað.

"Á ég að kalla á Divon?" spurði hún.

"Nei, ég þakka. Það var fremur af ánægjunni af, að vera með þér og tala við þig, að ég bað þig um að leiða mig, heldur en ég þyrfti nokkurs stuðnings með".

Hún ansaði ekki. Hann horfði á hið stolta, kuldalega andlit hennar, sem aldrei hafði brosað hlýlega til hans, og hann stundi þungan. Í þessu gekk Lady Aðalheiður fram hjá þeim. Hún hafði ekki fylgst með hinu fólkinu, heldur verið að segja fyrir inni í húsinu. Hún tók strax eftir, hve þreytulegur hertoginn var. Hertogainnan hélt áfram leiðar sinnar, og var nú nærri horfin úr augsýn.

Lady Aðalheiður gekk til hertogans og sagði vingjarnlega: "Þér eruð mjög þreytulegur að sjá. Eruð þér ekki vel friskur? Viljið þér ekki, að ég leiði yður?"

Aldrei gleymdi hún augnaráði hans, er hann leit í augu hennar.

"Þér eruð bæði góð og elskuleg kona, Lady Aðalheiður. Segið mér nú: Getur nokkur manneskja lifað of lengi?"

"Lifað of lengi?" endurtók hún. "Ég get ekki skilið, hvað þér meinið með þessu, herra hertogi".

"Þegar kraftarnir þverra, augun verða döpur og hárið gránar, er þá ekki tími kominn til að deyja?"

"Nei. Ekkert er fegurra eða virðingarverðara, en gamall maður, sem ber hærurnar með sæmd".

"Það geta verið undantekningar. Mér finst — æ, — guð hjálpi mér, hugsunin um það er bitur, — mér finst stundum, að dauði minn vera í nánd".

"Kona hans hefir hrygt hann", hugsaði Lady Aðalheiður með sér. Hún sárkendi í brjósti um þennan gamla mann, sem nú fyrst sá, að kona hans elskaði hann ekki, og að hann aldrei mundi geta

unnið ást hennar. Lady Aðalheiður reyndi alt sem hún gat til að uppörfa hann.

"Þetta er að eins ímyndun yðar. Þér eruð ekki nærri heilbrigður í dag, og lasleiki hefir ávalt þunglyndi í för með sér".

Hann leit aftur til hennar. "Lady Aðalheiður", sagði hann alt í einu, "þér eruð hreinskilin kona. Segið mér nú, hvernig mynduð þér umgangast mann yðar, ef hann væri orðinn gamall?"

Hún roðnaði. Guð einn vissi, hvort hann yrði hjá henni, þegar hann væri orðinn gamall maður, því hann var að eins að nafninu maður hennar. En hún svaraði samt alveg hreinskilnisloga :

"Ég myndi elska hann þúsund sinnum meira, væri það mögulegt, en ég geri nú. Hin hreinasta og sannasta ást í heiminum finst mér vera á milli manns og konu, sem hafa liðið súrt og sætt hvort með öðru".

"Ég trúi yður", sagði hertoginn. "En nú ætla ég að ganga til herbergja minna. Ilmur blómanna er of sterkur fyrir mig".

Þegar hann sneri heimleiðis, sá Lady Aðalheiður tár blika í augum hans.

---

## LV. KAPÍTULI.

Hertogainnan hélt áfram leiðar sinnar, án þess, að hugsa hið minsta um sorg þá, er orð hennar ollu manni hennar, sem hafði alt af verið blíður og eftirlátur við hana.

"Það er eins gott, að hann viti strax að ég vil hvorki vera sem þjónn hans eða hjúkrunarkona",

sagði hún þóttalega við sjálfa sig. Það væri líka dæmalaust skemtileg staða, eða hitt þó heldur!"

Hún hætti svo bráðlega að hugsa um þetta, því hún heyrði mannamál í hinum enda gróðrarstýjunnar, svo hún gekk þangað. Gestirnir sátu þar í hnapp hjá fallegum gosbrunni, sem þeytti vatninu yfir hinar grænu laufplöntur. Sæti voru þar til og frá og hvít líkneski á milli þeirra.

Það glaðnaði yfir hertogainnunni, þegar hún heyrði hlátur. "Ég kenni í brjósti um hverja þá konu, sem ver æfi sinni til að hugsa um veikan eiginmann", tautaði hún. Hún hristi höfuðið reigingslega. Caren lávarður stóð hjá Alísu Kan, og var að sýna henni mjög fallegt blóm, sem stóð þar í fullu skrauti. Það voru til tvær tegundir af því, önnur hvít, en hin rauð.

"Hvort þykir yður fallegra, það hvíta eða það rauða?" sagði lávarðurinn.

"Ég verð að virða þau vel fyrir mér áður en ég svara", sagði hún. Hertogainnan heyrði samtalið, og gekk nú til þeirra.

"Svar upp á slíka spurningu sýnir lyndiseinkunn þess, sem svarar", sagði hertogainnan. "Hvernig er hægt að líkja saman hvítu og rauðu?"

"Hví skyldi ekki mega líkja því saman?" sagði kafteinn Randolph. "Og með hverju sýnir það lyndiseinkunn mannsins?"

"Lítilfjörleg, einföld og heimsk persóna mundi kjósa það hvíta. En gef mér hið rauða blóm, fult af ljósi, fjöri, líf og fegurð", sagði hertogainnan.

"En um leið tælandi, glæsilegt og frekjulegt, og sem allra augu stara á", sagði kafteinninn.

"Það getur vel verið, en augun fá þá líka nokkuð, sem vert er að horfa á. Finst yður ekki það sama og mér Caren lávarður?", sagði hún.

"Ég hefi aldrei hugsað um þetta", sagði hann.

"En þarna kemur kona, sem mér er óhætt að segja, að hefir fullkomið vit á því".

Hertogainnan varð mjög ergileg, er hún sá, að lávarðurinn meinti Lady Aðalheiði, sem gekk í hægð um sínum til þeirra.

"Þér komið alveg mátulega til að leysa úr vandasamri spurningu, Lady Aðalheiður", sagði kafteinn Randolph. "Hvor þessara ítölsku plantna þykir yður fallegri?"

"Sú hvíta", svaraði hún á augabragði. En hertogainnan brosti illgirnislega.

"Hvers vegna? Segið okkur hvers vegna", sagði kafteinn Randolph.

"Ég veit ekki, hvort ég get svo nákvæmlega útskýrt ástæður mínar fyrir því", sagði hún brosandi. "Mér finst hið hvíta blóm vera sýnishorn af sakleysi englanna, en um leið hátignarlegt, vinalegt og blítt, — fagurt sem tunglið og snjórinn. Hið rauða er stórfengilegt, — hræðilegt, og eldslogum líkt".

Caren lávarður virti konu sína fyrir sér með sýnilegri aðdáun.

"Þú hefir rétt fyrir þér, Lady Aðalheiður", sagði hann, "ég er alveg á sömu skoðun og þú".

"En þá", sagði kafteinninn hlæjandi, — "þá eruð þér eftir meiningu hertogainnunnar einskisverður, heimskur og einfaldur".

"Ég verð að hafa það", sagði hann.

Lady Aðalheiður skildi ekki, hvað hann meinti með þessu. Hún gat heldur ekki hugsað um annað en hertogann. Hún snéri sér að hertogainnunni, sem handlék hlýlega hin rauðu blóm, og sagði:

.rtoginn er víst lasinn. Hann gekk til herbergja sinna".

"Já, hann kvartaði um þreytu".

"Ég ætla nú að vera gjafmildur", sagði Caren lávarður, "og lofa kvenfólkinu, sem sérstakri náð,

að taka knippi af blómum þessum og bera þau í kveld".

Kafteinn Randolph flýtti sér að ná blómi handa Alísu.

"Ég vil velja mitt sjálf", sagði hertogainnan. Hún tók svo eitt handa sér, en sleit svo minna blóm upp og rétti Caren lávarði. Í sama vetfangi rétti Lady Aðalheiður honum hvítan rósakvist.

"Berið þetta blóm í kveld", sagði hertogainnan, "og kjósið svo aldrei framar hvítt í staðinn fyrir rautt".

"Ég ætlaði einmitt að biðja um það sama", sagði Lady Aðalheiður brosandi.

Caren lávarður hneigði sig. Hann sýndist vera í vandræðum með, hvað gera skyldi. Svo tók hann kvistinn með rauðu blómunum.

"Ég verð að bæta fyrir ókurteisi mína, hertogainna. Ég skal með mestu ánægju bera blóm yðar".

"Lady Aðalheiður", sagði nú kafteinn Randolph, "ég vildi alt til vinna, til að mega bera hinn hvíta rósakvist yðar".

En hún lét hann ekki lausan og sagði brosandi: "Nei, kafteinn Randolph, það sem ég hefi boðið manni mínum, gef ég ekki neinum öðrum".

Hún lét sem sér stæði alveg á sama, þó hann hefði tekið kvist hertogainnunnar, en afþakkað hennar eigin. Hún talaði við þau jafn glaðlega og áður og svo, þegar hún sá, að Lady Kan stóð ein sér, gekk hún til hennar. Caren lávarður horfði á eftir henni, þegar hún gekk burtu.

"Það getur vel verið, að það eigi ekki vel við", sagði hann, "að maður hrósi sinni eigin konu, en aldrei á æfi minni hefi ég þekt nokkra manneskju með eins blítt og rólegt lundarlag eins og Lady Aðalheiði".

Hann talaði svo hlýtt og alvarlega, að kafteinninn leit undrandi á hann.

"Hún ætti að kallast "Lady Seneca", (það þýðir: "hin blíða"), hélt hann áfram. "Ég hygg, að það sé ómögulegt, að láta hina blíðu lund hennar tapa jafnvægi sínu".

"Það eru þó vissir hlutir til, sem mundu fljótt láta hana missa rósemi sína", sagði kafteininn.

"Hvað er það?" spurði lávarðurinn.

"Það er óréttur í hvaða mynd sem er. Ég álít, að hin hræðilegasta reiði af allri réttlátri reiði, sé, er elskandi, elskuleg og blíð kona finnur í hjarta sínu, þegar hún sér þann órétt, sem henni er ger".

"Við skulum vona, að Lady Aðalheiður þurfi aldrei að vita hvað það er", sagði lávarðurinn rólega. En hertogainnan sneri sér undan og brosti háðslega.

---

## LVI. KAPÍTULI.

Hertogainnan af Ormont hafði nú fastlega ásett sér, að vera ekki í þessari óvissu lengur. Hún ætlaði þetta sama kveld, að ná tali af Caren lávarði, hvað sem það kostaði. Hún var búin að hugsa sér, hvað hún skyldi segja honum, því hún vissi vel, hvar hann var veikastur fyrir. Hún vissi, að hann var bæði göfugur og hugrakkur. Sömuleiðis vissi hún, að hann mat mjög mikils sæmd sína og gott mannorð. En hann var veikur fyrir, þegar til meðaumkvunar með öðrum kom til sögunnar, og hún vonaði, að hans meðfædda tilhneiging til að elska, myndi hjálpa sér í áformum sínum. Hún lærði

næstum utan að, það sem hún ætlaði sér að segja, og hún þóttist nú viss með að vinna.

Lady Aðalheiður var heppin, að vita ekki fyrirfram, hvað mundi bera við þetta kveld.

Þegar búið var að borða hádegismatinn, hugsaði hertogainnan með sér, að bezt væri fyrir sig, að sýna manni sínum dálitla eftirlátssemi. Hann var töluvert frískari en um morguninn, en treysti sér samt ekki til að yfirgefa herbergi sitt. Hún settist þar hjá honum. Hún sá samt ekkert eftir því, hve köld hún hafði verið við hann um morguninn. Nei, langt frá. En hún áleit bezt, að láta sem sér væri umhugað um hann, sem hún ætlaði nú að draga svo skammarlega á tálar. Hún tók því fram bækur og las hátt fyrir hann. Og allir gestirnir töluðu um það sín á milli, hve góð og eftirlát hún væri manni sínum.

Hún fann það fljótt, að nú hafði hún gengið of langt með kulda sinn og dramb. Hertoginn var mjög stoltur og tilfinninganæmur maður, og hann gat ekki gleymt því, að sú kona, sem hann hafði hafið til auðs og metorða skyldi sýna honum kulda og fyrirlitningu. Hann hafði gefið henni eins og áður er sagt, hinar dýrmætustu gjafir, og hann hafði verið bæði stoltur og glaður yfir hve mikla eftirtekt hún vakti fyrir fegurð sína, en í gleði sinni hafði hann gleymt, að hann var helmingi eldri en hún. Hann stóð í þeirri trú, að hún elskaði hann. Þess vegna kom það yfir hann sem reiðarslag þennan sama morgun, þegar hann alt í einu fann út, að hún elskaði hann ekki. Hann var nú í engum efa um það, og aldrei hefði hún getað bætt fyrir þann kulda, er hún hafði sýnt honum, þó hún hefði verið öll af vilja gerð. Engin kona, sem elskaði mann sinn, hefði hegðað sér gagnvart honum eins og hún hafði gert. Hann hafði lesið úr augnaráði hennar megnan

viðbjóð og fyrirlitningu, þegar hún hafði litið til hans. Honum kom nú einnig til hugar, hvernig hún ávalt hafði viljað hliðra sér hjá ástaratlotum hans. Fyr hafði hann álitið þetta stafa af feimni, og honum hafði þótt enn meira til hennar koma fyrir það, en nú sá hann, að það hafði eingöngu verið af því, að henni geðjaðist ekki að honum. Þrátt fyrir það, að hann elskaði hana innilega, var hann samt of skynsamur til þess, að hún gæti vilt honum sjónir. Enginn gat narrað hann nema einu sinni. Hann leit nú í huga sér yfir samvertíma þeirra, og hann mundi eftir svo fjölda mörgum atburðum, sem sýndu að hún ekki elskaði hann.

"Hún hefir gifst mér vegna eigna minna og metorða", sagði hann við sjálfan sig, og stundi þungan. "Hvað ég gat verið blindur og heimskur, að halda að hún elskaði mig!"

Þegar hún svo kom inn til hans í þeirri trú, að hún gæti gert alt gott aftur með því að vera vingjarnleg við hann, fékk hún kuldalega móttöku, og það var í fyrsta skifti, sem hann bauð hana ekki velkomna. Hún gekk að hægindastólnum, sem hann sat í, og lagði hendi sína á handlegg hans.

"Þú lítur nú betur út en í morgun, Gervase. Ég skal lesa hátt fyrir þig, ef þú vilt".

"Já, ég er betri", svaraði hann kuldalega. "Divon hefir verið hjá mér í allan morgun, og hann sér um, að ég hafi alt sem ég þarf með".

Áður hafði hann orðið frá sér numinn af gleði, ef hún hefði sýnt honum svona mikla umhyggjusemi. Hann hefði kyst innilega hina litlu hvítu hönd hennar og ausið yfir hana þakklæti og lofi fyrir umönnun hennar, — er nú gat hann ekki gleymt, hvernig hún hafði breytt við hann um morguninn.

"Ég fer að öfunda Divon", sagði hún með blíðu brosi, ef þú hrósar honum svona mikið".

Hertogainnan gat verið mjög aðlaðandi, þegar hún vildi það við hafa. Það lá einnig í eðli hennar, að vilja vinna ást og aðdáun allra, sem í kring um hana voru. Hún gat ekki að því gert. Hún var nú búin að ásetja sér, að svíkja mann sinn. Öll von um, að áform hennar hepnuðust, var bygð á vansæmd hans. Til þess að ná takmarki sínu, varð hún að eyðileggja líf hans og hamingju. Samt sem áður, þegar hann leit svo kuldalega til hennar, langaði hana til að vinna aftur bros hans og hún gerði sig eins blíða við hann eins og hún gat. Lyndiseinkunnir hennar voru svo frábrugðnar annara. Hún gat með köldu blóði áformað, að hlaupa burtu frá honum, leiða skömm og svívirðingu yfir hann og húsið Ormont, sem aldrei fyr hafði nokkur blettur fallið á. Þó hún ætlaði sér þetta, gat hún gert sig blíða og ástúðlega við hann.

Hún laut niður að honum. "Gervase", sagði hún blíðlega, "var ég vond við þig í morgun?"

"Ég læt aldrei geðshræringar bera mig ofurliða", sagði hann. "Það eru að eins lítilfjörlegar og ómerkilegar persónur, sem gera það".

"Ég er hrædd um," sagði hún, "að ég hafi hegðað mér illa gagnvart þér, og ég sé svo fjarskalega mikið eftir því. Ég ætti að skammast mín fyrir að játa það, en ég var í svo vondu skapi, það kom nokkuð fyrir, sem mér féll svo illa".

"Það verða allir fyrir meira og minna mótlæti i heiminum. Ég get ekki séð, að nokkur þurfi að brúka ókurteisi og kulda, hver við annan fyrir það".

Hann langaði til að mega trúa henni og það brá fyrir meðaumkvun í augum hans, þegar hann leit til hennar, en hann var of reyndi og skynsamur til a láta blekkjast í annað sinn. &Þann viðbjóð, sem hann hafði lesið úr augnaráði hennar og hvernig hana hrylti við, þegar hann snerti hana, — þetta hvort-

tveggja hafði grafið sig svo djúpt í hjarta hans, að það varð aldrei máð burtu.

"Var ég vond við þig?" sagði hún aftur mjög blíðlega. "Æ, Gervase, ég meinti ekkert ilt með því. Við skulum jafna þetta aftur. Þú veizt, að ég er enginn engill. Lofaðu mér nú að lesa fyrir þig. Hvað viltu að ég lesi?"

"Hvað sem þú vilt", sagði hann þreytulega. En hún lét sem ekkert væri, og dró fótskemil að stól hans, settist þar og fór að lesa. Hertoginn tók ekkert eftir því, sem hún las. Hann var alt af að hugsa um það, sem við hafði borið um morguninn. Alt í einu leit hún upp.

"Ertu á sama máli, Gervase?" spurðihún.

"Ég tók ekkert eftir því, Nita", sagði hann.

"Mér datt það í hug. Þú lætur mig lesa fyrir þig, en tekur svo ekkert eftir því. En ég ætla samt að halda áfram".

Svo byrjaði hún aftur. Henni fanst hún fremur geta lesið en talað.

Nú liðu nokkrar mínútur. Svo sagði hertoginn um leið og hann lagði hönd sína á höfuð henni:

"Nita", sagði hann, "ég óska eftir, að þú svarir spurningu minni".

"Ég skal svara eins mörgum og þú vilt", sagði hún brosandi.

"Seg mér þá hreinskilnislega", sagði hann: — "Hvort giftist þú mér af því að þú elskaðir mig eða til þess að ná í auðæfi mín?"

"Ég þarf ekki að svara þessari spurningu. Hún er óttaleg. Þú hefir heldur enga ástæðu til að efast um ást mína".

Henni kom til hugar, hvort hann vissi nokkuð um sig og Caren lávarð.

"Jú, ég hefi ástæðu til þess", sagði hertoginn, "og það er alvarlegt málefni Nita".

"Og er það vegna þess, sem kom fyrir í morgun? Ó, Gervase, mér fellur það svo illa!"

"Þú hefir ekki enn þá svarað spurningu minni", sagði hann.

Hún stóð upp brosandi. "Ég vil ekki svara henni. Ég hefi ekkert um það að segja. Hvers vegna skyldi ég hafa gifst þér, ef ég ekki elskaði þig? Þú yrðir of upp með þér, ef ég segði þér öll mín leyndarmál".

Hún reyndi eins og hún gat, að komast hjá að svara, því hún gat ekki sagt honum sannleikann. En henni datt í hug, að segja honum þá örgustu lýgi, með að segja honum að hún elskaði hann. Hún reyndi að eyða samtalinu með því að hlægja, en henni tókst það ekki í þetta sinni.

"Komdu hingað, Nita", sagði hertoginn.

Hún gekk til hans, og hann tók um hönd hennar. "Krjúptu hérna við hliðina á mér", sagði hann svo alvarlega, að hún þorði ekki annað en að hlýða, og kraup niður þar sem hann benti henni.

"Svaraðu mér nú, eiginkona mín, og mundu eftir að þú talar í viðurvist guðs: Elskar þú mig, eða elskar þú mig ekki?"

Hún varð föl eins og nár og hræðslu brá fyrir í augum hennar. Hún hafði aldrei borið jafnmikla virðingu fyrir manni sínum og einmitt nú. Henni fanst hann göfugri og tignarlegri en nokkur annar maður, sem hún hafði séð. Hún gat ekki annað en borið virðingu fyrir honum.

"Svaraðu m[illegible]" mælti hann í skipandi róm.

Og hún — [illegible] sama kveld ætlaði sér hlaupa burtu f[illegible]m með öðrum manni, — hún leit nú framan í h[illegible] og sagði:

"Ég elska þig, Gervase, og þú ert of harður við mig".

"Ég bið fyrirg[illegible]ar ef svo er, Nita! Þú haf-

ir nú svarað spurningu minni. Ég er ánægður og við þurfum nú ekki að tala meira saman að sinni".

---

## LVII. KAPÍTULI

"Ég skal ekki lengi búa við þetta", sagði hertogainnan við sjálfa sig litlu síðar. Hún stóð við skrautlegt borð og hélt gimsteina hálsbandi í hendinni. "Ég get ekki þolað það. Það er nógu leiðinlegt, þegar ungur og fallegur eiginmaður er afbrýðissamur, en þegar hann er nú gamall í viðbót —"

"Að þröngva mér til að falla á kné, og segja, að ég tali í návist guðs! Hver ætli hann haldi að ég sé? Væri ég ekki búin að ásetja mér, að yfirgefa hann, skyldi ég gera það nú. Elska hann! — Eru karlmenn blindir? Mér þætti gaman að vita, fyrir hvað ég ætti að elska hann. Ég elska Allan Caren, og svo framarlega sem ég má ráða, skal hann elska mig líka. Hertoginn skal vita það, að ég læt ekki fara svona með mig oftar".

Augu hennar leiftruðu og úr andliti hennar skein hæðni og reiði.

"Að spyrja mig um, hvort ég hafi gifst honum af ást, eða vegna auðæfa hans! Hann hefði átt að geta sagt sér það sjálfur. En nú skal öllu þessu vera lokið, og ég vil ekki lengur vera undir hann gefinn".

Hann hafði skipað henni, og hún orðið að hlýða. Í nálægð hans hafði hún fundið til sektar sinnar, en nú var hún gröm við sjálfa sig fyrir það, að hinn gamli eiginmaður hennar, hvers ást hún hefði fyrirlitið, skyldi hafa svo mikið vald yfir henni. Hún

göfuga og hreina sál hans hafði haft áhrif á hina veiku sál og blindu sál hennar. Þetta fann hún og hataði hann enn þá meira fyrir það.

Nú strax í dag ætlaði hún að brjóta af sér böndin. Hún þóttist viss um, að Caren lávarður gæti ekki staðið á móti vilja hennar. Ekkert gat verið til fyrirstöðu, því hún þóttist einnig vita að honum stæði alveg á sama um konu sína.

"Ef hann elskaði hana, gæti ég enga von gert mér um hann. En sem betur fer, gerir hann það ekki, og mun aldrei gera það. Mig skal hann elska bráðum".

Þjónustustúlkan gat varla gert henni neitt til hæfis, að því er snerti búning hennar. Hún tók fram hvern kjólinn á fætur öðrum, og gimsteinaskrínin, — en hertogainnunni líkaði ekkert. Alt í einu spurði hún: "Á ég nokkurn kjól í rauðum og hvítum lit?"

Stúlkan hugsaði sig um: "Þér eigið einn rósrauðan flauelis kjól, og ég get sett á hann hvítt silki og hvíta kniplinga".

"Gerðu það eins fljótt og mögulegt er".

Það tók ekki langan tíma, að laga kjólinn, og hertogainnan var mjög skrautleg, þegar hún var komin í hann. Hið mikla svarta hár og hin dökku augu hennar, tóku sig svo vel út við hinn fagurrauða lit. Hún hafði gimsteina í hárinu, gimsteina festi með rúbín kross um hálsinn, og armbönd bæði úr demöntum og rúbínum. Hún brosti, þegar hún leit í spegilinn.

"Er ég of skrautleg?" spurði hún stúlkuna hálf kvíðandi.

"Ekkert er of skrautlegt fyrir yður", var hið sanngjarna svar.

Hún líktist mest skrautlegu málverki, þegar hún gekk inn í gestaherbergið. Ljósin féllu á gimsteina

hennar og vörpuðu geislum um hana alla. Flestir gestirnir voru þar fyrir. Hún settist niður og kafteinn Randolph var sá fyrsti, sem ávarpaði hana. Hann brosti, er hann sá hvíta og rauða litinn.

"Þér hafið þá tekið hvíta litinn í sátt aftur", sagði hann.

"Já, í virðingarskyni við Lady Aðalheiði".

"Hún metur það víst", sagði hann háðslega.

Nú kom Caren lávarður til að hrósa henni fyrir búning hennar. Hann þóttist vita, að eitthvað byggi undir, er hún bjó sig svona.

Hertoginn kom ekki til miðdegisverðar, og þegar menn spurðu konu hans, hvernig honum liði, svaraði hún mjög kurteislega, og lét mikla umhyggju fyrir honum í ljósi.

Nú var farið að borða. Enginn, sem sá hana jafnglaða, fagra og skrautlega, hefði getað ímyndað sér, að hún hefði ásett sér að drýgja hræðilega synd. Hún var samt búin að hugsa sér, hvernig hún skyldi koma ár sinni fyrir borð. Lady Aðalheiður hafði gleymt að svara bréfi, og þegar kvenfólkið fór inn í salinn, gekk hún að skrifborði sínu til þess að svara bréfinu.

Hún tók í hönd sér fallegan penna, sem Lady Caren hafði gefið henni, og skrifaði bréfið. En óðara en hún var búin að því, kom hertogainnan til hennar.

"Viljið þér lofa mér að skrifa fáein orð með pennanum yðar, Lady Aðalheiður? Hann er svo fallegur, að mig sárlangar til að reyna hann".

Um leið og hún sagði þetta, brosti hún kýmnislega. Aðalheiður skildi ekki, hvað það átti að þýða.

"Þetta er víst gjöf frá einhverjum, er mikið þykir til listfengis yðar koma. Hefir Caren lávarður gefið yður hann?"

"Nei, tengdamóðir mín gaf mér hann."

"Þessi penni væri ekki vel fallinn til að skrifa með honum undir dauðadóm, eða finst yður það?" spurði hertogainnan um leið og hún tók utan um pennann.

"Því dettur yður þetta í hug?"

"Ég veit ekki. Það getur skeð, að ég skrifi einhverntíma undir eitthvað þess konar".

"Ég vona ekki. Mig hryllir við öllu þess konar jafnvel þó í spaugi sé".

Hertogainnan hló hátt. Hún ætlaði sér að skrifa Caren lávarði nokkrar línur, og biðja hann að tiltaka, hvenær hún gæti hitt hann einan. Henni fanst það reglulega smellið, að skrifa bréfið með penna konu hans.

"Það er það sama, sem kveða upp dauðadóm yfir henni", hugsaði hún brosandi með sjálfri sér. "Ef mér hepnast áform mín, þá er það það eina, sem hún getur gert, að hugga hertogann".

"Þér eruð í undarlegu skapi núna hertogainna", sagði Lady Aðalheiður um leið og hún stóð upp frá borðinu, til þess að hin gæti sest þar.

Hertogainnan settist niður og skrifaði í flýti nokkrar línur. Svo braut hún bréfið saman, en bað hvorki um umslag eða skrifaði neitt utan á það.

Lady Aðalheiði datt nú alt í einu í hug, að einhver innan húss ætti að fá bréfið. Gat vel verið, að það væri maðurinn hennar, sem var ætlað það. Einasta hugsunin um það, kom hjarta hennar til að slá hratt.

"Ég ætla að fara að senda bréfin mín í póstinn. Viljið þér ekki senda yðar um leið?" sagði Aðalheiður.

"Nei", mælti hertogainnan seinlega, "ég ætla að geyma það til morguns.

Nú þóttist Aðalheiður viss um, að hafa getið rétt til, og einnig að lávarðurinn ætti að fá bréfið.

Henni fanst hún vera stungin í hjartað, og afbrýðissemin kvaldi hana voðalega. Hún varð gagntekin af sorg, því hann var þó maðurinn hennar, sem hún elskaði svo heitt. Hversu hræðilegt var það ekki, að þessi fagra kona hafði skrifað til hans, og fól nú bréfið í hinni hvítu, demanta skreyttu hendi sinni? Og hún gat ekki með nokkru móti hindrað, að hann fengi það. Hún gat ekkert gert, því hann elskaði hana ekki. Hvað skyldi innihald bréfsins vera? Lady Aðalheiður var bæði skynsöm og gat oft rétt til hlutanna.

Hún hefir skrifað honum og beðið hann að tala við sig í einrúmi", hugsaði hún, og hún gat rétt til. Blóðið hljóp fram í kinnar hennar, og hjarta hennar ætlaði að springa af harmi. Það var fyrir sig, þó hann nú ekki elskaði hana, en það var hræðilegt, að láta draga hann frá sér á þennan hátt.

"Það eina, sem mér er hægt að gera", hugsaði hún með sér, "er að láta hana ekki fá tækifæri, til að afhenda honum bréfið. Annað get ég ekki gert".

"Æ, henni var svo þungt um hjartaræturnar. Hún elskaði hann svo heitt. Því vildi hin fagra, vonda og annars manns kona taka hann frá henni?"

"Ef hún hefði látið hann í friði, þá hefði hann lært að elska mig". — Hún ásetti sér fastlega, að láta hana ekkert tækifæri fá, til þess að koma bréfinu til hans. Hún ætlaði sér að vera við hlið hennar alt kveldið, og næði hún í bréfið, ætlaði hún að eyðileggja það. Maður hennar skyldi aldrei fá það.

---

## LVIII. KAPÍTULI.

"Því ertu svona alvörugefin, Aðalheiður?" spurði Caren lávarður um leið og hann settist við hlið konu sinnar. "Ég held ég hafi aldrei séð þig eins áhyggjufulla og í kveld".

Hún reyndi að brosa, og hann sá, hve erfitt hún átti með það.

Hershöfðinginn ber mjög mikla umhyggju fyrir þér. Hann hefir spurt mig svo rækilega um, hvers vegna þú sért ekki eins glöð og vanalega, og hann horfir á mig alveg eins og hann haldi, að það sé mér að kenna".

Hann bjóst við, að hún mundi hlægja að þessu, en hún roðnaði við og leit rólega framan í hann.

"Ég vona þó, að hann hafi ekki verið reiður", hann gat ekki annað en hlegið.
sagði hún alveg blátt áfram, en svo alvarlega, að

"Ekkert skil ég í því, Aðalheiður, að það er eins og þið móðir mín séuð hræddar við hershöfðingjann".

Hann tók eftir hræðslunni, sem brá fyrir í andliti hennar, þó hún reyndi að hylja það.

"Hver segir það?" spurði hún. "Ég fyrir mitt leyti er ekkert hrædd við hann".

"Getur þú horft beint í augu mér og sagt, að hershöfðinginn sé engin orsök í, hve alvarleg þú ert?" sagði lávarðurinn.

"Já, það get ég með góðri samvizku", sagði hún og úr augum hennar skein hreinskilni og sannleik...

"Ég trúi þér", sagði hann. "Hefir þú nokkru sinni á æfi þinni talað ósatt orð, Aðalheiður"

"Nei, en ég hefi ekki breytt rétt", sagði hún fljótlega.

Hann sá, að hún iðraðist eftir að hafa sagt þetta.

"Því trúi ég varla", sagði hann. "Þú ert bæði hreinskilin og góð. Hvernig hefðir þú átt að breyta ranglega?"

Málrómur hans var alt öðruvísi en vant var, — hálf biðjandi — hálf skipandi. Henni lét hann svo vel í eyrum, en kom henni þó í vandræði.

"Ég hefi gefið fólki ástæðu til að trúa því um mig, sem ekki er satt. Allan, nú talaði ég meira en ég vildi sagt hafa. Þú mátt ekki spyrja mig neins fleira, því þá veit ég ekki, hverju svara skal. Þú verður að hlífa mér við því.

"Ég vil gera eins og þú vilt", sagði hann. En hann skildi ekkert í tali hennar. Hvenær hafði hún gefið ástæðu til, að henni væri gert rangt til? Var það í sambandi við giftingu þeirra? Hann langaði mjög til, að fá svar upp á þessa spurningu, en þó vildi hann ekki spyrja hana þess, er hann sá, hve henni féll það illa.

Nú kom hertogainnan, öll angandi í ilmvatni, og sagði: "Þér eruð alt af svo góð, Lady Aðalheiður, að maður er alt af óhræddur að biðja yður bónar".

"Ég geri það, ef ég get".

"Ég þóttist vita. Syngið nú fyrir okkur. Lady Kan segir, að hún hafi ekki eins gaman af neinum söng eins og yðar. Viljið þér gera þetta fyrir okkur?"

Hún vill setjast hjá manni mínum og fá honum bréfið, hugsaði Aðalheiður með sér, en það skal henni ekki takast.

Hún neitaði að syngja, og hertogainnan sá, að ekkert þýddi að leggja meira að henni. Lávarðurinn leit forviða á hana. Það var svo nýtt fyrir henni, að neita því, sem gat glatt aðra.

"Syngdu, kæra Aðalheiður, ef þú ert ekki of þreytt", sagði lávarðurinn.

"Mér þykir leiðinlegt, að neita þér, Allan, en mér er ómögulegt að syngja í kveld".

Honum sýndist glitra tár í augum hennar, og málrómur hennar lýsti hrygð. Hana langaði svo til að snúa sér að honum og segja: "Allan, elskaðu mig. Þú ert maðurinn minn. Láttu hana ekki komast upp á milli okkar, — ekki taka þig frá mér. Vertu góður við mig, vertu mér trúr, því ég elska þig svo heitt!" Orðin brunnu á vörum hennar. Það var svo sárt, að geta ekki sagt það við hann. Aðrar konur gátu talað við menn sína um sorgir sínar. Hún gat það ekki. Hún varð að þegja og reyna að brosa, þótt hjarta hennar væri nær við að bresta Hun varð að bera alt þetta ein.

Hertogainnan gaf sig ekki fyrir þetta, heldur sneri sér nú að lávarðinum:

"Þér verðið ekki jafn harðbrjósta. Komið og syngið með mér".

"Hver gæti neitað þessari bón?" sagði hann og stóð brosandi upp og gekk á eftir henni að hljóðfærinu.

"Ég skal finna nóturnar", sagði Lady Aðalheiður, og gekk til þeirra. Allan tímann meðan þau sungu, stóð hún á milli þeirra.

"Hún skal ekki geta fengið honum bréfið í kveld" hugsaði hún. En henni féll samt mjög illa, að verða að gæta hennar svona nákvæmlega.

Einu sinni enn þá frelsaði hún mann sinn frá freistingunni. Bréfið var enn þá í höndum hertogainnunnar. Hún sneri sér nú að lávarðinum, hrósaði honum fyrir söng hans og sagði síðan:

"Viljið þér tefla skák við mig, Caren, ég á hjá yður síðan síðast?"

"Já, með ánægju".

Nú vissi Aðalheiður ekki, hvað gera skyldi. Hún ásetti sér samt, að gefast ekki upp fyr en í fulla hnefana.

"Ef þér haldið að hertoganum leiðist", sagði hún við hertogainnuna, "þá skal ég gjarnan koma í yðar stað".

En hertogainnan hló háan hæðnishlátur. "Nei, þökk fyrir, Lady Aðalheiður. Maðurinn minn hefir blöð sín og saknar mín ekkert".

Caren lávarður skildi ekkert, hvað þeir áttu við. Því var hertogainnan eins og sigri hrósandi, en kona hans svo niðurbeygð og hrygg? Hann skildi ekkert í því.

Nú tapaði Lady Aðalheiður allri von. Hún hafði gert alt sem hún gat. Þó hún neytti allrar skynsemi sinnar, þolinmæði og góðvilja, þá gat hún ekki hjálpað. Hún gat ekki gert uppistand í hinum skrautlega gestasal. Hún gat ekki sagt við mann sinn: "Spilaðu ekki við hana. Hún vill fá þér bréf, sem hún hefir skrifað til þín".

Hertogainnan hefði strax neitað því, og maður hennar hefði ekki að eins reiðst henni, heldur álitið hana afbrýðissama og illa uppalda.

Hún gat ekki sagt við hertogainnuna: "Þér haldið á bréfi í hendi yðar sem þér ætlið svo að afhenda manni mínum, strax og þér fáið tækifæri til þess. En ég vil standa við hlið yðar, svo þér getið ekki fengið honum það, og með því komið honum til að drýgja stórsynd".

Í samkvæmislífinu verður stranglega að fara eftir siðareglunum, þótt að hjörtun bresti við það.

Nú var öll árvekni og þolinmæði hennar til einkis. Hún sá þau ganga yfir salinn, þangað sem spilaborðið stóð.

Hún settist niður í algerðri örvæntingu. Hún

gat ekki haft augun af þeim, og eftir litinn tíma, sá hún hertogainnuna leggja bréfið í hönd lávarðarins.

Henni fanst alt hringsnúast fyrir augum sér, en hún náði sér brátt aftur og stundi þungan. Svo gekk hún að glugganum og horfði út. Hin hræðilega óhamingja, sem hún svo lengi hafði kviðið fyrir, var nú fallin yfir hana.

---

## LIX. KAPÍTULI.

Loksins var kveldið á enda. Lady Aðalheiður vissi tæpast, hvernig það hafði liðið. Hún næstum hræddist sjálfa sig. Hún fann því betur, hve heitt hún elskaði mann sinn, sem ástríðan og óttinn að missa hann kvaldi hana meira.

Hún hafði ekki haft augun af þeim alt kveldið, og henni veittist sú ánægja, að sjá, að það var langt frá, að hann liti glaðlega út. Þvert á móti, hún las út úr andliti hans óánægju og undrun.

Hertogainnan talaði mjög alvarlega við hann. Stundum lék bros um andlit hennar, en svo varð hún aftur alvarleg.

Lady Aðalheiður vissi varla sitt rjúkandi ráð. Stundum ásetti hún sér, að ganga til þeirra, taka um hönd manns síns og segja: "Kom með mér, Allan, hún vill draga þig niður í skömm og svívirðingu". En svo sá hún, að hún gat ekki gert það.

"Ég held að ég missi vitið, ef ég sit hér öllu lengur", sagði hún við sjálfa sig.

Svo stóð hún upp og reyndi að hressa sig upp eftir því sem hún gat. Hún skemti gestum sínum.

Öllum virtist hún vera ánægð, en henni sjálfri fanst hún vera eins og í draumi.

Það var að eins einn, sem skildi hana, og það var kafteinn Randolph. Hann þurfti að eins að horfa á hana til að sjá, hvernig henni leið, miklu betur en þó hún hefði sagt honum það, og — ástæðuna fyrir því. Hann ásetti sér, hvað sem það kostaði, að slita samtali lávarðarins og hertogainnunnar, því hann gat ekki séð Lady Aðalheiði svona hrygga til lengdar, þó hún reyndi að hylja það fyrir gestum sínum. Hann gekk sem ekkert væri yfir salinn, þangað sem þau sátu lávarðurinn og hertogainnan, og spurði þau, hvernig spilið gengi, og gerði þannig enda á samtali þeirra. Lady Aðalheiður blessaði hann í hjarta sínu fyrir það, en hertogainnan leit til hans hatursfullu augnaráði.

Það leit helzt út fyrir, að Caren lávarði stæði alveg á sama, þó hann kæmi. Og kafteininum lét sem hann tæki ekki eftir augnaráði hertogainnunnar. Hann vissi, að hann gerði vel í, að slita samtali þeirra. Þegar taflið var á enda, bað hann hertogainnuna um, að mega tefla við hana, en hún neitaði því mjög drembilega. Þá bauðst hann til að sýna þeim spilagaldra, sem hann væri nýbúinn að læra. Lávarðurinn kvað sig langa til að sjá þá, svo hertogainnan varð að gera sig ánægða með, þó hann sýndi þá, en hún sat þegjandi allan tímann og lét enga ánægju í ljósi. Rétt strax kom svo Lady Kan til þeirra, svo nú var úti með alt samtal milli hertogainnunnar og lávarðarins. Hún huggaði sig samt við það, að það gerði ekkert til. Henni væri sigurinn vís. Lávarðurinn myndi ekki neita því, sem hún hafði beðið hann um í bréfinu.

Loksins stóð hún upp og gekk í burtu. Hún kvaðst þurfa að vita, hvernig manni sínum liði. Hún bauð Caren góða nótt með handabandi, og sagði

um leið mjög rólega: "þér verðið mér trúr, Allan, þér neitið mér ekki".

Eitt augnablik var hann í efa, hvernig svara skyldi. En svo sagði hann: "Já, ég skal koma, Nita".

"Að einni klukkustund hér frá", sagði hún, og hann hneigði sig til samþykkis.

Lady Aðalheiður mundi lengi eftir því, hve sigrihrósandi hertogainnan var, þegar hún kom til hennar þetta kveld, til þess að bjóða henni góða nótt. Andlit hennar var eitt stórt bros, og það var eins og hún segði: "Ég hefi unnið hann. Nú tilheyrir hann mér". Öll framkoma hennar var drembileg og ókurteis, en Lady Aðalheiður lét sem hún sæi það ekki.

"Ég hefi skemt mér sérlega vel í kveld", sagði hertogainnan. "En mér sýnist sem þér vera svo þreytulegar og fölar, Lady Aðalheiður".

Lady Aðalheiður roðnaði við þessi orð. "Það er víst ekki annað en ímyndun yðar, hertogainna. Mér líður vel, og ég hefi enga ástæðu til að vera í slæmu skapi".

"Já, þá hefi ég það ekki. Ég hefi í alt kveld verið hjá hinum skemtilega manni yðar. Góða nótt, Lady Aðalheiður".

Þegar hertogainnan var farin út, eftir að hafa storkað Aðalheiði eins mikið og hún þorði, litaðist Aðalheiður um. Lávarðurinn og kafteinn Randolph sátu enn við spilaborðið. Lady Caren var gengin til herbergja sinna, og Lady Kan var að fara. Lady Aðalheiður hugsaði að eins um það, hvað bréf hertogainnunnar hefði haft inni að halda, og hvers vegna hertogainnan hefði verið svo óvanalega ánægð.

Gestirnir fóru nú hver á fætur öðrum út úr herberginu. Caren lávarður gekk með hefðarfólkinu inn í reykingasalinn. Kafteinn Randolph beið eftir,

að geta boðið Lady Aðalheiði góða nótt, en er hann sá, í hve djúpum þönkum hún var, gerði hann það bezta, sem hann gat gert: Hann fór án þess að ávarpa hana.

Hún vissi ekki, hvað hún s' 'li nú gera. Bréfið og öll framkoma hertogainnunnar vitnaði um hættu. Henni fanst hún ekki geta farið til herbergja sinna. Hún gat ekki verið ein með sorgir sínar. Henni fanst hún mega til, hvað svo sem það kostaði, að vita um það, sem fram skyldi fara um nóttina. Hún var ein í hinum stóra sal. Þjónninn kom nú til að s.økkva ljósin, en í því sá hún hvítan bréfmiða liggja á gólfinu við spilaborðið. Hún gekk þangað og tók miðann upp. Hún sá strax, að það var bréfið frá hertogainnunni, og lávarðurinn hafði rifið það eftir endilöngu.

Hún hélt nú í hendi sér lyklinum að óvissu sinni.

Flestar konur mundu fljótt hafa lesið það, án þess að hugsa um, hvort það væri rétt eða ekki. — Lady Aðalheiður gerði það samt ekki. Hún var föl og hjarta hennar sló hratt, en án þess að lesa bréfið, fór hún með það til herbergis síns. Hún lagði báða partana á borðið og leit á þá. Átti hún að lesa bréfið? Var það heiðarlegt, að lesa bréf fjandmanns síns? Lady Aðalheiður var mjög vönd að virðingu sinni, og hana hrylti við öllu, sem hún áleit óheiðarlegt.

En var þetta óheiðarlegt? Hún hafði sett sér það fyrir mark og mið, að frelsa manninn sinn úr þeirri snöru, sem lögð var fyrir hann. Hún hafði offrað öllu lífi sínu, öllum kröftum sínum, von og þolinmæði fyrir hann. Hún hafði troðið sínar eigin tilfinningar undir fótum sér og að eins hugsað um hann. Það gat því ekki verið óheiðarlegt. Hún

ásetti sér að lesa það, — að eins til að hjálpa honum með því. Henni fanst, að einhver [illegible] forsjón taka í taumana og hjálpa sér með þessu. Hún hafði ekkert vitað, hvað hún skyldi gera, en nú hafði hún fengið óvænta hjálp, sem henni var svo afar nauðsynleg.

"Tilgangurinn verður að réttlæta meðulin", sagði hún. "Ég ætla að lesa bréfið vegna mannsins míns".

"Hún lagði það aftur saman [illegible]

"Ég verð að sjá yður, [illegible] Tíminn líður óðum, ég má því til að sjá [illegible] Ég hefi beðið lengi eftir tækifæri [illegible] en [illegible] það fengið það. Það, sem ég [illegible] til að segjast. Allan, vegna [illegible] þeirrar, sem þér einu sinni báruð til mín [illegible] verð [illegible] að [illegible] við mig. Ég ætla að verða í upp [illegible] stað við ar — trjalundinum — í kveld. [illegible] fyrir að fara til herbergja minna. [illegible] þangað, og þér verðið að koma til mín, er [illegible] við gesti yðar. Ef þér ekki gerið þetta, skuluð þér iðrast þess alt til yðar dauðast [illegible]

Það stóð ekkert [illegible] en hún vissi, að það var frá hertogainnunni. Hún þekti líka rithönd hennar. Þetta var [illegible] bréfsins.

Þegar hertogainnan fékk ekkert [illegible] færi til að ná tali af Caren lávarði, þá skrifaði [illegible] honum og mælti sér mót við hann. Það gat [illegible] verið að þau væru nú að tala saman.

Aðalheiður grét ekki. Sorg hennar var þyngri en svo, að hún gæti grátið. Það var meir en afbrýðissemi, er kvaldi hana. Það var það, að ást hennar var einkis metin.

"Ég verð að frelsa hann!! Það er hún, sem

dregur hann til sín, en hann ekki hana. Ó, guð minn, hjálpaðu mér!"

Hún fleygði yfir sig svörtu sjali og gekk út úr herberginu. Hún vissi ekkert um, hvort lávarðurinn hafði neitað eða ekki, en hún vildi fara varlega, til þess að reita hann ekki til reiði. Í húsinu var alt hljótt, í einum ganginum mætti hún ráðsmanninum og spurði hann, hvort búið væri að slökkva öll ljósin. "Nei, ekki öll ennþá, lady mín", sagði hann.

Svo spurði hún hálfhikandi, hvar lávarðurinn væri.

"Lávarðurinn bað mig að loka ekki, hann ætlaði að ganga út í ganginn og reykja sér vindil".

Nú vissi hún, að hann hafði gert eins og hertogainnan bað hann um. Þau hlytu nú að vera saman.

Hún gekk aftur til herbergja sinna. Hún sendi þjónustustúlku sína í burtu, tók sjálf af sér alla skrautgripi sína og huldi sig næstum í hinu svarta knipplingasjali, svo hún sæist síður. Að því búnu gekk hún eftir mjóum járntröppum út í garðinn.

Arnljotur B. Olson

## LX. KAPÍTULI.

Það var glaða tunglsljós úti. Fuglarnir voru hættir að syngja og vindurinn lék um lauf trjánna. Blómin, vökvuð af næturdögginni, beygðust til jarðar líkt og þau væru að sofna.

Lady Aðalheiður var að náttúrufari hugrökk, en þegar hún gekk í gegn um garðinn, þar sem allstaðar ríkti dauðaþögn, að undanteknum vatnsniðnum í gosbrunnunum, — var sem geigur færi um hana. Hún leit til himins, hún þurfti bæði á hjálp og friði

að halda, og hugði að finna það hvorttveggja þar. Ekkert mannamál heyrðist, og hún vissi ekki um, hvort þau voru búin að hittast eða ekki. Óviðráðanleg hræðsla greip hana. Hvað mundi ske á þessari nótt. Skyldi hún missa mann sinn, sem hún elskaði svo heitt, og skyldi hann leiðast útí skömm, óhamingju og smán? Eða myndi guð taka í taumana og hjálpa henni. Myndi maður hennar halda þann eið, er hann sór henni við altarið? Eða mundi hann yfirgefa alt vegna þessarar fögru konu, sem elskaði hann svo brennandi heitt?

Með bænarandvarp á vörum sér, gekk hún inn í trjálundinn. Hún kom ekki of seint. Hún heyrði að kona grét beisklega, og karlmaður reyndi að hugga hana. Það lá nærri, að hún hnigi niður. Það var hertogainnan, sem grét, og maðurinn hennar, sem var að reyna að hugga hana. Lady Aðalheiður hugsaði nú ekkert um, hvort það var rétt eða rangt af henni að vera þarna.

"Guð hjálpi mér til að frelsa hann", sagði hún við sjálfa sig. Hún gekk hljóðlega yfir í hinn enda lundarins, þar sem þau voru, og studdist við marmarastyttu af Herkúles, er stóð þar með handlegginn á lofti reiðubúinn til að slá. Hún reyndi að tala til þeirra, en orðin dóu á vörum hennar, og hún kom engu hljóði upp. Hún settist við fætur líkneskisins, til þess að detta ekki, og beið þar í því hryggilegasta ástandi, sem hugsast getur.

Það sem hún sá við tunglskinsglætuna, er lagði inn í lundinn, mundi hafa sære hvert einasta elskandi hjarta.

Maðurinn hennar sat á stól skamt frá, með andlitið byrgt í annari hönd sér. Hertogainnan lá við fætur hans, og hafði gripið hina hendi lávarðarins og hélt henni fastri. Hár hennar og klæðnaður var í óreiðu, gimsteinar hennar glóðu í tunglsljósinu. Þar

sem hún lá við fætur hans var hún nógu fögur til að freista hins skynsamasta manns.

"Þér segið mér að standa upp, sagði hún með hinni silfurskæru rödd sinni. "Þér segið, að engin kona eigi að krjúpa, en ég skal krjúpa fyrir yður, því ég bið yður — ó, þér verðið að hlýða á mig, elskan mín —".

"Nita", sagði hann rólega og alvarlega, "þér hryggið mig með þessu. Standið upp og liggið ekki svona lengur".

"Þér verðið að hlýða á mig", sagði hún. Hún vætti hendur hans í tárum sínum og kysti þær í ákafa. "Þér skuluð hlusta á mig. Dag eftir dag, stund eftir stund hefi ég beðið eftir þessu tækifæri, til þess að geta sagt yður um sorg þá, sem eyðir lífi mínu, og útausið ást minni fyrir yður. Og nú, þegar augnablikið er komið, á ég þá að þegja? Snýr þyrstur hjörtur sér frá vatnslindinni? Æ, elskan mín, — elskan mín! "

"Þetta er heimska, Nita".

"Svo býð ég hana velkomna. Velkominn dauði, — alt er betra en það líf, sem ég lifi, bundin manni, sem mér leiðist. Mig hefir alt af langað eftir, að ná tali af yður. Langar eftir einhverntíma að mega kalla yður herra minn, — ég vil svo gjarnan vera þræll yðar. — Þér talið við mig um líf, — æ, elskan mín, — ég veit að eins hvað líf er, þegar ég er með yður —".

"Nita", sagði lávarðurinn mjög alvarlega, gleymið þér alveg, að þér eruð annars manns kona?"

"Ég vildi að ég gæti gleymt því", stundi hún upp. "Ó, Allan, hvað þér eruð harður við mig? Hugsið út í, hver fyrst vann hjarta mitt".

Hann svaraði ekki, en stundi þungan.

"Hver vann fyrst hjarta mitt? Það voruð þér, Allan. Þér komuð mér til að elska yður heitar, en

nokkur maður nokkru sinni hefir verið elskaður. Sérhvert orð, er þér sögðuð, var í eyrum mínum sem fegursti hljóðfæraslátttur. Í hvert skifti, sem ég leit yður, varð ég ánægð. Ég get hlegið, þegar enska fólkið talar um ást, — ég vildi óska, að þér bæruð spænskt hjarta í brjósti litla stund, svo þér finduð hvað það er. Þér kenduð mér að elska yður. Þér gerðuð jörðina fegurri en himininn í augum mínum. Þér gerðuð líf mitt að fögrum, ljósum draumi. Þér tókuð hjarta mitt frá mér. Hvaða bönd eru meira bindandi en þetta

"Ég meinti ekkert ilt með því, Nita".

"Það getur vel verið. En það segi ég yður,. Allan, að engin kona hefir meiri rétt til yðar en ég. Ég er fullviss um, að annara kröfur til yðar, hverjar svo sem þær eru, eru einkisverðar hjá mínum kröfum. Þér tilheyrið mér að öllu leyti, vegna ástar þeirrar, sem þér báruð til mín, og þeirrar, sem þér tókuð frá mér. Þér getið aldrei tilheyrt neinni annari konu á þessari jörð".

Lávarðurinn stundi þungan. Svo sagði hann: "Þetta tilheyrir liðna tímanum, Nita. Nútíðin á önnur bönd".

Hún hló skerandi hæðnishlátur. "Þetta er réttlæti karlmannanna!" æpti hún. Þér komið til mín í æsku minni. Þér vinnið hjarta mitt, — ást mína. Í nálægð yðar sýnist mér alt bjart og fagurt, en nú — nú finst mér alt einkisvirði, nema það sem yður heyrir til. Hvaða band er sterkara? Hvaða réttur er heilagri en þetta? Og svo —"

Hún þagnaði. Henni fanst eins og hún væri að kafna.

"Svo eftir að hafa unnið ást mína", hélt hún áfram, "já alt líf mitt. Svo komið þér til mín og talið um önnur bönd. Hvaða kröfur eru réttmætari en mínar. Og ég — ég — ég krefst yðar, Allan,

fyrsta, einasta og seinasta ástin mín, af því — þér elskuðuð mig fyrst".

Hann lagði hönd sína á höfuð hennar, eins og til að sefa geðshræringu hennar.

"Nita", sagði hann blíðlega, "ef þér hefðuð sagt mér alt þetta, er ég heimsótti yður fyrir brúðkaup mitt, hefði ég heldur viljað missa óðul ættar minnar en baka yður þessa sorg".

"Hvernig átti ég að segja yður það? Þér hefðuð átt að segja yður það sjálfum. Haldið þér, að menn geti leikið með hjarta konunnar, til þess svo að kasta því frá sér aftur? Hvernig átti ég að segja yður það, fyrst þér sáuð það ekki? Ég gat ekki beðið yður um, að sleppa öllu mín vegna."

"Ég vildi ekki gera yður óhamingjusama", sagði hann blíðlega.

Og nú hrópaði hún: "Ef þér væruð hamingjusamur, Allan, reyndi ég að sætta mig við eymd mína. Ég myndi reyna að bera hana. Og ég skyldi fara langt í burtu, fela mig einhversstaðar, þar sem enginn findi mig. Já, ég vildi gefa lífið til að vita yður hamingjusaman. En ég er ekki blind, Allan, konan yðar —"

Nú tók lávarðurinn fyrir munn hennar. "Þegið þér, Nita!" Ekki eitt einasta orð um hana hér".

"Þér eruð ekki vitund ánægðari en ég, Allan. Á það alt af að vera svo? Við lifum að eins einu sinni. Eigum við hvorugt að njóta lífsins? Þér eruð giftur, — nú, ég skal ekki nefna hana — þér eruð ekki ánægður, og þér vilduð vera frjáls. — Ég er svo ógæfusöm, að því er ekki vert að lýsa, og ég óska líka að vera frjáls. — Allan!! Við getum bæði orðið frjáls!"

Hún færði sig nær honum, og tár hennar hrundu niður á hendur hans.

"Sem kristinn maður skil ég yður alls ekki, Nita", hrópaði hann.

"Okkur báðum leiðast þau bönd, sem binda okkur, — því þá ekki að rífa þau í sundur? Lögin munu hjálpa okkur. Aðrir hafa gert það sama á undan okkur, og munu gera á eftir okkur. Þau bönd, sem binda okkur, eru ekki annað en þungir hlekkir. Því þá ekki að brjóta þá af sér, Allan? — Því ekki?"

---

## LXI. KAPÍTULI.

Hún var tælandi fögur, þar sem hún lá fyrir fótum hans. Hún horfði í augu hans, og hið mikla svarta hár hennar féll yfir hné hans. Það þurfti í sannleika skylduríkan og sterkan mann til þess að standast tálsnörur hennar.

"Við gerum ekkert ljótt eða óvanalegt", sagði hún. Við gerum einungis okkur sjálf hamingjusöm. Þessi bönd eru voðaþung byrði. Ó, Allan, segið mér þó eina ástæðu fyrir því, að við getum ekki gert það, — ekki rifið þau í sundur".

Hann vissi ekki, hverju svara skyldi. Ástand hans var hræðilegt. Svitinn draup af enni hans og hjarta hans skalf. Hún var svo fögur, blíð og yndisleg!

"Guð hjálpi mér, því ég veit ekki, hvað gera skal", hugsaði hann.

"Þér voruð mjög hamingjusamir meðan þér elskuðuð mig", mælti hún ennfremur. "Þér yrðuð aftur jafnglaður og ánægður og þér voruð þá. Því ekki að slíta þessi andstyggilegu bönd, Allan, því ekki? Segið mér þó eina ástæðu fyrir því".

Köld, hvít hönd var nú lögð á hönd hennar, og þau sáu alt í einu fölt, yndislegt andlit fyrir framan sig. Blíð og viðkvæm rödd, full af meðaumkvun og hrygð sagði: "Leyfið mér, að svara fyrir manninn minn. Ég vil segja yður eina ástæðu af svo fjölda mörgum fyrir því, að þau bönd, sem þér viljið slita, eru sterkari en dauðinn, og eru undir öllum kringumstæðum órjúfandi í þessu lífi".

Þau hrukku bæði við, er þau heyrðu rödd þess, er talaði. Lávarðinum fanst, sem engill hefði komið sér til hjálpar. Hertogainnan var mállaus af gremju og harmi.

Það var fögur en voðaleg mynd, er tunglið hefði getað sýnt inni í lundinum. Lávarðurinn lá aftur á bak í stól, óánægður og órólegur. Hin fagra hertogainna lá á jörðunni við fætur hans, í skrautklæðum sínum. En yfir þeim stóð Lady Aðalheiður, róleg en náföl. Hún hugsaði nú ekkert um harm sinn, en að eins um að hjálpa manni sínum í hans bitrustu neyð.

"Ég skal segja yður", sagði hún blíðlega, "þá stærstu og þýðingarmestu ástæðu fyrir því, að maðurinn minn má ekki uppleysa þau bönd, er tengja okkur saman, þó hann ekki elski mig, eins og þér segið. Það er vegna þess, að guð, skapari og frelsari okkar, hefir sagt, að þau skuli vera heilög til dauðans".

Málrómur hennar hljómaði skært, augu hennar leiftruðu af eldmóði hjartans.

"Menn geta samið lög og reynt að sneiða hjá heilagleik hjónabandsins, en fyrir hinum allsvaldanda drotni gildir það minna en ekkert. Þessi kærleikssnauði heimur, með öllum freistingum og vonzku sinni, líður bráðlega undir lok, og mennirnir verða dæmdir eftir verkum sínum, — hvernig þeir hafa haldið ... sinn. Þess vegna segi ég: Ef eiginmað-

ur minn svíkur eiða sína við mig, þó hann ekki elski mig, þá hittir reiði guðs hans og sál hans tortímist".

Lávarðurinn horfði með hinni mestu aðdáun á konu sína. En höfuð hertogainnunnar beygðist æ meira og meira niður við hvert orð Aðalheiðar.

"Þetta er stærsta ástæðan", hélt Lady Aðalheiður áfram. "Önnur er sú, að þér, hertogainna af Ormont — synduga kona, falska eiginkona, ótryggi vinur, — þér getið ekki, þó ekki sé nema vegna mannorðs yðar, yfirgefið mann yðar, sem hefir ausið yfir yður hinum dýrmætustu gjöfum. Þér getið ekki svívirt hinar gráu hærur hans. Þér megið ekki eyðileggja hjarta hans, er ber fult traust til yðar og alt af hefir verið yður trúr".

Ekkert svar, ekkert einasta hljóð kom af vörum þeim, er áður höfðu talað brennandi ástarorð.

"Hvað hefi ég gert yður?" spurði Lady Aðalheiður rólega, en sárhrygg. "Hvað hefi ég gert yður, að þér skuluð á allar lundir reyna að draga manninn minn burtu frá mér? Hann er það eina, sem mér er nokkurs virði i heiminum, og hann hefði ef til vill lært að elska mig, hefðuð þér ekki komið. Þér standið á milli okkar. Fegurð yðar hefir eyðilagt þá von, sem ég hafði um að vinna hann. Þér hafið hætt mig og hlegið að mér. Þér hafið sært hjarta mitt með háðglósum yðar, af því þér sáuð, að ég elskaði manninn minn, en hann ekki mig. Því mátti ég ekki elska hann? Hann er þó maðurinn minn. Það, sem hefði átt að vekja í brjósti yðar meðaumkvun með mér, hefir þvert á móti gert yður hatursfulla og hefnigjarna".

"Hann elskaði mig fyrst", sagði nú hertogainnan. "Hann elskaði mig fyrst og því tilheyrir hann mér".

"Nei, það er einungis röng ímyndun yðar. Það

eru ekki guðs lög. Maðurinn er skyldur til að elska og virða þá konu, sem hann gerir að eiginkonu sinni. Gleymið þér því, að einasta blessun guðs helgar hjónabandið? Hvað er ástin annað en ástriða? Þér getið ekki neitað þvílíkum lögum. Ég get ekki neitað því, að maðurinn minn hafi elskað yður fyrir eina tíð, og þó mér sé ekki kunnugt um það atriði í æfiferli hans, er ég þó viss um, að hann hefir ávalt haldið virðingu sinni óskertri. Þér verðið að muna eftir, að viðburðirnir hafa skilið ykkur að. Guð gaf mér hann. Hann hefir svarið að elska mig, að vera mér trúr til dauðans. Þér eigið einnig góðan og göfugan eiginmann, sem ber fullkomið traust til yðar. Þér hafið líka í auðsnafni lofað honum ást og trúmensku, og þér þorið ekki, að flekka sál yðar með því, að svíkja og táldraga hann".

Ekkert svar. En hertogainnan stóð upp, sneri sér drembilega að lávarðinum og mælti:

"Þetta kalla ég hræsni! Þér getið hlýtt á það, Caren lávarður, ef yður langar til, ég kæri mig ekkert um, að heyra meira. Konan yðar hefði getað orðið bezti prestur. Hún talar vel, en hræsnistal og heimskuþvaður hefi ég ávalt fyrirlitið".

Hún ætlaði að ganga burtu, en Lady Aðalheiður greip um handlegg hennar.

"Bíðið að eins eitt augnablik, hertogainna. Leyfið mér að tala við yður, eins og systir talar við systir, kona við konu. Lofið mér að biðja yður í guðsnafni, að íhuga hina hræðilegu synd, sem þér viljið fremja. Æ, bara þér sæuð, hve voðalegur óréttur það er, þegar þér reynið að gera manninn minn ótrúan mér. Ef þér sæuð það, þá munduð þér falla á kné og biðja guð um náð og fyrirgefningu. Ég vil gleyma öllu því, er þér hafið gert á móti mér, og alt af hugsa hlýlega til yðar, ef þér hættið við þessi áform yðar og bætið manni yðar upp alla

þá eymd, sem þér annars munduð leiða yfir hann, Í guðsnafni og vegna sjálfrar yðar, lofið mér þessu!"

"Nei, mér kemur ekki til hugar, að lofa því", sagði hertogainnan, og hrinti henni frá sér. "Þér eruð í meira lagi ofstækisfullar, Lady Aðalheiður. Maður yðar hefir og minni skynsemi til að bera, en ég hélt, ef hann fer eftir þessu heimskuþvaðri. Þér skuluð tala um æru og sæmd! Þegar þér hafið lagt niður, að standa á hleri og njósna um mann yðar, — þangað til erum við skildar að skiftum. Þér talið um lög við mig, en ég get sagt yður, að ég hefi min eigin lög, og ætla mér að hafa meðan ég lifi".

"Það va. guð, sem sendi mig hingað," sagði Lady Aðalheiður rólega, "til að hjálpa manninum mínum á freistingarinnar tíma. Líka til að opna augu yðar á elleftu stundu fyrir í sannleika kvenlegum tilfinningum, — helgi hjónabandsins og fleiri dygðum, sem við ættum að kappkosta að ná fullkomnun í".

"Ég hefi alt af fyrirlitið hræsni", sagði hertogainnan, "nú hata ég hana enn þá meira hér eftir. — Caren lávarður, ég óska yður til hamingju með þessa konu, sem heldur njósnum um yður, eltir yður, stendur á hleri, og þvaðrar svo um sæmd og æru. Guð varðveiti mig frá annari eins æru!"

Hún sneri sér við og hló háan hæðnishlátur um leið og hún gekk í burtu.

---

## LXII. KAPÍTULI.

Caren lávarður reis nú á fætur. Honum fanst líkara sem hann dreymdi en hann vekti. Hann sá

konu sína liggja á hnjánum skamt frá sér, með andlitið byrgt í höndum sér. Honum fanst, sem sæi hann engil fyrir framan sig. Honum fanst, sem væri hann óverðugur að snerta við henni, — henni, sem hafði svo hreina, saklausa sál, og sem var gædd jafnmiklum skilningi og vísdómi. Hvað var fallegt andlit í samanburði við vitsmuni hennar, og þó voru orð hennar kölluð hræsni. Hann roðnaði af gremju, þegar hann hugsaði til þess. Það var hvorki svik né hræsni í orðum hennar. Hann hafði aldrei á æfi sinni heyrt jafnfögur og vísdómsfull orð, og hann var fullviss um, að þau voru sannleikur.

Hann stóð kyr og þagði. Það var sem fyriryrði hann sig að yrða á hana. Þó hafði hann ekki sett þetta stefnumót. Hann gekk til hennar og tók hendur hennar hægt frá andliti hennar. Hann varð alveg forviða, að sjá þá hrygð og meðaumkvun, sem skein úr augum hennar. Það var sem væri þar engill guðs að gráta vonzku og syndir mannanna. Það var sem hefði hún séð gegnum skýin, hvernig illska mannanna hryggir hjarta guðs.

"Aðalheiður", sagði hann blíðlega, "hvernig á ég að afsaka mig?"

Hún stundi þungan. "Þú þarft ekki að afsaka þig fyrir mér, Allan. Ég hefi lengi þekt ásetning hertogainnunnar, og vitað, að hún ætlaði að ræna þér frá mér".

"Og ég segi, í guðsnafni, að ég hafði ekki minstu hugmynd um það!"

"Ég trúi þér, Allan. Ég þóttist líka viss um það. Ég þori vel að segja þér, að ég hefi vakað yfir þér, gætt að hverri hreyfingu þinni. Ekki sem njósnari, eins og hún sagði, heldur vegna þess, að ég vildi vera viðstödd, þegar mest lægi á, — standa þá við hlið þér og hjálpa þér. Ertu reiður við mig fyrir það? Látum það vera, að þú ekki elskir mig, en

ég elska þig, Allan, og ég gat ekki vitað, að hún tæki þig frá mér, án þess að reyna að koma í veg fyrir það".

"Ég skil ekki, að hún hefði fengið mig til þess", mælti hann auðmjúkur.

"Ég veit ekki. Hún er falleg, og þú hefir elskað hana. Ég get vel sett mig í þín spor. Þú hefir heldur enga ást í hjarta þínu, er geti verndað þig".

"Það er ég nú ekki viss um", sagði hann, en hún virtist ekkert taka eftir því.

"Ég sá hertogainnuna skrifa bréfið til þín, og ég þóttist vita innihald þess. Mér datt ekkert óheiðarlegt í hug, Allan. Ekki að njósna, heldur að eins að frelsa þig frá skömm og svívirðingu. Ég get svarið þér, Allan, að það er satt, sem ég segi".

"Mér þykir vænt um, að þú komst", sagði lávarðurinn. "Mér þykir meira varið í gott mannorð, en nokkuð annað, og aldrei hefir mér komið til hugar að rjúfa hjónabandseiða mína. Samt kannast ég við, að ég er að eins dauðlegur, brotlegur maður, og ég þakka þér fyrir, að þú hjálpaðir mér út úr því, sem annars hefði getað orðið freistandi fyrir mig.

"Þú álítur mig þá ekki sem njósnara, Allan".

Hann tók um hönd hennar og kysti hana. Hún hrökk við og blóðið þaut fram í kinnar hennar.

"Aðalheiður", mælti hann, "ég virði þig meira en nokkra aðra konu. Móðir mín er góð kona, en ekki datt mér í hug, að til væri jafn göfuglynd og sönn kona og þú ert. Það getur ekki sært þig, þó ég segi þér, að þegar ég gekk að eiga þig, var ég blindur fyrir öllum þínum miklu mannkostum, — en nú verð ég að kannast við þá. Ég virði þig, og er stoltur af að segja, að þú hefir sigrað tilfinningarleysi mitt, og tekið frá mér það, sem ég ætlaði aldrei að gefa þér".

Á meðan hún stóð í stríðinu á móti keppinaut

sínum, sýndi hún hugrekki og kjark. En nú, er hann í fyrsta skifti hvíslaði innilegum orðum að henni og þrýsti hönd hennar að vörum sér, hörfaði hún undan eins og feimin ung stúlka.

"Mér þykir vænt um, að heyra þetta", sagði hún strax. "Já, ég er mjög þakklát fyrir það. Ég vonast ekki eftir meiri hamingju í þessu lífi".

"Aðalheiður", mælti lávarðurinn, "segðu það aftur, sem þú sagðir áðan. Elskar þú mig?"

Hún gleymdi feimni sinni og öllu nema því, að hún elskaði hann.

"Já", sagði hún, "eg elska þig, Allan. Hví skyldi ég ekki kannast við það? Ég elska þig af öllu mínu hjarta og hefi alt af gert það".

Hann lagði handlegginn utan um hana. Hún titraði, og sælufull meðvitund, er hún þá ekki gat gert sér fulla grein fyrir, gagntók hjarta hennar.

"Aðalheiður", mælti hann, "þú hefir unnið sigur. Lofaðu mér að segja þér þetta, ég met sæmd mína mikils, og aldrei hefði ég fallið í þær tálsnörur, sem þú hyggur að ég hafi verið nær fallinn í. Ég vil nú ekki segja meira um það. Ég var þá ungur og fegurð hennar töfraði mig, — en eitt er víst: ég elska hana ekki nú."

Hún tók báðum höndum um handlegg hans, eins og hún vildi halda fast í hann.

"Ég kannast við það, að nokkurn tíma eftir giftingu mína, var ég svo heimskur, að geyma minningu hennar í huga mínum. Ég átti mynd af henni, sem ég hafði skrifað á: "Elskuð, en töpuð 14. júní". Nú þegar ég lít yfir þetta, álít ég það eitthvert það vitlausasta, sem ég á æfi minni hefi gert. Svo þegar ég lærði að þekkja þig, og skildi til fulls mannkosti þína, þá smámsaman hvarf mynd hennar úr huga mér, en þín tók sér bústað í hjarta mínu. Ég get svarið þér þetta. Ég sá, að hún var einskis-

virði í samanburði við þig. Það er satt, að ég hefi kent í brjósti um hana, því ég sá, að hún var ekki ánægð. Ég hefi vorkent henni, en ég elska hana ekki, Aðalheiður, eins og þú víst heldur þó, og mun aldrei elska hana. Töfrarnir brustu fyrir löngu síðan, og koma aldrei aftur".

"En hún elskar þig, Allan".

"Ég veit það ekki. Það er ómögulegt, að færa fram afsökun fyrir hana. Sú ást, er leiðir til vansæmdar, er einskisvirði. Aðalheiður, rektu á flótta úr hjarta þínu allan ótta, alla afbrýðissemi, því ég álít þig öllum konum fremri".

Nú varð þögn. Frá hjarta hennar steig innileg þakklætisbæn til guðs. Svo sagði lávarðurinn og var hrærður mjög.

"Þú ert meiri mannkostum gædd, en ég nokkurn sinni þorði að gera mér von um. Þú ert hreinskilin, góðlynd og trú. — Nei, mín veiku orð megna ekki að lýsa þér til fulls. Sál mín beygir sig í lotningu fyrir þér. — Aðalheiður, ástkæra konan mín — ég elska þig! "

Loksins. — Djúpt andvarp leið frá brjósti hennar.

"Ég elska þig", endurtók hann. "En fyr en ég nýt þeirrar sælu, er ást mín veitir mér, verðum við að skilja til fulls hvort annað. Enginn skuggi má standa á milli okkar".

Hún leit óttaslegin framan í hann.

Það er einn hlutur, sem ég vil fá að vita :: Þú segir, að þú elskir mig, og hafir alt af gert [illegible]. Nú þekki ég þig svo vel, að ég veit, að þú hefir ekki átt mig af því þú elskaðir mig, úr því mér var það þvert um geð".

Hún fölnaði og hendur hennar skulfu í höndum hans.

"Ég þekki þig nú, og ég veit að þú mundir hafa lagt ást þína, já, alt í sölurnar til þess að ég gæti

orðið hamingjusamur. Mundir þú ekki hafa gert það?"

"Já", mælti hún lágt.

"Ráddu nú þessa gátu fyrir mig. Losaðu mig við þennan efa, og Aðalheiður, ég skal tilbiðja þig meira, en nokkur kona hefir nokkru sinni áður verið tilbeðin. Ég skal gera þig hamingjusama, elska þig svo lengi sem lífið endist. Þetta er eini skugginn, sem stendur á milli okkar. Þú ert of góð til þess, að hafa átt mig móti vilja mínum, að eins af ást til mín. Þú hefir haft einhverja aðra ástæðu til þess. Segðu mér hvers vegna það var, — svo skal ég elska þig af öllu mínu hjarta".

Hann tók hana í faðm sér og þrýsti henni fast upp að hjarta sér. Hann laut niður að henni og kysti hana, en hann undraðist, hve varir hennar voru kaldar.

"Segðu mér alt, elskan mín, — segðu mér alt".

Hún þagði. Hann hélt að hin óvænta ástarjátuing hans hefði komið flatt upp á hana, og hún væri ekki búin að ná sér aftur. Hann lagði höfuð hennar að brjósti sér.

"Segðu mér alt, ástkæra Aðalheiður mín, láttu ekkert leyndarmál standa á milli okkar. Þetta er það einasta, sem ég er í efa um. Losaðu mig við þennan efa. Lofaðu sólargeislum kærleikans þó að lokum að skína inn í sálu mína".

"Allan", hvíslaði hún, "getur þú ekki borið traust til mín?"

"Jú, ég ber fult traust til þín. Hvernig gæti ég annað? En ég vil ekki að nein launung ríkji á milli okkar. Ég er viss um, að þú vilt segja mér það, en ég skal vera þolinmóður, elskan mín, — þú þarft ekki að flýta þér".

Hann klappaði á hið gullna hár hennar, sem lá við brjóst hans. Hann kysti á enni og varir hennar.

"Ég hefi lengi elskað þig, Aðalheiður. Og ég veit tæpast, hvenær ég byrjaði að elska þig. En í hvert sinn, er mig langaði til að taka þig í faðm mér, reis þessi efi upp í hjarta mínu: Hvaða ástæðu gat þessi yndislega, blíða kona haft til að eiga mig móti vilja mínum? Nú þakka ég guði fyrir, að þú gerðir það. Líf mitt liggur nú opið fyrir mér, fult af sólskini og sælu. En þetta verð ég að fá að vita, Aðalheiður, og þú verður að segja mér það".

---

## LXIII. KAPÍTULI.

Það varð löng þögn. Hann skildi ekkert í, af hverju það kom, því honum kom ekki til hugar, að hún vildi ekki segja honum það, sem hann bað hana um. Hann hélt bara, að hún væri feimin og óttaslegin, og hann reyndi að tala kjark í hana.

"Oftar en hundrað sinnum", sagði hann, "hefir mig langað til að taka þig í faðm mér og segja þér, hve heitt ég elskaði þig. En þá reis ávalt þessi svarti skuggi upp á milli okkar. En nú, er þú hefir unnið sigur á tilfinningarleysi mínu og breytt því í hreina, heita ást, nú þegar ég gef þér hjarta mitt, — þá getur þú ekki neitað mér um bæn mína".

Hún reyndi sem bezt hún gat, að herða sig upp, og lagði svo hönd sína á herðar hans.

"Kæri Allan, treystu mér, og láttu þennan svarta skugga á milli okkar hverfa að eilífu".

Hann hafði ekki hugmynd um, hve alvarlega hún meinti þetta, eða hve miklar kvalir hún leið. Andardráttur hennar var órólegur og svitinn draup af enni hennar.

"Nei," sagði hann eftir nokkra umhugsun. "Það er ómögulegt, að slá stryki yfir það, þó ég vildi nú lofa að gleyma því, en gæti ég ekki efnt það loforð. Þú sérð það sjálf, elsku Aðalheiður mín, að þess betur, sem ég þekki þig, því meira hugsa ég um það, hvers vegna þú breyttir þannig í jafn þýðingarmiklu atriði lífs þíns. Skilur þú ekki þetta, ástkæra Aðalheiður mín?"

"Jú", mælti hún blíðlega, "ég skil það vel".

"Ég hefi alt af álitið", mælti hann ennfremur, "að maður og kona, sem vígð hafa verið saman, ættu að bera fult traust hvort til annars, segja hvort öðru öll sín leyndarmál og ráðfæra sig hvort við annað. Ég vil segja þér alla atburði lífs míns, hvort sem þeir eru heimskulegir eða ekki. En í staðinn verður þú að reka burtu þennan skugga, er skilur okkur að. Og ég er viss um, að þú vilt gera það".

"Allan", mælti hún blíðlega, "setjum svo, að ég búi yfir leyndarmáli, sem snertir þig, og að ég hafi enga heimild til að opinbera það. Hvað þá —?"

"Hvað svo?" sagði hann. "Ég vil leggja mig í líma, til að ávinna mér tiltrú þína, og mér skyldi með tímanum takast það".

Varir hennar skulfu, en hún reyndi samt til að halda áfram:

"Hugsaðu þér, Allan, að ég kannaðist við, að hér væri um leyndarmál að ræða, en ég bæði þig um, að hlífa mér við að segja þér frá því, af því ég hefði lofað, að opinbera það aldrei? Hvað svo—?"

"Ég get ekki trúað því", mælti hann. Það leyndarmál, sem er orsök í því, að þú áttir mig á móti vilja mínum, snertir mig eins vel og þig, býst ég við. Ég vil reyna ást þína með þessu, Aðalheiður. Ég bið þig um, að segja mér þetta, og í staðinn lofa ég þér að elska þig svo lengi sem ég lifi.

Segðu mér alt, og nýtt líf rennur upp fyrir okkur. Við skulum ferðast til útlanda í nokkra mánuði, — látum það verða brúðkaupsferðina okkar. Framtíðin skal bæta þér upp liðna tímann. Ó, losaðu mig við þennan efa, Aðalheiður, og ég skal gera alt, sem mér er unt til að gera þig hamingjusama!"

"Elskarðu mig ekki án þess?" hrópaði hún. "Ég hefi elskað þig svo heitt og verið þér trú. Leyndarmálið veitir þér enga ánægju, og ég hefi svarið, að segja aldrei frá því".

Hann slepti henni úr faðmi sér og svipur hans varð harðlegur mjög.

"Neitarðu að segja mér það?"

"Ég má til", mælti hún grátandi.

"Þá skaltu ekki reiða þig á mig, Aðalheiður. Ég hefi boðið þér ást mína í staðinn fyrir leyndarmál þitt, en þú vilt ekki skifta".

"Ég get það ekki!" hrópaði hún í örvæntingu. — "Ég get það ekki! Ó, guð, hjálpaðu mér!"

"Þú ímyndar þér, að ég sætti mig við það, að þú berir annað eins leyndarmál og þetta í hjarta þínu, án þess ég fái að þekkja nokkuð til þess. Nei, ég get ekki sætt mig við það, Aðalheiður. Ég þekki vel krafta og einnig veikleika mína, og ég veit, að ég gæti ekki þolað það. Nú, en þetta getur ekki verið neitt stórvægilegt. Það er ómögulegt annað, en þú segir mér það".

Hún stundi svo þungan, að hann gat ekki annað en kent í brjósti um hana.

"Ég get ekki hugsað til, að lifa hinu sama lífi framvegis, sem ég hefi lifað hingað til", mælti hann ákaft, — "lifa aðskild hvort frá öðru, gleðisnauðu lífi! Mér hefir um langan tíma fundist það óþolandi. Ó, Aðalheiður, taktu ekki þennan ljósgeisla frá mér, þegar ég er svo lengi búinn að vera í myrkrinu!"

Hún stóð föl og hrygg fyrir framan hann. Það, sem hún svo lengi hafði þráð, var nú fengið. Maður henna[illegible] stóð nú hjá henni og bað um hjarta hennar. Hann hafði kyst hana, hvíslað að henni ástarorðum, lofað henni ást og umhyggju [illegible]ni. Hún hafði þó aldrei þorað að vonast eftir [illegible] Og nú, — nú varð hún að neita öllu þessu! Aldrei gat hún gengið inn á skilmála þá, er hann setti. — Síðar meir, þegar hún hugsaði til þessarar stundar, fanst henni sem hún hefði þá liðið meira en dauðans kvalir.

"Það er nú orðið framorðið, Aðalheiður", sagði lávarðurinn blíðlega. "Þú hefir sýnt mér þolinmæði og ég vil borga þér í sömu mynt. Ég kæri mig ekkert um svar núna. En ef þú ekki uppfyllir bæn mína, er ég viss um, að eitthvað það ríkir á milli okkar, sem ekki er hægt að fjarlægja, og við verðum þá að lifa sama lífi áfram, sem við höfum lifað, — eymdarfullu lífi, aðskilin hvort frá öðru. En ég vil gefa þér umhu[illegible]nartíma, og að nokkrum dögum liðnum segir [illegible]r, hvað þú ætlar að gera. Komdu nú, það er or[illegible]iðið, og þú ert víst þreytt".

Hann kysti hana innilega, og hún þrýsti sér fast upp að honum.

"Það er hart", sagði hún, "ég þoli það ekki, — það er of hræðilegt".

"Mundu eftir, elskulega Aðalheiður mín, að eitt einasta orð af vörum þínum, hvenær sem er, ryður á burtu því, sem stendur á milli okkar".

Hún tók um hönd hans og kysti hana ákaft, og vætti hana með tárum sínum. Hún sagði eitthvað í hálfum hljóðum, sem hann skildi ekki. Og svo gengu þau hægt heim á leið. Þegar þau komu inn í ganginn, sá hann hve föl og veikluleg hún var.

"Þú ert þreytt, Aðalheiður. Hvar er þjónustu-

stúlkan þín? Það verður að hjálpa þér. Þú lítur helzt út fyrir að vera veik".

Hún leit raunalega framan í hann, en ásetningur hans stóð fastur. Hann ætlaði sér ekki að láta undan.

Lady Aðalheiður gekk þunglamalega og seint til herbergis síns. Þjónustustúlka hennar gekk á eftir henni með styrkjandi dropa, sem lávarðurinn bjó út handa henni. Aðalheiður lét svo stúlkuna fara í burtu og gaf svo sorg sinni lausan taum. Hún kraup niður og grét nú sárara en nokkru sinni áður.

"Ég þoli það ekki!" hrópaði hún. "Það er of hart að bera, — of hræðilegt! Ég hefi ekkert brotið. Hví á ég að líða svona óbærilega fyrir annara syndir?"

Hún grét þangað til að hún var uppgefin.

"Nú er alt búið. Það getur verið, að það hafi verið rangt af mér, að elska hann svona heitt, og langa svona ósegjanlega mikið eftir ást hans. Nú á ég hjarta hans, en hvað stoðar það? Ég get aldrei sagt honum það, sem hann vill fá að vita. Ég verð að halda eið minn, þó það kosti mig sjálft lífið. En mér þykir svo vænt um, að hann hefir kyst mig og haldið mér í faðmi sér. Það er í fyrsta og verður í síðasta sinni. Guð hjálpi mér og sendi mér styrk til að taka því, sem að höndum ber!"

---

## LXIV. KAPÍTULI

Lady Aðalheiður var orðin magnþrota af gráti. Hún hafði barist svo vel og lengi, en svo er hún að lokum gerði sér von um sigur, þá urðu vonir hennar að engu.

"Hvílir þá einhver bölvun yfir mér?" hugsaði hún, "fyrst ég verð að líða svona mikið? Þegar einnig koma í ljós, hve mikið ég hefi liðið fyrir annalt kemur í ljós fyrir hástóli hins æðsta, mun það ara syndir".

Hún háttaði og lagðist út af. Hún sofnaði ekki en féll í nokkurskonar þreytudvala. Það var engu líkara, en að hún væri liðið lík.

Alt í einu hrökk hún upp við afskapleg hljóð, — svo voðaleg, að henni fanst blóðið stansa í æðum sér og hjartað hætta að slá. Hún gat ekki gert sér fulla grein fyrir, hvort það voru mensk hljóð eða ekki. Svo varð stutt þögn, og svo heyrðust aftur hræðileg vein, ennþá hærri en í fyrra skiftið.

Lady Aðalheiður hljóp til herbergisdyranna frá sér numin af hræðslu. Hún heyrði hratt fótatak í ganginum, og við og við heyrðust þessi hræðilegu hljóð. Nú sá hún þjónustustúlkuna hlaupa eftir ganginum.

"Hvað er að?" kallaði hún til hennar.

"Ég veit það ekki, Lady mín. En það hefir eitthvað komið fyrir í herbergi hertogaïnnunnar".

Án þess að spyrja að fleiru, flýtti Aðalheiður sér þangað. Við dyrnar stóðu margir þjónar, sem horfðu í ráðaleysi hver á annan. Enginn þorði að fara inn.

Hvað gengur á?" spurði Lady Aðalheiður.

"Við vitum það ekki. Við getum ekki komist inn."

Aðalheiður tók í lásinn, en dyrnar voru aflæstar. Aftur heyrðist þetta voðalega vein út úr herberginu.

"Hvar er Caren lávarður?" spurði hún. En í sama bili kom hann og Clavering hershöfðingi með honum.

"Hvað gengur á?" spurði lávarðurinn.

"Við vitum það ekki", sagði kona hans, "við getum ekki komist inn."

"Farið þið frá", sagði lávarðurinn við þjónana. "Hershöfðingi, við skulum ganga inn tveir saman. Aðalheiður, ég er hræddur um, að hér sé ekki hepplegur staður fyrir þig".

Lávarðurinn gekk á hurðina unz hún gaf eftir og opnaðist. Það logaði á náttlampa í herberginu, er var mjög ríkulega skreytt. Alt var í óreglu, gimsteinar og föt lágu hvað innan um annað. Við rúmið stóð hertogainnan. Hún var í sama búningi og um kveldið. Andlit hennar var öskugrátt af hræðslu og það var sem augu hennar ætluðu út úr höfðinu. Hún tók ekkert eftir, að komið var inn í herbergið, og enn einu sinni rak hún upp þetta voðalega org, sem smaug í gegn um merg og bein. Lávarðurinn gekk til hennar og lagði hönd sín á herðar henni. Hún sneri sér að honum og benti á r[illegible].

"Lítið á!" æpti hún. "Sjáið dóm[illegible] [illegible]an! Sjáið hve refsingin hefir hitt mig!"

Lávarðurinn leit til rúmsins og sá, að þar l[illegible] hertoginn af Ormont d a u ð u r.

"Sjáið", mælti hún aftur, "þetta er refsingin, — dómur minn!"

Lávarðurinn tók á brjósti hins dauða manns.

"Hann er dáinn", mælti hann, "og það er nokkuð síðan hann dó".

"Hefi ég drepið hann?" spurði hún frávita af hræðslu.

"Nei, þér hafið ekki drepið hann. Því dettur yður það í hug?" sagði Lady Aðalheiður.

Þær höfðu verið svarnir óvinir fyrir að eins fáum stundum síðan, — hatað hvor aðra. En nú var það gleymt. Lady Aðalheiður lagði handlegginn utan um hertogainnuna og lagði höfuð hennar að

svo oft höfðu farið hæðnis og fyrirlitningarorðum um hana. Hún klappaði henni eins og hún væri lítið barn.

"Þetta hefir verið voðasjón fyrir yður. Það er ekki að furða, þó þér séuð hræddar", sagði hún.

Hún reyndi að hugga hana, og henni tókst að sefa hina ofsalegu hræðslu hertogainnunnar. Nú sneri Caren lávarður sér að henni.

"Nita", sagði hann, "treystið þér yður til að segja frá því, sem við hefir borið?"

"Ég veit ekki. Ég kom hingað inn fyrir þremur stundum síðan, og þá talaði maðurinn minn við mig, og spurði hvar ég hefði verið, en ég svaraði honum nokkuð afundin. Ég var ekkert syfjuð og tók því bók og fór að lesa í henni. Við töluðum ekki meira saman. En rétt á eftir heyrði ég þungar stunur. — Ég skifti mér ekkert af því, en hélt áfram að lesa hérum bil í 3 klukkutíma. Þá fanst mér alt í einu eins konar hræðsla gagntaka mig. Ég heyrði ekkert hljóð, enga minstu hreyfingu. Ó, það var svo hræðilegt, — svo óttalegt. Svo gekk ég að rúminu, augu hans stóðu opin og sýndust að ásaka mig. Það er dómur minn, — já, dómur minn!"

Hún rak upp hátt hljóð, reif sig úr fangi Aðalheiðar og fleygði sér á gólfið.

Sorgin hefir hálftruflað hana", sagði hershöfðinginn. "Hvernig ætti dauði manns hennar að vera hegning á hana? Þér getið ekkert hjálpað hertoganum framar, Caren lávarður. Það bezta, sem þér getið gert, er að senda eftir lækni".

Lady Caren hafði vaknað við hávaðann og gauraganginn og kom nú inn.

"Er það mögulegt, að hertoginn sé dáinn?" spurði hún. En í því sá hún hertogainnuna og þurfti ekki annað svar upp á spurningu sína.

"Hversu hræðilegt er ekki þetta!" sagði hún,

Hertoginn hefir dáið í sama herbergi og kona hans sat í, án þess hún hefði minstu hugmynd um það. Úr hverju dó hann?"

"Það hlýtur að hafa gengið að honum hjartasjúkdómur", sagði kafteinn Randolph. Þó leit ekki út fyrir, að hann gengi með hann".

Það leið ekki á löngu þar til læknar komu. Þeir gátu náttúrlega ekkert gert, sögðu bara að hertoginn hefði dáið fyrir tveimur tímum síðan, að öllum líkindum þegar konan heyrði stunur hans.

Einn læknanna horfði vandlega á andlit hins framliðna. "Hann hefir ekki liðið miklar líkamlegar kvalir", sagði hann, "en þó er ég viss um, að síðustu stundir hans hafa verið mjög kvalafullar. Andlit dáins manns er vanalega blítt og rólegt, en hjarta þessa manns hefir liðið mjög, þar til dauðinn gerði enda á lífi hans".

Læknarnir snéru sér nú að hertogainnunni, en gátu ekkert hjálpað henni. Hún var viti sínu fjær af hræðslu og samvizkubiti, en við því gefast svo fá meðul.

En undarlegast af öllu var, að nú þrýsti hún sér fast upp að Lady Aðalheiði. "Verið hjá mér", æpti hún. "Sleppið ekki hönd minni. Þér eruð svo góðar, — verið hjá mér og verndið mig fyrir reiði guðs!"

Alla nóttina sat Lady Aðalheiður hjá henni og reyndi að hugga hana, en árangurslaust. Hin ógæfusama kona, sem hafði setið þegjandi og í illu skapi meðan maður hennar var að deyja, gat hvorki fundið huggun, hvíld né frið.

## LXV. KAPÍTULI.

Lát hertogans fréttist nú um alt. Hann hafði verið hátt settur í mannfélaginu og einnig mjög vinsæll maður. Hertogainnunni leið mjög illa og enginn fékk aðgang að herbergi hennar, nema þjónustustúlka hennar og Lady Aðalheiður.

Lady Aðalheiður reyndi með öllu móti að hug-

Veikindi hennar stöfuðu mest af hræðslu og ótta.
hreysta hana, en það kom fyrir ekki. Fyrir hugskotssjónum hennar sveif alt af þessi sjón, er hún kom að rúminu og sá, að hann var dáinn.

"Getur ekki skeð", sagði hún aftur og aftur, "að ef ég hefði komið til hans, þegar ég heyrði andvörp hans, að ég hefði þá getað frelsað líf hans?"

Dag og nótt vakti þessi spurning fyrir henni: Hvað var það, sem dró hann til dauða?

Margir læknar komu að skoða líkið, og eftir langt samtal sín á milli kváðust þeir ekki geta gefið aðra orsök fyrir dauða hans en að guð hefði tekið hann til sín.

neinum hjartasjúkdómi, — svo þeim var ómögulegt,

Hann hafði ekki tekið inn eitur og leið ekki af að gefa öðruvísi úrskurð. En alt sitt líf kvaldist hertogainnan af þeirri hugsun, að hún myndi hafa getað frelsað líf hans, ef hún hefði komið til hans, þegar hún heyrði hann stynja. Hún vissi, hve innilega hann elskaði hana, hve alt hans líf tilheyrði henni, og svo — er hann sá, að hún ekki elskaði hann — þá brast hjarta hans.

Aldrei gat hún gleymt augnaráði hans, þegar hún laug því, að hún elskaði hann, — hvílík örvænt-

ing og sorg skein ekki úr augum hans. Hún gat heldur ekki gleymt, hve ónærgætin hún var við hann nóttina, sem hann dó. Þegar hún kom inn í herbergið, hafði hann risið upp í rúminu og spurt hana hvar hún hefði verið.

"Ég sé ekki, að ég þurfi að standa reikningsskap af hverju augnabliki lífs míns", hafði hún sagt.

"Ég er ekki vel heilbrigður", sagði hann, "og þá finst manni tíminn lengi að líða".

Hún hafði ekki svarað þessu neinu, en tekið bók í hönd og látist fara að lesa í henni, en var þó alt af að brjóta heilann um, hvernig hún gæti bezt hefnt sín á Lady Aðalheiði. Hún vissi ekki, hvað tímanum leið, svo heyrði hún langa, þunga stunu, en sneri sér ekki við til að vita, hvort maður hennar þyrfti nokkurs með. Hún sat enn langa stund, þangað til hún fann til einhverrar óhægðar, og til að friða rósemi sína, nefndi hún nafn manns síns.

"Gervase!" Ekkert svar. Hún hélt hann svæfi, og hélt áfram að hugsa. Hún ætlaði sér að yfirgefa hertogann, vinna Caren lávarð, hve erfitt sem það yrði, en sérstaklega ætlaði hún að hefna sín á Lady Aðalheiði.

Svo kom aftur þessi undarlega órósemi yfir hana. Hún gekk að rúminu og sá strax að hann var dáinn. Voðaleg hræðsla gagntók hana. Á meðan hún var að hugsa um að yfirgefa hann, leiða yfir hann sorg og smán, barðist hann við dauðann. Henni fanst sem dauði hans væri sér refsing fyrir synd sína, að reiði guðs, sem hún svo oft hafði hæðst að, hefði fallið yfir sig. Ó, hvað hún tók út, þegar hún stóð við lík manns síns, — því verður ekki með orðum lýst! Hún fann, að ásökun samvizkunnar mundi fylgja sér til dauðans.

Einhvern dag sagði hún við Lady Aðalheiði: "Illgirni og hugleysi fylgist ævinlega að. Ég held,

að ég hafi verið viti mínu fjær. Þegar ég hugsa til hins síðasta tímabils lífs míns, fyrirverð ég mig fyrir bæði sjálfri mér og öðrum".

Hin sterka, syndsamlega ást, er ríkt hafði í hjarta hennar, var alt í einu horfin. Þegar hún leit mann sinn liðinn hina voðalegu nótt, slokknaði ástin út og kom aldrei aftur.

Þegar maður hennar var dáinn, saknaði hún hans. Hún saknaði umhyggju og ástar hans. Hann hafði ávalt getað sér til vilja hennar og uppfylt hverja ósk hennar. Nú fann hún það fyrst, en nú var það of seint. En hún játaði það, að aldrei mundi nokkur maður elska sig eins heitt og hann hafði gert eða bera jafnmikla umhyggju fyrir sér.

Þegar búið var að ganga frá líkinu, kom erfingi hertogans, til þess að sýna honum hin síðustu virðingarmerki. Með mikilli viðhöfn var líkið flutt til hins gamla höfðingjaseturs á Skotlandi, þar sem allir forfeður hertogans hvíldu, og jarðsett þar. Margir stórhöfðingjar voru staddir við jarðarförina, og svo var erfðaskráin lesin upp.

Hann hafði ánafnað ekkju sinni miklar árlegar tekjur og skrautlegt hús í Adleton í Kent. En hvers virði var það fyrir hana, sem var orðin vön við að ausa peningum út á báðar hliðar. Hún, sem hafði ráðið yfir hálfu greifadæmi, mörgum fögrum búgörðum á Skotlandi og skrautlegri höll í London.

Ættar gimsteinarnir, vagnarnir með hertoga kórónunni, þjónustufólkið, — alt gekk úr eigu hennar hennar til hins nýja hertoga.

Hún treysti sér ekki til að yfirgefa Brooklands, þegar líkfylgdin fór þaðan. Lady Aðalheiður vildi heldur ekki, að hún færi meðan hún var svona veik. Hún yfirgaf ekki einu sinni herbergi sitt og enginn fékk að koma til hennar, nema Lady Aðalheiður.

Lady Caren og lávarðurinn vildu koma og sjá hana, en hún vildi ekki veita þeim móttöku.

"Þegar ég treysti mér til að fara, fer ég til Adleton og verð þar, — loka mig út úr heiminum".

Og hún lét ekki lenda við orðin tóm. Sama morguninn, sem hún fór, lét lávarðurinn spyrja hana, hvort hann lengi að kveðja hana, en hún neitaði því.

"Það getur skeð, að ég nái mér með tímanum", sagði hún við Lady Aðalheiði. "Ef ég losna við þessa hræðslu og taugar mínar styrkjast, þá skal ég aftur umgangast fólk, en þangað til vil ég ekki sjá neinn, sem þekkir mig".

Lady Aðalheiður reyndi á allar lundir til að tala kjark í hana, en ekkert fékk hana til að breyta áformi sínu.

"Ég vil ekki fullyrða, að ég sé betri en ég var", sagði hún. "Ég held ég sé að eðlisfari ekki góð manneskja. Í þeim viðburðum, sem hér hafa skeð, sé ég hegningu fyrir syndir mínar. Ég er ekki góð kona, og ég sé ekkert eftir hertoganum. Ég elskaði hann ekki, en hann hefði átt skilið, að eiga betri konu en mig. Ég er viss um, að ég get aldrei nokkurntíma gleymt því, sem nú hefir komið fyrir mig. Taugar mínar eru allar í ólagi, og það er furða, að hár mitt skuli ekki vera orðið hvítt".

Hún fór frá Brooklands, án þess að kveðja nokkurn mann. Þegar hún ætlaði að fara að stíga upp í vagninn, urðu tilfinningar hennar henni yfirsterkari. Hún lagði hendur um háls Aðalheiði og grét sáran.

"Ég hataði yður og reyndi alt, sem ég gat, til að tæla mann yðar frá yður, en þér hafið safnað glóðum elds yfir höfuð mér og verið mér góðar í raunum mínum. Ég þakka yður fyrir það".

Þannig skildu þessar konur, sem höfðu verið svo bitrir óvinir. Lady Aðalheiður gleymdi og fyrirgaf

hinni ógæfusömu konu allan þann órétt, er hún hafði gert henni. Hún hjálpaði henni og hughreysti hana þangað til vagninn fór af stað.

---

## LXVI. KAPÍTULI.

Eftir þennan sorglega atburð, fóru sumir gestanna í burtu frá Brooklands. Lady Kan og Alísa urðu eftir, sömuleiðis kafteinn Randolph. Reyndi hann eftir því sem hann gat, að skemta lávarðinum, sem tók sér alt þetta mjög nærri. Hershöfðinginn tók sér einnig mjög nærri dauða hertogans. Öllum á Brooklands fanst meira og minna, sem einhver óhamingja hefði fallið yfir þá.

Enginn fann þó meir til þess, en Caren lávarður. Kveldið, sem hertogainnan fékk honum bréfið, hafði hann strax fengið sterka óbeit á þessu stefnumóti. Það var áneiðanlegt, þó hann vildi varla kannast við það, að með hverjum degi óx ást hans til konu hans. Mótsetningin á milli æfintýrafýknar hertogainnunnar og hins hreina, göfga hugsunarháttar konu hans, gerði æ meiri og meiri áhrif á hann. Honum var mjög á móti skapi, að mæta hertogainnunni einhversstaðar einslega, en hún hafði þrábeðið hann svo, að hann að lokum lofaði að koma.

"Þetta skal verða í síðasta sinni", sagði hann við sjálfan sig aftur og aftur. "Ég ætla að segja henni það í eitt skifti fyrir öll, að þetta getur ekki gengið svona".

Hann var mjög óánægður með sjálfan sig yfir að hafa lofað henni að hitta hana, en ákvað samt, að segja henni hreinskilnislega meiningu sína.

En ásetningur hans varð að engu. Hann hafði ekki búist við tárum hennar, ekki búist við hinni miklu sorg og örvænting hennar. Hún vitnaði til réttlætis hans og meðaumkvunar. Hún hafði ruglað svo sansa hans, að hann vissi varla sitt rjúkandi ráð, og aldrei hafði hann þakkað guði eins innilega fyrir nokkurn hlut, eins og það, er kona hans kom og hjálpaði honum. Aldrei hafði hann dáðst eins að henni, eins og þá, er hann heyrði hana tala. Hann skildi þá til fulls hina hreinu og göfugu sál hennar, og hann hugsaði þá með sér, að aldrei yrði hann gæ-lægur fyr en hann hefði unnið ást hennar, — fyr en hann hefði bætt allan þann kulda, er hann fyr meir sýndi henni. Látið hana gleyma öllum þeim bitru orðum, sem hann hafði sagt við hana. Hann fann, að ást hennar myndi varpa gleði og ánægju yfir líf hans. Að hann gat ekki öðlast meiri sælu í lífinu en þá, að lifa með henni í ást og einlægni.

Hann þekti svo vel hið blíða lundarlag hennar, að hann þóttist vita, að hún mundi fúslega fyrirgefa sér. Hann var í engum efa um, að uppfrá þeirri stundu yrðu þau bæði glöð og hamingjusöm.

En það var samt ennþá eitt, sem skildi þau að, ekkert nýtt, heldur gamla, leiðinlega spursmálið: Hversvegna átti hún hann á móti vilja hans? Hann fann nú, að þessi spurning heimtaði alvarlegt svar, því hann þóttist fullviss um, að hún hefði alvarlega og gilda ástæðu fyrir því.

Hann varð að komast eftir þessu. Það var ekki að eins af tómri forvitni, og sárlangaði hann þó að fá vitneskju í þessu atriði, heldur fann hann til þess, að á meðan hann þekti ekkert inn í þetta leyndarmál, myndi ekkert innilegt samband tengjast á milli þeirra. Nú datt honum í hug, að þetta myndi að eins vera leyndarmál konu hans, en móðir hans og

hershöfðinginn myndu ekkert vita um það, eins og hann hafði haldið í fyrstu. En hvað gat það verið?

Honum kom ekki til hugar, að efast um, að hún myndi segja honum það, hvenær sem hann spyrði hana um það. Hann hafði gefið henni umhugsunartíma, og hann beið þolinmóður eftir svari hennar. Hann bæði undraðist og dáðist að, hversu konu hans hafði farist vel við hertogainnuna, og samtímis óx ást hans til hennar, og hann langaði til þess, að alt yrði sem fyrst klappað og klárt á milli þeirra.

"Hún er miklu fremur engill en kona", sagði hann einn morgun við sjálfan sig. "Mér finst ég alls ekki vera henni samboðinn. Aldrei hefði hún breytt eins og ég gerði. Hún er miklu betri en ég er".

Hann lét það bíða, að nefna þetta við hana, þangað til hertogainnan var farin þaðan, en hann veitti konu sinni nákvæma eftirtekt, og hann gat ekki skilið í þeirri sorg, sem sýndist að hvíla yfir henni. Hún var bæði orðin föl og mögur, öll framkoma hennar bar vott um þreytu og sorg. Hún var næstum magnlaus eftir alla þá baráttu, sem hún hafði átt í. Hann skildi ekkert í þessu. Hann hafði vonað, að nú, þegar hún vissi að hann elskaði hana, myndi hún verða glöð og ánægð, en honum fanst hún aldrei hafa verið eins þreytt og áhyggjufull eins og nú.

Hann tók einnig eftir því, að hún forðaðist hann. Oftar en einu sinni hafði hann ætlað að ná tali af henni, en hún hafði þá alt af borið einhverju við. Í fyrstunni hafði hann brosað og haldið það stafa af feimni, en svo sá hann að hún hafði þjáðst af megnri sorg.

Nú var meira en vika síðan hertogainnan fór þaðan, og einu sinni seinni part dags, er Caren lá-

varður gekk í hægðum sínum skamt frá Brooklands, sá hann konu sína ganga inn í skóginn.

Nú gat hann talað við hana. Nú gat hún ekki sagt, að Lady Caren biði eftir sér, eða hún væri búin að lofa Alísu að ganga með henni. Hann hugsaði sér, að láta þetta tækifæri ekki ónotað og gekk hægt á eftir henni. Hún sat á mosavöxnum stein við læk, er rann þar.

"Minn fagri, hræddi fugl, nú skaltu ekki fljúga frá mér", hugsaði hann. Hann kom hægt við handlegg hennar og nefndi nafn hennar.

"Aðalheiður, elskan mín, "loksins hefi ég náð þér, — nú skaltu ekki sleppa frá mér".

Hann hafði hugsað, að hún mundi roðna og líta brosandi framan í sig, en það brást. Hann varð næstum hræddur, því þegar hún sá hann, varð hún náföl af hræðslu, og rak upp lágt hljóð.

"Ég vona, að ég hafi ekki gert þér bilt við, Aðalheiður?" sagði hann blíðlega.

"Nei, — það er að segja, ekki mikið", svaraði hún.

"Það lítur út fyrir, að þér þyki ekki vænt um að sjá mig", sagði hann bæði forviða og gramur yfir því, hvernig hún tók á móti honum.

Hún svaraði engu og hann kendi í brjósti um hana, er hann sá, hversu hún skalf. Hann settist við hlið hennar og lagði handlegginn utan um hana.

"Aðalheiður, elsku konan mín. Ég er kominn hingað til að fá svar. Ég kom til að bjóða þér alla þá ást og umhyggjusemi, er maður getur boðið konu sinni, en í staðinn vil ég fá að vita leyndarmál þitt. Þú neitar mér ekki um það. Ég gaf þér umhugsunartíma, og þú hlýtur að vera búin að hugsa þig um. Þú ert of góð kona til að vilja halda nokkru leyndu fyrir mér".

Hún leit til hannins, eins og hún bæði um hjálp

þaðan. Hún þrýsti höndunum að brjósti sér og leit því næst djarflega framan í hann.

"Allan, þú mátt halda um mig hvað sem þú vilt, hegna mér eins og þú vilt, — ég get ekki borið hönd fyrir höfuð mér. Ég get ekki opinberað leyndarmál mitt, jafnvel þó að hegningin fyrir það yrði dauðinn eða skilnaður við þig".

Hann stóð uppréttur fyrir framan hana. "Er þetta meining þín Aðalheiður? Neitarðu að segja mér leyndarmálið?"

"Já, það geri ég og verð að gera það, þó ég gæti frelsað lífið með því. Ég get ekki gengið á bak orða minna".

---

## LXVII. KAPÍTULI.

Caren lávarður var alveg forviða. Það var ekki að eins það, að hann fékk ekki svalað forvitni sinni, heldur sá hann, að hér var um mikilsvarðandi leyndarmál að ræða, sem hann mátti ekki fá að vita um. Hvað gat það verið úr því konan hans, sem elskaði hann svo innilega, vildi heldur skilja við hann, en segja honum það. Það gat ekki verið neitt viðvíkjandi honum. Líf hans var eins og opin bók, sem allir gátu lesið. Það hlaut því að vera eitthvað henni sjálfri viðvíkjandi, eitthvað er snerti foreldra eða fæðingu hennar.

Nú fór hann alt í einu að hugsa um, hve lítið hann vissi um ætt hennar. Hann hafði þegar hann var drengur, heyrt að hún væri dóttir einhvers bezta vinar föður hans, og hann hafði trúað því, og svo ekkert meira um það hugsað. Þessi vinur föður hans hafði dáið utanlands og á banasænginni beðið

Canen lávarð fyrir dóttur sína. Líka hafði hann heyrt talað um, að hún ætti töluverðar eignir, er faðir hans hafði einnig umsjón yfir. Nú, þegar fór að hugsa um það, mundi hann eftir, að hann hafði aldrei heyrt neitt talað um þennan Carlton, föður Aðalheiðar. Hver var hann? Var hann í hernum? Hvernig höfðu þeir kynst, Carlton og faðir hans? Demont lávarður hafði þó næstum aldrei farið burtu frá Brooklands, sem honum þótti svo vænt um. Canen lávarður furðaði sig á, að hann hafði aldrei hugsað um þetta fyr.

Hann var í stökustu vandræðum. Setjum svo, að einhver annmarki væri nú á fæðingu konu hans? Átti hann að elska hana minna fyrir það? Nei, hann vissi að hún elskaði hann, og í henni hafði hann fundið alla þá kosti sameinaða, sem konuna prýða. Aldrei á æfi sinni hafði hann hitt fyrir nokkura konu, sem jafnaðist við hana. Hún var búin að hertaka hjarta hans. Honum stóð á sama um fæðingu hennar, en því fyr, sem hann komst að hinu sanna í þessu máli, því betra var það. Því fyr, sem hann gat tekið hana í faðm sér og sagt: "Elskan mín, ég veit alt, og ég elska þig engu minna fyrir það", — þess betra fyrir þau bæði.

Hann langaði svo mjög eftir nærveru hennar. Hún hafði með blíðu, auðmýkt og þolinmæði borið alla þá niðurlægingu og mótlæti, sem hún hafði orðið að þola. Hann hafði ekki haft minstu hugmynd um, hve heitt hann elskaði hana, fyr en atburðurinn í lundinum opnaði augu hans. Þá fyrst skildi hann þær tilfinningar, er hann bar til hennar, og fann að þessi fagra, yndislega stúlka, sem að eins að nafni til var konan hans, sem hafði búið undir hans þaki í niðurlægingu og einskis ráðandi, — hún hafði unnið hans dýpstu og heitustu ást, er hann átti til í hjarta sínu.

Veggurinn á milli þeirra varð að brjótast niður. Honum fanst ómögulegt, að lifa lengur því lifi, sem þau höfðu lifað undir sama þaki, en þó algerlega aðskilin. Hann varð að vinna hana. Hann gat ekki lifað lengur án ástar hennar.

Meðan hann var að hugsa um þetta, gekk hann aftur á bak og áfram á gangstéttinni fyrir framan húsið. Móðir hans sá hann út um glugga og gekk til hans.

"Því ertu svona hugsandi, Allan?

"Mamma", sagði hann. "Í allan morgun hefi ég verið að hugsa um, hverjir foreldrar Aðalheiðar hafi verið. Hver voru þau? Því hafa þau aldrei verið nefnd á nafn?"

Lady Caren hrökk við, eins og höggormur hefði bitið hana. Hún varð náföl, og lávarðurinn hlaut að taka eftir því, en hann var of mikið prúðmenni til að látast taka eftir því og sneri sér því við, svo hún stæði í þeirri trú, að hann hefði ekki séð það.

"Hverjir voru foreldrar hennar?" sagði Lady Caren dræmt. "Móðir hennar var þýzk, eftir því sem ég hefi komist næst um".

"Það hefir verið falleg kona, ef Aðalheiður líkist henni", sagði lávarðurinn og lézt vera rólegur. "En ég hefi ekki hugsað svo mikið um móðir hennar, heldur hver faðir hennar hafi verið. Var hann í hernum? Var hann frægur maður? Ég hafi aldrei heyrt hann nefndan á nafn, — já, meira að segja, ég man ekki til, að nokkur hér hafi talað um hann".

"Ég held, að hann hafi verið ógæfusamur, faðir þinn talaði varla aldrei um hann".

"Hvernig annars stóð á því, að faðir minn þekti hann, — faðir minn, sem sjaldan ferðaðist frá Brooklands, en Mr. Carlton lifði alt af í útlöndum?

"Ég veit ekki um það, kæri Allan. Mér er ómögulegt að segja þér það".

"Clavering hershöfðingi veit það víst alt saman, ég ætla að spyrja hann".

Hún greip um handlegg hans, og hélt honum föstum. "Gerðu það ekki, Allan. Í guðsnafni, gerðu það ekki, Allan! Það drepur mig!

"Hvað gengur að þér, mamma? Hvað getur það gert þér til, þó ég vilji þekkja ætt konu minnar?"

"Þú hræðir mig svo, að ég veit ekkert, hvað ég segi", sagði hún.

"Ég skil ekkert i, af hverju þessi hræðsla getur stafað, mamma. Er það ekki náttúrlegt, að ég vilji fræðast um ætt konu minnar?"

"Jú, það er alveg náttúrlegt. En, Allan — góði drengurinn minn — spurðu ekki hershöfðingjann um það, — það yrði að eins til að hryggja mig og hann. Gerðu það fyrir mig, Allan, að spyrja hann ekki neitt um þetta.

"Ég vil gera alt annað en þetta fyrir þig, mamma. Mér finst sem hér sé um eitthvert leyndarmál að ræða, sem er með öllu móti haldið leyndu fyrir mér. En nú hefi ég fastlega ásett mér að komast eftir, hvað það er".

Hún ætlaði að grípa frammí fyrir honum, en hann hélt áfram: "Mig furðar mest á því, að ég skuli ekki hafa hugsað neitt um þetta fyr, en mér hefir ekki einu sinni komið það til hugar".

"Ó, Allan — Allan!" hrópaði hún angistarfull. Talaðu ekki svona! Ef þetta er að eins ímyndun þín, þá skeyttu því ekki. Hvaða leyndarmál ætti það líka að vera?"

"Já, ég fæ ekki skilið það", sagði hann hreinskilnislega, "en ég —" Hann endaði ekki setninguna, því rétt í þessu kom þjónn með einhver skilaboð til lávarðarins, svo hann varð að yfirgefa móður sína.

Lady Caren varð ein eftir, algerlega örvingluð. Hún stóð kyr og þegjandi í nokkrar mínútur. Svo hóf hún upp hendur sínar og sagði:

"Fyr skal himininn falla yfir mig, — fyr skal jörðin opnast fyrir fótum mér og gleypa mig, en ég segi honum afbrot föður hans!"

Hún gekk nú inn til að finna Lady Aðalheiði og leita huggunar hjá henni. Hún hitti hana í hennar eigin herbergjum, en hún var föl og augun voru þrútin af gráti.

"Aðalheiður", sagði Lady Caren. "Það hangir sverð yfir höfði mér, og það mun falla niður og taka af mér lífið. Allan uppástendur, að hér sé um eitthvert leyndarmál að ræða, og hann hefir ásett sér að komast fyrir um, hvað það er.

"Já, ég hefi nú um tíma verið hrædd um það. Ég sé ekki, að það sé hægt að gera við því"

"Barn!" hrópaði tengdamóðir hennar. Því talarðu svona hirðuleysislega um þetta! Það verður minn bani, ef það kemst upp".

"Hvernig get ég afstýrt því? Hefi ég ekki lagt alt í sölurnar? Gæti ég komið í veg fyrir það með með því að láta líf mitt, skyldi ég gera það".

"Ég trúi þér", sagði Lady Caren innilega hrærð af eðallyndi tengdadóttur sinnar.

"Gæti ég afstýrt því með því að yfirgefa alt og fara í burtu samstundis, skyldi ég gera það. En hvorug okkar getur neitt gert úr því sem komið er. Ef hershöfðinginn hefði ekki komið, hefði alt farið vel, og við getað varðveitt leyndarmál okkar alla okkar æfi".

Lady Caren varð nú rólegri. "Ég vildi óska, að hann hefði ekki komið", sagði hún. "Mér datt það strax í hug, þegar ég heyrði, að hann ætlaði að koma hingað, að ekkert gott myndi af því leiða.

Hvað heldur þú, Aðalheiður, að Allan geri, ef hann fær vitneskju um þetta?"

"Ég get ekki getið neins til um það", svaraði hún, "en ég vona, að hann fái aldrei að vita það".

"Hann yfirgefur okkur. Hann fer í burtu og kemur aldrei aftur. Hann getur ekki borið þvílíka skömm".

"Já, en þetta þarf enginn að vita. Við getum fengið hann til að varðveita leyndarmálið eins og við höfum gert", sagði Lady Aðalheiður.

"Það gerir hann aldrei. Hann er of stoltur til þess, að hann geri það. Hann er eina barnið mitt, — ég sé hann ef til vill aldrei framar".

Það var eins og hún væri búin að missa alla von. alt þrek, og hún grét sáran. Lady Aðalheiður grét með henni, en reyndi þó til að hugga hana. "Við skulum ekki hugsa okkur það versta", sagði hún. "Alt getur farið vel".

Í sama bili og hún sagði þetta, komu boð til þeirra frá Clavering gershöfðingja, að hann óskaði eftir, að þær kæmu strax til viðtals við sig í bókaherberginu.

"Hver er hjá hershöfðingjanum?" spurði Lady Aðalheiður.

Svarið var: — "Caren lávarður".

"Nú er stundin komin", sagði Lady Caren með örvæntingar ró. "Sverðið er fallið niður. Aðalheiður, hjálpaðu mér til að taka því, sem að höndum ber".

## LXVIII. KAPÍTULI.

Ég vil strax leiða þessi mál til lykta, sagði lávarðurinn við sjálfan sig. Ég get ekki lifað einum degi lengur í þessari óvissu.

Hann fór nú að finna hershöfðingjann, en hann var ekki sem bezt fyrir kallaður. Í stuttu máli sagt, hann var í mjög vondu skapi. Strax eftir morgunverð hafði hann beðið Aðalheiði að ganga út með sér, en hún hafði afsakað sig, og sagt, að hún mætti ekki vera að því. Svo mætti hann henni hálfum tíma síðar úti í garðinum, og þá sá hann greinilega, að hún hafði grátið.

Þess vegna var hann nú í mjög slæmu skapi.

"Hvað hefir hún til að gráta af?" spurði hann sjálfan sig. "Það gengur eitthvað meira en lítið að henni". Hann ásetti sér, að komast eftir, hvað það væri.

Þeir voru því ekki í nærri góðu skapi herrarnir, þegar þeir hittust. Caren láva... kvíðinn og órólegur. Þeir hittust í bókaherberginu. Hershöfðinginn var að lesa í blaði, og var mjög grettinn á svipinn.

"Ég var að svipast að yður, hershöfðingi", sagði lávarðurinn.

"Og ég óskaði eftir að sjá yður, Caren lávarður"

"Það var þá heppilegt, að við fundum hvor annan", sagði lávarðurinn.

"Ég mætti konunni yðar rétt áðan og hún var öll grátbólgin. Núna um daginn kom ég hér að henni fljótandi í tárum. Ég vil fá að vita, hvernig

á þessu stendur. Ég veit vel, að stundum hleypur snurða á þráðinn hjóna á milli. Mér þykir vænt um, að ég hefi aldrei átt konu, og mun aldrei eiga neina, því ég veit vel, hversu þær geta verið þreytandi, og það finst naumast sá maður, er beri með þolinmæði alt nöldur konu sinnar. En Aðalheiður er ólík flestum öðrum konum. Hún er svo blíð og þolinmóð. Hvað gengur að henni? Hvers vegna grætur hún svona mikið?"

"Þér ættuð að spyrja hana sjálfa um það, herra minn".

"Að hvaða gagni kæmi það? Ef ég á að segja yður sannleikann, herra minn, — á meðan þessi fína hertogainna var hér, datt mér í hug, að þér væruð hugfanginn af henni, og það væri það, sem hrygði Aðalheiði. Nú veit ég, að þetta var bara röng ímyndan mín. Hún er líka — guði sé lof — farin. En þér skuluð vita það, að það er meira en lítið, sem gengur að Aðalheiði fyrst hún grætur svona mikið".

"Ég er á sama máli, hershöfðingi. Ég er hræddur um, að hér sé ekki alt eins og það ætti að vera, og ég vildi hitta yður til þess að biðja yður að hjálpa mér til að komast eftir því".

Hershöfðinginn lagði blaðið frá sér og horfði á lávarðinn með mestu undrun.

"Þér biðjið mig þess, gamlan piparsvein, sem aldrei á æfi minni hefi umgengist kvenfólk. Samt haldið þér, að ég geti sagt yður, hvað se ábótavant á yðar eigin heimili. Hvernig ætti ég að vita um það?"

"Samt stend ég í þeirri meiningu, að þér hafið í hendi yðar lykilinn að leyndarmálinu. Hershöfðingi, segið mér — ég spyr yður í mestu einlægni að því, — er nokkuð leyndardómsfult við fæðingu konunnar minnar?"

Hershöfðinginn horfði forviða á lávarðinn.

"Nokkuð leyndardómsfult viðvikjandi Aðalheiði?" Nei, alls ekki, nema ef yður finst það kynlegt, undir hvaða kringumstæðum hún kom hingað. Ég hygg, að um þá atburði hafi lítið verið talað".

"Er þá um ekkert leyndarmál að ræða?"

"Ekki svo ég viti til", mælti hershöfðinginn rólega.

Lávarðurinn sat nokkra stund þegjandi, svo mælti hann:

"Mig langar til að vita eitthvað um Mr. Carlton, ef þér vilduð segja mér eitthvað um hann".

"Um hvern?" hrópaði hershöfðinginn.

"Mr. Carlton, föður Aðalheiðar".

"Hvað meinið þér?" spurði hershöfðinginn undrandi.

"Ég meina einungis það, sem ég segi, herra minn. Það er ekki af eintómri forvitni, að eg spyr um þetta. Mig langar til að vita um ætt konu minnar. Hver var faðir hennar?"

Hershöfðinginn stökk úr sæti sínu. Hann var hinn reiðasti, og eldur leiftraði úr augum hans.

"Eruð þér að gera gabb að mér?" æpti hann. Ætlið þér að gabbast að því, að ég er gamall maður, og ímynda yður svo, að æska yðar sé yður næg afsökun?"

"Minn kæri hershöfðingi, því látið þér svona? Haldið þér, að ég sé að henda gaman að yður? Hvers vegna ætti ég að gera það? Ég bað yður að eins um, að svara einfaldri spurningu, en hefði ég vitað, hvernig yður mundi verða við hana, hefði ég ekki spurt hennar".

"Einfaldrar spurningar. Hafið það upp aftur. Svei mér ef þér gerið mig ekki hringlandi vitlausan".

"Ég segi það aftur, — í guðsnafni spyr ég yður að: Hver var Mr. Carlton, faðir Aðalheiðar?"

"Þér spyrjið mig um það!" Nú spyr ég yður: Vitið þér ekki, hver faðir Aðalheiðar var?"

"Ég veit það ekki, herra minn".

"Ég — nei — ég get ekki trúað því", stundi hinn gamli hershöfðingi upp. "Þér vitið þá ekki, hver Aðalheiður er?"

"Ég veit, að hún er konan mín, en svo heldur ekki meira".

Hershöfðinginn settist niður. Lávarðurinn varð næstum hræddur yfir útliti hans.

"Ég skal fljótt ná mér aftur", mælti hann, "ég er gamall maður, og þér hafið komið mér í ákafar geðshræringar".

Hann horfði til jarðar og sat svo lengi þegjandi, að lávarðurinn varð nú í raun og veru hræddur.

"Hershöfðingi", sagði hann, "hvað er að? Hvað hefi ég sagt, sem hryggir yður svona?"

"Eftir þetta", sagði hershöfðinginn, — "eftir þetta reiði ég mig ekki á nokkurn skapaðan hlut. Ég stóð í þeirri trú, að þér vissuð það alt saman. Ekki hafði ég minstu hugmynd um, að því væri haldið leyndu fyrir yður. Þér spyrjið um, hver var faðir Aðalheiðar. — Hringið, sendið eftir móður yðar, og spyrjið hana þessarar spurningar".

Lávarðurinn gerði það.

"Sendið boð eftir konu yðar líka", sagði hershöfðinginn. "Ég vil nú komast fyrir sannleikann".

Á meðan þeir biðu þarna, töluðu þeir ekkert saman. Lávarðurinn fann, að nú mundi verða leyst úr mikilsvarðandi gátu fyrir hann. En úr svip hershöfðingjans mátti lesa, að hann áleit sig eiga stórmikið vandamál fyrir höndum.

Caren lávarður gleymdi aldrei, þegar loksins dyrnar opnuðust og móðir hans kom inn náföl og skjálfandi. Úr andliti hennar skein bæði hræðsla

og örvænting. Lady Aðalheiður var einnig mjög föl.

Hershöfðinginn stóð upp, þegar þær komu inn. Hann leit út fyrir að vera mjög reiður.

"Lady Caren", mælti hann alvarlega, "ég hefi gert boð eftir yður til að svara einni spurningu. Spyrjið hennar aftur, Caren lávarður, orð fyrir orð, eins og þér spurðuð mig".

"Mér þykir það leiðinlegt, mamma", sagði lávarðurinn alvarlega. "Mér datt ekki í hug, hvaða afleiðingar spurning mín hefði".

"Hafið upp aftur spurningu yðar!" hrópaði hershöfðinginn með þrumandi rödd.

"Ég hefi áður spurt, mamma, og nú spyr ég aftur: Hver var faðir Aðalheiðar?"

Lady Caren rak upp lágt hljóð, féll á kné og huldi andlitið í höndum sér.

"Ég get ekki sagt það!" hvíslaði hún. "Aldrei skal það koma yfir mínar varir!"

"Spyrjið Lady Aðalheiði". — En hún rétti upp hönd sína.

"Nei, ég skal ekki með einu einasta orði bæta á sorg hennar", sagði hún, "ekki þó ég ætti með því að frelsa líf mitt".

"Já, ef enginn annar vill segja yður sannleikann", sagði hershöfðinginn, "þá skal ég segja yður hann, Caren lávarður".

---

## LIX. KAPÍTULI.

Þessi atburður í bókaherberginu fór nú að verða töluvert sögulegur. Hershöfðinginn líktist helzt einhverjum refsiguði, og var ýgldur bæði á brún og brá. Lávarður Caren var órólegur, og tók sér

mjög nærri að sjá alla þá reiði og eymd, er í kring um hann var. Samt hafði hann fastlega ásett sér, að fá að vita þetta, hvað svo sem af því kynni að hljótast.

Lady Caren lá á hnjánum fyrir fótum hans. Hún beygðist æ meira og meira til jarðar við hvert orð, sem hershöfðinginn sagði, þar til andlit hennar var komið alveg niður að gólfi. Hún grét sáran. Lady Aðalheiður lá við hlið hennar og reyndi að hugga hana og lyfta henni upp og styðja hana, en árangurslaust.

"Verið kyr!" hrópaði nú hershöfðinginn með hárri röddu. "Kyr, meðan ég skýri frá svívirðilegu athæfi".

Hann lét sem hann sæi ekki, að Lady Caren leit til hans bænaraugum.

"Þeim stærsta órétti, sem nokkur maður getur gert öðrum", hélt hann áfram. Þér spyrjið mig, Caren lávarður, hver hafi verið faðir Lady Aðalheiðar. Ég skal segja yður það. Hann var eldri bróðir föður yðar, hinn rétti eigandi Brooklands, og sá rétti Caren lávarður. Aðalheiður, kona yðar, er dóttir hans. Þér skiljið ef til vill ekki, hvernig í þessu liggur. Samt ættuð þér, sonur Desmond Carens, að þekkja sögu ættarinnar".

"Því miður er mér alveg ókunnugt um það", mælti lávarðurinn.

"Já, það lítur út fyrir það. En þér hafið ef til vill heyrt, að faðir yðar átti einn bróður, sem var eldri en hann, Jasper Caren? Hann gerði sig sekan í stjórnmálum, er hann var á unga aldri, — hvorki meira né minna en landráð. Hann varð gerður landrækur. Þetta skeði á meðan faðir vor lifði. Allir héldu þó og vonuðu, að honum yrði leyft að koma heim aftur, þegar faðir hans félli frá og taka við eignum og nafnbótum sínum. En tveimur ár-

um fyrir dauða afa yðar, fréttist til Englands, með áreiðanlegum sannindum, að menn héldu, — að Jasper Caren væri dáinn. Afi yðar dó, án þess að gera nokkra erfðaskrá, og Desmond Caren, faðir yðar, erfði eftir hann bæði eignir hans og nafnbætur. Hann gifti sig og lifði mjög hamingjusömu lífi. Svo fæddust þér. Hann hélt, sem von var, að þér erfðuð alt eftir hann, því hann þóttist viss um dauða bróður síns. — En Jasper Caren var ekki dáinn. Honum leiddist útlegð sín, og lét það svo berast út, að hann væri dáinn. Hann tók upp nafnið Carlton og fór til Indlands. Ég, elzti og bezti vinur hans, var þar í herþjónustu. Hann ætlaði sér að leita þar hamingju sinnar og afla sér fjár. — Á Indlandi giftist hann ungri þýzkri stúlku, sem dó rétt eftir fæðingu Aðalheiðar. Ég bað hann oft um, að láta Desmond bróður sinn vita, að hann væri á lífi, en hann eyddi því allajafna.

“ 'Ég get ekki farið heim til Englands aftur', sagði hann. Allir þar halda mig dauðann. Bróðir minn er nú orðinn lávarður, — lofum honum að vera það. Mig langar ekkert til, að ræna hann nafni og eignum sínum. Ég vil afla mér nafns og eigna, án hjálpar frá Englandi'.

“Hann hafði frétt, að faðir yðar hafði gift sig, að þér væruð fæddur og væruð efnilegur drengur. Hann öfundaði föður yðar alls ekkert, og alt gekk vel, þar til Aðalheiður var 8 ára. Þá tapaði Jasper Caren alt í einu öllum eignum sínum. — Þér skiljið nú, Caren lávarður, hvernig sakirnar stóðu :: Lávarðs-nafnið fékk langafi yðar, og það var ávalt arfgengt í karllegg, en svo var ekki með Brooklands. Þá eign erfði ávalt elzta barn elzta barns. — Jasper Caren tapaði öllum eignum sínum, eins og ég sagði áðan, og nú fór hann að hugsa um, hve ranglátlega hann breytti við hina litlu dóttur sína, Aðalheiði.

Henni tilheyrði með réttu herragarðurinn Brooklands. Þó hann fyrir sitt leyti kærði sig ekkert um nafn og eignir, átti hann ekkert með að svifta dóttur sína lögmætum arfi hennar. Svo lagðist hann veikur, og hann bjóst við, að hann mundi deyja. Þá sendi hann boð eftir mér.

"'Ég ligg fyrir dauðanum, hershöfðingi', mælti hann, 'og þá lítur maður öðruvísi á hlutina en áður. Ég hefi ekkert hirt um arf minn, og ég hefi líka gert rétt í því, en við dauða minn erfir Aðalheiður eigur mínar. Ég eftirlæt henni ekkert hér, en hún skal erfa Brooklands. Hún er réttmætur eigandi þess. Ég get ekki dáið frá henni sem eignalausri, þegar hún er þó löglegur eigandi að jafnmiklum eignum'.

"'Þér breytið alveg rétt í því', sagði ég.

"'Þegar ég er dáinn', bætti hann við, 'þá farið með hana til Englands, til Desmonds bróður míns, sem við dauða minn verður í raun og veru Caren lávarður. Segið honum það, sem ég hefi haldið leyndu. Segið honum einnig, að ef ég hefði ekkert barn átt, þá hefði ég aldrei gert tilkall til arfs míns, en ég gæti ekki vitað dóttur mína sem fátækan betlara. Segið honum líka, að á meðan hann lifir eigi hann að skoða Brooklands sem sína eign, en þegar hann deyr, þá erfi Aðalheiður en ekki Allan eignina. — Tak þessi skjöl: giftingarvottorð mitt, vottorð um dauða konu minnar og fæðingu Aðalheiðar, og erfðaskrá mína'.

"Hann lagði þau í hönd mér, og ég var hjá honum, þegar hann dó, og svo tók ég Aðalheiði að mér.

Takið nú vel eftir, Caren lávarður. Ég fór með Aðalheiði, hinn rétta erfingja Brooklands, með mér til Englands. — Ég get ekki borið á móti því, að föður yðar félli þetta ekki illa. Hann hafði alt af álitið yður sem erfingja sinn. Honum þótti innilega

vænt um yður og hann var stoltur af yður. Allar hans vonir voru tengdar við yður. Hann hlýddi með þolinmæði á mig, en sagði svo:

"'Þetta er hart, hershöfðingi. Aldrei nokkurntíma hefir nokkur maður staðið þannig að vígi. Þegar ég dey, verður sonur minn að vísu lávarður Caren, en hann eignast ekki Brooklands'.

"Þér verðið að safna peningum handa honum, sagði ég. Leggið vissa upphæð fyrir, hvert ár, þá getur það með tímanum orðið lagleg eign. Það er ósk og vilji bróður yðar, að þér búið á Brookland meðan þér lifið, en Aðalheiður — ekki Allan — taki við því eftir dauða yðar, sem réttmætur eigandi þess.

"'Það hefði verið betra, hefði Jasper sagt mér þetta fyr', sagði hann. 'Þetta verður þungt slag fyrir son minn, og hann er þó svo vel gefinn og fallegur drengur. Hann hefir verið alinn upp sem erfingi Brooklands. Hvernig á ég að geta sagt honum þetta?'

"'Látið börnin alast upp saman', sagði ég. Að öllum líkindum giftast þau svo hvort öðru, og þá kemur það fyrir eitt, hver á Brookland'.

"Þessi orð, sem ég talaði út í bláinn, sýnast þó að hafa fest rætur hjá föður yðar. Þér vitið svo, hvernig hann notaði það.

"Orlof mitt frá herþjónustunni var mjög stutt, og ég varð að fara strax aftur til Indlands. Ég fór og stóð í þeirri trú, að Desmond Caren myndi gera skyldu sína gagnvart Aðalheiði. Hann skrifaði mér við og við. Hann sagði mér alt af, hvernig Aðalheiði liði, hvað hún lærði og um fegurð hennar, og mér — þótti svo vænt um litlu stúlkuna.

"Svo dó hann, og seinna heyrði ég talað um giftingu ykkar. Mér þótti innilega vænt um að heyra það, svo eignin gengi ekki úr ættinni. En ég

var alt af hræddur um, að Aðalheiður hefði einhvern hátt fórnað sér, — átt yður án þess að hún elskaði yður. Ég gat ekki verið rólegur, fyr en ég hafði með mínum eigin augum séð það.

"Ég kom til að vita, hvort hún væri hamingjusöm. En hvað finn ég? Hún hefir verið rænd arfi sínum. Hún hefir fórnfært sér fyrir Desmond Caren, sem þó allur heimurinn álítur heiðursmann".

"Hættið!" hrópaði Lady Aðalheiður. "Þér dæmið of hart. Desmond lávarður var alt af mjög góður og umhyggjusamur við mig, alveg eins og bezti faðir".

"Hann rændi yður þó því, sem yður bar með réttu", æpti hershöfðinginn.

"Nei", sagði Lady Aðalheiður. "Er ekki Brookland heimili mitt? Ég hefi vitað alt þetta í mörg ár, en ég skyldi heldur hafa dáið, en segja frá því. Hver var ég? Átti ég að taka frá Allan arf hans? Átti ég að leiða yfir hann smán, auðmýkja hann, þegar ég vildi svo gjarnan láta lífið fyrir hann? Sú ánægjusamasta stund, sem ég hefi lifað á æfi minni var, þegar ég fann, að ég gat borið alt þetta fyrir hann".

"Þér eruð of heimskulega viðkvæm kona", sagði hershöfðinginn. "Ég hefi ekki enn þá hitt fyrir þá konu, er hefði fulla hugmynd um, hvað réttlæti er. Hvað hafa tilfinningarnar að gera með þá spurningu, sem viðkemur rétti og réttdæmi. Mér þótti undarlegt, þegar ég kom til Englands, að heyra þetta ekki nefnt á nafn. En svo hélt ég, að úr því þið höfðuð gifst, þá hefði það alúrei verið gert opinbert, hvort ykkar átti Brooklands upphaflega. Ekki datt mér í hug, að því væri haldið leyndu fyrir annari aðalpersónunni, er hér átti hlut að máli".

*Arnljótur B. Olson*

## LXX. KAPÍTULI.

Málrómur hershöfðingjans varð æ lægri og lægri, þar til seinast hann endaði í lágri hvíslan. Svo varð dálítil hreyfing meðal áheyrenda hans. Caren lávarður hafði hlustað á sögu þessa, eins og hún væri dauðadómur hans. Hið karlmannlega andlit hans var orðið fölt sem nár. Það var eins og margra ára reynsla hefði gengið yfir hann. Það var hálfgerður kvíði í augnaráði hans, þegar hershöfðinginn að síðustu þagnaði. Hann ætlaði að tala, en kom engu orði upp. Hann herti sig samt eins og hann gat, og sagði svo :

"Ég er enginn þjófur, hershöfðingi, og hefi ekkert um alt þetta vitað. Ég er eins og eyðilagður maður. — Ég hélt, að faðir minn hefði verið hinn mesti heiðursmaður, og ég trúði eins statt og stöðugt á hann eins og ég trúi á guð".

Hann var ungur og sterkbygður maður, en á meðan hann sagði þetta, runnu tár niður kinnar hans og varir hans skulfu.

Lady Aðalheiður gekk til hans. Hún lagði handlegginn um háls hans, — fyrsta ástaratlotið, sem hún hafði nokkru sinni sýnt honum.

"Allan, kæri maðurinn minn, taktu þér þetta ekki svona nærri. Ég þekki svo vel, hve göfugur og góður þú ert, og ég vildi heldur hafa farið héðan og aldrei séð þig framar, en að þú fengir að vita þetta, — elskan mín. Það stendur alveg á sama, hvort okkar átti Brooklands upprunalega. Nú eigum við bæði þessa eign. Þetta var eini veggurinn, sem var á milli okkar. Nú, þegar þú veizt alt, sendir þú

mig ekki burt frá þér, elskan mín. Nú skulum við bæði verða hamingjusöm".

Caren lávarður sagði ekkert, en virti þegjandi fyrir sér hið undurfagra andlit, er laut að honum.

"Ég get ekki afborið það", stundi hann upp eftir nokkra stund. "Faðir minn rændi þig því, sem þér með réttu bar, og ég hefi tekið við ránsfénu. Ég hefði heldur viljað deyja en vita þetta".

Nú gekk Lady Caren til sonar síns. "Allan, þó allur heimurinn áfelli föður þinn", sagði hún djarflega, "skalt þú ekki með einu einasta orði gera það. Þú verður að minnast þess, að hann framdi afbrot þetta af eintómri umhyggju fyrir þér, og að það stytti lífdaga hans".

"Eins og það nú hefir eyðilagt líf mitt", sagði sonur hennar.

"Hvernig vildi þetta til, Lady Caren?" spurði nú hershöfðinginn.

"Guð varðveiti mig frá, að áfella hann en afsaka mig", svaraði hún, "en ég vissi ekkert um þetta fyr en hann lá banaleguna, þá sagði hann mér það. 'Ég man eftir því, að þegar hershöfðinginn kom með Aðalheiði til okkar, sagði hann mér, að hún væri dóttir einhvers bezta vinar síns, sem á banasænginni hefði beðið hann fyrir hana. Annað vissi ég ekki, fyr en hann svo lagðist banaleguna, þá var hann næstum frá sér af samvizkubiti. Þó hafði hann í erfðaskrá sinni gengið svo frá, að Aðalheiður biði engan skaða. Hann gerði boð eftir Aðalheiði og mér, og sagði okkur alla söguna, og sárbændi okkur, að segja Allan aldrei frá því.

" 'Ég gat ekki gert son minn arflausan', sagði hann, er hann bað okkur um fyrirgefningu. Ég beið og beið með, að segja honum þetta, og svo loksins gat ég með engu móti sagt honum það. Ég hélt líka, að alt færi vel, ef hann giftist Aðalheiði'.

Hann tók um hönd mína og leit á mig deyjandi bænaraugum:

" 'Lofaðu mér því, kæra konan mín, að segja Allan aldrei frá þessu. Hann þarf ekkert um þetta að vita. — Honum þykir svo vænt um mig, og hann ber svo mikið traust til mín. Ég vil ekki, að hann komist að þessu, — ég er viss um, að ég hvíli ekki rólegur í gröf minni, ef hann kemst að því'. — Hann sagði mér í hve miklu stríði hann hefði átt við sjálfan sig, — ástin til sonar hans annars vegar, hins vegar meðvitundin um, hvað rétt var. En svo hélt hann, að hann hefði komið því vel fyrir. Því, sjáðu Allan, hefðir þú ekki átt Aðalheiði, þá var allur arfurinn hennar. Ó, sonur minn, — sonur minn, talaðu ekki illa um föður þinn, áfeldu hann ekki, því hann syndgaði af eintómri ást til þín! "

Lávarðurinn lyfti móður sinni upp, tók hana í fang sér og sagði: "Kæra móðir mín, hversu þunga byrði hefir þú ekki mátt bera, og þó ertu jafn saklaus af þessu og ég er. Ég fæ ekki séð, að þú þurfir að ásaka þig hið minsta".

"Ég er ekkert að hugsa um sjálfa mig, Allan, — ég er einungis að hugsa um manninn minn sáluga, föður þinn. Ó, hvað ég elskaði hann heitt. Hann var að þessu einu undanskildu svo heiðarlegur og góður maður! Ég þoli ekki að hugsa um það. — Ég er viss um, að hann drýgði synd þessa af ást til þín. Honum þótti svo mikið til þín koma. Og ef þú vildir tala hlýlega um hann, þá gæti ég betur borið sorg mína".

Allan lávarður átti í miklu stríði við sjálfan sig. Hann hataði alt, sem óheiðarlegt var, og umhugsunin um það, að faðir hans hafði gert sig sekan í þessu var það bitrasta, er fyrir hann hafði komið. Hann hafði ávalt verið svo stoltur af föður sínum, — hann hafði elskað og heiðrað minningu hans. Nú gat

hann það ekki lengur. Þó var það, eins og móðir hans sagði, gert hans vegna. Hann leit á hið sorgmædda andlit móður sinnar og sárkendi í brjósti um hana. Svo laut hann niður að henni: "Líttu upp mamma. Ég lofa þér, að tala aldrei illa um föður minn. Það er eins og þú segir, hann hefir látið blindast af umhyggju fyrir mér. Ég bæði játa það og trúi því. Ég skal aldrei tala um þetta, og reyna að gleyma því, að eins ef þú vilt verða ánægð aftur og reyna að brosa".

"Þú hefir ávalt verið óvanalega gott barn", sagði vesalings Lady Caren. "Mér hefir ávalt þótt mjög vænt um þig, og ég skal nú reyna að verða ánægð aftur".

"Það var ekki meining mín, að koma neinu illu af stað", sagði nú hershöfðinginn. "Mér fellur alt þetta mjög illa. Samt álít ég rétt, að þér fenguð að vita þetta, Allan".

"Ég er yður mjög þakklátur fyrir það", svaraði Allan lávarður strax, "annars hefði ég aldrei fengið að vita, hve góða og göfuglynda konu ég á. En nú skal sannleikurinn verða leiddur í ljós. Ekki einn einasta dag lengur vil ég vera í hinni fölsku stöðu minni. Allir skulu fá að vita, að Aðalheiður var erfingi Brooklands, og hvernig öllu var háttað".

Nú snéri Lady Caren sér aftur að syni sínum:

"Hvernig getur þú gert það, Allan, án þess að fólk fái að vita um, hvað faðir þinn gerði?"

"Ég veit það ekki, mamma, en þú mátt vera fullviss um, að ég í framtíðinni að eins skal koma fram eins og ég í raun og veru er".

"Ég get ekki séð, að neina nauðsyn beri til, að gera það kunnugt nú", sagði hershöfðinginn. "Því réttlætinu hefir nú verið fullnægt, og Aðalheiður er eigandi Brooklands með fullum rétti. Lady Caren, fylgið ráði mínu. Við skulum bæði fara út og láta

unga fólkið gera út um málefni sín í einrúmi. Komið þér með mér. Ég er hræddur um, að ég sé nokkuð bráðlyndur maður. Það var ekki meining mín eða tilgangur, að hryggja neinn. En sannleikurinn varð að koma í ljós. Hugsið nú ekkert meira um þetta. Aðalheiður bætir úr því öllu saman. Hún er sú bezta og skynsamasta kona, sem finst undir sólunni.

*Arnljótur B. Olson*

---

## LXXI. KAPÍTULI.

Lady Aðalheiður stóð grafkyr eftir að hershöfðinginn og Lady Caren gengu út úr herberginu. Gat ekki skeð, að hún væri að hugsa um, að hún nýlega hafði sýnt manni sínum þau fyrstu ástaratlot, sem hún nokkru sinni hafði veitt honum, og hún eins og hálf blygðaðist sín fyrir það? Jú, það var einmitt það. Hún hugsaði nú að eins um það.

"Honum finst líklega ég vera ókvenleg og framhleypin", hugsaði hún, "en ég hugsaði að eins um að hugga hann, og fá hann til að gleyma þessu".

Hún stalst til að líta á hann, til að sjá, hvort hann væri reiður við sig. Hún varð að líta til jarðar undan augnaráði hans, því í því fólst meira af aðdáun og tilbeiðslu, en ást. Hún hafði aldrei séð hann horfa þannig á sig áður. — Hann gekk nú til hennar.

"Aðalheiður", sagði hann, "fyrst og fremst verður þú nú að segja mér, hvort ég er vakandi eða sofandi".

"Þú ert glaðvakandi, Allan," svaraði hún og brosti feimnislega.

"Seg mér þá, er alt þetta satt, sem ég hefi nú heyrt?"

"Því miður er það alt satt".

"Og þú hefir vitað það síðan faðir minn dó?"

"Já, það er eins og Lady Caren sagði frá. Hann lét kalla á okkur að banasæng sinni, og þar sagði hann okkur þetta alt saman".

"Og þú hefir varðveitt þetta leyndarmál trúlega þangað til nú?

"Ef ég hefði mátt ráða, Allan, skyldi það aldrei hafa komist upp. Ég fæ ekki séð, að neitt gott hafi af því hlotist, en illu er það búið að koma af stað, það er áreiðanlegt".

"Þú segir, Aðalheiður, að þú elskir mig, og ég trúi því. Samt vildir þú heldur yfirgefa Brooklands og láta mig trúa um þig, hvað sem mér sýndist, en segja mér þetta?"

Það brá fyrir björtu brosi á andliti hennar.

"Já, af því ég vissi, hve illa þér myndi falla það, ég vildi heldur ganga út í dauðann, en segja þér þetta leyndarmál".

Hann gekk nær henni.

"Nú veit ég ekki, hvort þú ert engill eða mensk kona".

"Einhverntíma vona ég, að ég verði engill", sagði hún og reyndi að tala rólega, og brosa að orðum hans, en þau þrengdu sér þó inst í hjarta hennar. — Hann horfði stöðugt á hana, og tillit hans lýsti hinni mestu aðdáun.

"Ég vissi, að konur geta haft hreina og góða sál", sagði hann, "en aldrei hugði ég að til væri hálft svo góð manneskja eins og þú ert".

Lady Aðalheiður svaraði þessu engu.

"Hvað hefir þú ekki mátt hugsa um mig?" sagði hann. "Aldrei hefir nokkur maður verið jafn-

fyrirlitlegur i augum nokkurrar konu, eins og ég hefi hlotið að vera í þínum augum".

"Þú gast aldrei orðið fyrirlitlegur i augum mínum", sagði hún rólega. "Ég hefi ávalt álitið þig þann bezta og göfugasta mann undir sólunni".

"Og hér hefi ég státað með lánaðar fjaðrir", sagði hann, "gefið þér allra náðarsamlegast leyfi til að dvelja undir þaki mínu, ef þú vildir gera þér það að góðu, og lofað þér að bera nafn mitt. En alt, sem ég áleit mitt, tilheyrði i raun og veru þér. Ó, Aðalheiður, það er hart að hugsa um þetta".

"Þú vissir þetta ekki, Allan", hvíslaði hún, "og þú varst mjög góður við mig".

"Góður!" hrópaði hann. "Já, ég var heldur en ekki góður. Ég lofaði þér að búa í þínu eigin húsi. Ég gaf þér þína eigin gimsteina. Þú vissir, að þú áttir þá með réttu, þegar ég fékk þér þá".

"Já, en þú vissir það ekki, Allan, og þú gafst mér þá í góðum tilgangi, það má ég játa".

"Þú safnar glóandi kolum á höfuð mér. Ef þú vildir hlægja að mér eða ávíta mig, gæti ég þolað þetta betur".

"Hvernig á ég að hlægja að þeim manni, sem ég elska svo heitt Ég get ekki annað en elskað þig af öllu mínu hjarta".

"Aðalheiður, seg mér eitt: Offraðir þú þér fyrir mig eftir að hafa íhugað það nákvæmlega?"

"Já það gerði ég, og ég mundi gera það aftur, ef til þess kæmi".

"Og þetta er þá ástæðan fyrir því, að þú áttir mig? Oftar en þúsund sinnum, eftir að ég tók eftir mannkostum þínum, hefi ég spurt mig sjálfan · Hversvegna skyldi þessi kona endilega hafa viljað eiga mig?"

Og þetta er svar mitt: Ég átti þig eins og þú segir á móti vilja þínum, af því móðir þín bað mig

svo innilega um það. Í öðru lagi af því, að ég gat ekki vitað til þess, að þú, sem varst alinn upp sem erfingi að Brooklands, skyldir þurfa að missa af því. En helzt gerði ég það vegna þess, að þú þyrftir aldrei að vita, hvað faðir þinn hafði gert".

"Þínar eigin tilfinningar hafa þá ekkert haft með þetta að gera, ímynda ég mér".

Hún eldroðnaði. "Nei," sagði hún, "ef um ekkert annað hefði verið að ræða, þá væri alt öðruvísi en það er nú".

"Ég trúi þessu. Ég hefi aldrei getað skilið þetta, Aðalheiður. Ég vissi, að þú varst göfug og kvenleg, og það var svo ótrúlegt, að þú ættir mann móti vilja hans. Ég hafði svo berlega gefið í skyn, að mér félli ekki ráðahagurinn".

"En nú veiztu það", hvíslaði hún. "Það var til þess, að þú fengir að halda Brooklands og yrðir ekki áskynja um afbrot föður þíns. En, Allan, ef ég hefði vitað einn hlut, hefði ég aldrei þorað að giftast þér".

"Hvað var það?" spurði hann.

"Ef ég hefði vitað eða ímyndað mér að það væri til önnur kona, er þér þætti vænt um —"

"Hvernig fékstu að vita það?"

"Þannig", sagði hún feimnislega, — "þannig, að ég fann myndina af hinni fögru konu, sem þú elskaðir, og á henni stóð skrifað: 'Elskuð, en töpuð 14. júní'. Alt að þeim tíma hafði ég von um, að vinna ást þína, ef ég væri nógu góð og þolinmóð, en þegar ég hafði fundið myndina, misti ég alla von".

Hann greip um hönd hennar. "Nei, aldrei", sagði hann, "aldrei hefi ég elskað hana eins og ég elska þig nú. Þú hefir unnið hjarta mitt, — þú hefir unnið svo mikið, Aðalheiður, að ég hefi ekki meira að gefa burtu. Þú hefir unnið þær dýpstu, inetu tilfinningar hjarta míns og virðingu mína".

Hún svaraði ekki, en augun töluðu fyrir hana.

"Ég er bæði þakklátur og glaður fyrir, að þetta sundurlyndi á milli okkar er nu horfið. En Aðalheiður, ég er nú búinn að gera þér nógu rangt til. Þú átt Brokklands og alt, sem því tilheyrir. Ég vil ekki dvelja hér á þinn kostnað, — sem nokkurskonar þurfamaður".

"Áleist þú mig svo þennan tíma, sem ég hefi lifað hér?" spurði hún fljótlega.

"Nei, en því er nú öðruvísi hátlað. Enginn karlmaður gerir sig ánægðan með, að lifa af fé konu sinnar".

"Hvað eigum við þá að gera?" spurði hún rólega.

"Ég vil taka það, sem faðir minn eftirlét mér — fimm þúsund pund — og fara héðan. Ég skal vinna mér fjár og frama, og þegar því er náð, þá kem ég aftur og geri kröfu til þín, elskan min".

"Hún varð mjög óróleg. "Heldur þú ekki, að ég sé búin að líða nóg?" spurði hún.

"Elskan mín, aldrei hefir nokkur kona liðið meir en þú, eða verið göfugri en þú".

"Finst þér þú standa í skuld við mig?" mælti hún. "Nú fyrst vil ég kannast við, að þú gerir það. Í staðinn fyrir hina leiðinlegu tilveru mína hér, — í staðinn fyrir hina löngu, köldu nótt, örvæntingu, sorg og afbrýðissemi, — fyrir alt, sem ég hefi liðið, ertu í skuld við mig. Viltu borga þessa skuld, Allan?"

"Já, það vil ég", mælti hann. Ég vil gera alt, sem þú heimtar af mér".

Nú gleymdi hún feimni sinni, hugsaði ekkert um, hvað hann myndi hugsa um sig. Hún tók um háls honum og huldi höfuðið við brjóst hans.

"Elskan mín", hvíslaði hann og beygði sig niður að henni. "Hvað er það?"

"Allan", sagði hún, "þú verður að vera hjá mér. Við þurfum ekkert að hugsa um, hvort okkar á Brooklands. Við erum hjón og elskum nú hvort annað. Vert hér kyr, og ef þú gerir það, margborgar þú það, sem ég hefi liðið þín vegna".

Það varð þögn svo sem hálfa mínútu. Hann var að hugsa sig um, — en svo hafði hún unnið sigur. Hann þrýsti henni að hjarta sér og sagði:

"Ástkæra konan mín, ég skal vera ánægður með, að skulda þér alt, og aldrei skal ég yfirgefa þig".

Þannig endaði þá stríð Aðalheiðar fyrir að ávinna sér hjarta manns síns.

---

## LXXII. KAPÍTULI.

Einn fagran morgun í júnímánuði tveimur árum síðar, situr Lady Aðalheiður í stáss-sal sínum á Brooklands. Ekkert gerir andlitið fegra en ánægjan. Aðalheiður hafði alt af verið fögur kona, en nú var nokkuð það í andliti hennar, sem áður hafði vantað. Það var vottur um gleði og hamingju. Hún var nú yndislega fögur, hið fagra, gullna hár hennar var jafnmikið og áður, bláu augun hennar jafn blíðleg og fyr, og brosið á vörum hennar bar vitni um, hve hamingjusöm hún var.

Hún sat hjá glugga og horfði á fallegt blóm. — Svo opnuðust dyrnar, og Caren lávarður kom inn. Það var auðséð, að nú var ástin jöfn á báðar hliðar. Hann laut niður að henni og kysti hana.

"Er hann kominn, Allan?"

"Já, og hann hefir ekkert breyzt. Ég get ekki

séð neinn mun á kaftein Randolph og Shirley lávarði".

"Þykir honum vænt um, að vera orðinn lávarður?"

Caren hló. "Það veit ég ekki, mér finst hann vera alveg sá sami og áður. Hann spurði strax eftir þér. Ég fer að verða afbrýðissamur, Aðalheiður".

"Þú hefir svo mikla ástæðu til þess, sagði hún hlæjandi. "En, Allan, taktu nú eftir því, sem ég segi: Hann verður að giftast Alísu. Die og ég höfum fastlega ásett okkur að koma því til leiðar".

"Það sýnir að eins hve heimtufrekar þið eruð. Hvað á ég að gera? Ég get þó ekki þvingað "Beauty", ég meina lávarð Shirley, til að eiga hana"

"Hér er ekki að tala um neina þvingun. Þú veist, Allan, að Alísa elskar hann — og honum þykir vænt um hana líka. Þar að auki hefir hann þekt hana um langan tíma. Alt, sem þú þarft að gera, er að gefa honum gott ráð, ef hann spyr þig ráða".

"Ég held að allar konur hafi meðfædda löngun til þess, að koma fólki i hjónaband", sagði hann hlæandi.

"Það getur komið af því, að giftar konur eru svo ánægðar, og vilja að allar aðrar konur verði jafn hamingjusamar".

Hann kysti hana fyrir þessi orð".

"Þarna kemur mamma", sagði hann. — Hún stóð fyrir utan gluggann.

"Allan", sagði hún, "alt af sést það betur og betur, hve vænt þér þykir um konu þína".

"Ég sé ekki, hvernig ég fæ varið tímanum betur", svaraði hann. "Komdu, drengur!" Hann rétti handleggina út um gluggann og tók á móti syni sínum, fallegum og hraustum dreng, með augu

og hár móður sinnar. Þegar hann sá móður sína, klapti hann af gleði og fór í fang hennar.

"Nú, Allan, heldur þú að þessi drengur eigi sinn líka, — svo fallegur og skynsamur!"

"Ég man það", sagði Lady Caren, "að ég áleit það sama um Allan, þegar hann var lítið barn".

"Þarna kemur Lady Die", sagði lávarðurinn. — "Spurðu hana að því sama".

Lady Die brosti, þegar hún var spurð um þetta sem kona, er hefði reynslu fyrir sér viðvíkjandi smábörnum.

"Ég er að gá að Alísu Kan. Ég hélt hún væri hér".

Nú kom lávarður Shirley. Lady Aðalheiður stóð upp til þess að fagna honum. Hann var enn þá ógiftur, og er hann var spurður, hvenær hann ætlaði að fara að gifta sig, svaraði hann öllum spurningum svo, að hann væri að leita að þeirri stúlku, er svaraði til þeirrar hugmyndar, er hann gerði sér um konu sína. Hann vildi eignast konu líka Lady Aðalheiði, en hann var hræddur um, að hann myndi seint finna hennar líka.

Það var fallegt og skemtilegt á Brooklands þetta sumar. Lady Die var þar með manni sínum og börnum. Lady Caren var nú sest þar að fyrir fult og alt. Lady Kan og Alísu hafði verið boðið að dvelja þar nokkrar vikur, og því datt Aðalheiði í hug, að biðja lávarðinn, að bjóða Shirley lávarði þangað, hinum nýbakaða aðalsmanni, svo Alísa og hann hefðu tækifæri til að vera saman. Lady Aðalheiður áleit, að jafngott júníveður, iðjuleysi og Alísa Kan væri nokkuð, er hann gæti ekki staðið á móti.

Clavering hershöfðingi var nú farinn til Indlands aftur, fullviss um, að nú væri alt á Brooklands orðið eins og það ætti að vera.

Allir sóru sig saman til þess, að koma þeim saman Alísu og Shirley lávarði, og það tókst. Lávarður Shirley var fullviss um, að finna aldrei líka Aðalheiðar, en næst henni gekk þá Alísa Kan.

Það var mikið um dýrðir, er trúlofunin var gerð heyrum kunn. Brúðkaupið stóð svo í ágúst. Og nú er Shirley lávarður kominn á þá skoðun, að hann hafi eignast þá inndælustu konu, sem til er í heiminum. Betur, að allir hugsuðu það sama um konur sínar.

Caren lávarður varð frægur maður. Hann segist ávalt vera hinn hamingjusamasti maður undir sólunni, og hann ber það með sér, að hann segir það satt.

Á öllu Englandi er tæpast til sú kona, er meira sé virt en hin fagra Aðalheiður Caren.

ENDIR.

Arnljótur B. Olson

